# Fyrsti kafli

# Versti afmælisdagurinn

Við morgunverðarborðið í húsi nr. 4 við Runnaflöt upphófst mikið rifrildi og ekki í fyrsta sinn. Herra Vernon Dursley hafði eldsnemma morguns vaknað við hátt ugluvæl sem barst frá herbergi Harrys frænda hans.

„Þetta er í þriðja skiptið í þessari viku!“ þrumaði hann yfir eldhúsborðið. „Ef þú getur ekki haft stjórn á þessari uglu þinni, þá verður hún látin fara!“

Harry reyndi, enn einu sinni, að útskýra málið.

„Henni leiðist,“ sagði hann. „Hún er vön að fá að fljúga frjáls úti. Ef ég mætti hleypa henni út á næturnar …“

„Heldurðu að ég sé fáviti?“ urraði Vernon frændi. Ögn af spældu eggi dinglaði niður úr gróskumiklu yfirvaraskegginu. „Ég veit vel hvað gerist ef þessari uglu er hleypt út.“

Hann sendi konu sinni, Petuniu, þungbúið augnaráð.

Harry reyndi að mótmæla en orðin drukknuðu í háum og löngum ropa sem gaus upp úr syni Dursleyhjónanna, Dudley.

„Ég vil meira beikon.“

„Það er meira á pönnunni, hjartagullið mitt,“ sagði Petunia frænka og leit móskulegum augum á þéttvaxinn son sinn. „Við verðum að koma kjöti á beinin á þér á meðan færi gefst … maturinn í skólanum virðist hreint ekki vera til fyrirmyndar …“

„Bölvuð vitleysa, Petunia. Ég var aldrei svangur þegar ég gekk í Smeltingskóla,“ sagði Vernon frændi glaðhlakkalega. „Dudley fær alveg nóg, er það ekki, sonur sæll?“

Dudley, sem var svo mikill að rassinn á honum lak út fyrir brúnirnar á eldhúskollinum, glotti og sneri sér að Harry.

„Réttu mér pönnuna.“

„Þú gleymdir töfraorðinu,“ sagði Harry pirraður.

Áhrif þessarar einföldu setningar á fjölskylduna voru ótrúleg: Dudley tók andköf og datt af stólnum með slíkum dynk að eldhúsið lék á reiðiskjálfi; frú Dursley rak upp hvellt óp og greip fyrir munninn; herra Dursley stökk á fætur, æðarnar á gagnaugunum þrútnuðu.

„Ég meinti: „Viltu gjöra svo vel“!“ flýtti Harry sér að segja. „Ég meinti ekki …“

„Var ég ekki búinn að banna þér,“ þrumaði frændi hans svo að munnvatnið frussaðist yfir borðið, „að nefna t-orðið á þessu heimili?“

„En ég …“

„Hvernig vogarðu þér að hafa í hótunum við Dudley?“ öskraði Vernon frændi og lamdi hnefanum í borðið.

„Ég var bara …“

„Ég varaði þig við! Ég líð ekki að minnst sé á afbrigðilegheit þín í mínum húsum!“

Harry lét augun hvarfla frá fjólubláu andliti frænda síns yfir á náföla frænku sína sem bisaði við að tosa Dudley á fætur.

„Allt í lagi,“ sagði Harry, „allt í lagi …“

Vernon frændi settist aftur másandi eins og lafmóður nashyrningur og horfði stíft á Harry með litlum, stingandi augum.

Allt frá því Harry kom heim í sumarfrí hafði Vernon frændi látið eins og hann væri tifandi tímasprengja af því að Harry var ekki venjulegur drengur. Raunar var hann eins fjarri því að vera venjulegur og hugsast gat.

Harry Potter var galdramaður – galdramaður sem hafði nýlokið fyrsta árinu sínu í Hogwart – skóla galdra og seiða. Og ef Dursleyfjölskyldan var óánægð með að fá hann heim í fríinu var það ekkert í samanburði við hvernig honum leið.

Hann saknaði Hogwartskóla svo sárt að það var eins og hann væri alltaf með hnút í maganum. Hann saknaði kastalans með öllum leyni göngunum og draugunum, kennslustundanna (nema kannski Snapes, töfradrykkjakennarans), póstsins sem uglan færði honum og

matar veislnanna í stóra salnum, himinsængurinnar sem hann svaf í á svefn loftinu í turninum, heimsóknanna til Hagrids í litla kofann í útjaðri forboðna skógarins en aðallega saknaði hann Quidditch sem var vinsælasta íþróttin í galdraheiminum (sex háar markstangir, fjórir fljúgandi boltar og fjórtán leikmenn á galdrakústum).

Allar námsbækur Harrys, töfrasprotann, skikkjur, seiðpott og Nimb us 2000 galdrakústinn hafði Vernon frændi snarlega læst inni í kompunni undir stiganum þegar Harry hafði snúið heim. Eins og Dursleyhjónunum stæði ekki á sama þó að Harry missti stöðu sína í Quidditchliði heimavistarinnar af því að hann hefði ekki æft sig allt sumarið? Hvað kom það þeim við þó að hann færi aftur í skólann án þess að hafa unnið heimavinnuna sína? Dursleyhjónin voru Muggar eins og það kallaðist í galdraheiminum (það rann ekki dropi af galdrablóði um æðar þeirra) og þeim fannst það hin mesta hneisa að galdra maður skyldi vera í fjölskyldunni. Vernon frændi hafði meira að segja sett hengilás á búrið hennar Hedwig, uglu Harrys, til þess að koma í veg fyrir að hún bæri skilaboð til galdraheimsins.

Harry var harla ólíkur hinum í fjölskyldunni. Vernon frændi var mikill að vexti og hálslaus með afar gróskumikið, svart

yfirvaraskegg; Petunia frænka var horuð og með hálfgerðan hrosshaus; Dudley var ljóshærður, bleikur og svínfeitur. Harry var aftur á móti lítill og mjór með skærgræn augu og kolsvart hár sem var alltaf úfið. Hann gekk með kringlótt gleraugu og á enni hans var mjótt ör sem var eins og elding í laginu.

Það var þetta ör sem gerði Harry svo óvenjulegan, meira að segja á meðal galdramanna. Örið var eina vísbendingin um afar dularfulla fortíð Harrys og ástæðan fyrir því að hann hafði verið skilinn eftir á dyraþrepi Dursleyfjölskyldunnar ellefu árum áður. Þegar Harry var eins árs hafði hann lifað af bölbænir mesta galdramanns myrku aflanna, hins mikla Voldemorts, en flestir galdramenn og nornir óttuðust að nefna hann á nafn. Foreldrar Harrys létu lífið í atlögu Voldemorts en Harry komst undan með örið og af einhverjum ástæðum – sem enginn skildi – hafði Voldemort glatað mætti sínum þegar honum mistókst að koma Harry fyrir kattarnef.

Þess vegna var Harry alinn upp hjá móðursystur sinni og manninum hennar. Í þau tíu ár sem hann hafði búið hjá Dursleyfjölskyldunni hafði hann aldrei skilið hvernig hann óviljandi fór að því að láta hina sérkennilegustu hluti gerast og trúað sögu þeirra um að örið á ennið hefði hann fengið í bílslysinu þegar foreldrar hans létust.

En svo, fyrir nákvæmlega einu ári, hafði Harry fengið bréf frá Hogwartskóla og sannleikurinn kom í ljós. Harry settist á skólabekk í galdraskóla þar sem hann og örið hans nutu frægðar … en nú var skólaárið liðið og hann var kominn aftur til Dursleyfjölskyldunnar í sumarleyfi og aftur var komið fram við hann eins og illa lyktandi hund. Dursleyfjölskyldan mundi ekki einu sinni eftir því að í dag átti Harry tólf ára afmæli. Hann hafði svo sem ekki gert sér miklar vonir; aldrei höfðu þau gefið honum almennilega afmælisgjöf, hvað þá köku – en að hunsa afmælisdaginn algerlega …

Í sömu andrá ræskti Vernon frændi sig og sagði drjúgur með sig: „Eins og við vitum öll er þetta mikill merkisdagur.“ Harry leit upp, hann trúði þessu varla.

„Í dag er ekki ólíklegt að ég skrifi undir stærsta samninginn á starfsferli mínum,“ sagði Vernon frændi.

Harry sneri sér aftur að ristaða brauðinu. Auðvitað, hugsaði Harry biturlega, var Vernon frændi að tala um þetta ömurlega matarboð. Hann hafði ekki talað um annað í tvær vikur. Einhver ríkur byggingarverktaki og konan hans voru að koma

í mat og Vernon frændi vonaðist til að fá stóra pöntun frá honum (fyrirtækið hans Vernons frænda framleiddi borvélar).

„Við skulum fara í gegnum áætlunina einu sinni enn,“ sagði Vernon frændi. „Við skulum öll vera viðbúin, hvert á sínum stað klukkan átta. Petunia, þú verður …?“

„Í setustofunni,“ sagði Petunia frænka hiklaust, „þar býð ég þau kurteislega velkomin.“

„Gott. Og Dudley?“

„Ég opna dyrnar fyrir þeim.“ Dudley setti upp andstyggilegt upp gerðarbros. „Má ég taka við yfirhöfnunum ykkar, herra og frú Mason?“

„Þau munu dýrka hann!“ hrópaði Petunia frænka frá sér numin.

„Frábært, Dudley,“ sagði Vernon frændi. Síðan sneri hann sér að Harry. „Og þú?“

„Ég verð inni í herberginu mínu, alveg hljóður og læt eins og ég sé ekki til,“ sagði Harry hljómlaust.

„Einmitt,“ sagði Vernon frændi illkvittnislega. „Ég vísa þeim inn í setustofuna, kynni þig, Petunia, og blanda handa þeim drykki.

Klukkan korter yfir átta …“

„Tilkynni ég að maturinn sé tilbúinn,“ sagði Petunia frænka.

„Og Dudley, þú segir …“

„Má ég vísa þér inn í borðstofu, frú Mason?“ sagði Dudley og bauð ósýnilegri konu feitan arminn.

„Litli herramaðurinn minn!“ sagði Petunia frænka klökk.

„Og þú?“ sagði Vernon frændi grimmdarlega við Harry.

„Ég verð inni í herberginu mínu, alveg hljóður og læt eins og ég sé ekki til,“ sagði Harry dauflega.

„Nákvæmlega. Jæja, þá skulum við snúa okkur að umræðuefnum yfir matnum, einhverjar hugmyndir, Petunia?“

„Vernon sagði mér að þú værir stórkostlegur golfleikari, herra Mason … Hvar fékkstu þennan fallega kjól, frú Mason …“

„Fullkomið … Dudley?“

„Hvað segið þið um: Við áttum að skrifa ritgerð í skólanum um hetjuna okkar, herra Mason, og ég skrifaði um þig.“

Þetta varð bæði Petuniu frænku og Harry um megn. Petunia frænka tárfelldi og faðmaði son sinn en Harry beygði sig undir borðið svo þau sæju hann ekki hlæja.

„Og þú, drengur?“

Harry reyndi að láta ekki á neinu bera þegar hann kom undan borðinu.

„Ég verð inni í herberginu mínu, alveg hljóður og læt eins og ég sé ekki til,“ sagði hann.

„Það skaltu svo sannarlega gera,“ sagði Vernon frændi með þunga.

„Masonhjónin vita ekki af þér og þannig verður það áfram. Þegar við erum búin að borða býður þú frú Mason upp á kaffi inni í setustofu, Petunia, og ég beini samræðunum að borvélum. Ef allt fer vel verður samningurinn frágenginn og undirritaður fyrir tíufréttir. Við verðum farin að undirbúa ferð í sumarhús á Majorka á sama tíma á morgun.“

Harry var ekki yfir sig spenntur. Hann bjóst ekki við að Dursleyfjölskyldunni líkaði neitt betur við sig í sumarhúsi á Majorka en á Runnaflöt.

„Jæja – ég ætla í bæinn að ná í smókingjakka handa okkur Dudley. Og þú,“ urraði hann á Harry, „þvælist ekki fyrir frænku þinni á meðan hún gerir hreint.“

Harry fór út um bakdyrnar. Þetta var dásamlegur, sólríkur dagur. Hann gekk þvert yfir garðinn, hlammaði sér niður á garðbekkinn og sönglaði í lágum hljóðum:

„Ég á afmæli í dag … ég á afmæli í dag …“

Engin kort, engar gjafir og í kvöld átti hann að láta sem hann væri ekki til. Hann starði vansæll á limgerðið. Hann hafði aldrei verið jafn einmana. Meira en nokkurs annars í

Hogwartskóla, meira að segja Quidditchleiks, saknaði hann bestu vina sinna, Rons Weasley og Hermione Granger. Þau virtust hins vegar ekki sakna hans hið minnsta. Hvorugt þeirra hafði skrifað honum allt sumarið jafnvel þótt Ron hefði sagst ætla að bjóða Harry að koma í heimsókn til sín.

Margoft hafði Harry verið kominn á fremsta hlunn með að opna búrið hennar Hedwig með göldrum og senda hana með bréf til Rons og Hermione, en það var ekki áhættunnar virði. Yngri nemendum var ekki leyft að nota galdra utan skólans. Harry hafði ekki sagt Dursleyfjölskyldunni frá því; hann vissi að ótti þeirra við að hann breytti þeim öllum í halakörtur kom í veg fyrir að þau læstu hann inni í kompunni ásamt töfrasprotanum og kústinum. Fyrstu vikurnar eftir að Harry kom heim hafði hann skemmt sér við að muldra bullorð í barm sér og fylgjast með Dudley rjúka í burt eins hratt og digrir fæturnir gátu borið hann. En löng þögn Rons og Hermione gerði hann svo fjarlægan galdraheiminum að hann hafði ekki einu sinni skemmtun af því að stríða Dudley – og nú höfðu þau gleymt afmælisdeginum hans.

Hvað hann þráði heitt að fá bréf frá hvaða galdrakarli og norn sem væri! Hann yrði næstum feginn að sjá erkióvin sinn,

Draco Malfoy, bara til að fullvissa sig um að þetta hefði ekki bara verið draumur …

Árið í Hogwartskóla hafði þó ekki verið eintómur dans á rósum. Í lok skólaársins hafði Harry staðið augliti til auglitis við engan annan en sjálfan Voldemort. Þó að Voldemort væri kannski ekki nema svipur hjá sjón var hann þó enn ógnvekjandi, slóttugur og ákveðinn í að komast aftur til valda. Harry hafði enn og aftur sloppið úr klóm Voldemorts en það munaði litlu og meira að segja núna, mörgum vikum seinna, hrökk Harry upp um nætur, kaldsveittur og velti því fyrir sér hvar Voldemort væri nú og náfölt andlitið og uppglennt, brjálæðisleg augun leituðu á hann …

Harry settist skyndilega teinréttur upp á bekknum. Hann hafði starað annars hugar inn í limgerðið – og limgerðið starði á móti. Tvö risastór, græn augu höfðu birst á milli laufanna.

Harry stökk á fætur í sömu mund og hæðnisleg rödd barst þvert yfir garðinn.

„Ég veit hvaða dagur er í dag,“ söngladi Dudley og kjagaði í áttina að Harry.

Stóru augun blikkuðu og hurfu.

„Ha?“ sagði Harry án þess að hafa augun af staðnum þar sem augun höfðu verið.

„Ég veit hvaða dagur er í dag,“ endurtók Dudley og var alveg kominn til Harrys.

„Gott hjá þér,“ sagði Harry. „Þú ert þá loksins búinn að læra vikudagana.“

„Þú átt afmæli í dag,“ sagði Dudley hæðnislega. „Af hverju fékkstu engin afmæliskort? Áttu ekki einu sinni vini á þessum viðundrastað?“

„Þú ættir ekki að láta mömmu þína heyra þig tala um skólann minn,“ sagði Harry rólega.

Dudley hífði upp buxurnar sem voru að síga niður um feitan aftur endann.

„Af hverju starirðu svona á runnann?“ spurði hann tortrygginn.

„Ég er að átta mig á hvaða galdur henti best til að kveikja í honum," sagði Harry.

Dudley hörfaði aftur á bak með skelfingarsvip á feitu andlitinu.

„Þú m-mátt ekki – pabbi sagði að þú mættir ekki g-galdra – hann sagði að hann myndi fleygja þér út – og þú hefur engan annan stað að vera á – þú átt enga vini sem þú getur farið til …"

„Jiggerí pókerí!" sagði Harry með miklum ákafa. „Hókus pókus – skvigglí vigglí …"

„Maammma!" öskraði Dudley og hrasaði um leið og hann þaut af stað í átt að húsinu. „Maammma! Hann er að gera, þú veist!"

Harry þurfti að gjalda þessa skemmtun sína dýru verði. Þar sem bæði Dudley og limgerðið voru ósködduð vissi Petunia frænka að hann hafði ekki galdrað eitt né neitt en Harry þurfti samt að víkja sér undan sápugri steikarpönnunni sem var sveiflað af miklu afli í áttina að höfðinu á honum. Síðan lét

hún hann hafa verkefni með því loforði að hann fengi ekki matarbita fyrr en því væri lokið.

Dudley hengslaðist um og gæddi sér á ís á meðan Harry þreif gluggana, þvoði bílinn, sló grasflötina, snyrti blómabeðin, klippti og vökvaði rósirnar og málaði garðbekkinn. Sólin logaði yfir höfði hans og brenndi hann aftan á hálsinum. Harry vissi að hann hefði ekki átt að láta Dudley egna sig en hann hafði einmitt orðað það sem Harry var að hugsa um; kannski átti hann enga vini í skólanum …

Bara að þau gætu séð hinn fræga Harry Potter núna, hugsaði hann öskureiður um leið og hann dreifði mykju yfir blómabeðin. Hann verkjaði í bakið og svitinn rann niður eftir andlitinu á honum.

Klukkan hálfátta um kvöldið heyrði hann loks, dauðuppgefinn, að Petunia frænka kallaði á hann.

„Komdu þér inn! Og stígðu á dagblöðin!“

Harry fór með glöðu geði inn í forsæluna í gljáfægðu eldhúsinu. Uppi á ísskápnum stóð eftirréttur kvöldsins:

gríðarlegt fjall af þeyttum rjóma með sykurhúðuðum fjólum. Svínslæri stiknaði í ofninum.

„Drífðu þig að borða! Masonhjónin eru alveg að koma!“ hreytti Petunia frænka út úr sér og benti á tvær brauðsneiðar og oststykki á borðinu. Hún var komin í laxableikan kvöldkjól.

Harry þvoði sér um hendurnar og gleypti í sig þennan auma kvöldmat. Hann hafði varla klárað þegar Petunia frænka þreif diskinn af borðinu.

„Upp! Flýttu þér!“

Þegar hann gekk framhjá stofudyrunum kom hann auga á Vernon frænda og Dudley í smókingjökkum og með slaufur. Hann var kominn upp á stigapallinn þegar dyrabjallan hljómaði og reiðilegt andlit Vernons frænda birtist fyrir neðan stigann.

„Mundu, drengur – eitt smáhljóð …“

Harry læddist á tánum að herberginu sínu, smeygði sér inn fyrir, lokaði dyrunum og sneri sér við til að fleygja sér í rúmið.

Vandamálið var hins vegar að þar sat einhver.

# Annar kafli

# Viðvörun Dobbys

Harry tókst að bæla niður ópið en það var með naumindum. Litla veran á rúminu var með stór leðurblökueyru og útstæð, græn augu á stærð við tennisbolta. Harry vissi samstundis að þetta var veran sem hafði fylgst með honum úr limgerðinu um morguninn.

Á meðan þau störðu hvort á annað heyrði Harry rödd Dudleys berast neðan úr forstofunni.

„Má ég taka við yfirhöfnunum ykkar, herra og frú Mason?“ Veran renndi sér niður úr rúminu og hneigði sig svo djúpt að broddurinn á löngu, mjóu nefinu snerti teppið. Harry tók eftir því að hún klæddist einhverju sem líktist gömlu koddaveri með rifum fyrir hendur og fætur.

„Um – halló,“ sagði Harry taugaóstyrkur.

„Harry Potter!“ sagði veran með svo skerandi röddu að Harry var viss um að hún heyrðist alla leið niður stigann. „Dobby hefur svo lengi langað að hitta yður, herra minn … hvílíkur heiður …“

„Þ-þakka þér fyrir,“ sagði Harry, fikraði sig meðfram veggnum og lét sig falla ofan í skrifborðsstólinn við hliðina á Hedwig sem svaf í stóra búrinu sínu. Hann langaði að spyrja: „Hvað ertu?“ en fannst það hljóma dónalega og spurði þess í stað: „Hver ertu?“

„Dobby, herra minn. Bara Dobby. Húsálfurinn Dobby,“ sagði veran.

„Ó – einmitt?“ sagði Harry. „Um – ég vil ekki vera dónalegur eða neitt þannig – en þetta er ekki heppilegasti tíminn til að vera með húsálf í herberginu mínu.“

Hár, falskur hlátur Petuniu frænku hljómaði úr stofunni. Álfurinn hengdi haus.

„Ekki að mér finnist ekki gaman að hitta þig,“ sagði Harry fljótmæltur, „en er einhver sérstök ástæða fyrir því að þú ert hérna?“

„Ó, já, herra minn,“ sagði Dobby einlægur. „Dobby kom til að segja yður, herra minn … þetta er ekki auðvelt fyrir mig, herra minn … Dobby veit ekki hvar hann á að byrja …“

„Fáðu þér sæti,“ sagði Harry kurteislega og benti á rúmið. Honum til skelfingar brast álfurinn í grát – mjög háværan grát.

„Fáðu þér sæti!“ gólaði hann. „Aldrei … aldrei nokkurn tíma …“ Harry heyrðist raddirnar niðri þagna.

„Fyrirgefðu,“ hvíslaði hann, „ég ætlaði ekki að móðga þig, eða neitt svoleiðis …“

„Móðga Dobby!“ sagði álfurinn með ekkasogum. „Aldrei fyrr hefur galdramaður boðið Dobby sæti – eins og jafningja …“

Harry, sem reyndi að sussa á hann og hughreysta um leið, ýtti honum aftur að rúminu. Þar sat hann hikstandi og leit út eins og stór og ófrýnileg dúkka. Að lokum náði hann stjórn á sér og starði stórum, tárvotum aðdáunaraugum á Harry.

„Þá hefurðu ekki hitt marga heiðvirða galdramenn,“ sagði Harry og reyndi að vera uppörvandi.

Dobby hristi höfuðið. Síðan stökk hann fyrirvaralaust á fætur, fór að berja höfðinu á sér ofsalega í gluggarúðuna og öskra: „Vondi Dobby! Vondi Dobby!“

„Ekki – hvað ertu að gera?“ hvæsti Harry, spratt á fætur og dró Dobby aftur að rúminu. Hedwig hafði vaknað með óvenju háu væli og barði vængjunum ákaft í rimlana á búrinu.

„Dobby varð að refsa sjálfum sér, herra minn,“ sagði álfurinn sem var orðinn hálfrangeygður. „Dobby talaði næstum því illa um fjöl skyldu sína …“

„Fjölskyldu þína?“

„Galdrafjölskylduna sem Dobby þjónar, herra minn … Dobby er húsálfur – skuldbundinn til að þjóna einu heimili og einni fjölskyldu um alla eilífð …“

„Vita þau hvar þú ert?“ spurði Harry forvitinn. Dobby hryllti sig.

„Ó, nei, herra minn, nei … Dobby á eftir að refsa sjálfum sér harðlega fyrir að koma hingað til yðar, herra minn. Dobby á eftir að skella ofnhurðinni á eyrun á sér fyrir þetta uppátæki. Ef þau kæmust að þessu, herra minn …“

„En tækju þau ekki eftir því ef þú skelltir ofnhurðinni á eyrun á þér?“

„Dobby efast um það, herra minn. Dobby er alltaf að refsa sjálfum sér fyrir eitthvað, herra minn. Þau láta Dobby refsa sjálfum sér og minna hann stundum á að bæta við refsingum …“

„En af hverju ferðu ekki? Strýkur?“

„Húsálfi verður að gefa frelsi, herra minn. Og fjölskyldan mun aldrei gefa Dobby frelsi … Dobby mun þjóna fjölskyldunni þar til hann deyr, herra minn …“ Harry starði á hann.

„Og ég sem hélt að ég ætti bágt að þurfa að vera hérna í fjórar vikur í viðbót,“ sagði hann. „Í samanburði við þetta sýnist Dursleyfjölskyldan næstum mannleg. Er enginn sem getur hjálpað þér? Get ég hjálpað þér?“

Hann sá eftir þessu um leið og hann sleppti orðinu. Dobby veinaði hástöfum yfirkominn af þakklæti.

„Hafðu hljótt," hvíslaði Harry örvæntingarfullur, „gerðu það fyrir mig. Ef Dursleyhjónin heyra eitthvað, ef þau komast að því að þú ert hérna …"

„Harry Potter spyr hvort hann geti hjálpað Dobby … Dobby hefur heyrt um yfirburði yðar, herra minn, en um góðvild yðar, Dobby vissi ekki …"

Harry fann að hann var orðinn ákaflega heitur í andlitinu og sagði:

„Hvað sem þú hefur heyrt um yfirburði mína er algert kjaftæði. Ég er ekki einu sinni hæstur í mínum árgangi í skólanum; það er Hermione, hún …"

En hann snarþagnaði því það var sársaukafullt að hugsa um Hermione.

„Harry Potter er bæði hógvær og lítillátur," sagði Dobby með lotningu, hvelfd augun ljómuðu. „Harry Potter minnist ekki á

sigur sinn á Honum-sem-ekki-má-nefna …“ „Voldemort?“ spurði Harry.

Dobby skellti höndunum yfir leðurblökueyrun og stundi: „Ó, nefndu ekki þetta nafn, herra minn! Nefndu hann ekki á nafn!“

„Fyrirgefðu,“ flýtti Harry sér að segja. „Ég þekki marga sem þola þetta ekki, vinur minn, hann Ron …“

Hann þagnaði aftur. Það var líka sársaukafullt að hugsa um Ron. Dobby hallaði sér að Harry, augun uppglennt eins og bílljós.

„Dobby heyrði,“ sagði hann hásri röddu, „að Harry Potter hefði mætt myrkrahöfðingjanum í annað sinn fyrir fáeinum vikum … og að Harry Potter hefði komist undan enn einu sinni.“

Harry kinkaði kolli og augu Dobbys glóðu skyndilega full af tárum.

„Ó, herra minn,“ stundi hann og þerraði andlitið á sér með skítugu koddaverinu sem hann klæddist. „Harry Potter er

hugdjarfur og áræðinn! Hann hefur nú þegar horfst í augu við svo margar hættur! En Dobby er kominn til að vernda Harry Potter og vara hann við jafnvel þó að Dobby þurfi svo að skella ofnhurðinni á eyrun á sér … Harry Potter má ekki snúa aftur til Hogwartskóla.“

Það eina sem rauf þögnina var glamrið í hnífapörunum niðri og fjarlæg rödd Vernons frænda.

„Hv-hvað áttu við?“ stamaði Harry. „En ég verð að fara aftur – önnin hefst fyrsta september. Það er það eina sem gerir mér lífið bærilegt. Þú veist ekki hvernig það er að búa hérna. Ég á ekki heima hérna. Ég tilheyri þínum heimi – í Hogwartskóla.“

„Nei, nei, nei,“ skrækti Dobby og hristi höfuðið svo kröftuglega að eyrun sveifluðust til. „Harry Potter verður að vera þar sem hann er öruggur. Hann er of stórkostlegur og góður til að missa hann. Ef Harry Potter snýr aftur til Hogwartskóla verður líf hans í hættu.“ „Af hverju?“ spurði Harry undrandi.

„Það eru áætlanir, Harry Potter. Það eru áætlanir um að láta skelfilega atburði gerast í ár í Hogwart – skóla galdra og seiða,“ hvíslaði Dobby og skalf allt í einu eins og hrísla.

„Dobby hefur vitað um þetta í marga mánuði, herra minn. Harry Potter má ekki setja sig í hættu. Hann er of mikilvægur, herra minn!“

„Hvaða skelfilegu atburðir?“ sagði Harry strax. „Og hver er að gera áætlanir?“

Dobby gaf frá sér skrítið, hálfkæft hljóð og fór að lemja höfðinu á sér af öllu afli utan í vegginn.

„Ég skil!“ hrópaði Harry og greip í hönd álfsins til að stöðva hann.

„Þú getur ekki sagt mér það. Ég skil. En af hverju ertu að vara mig við?“ Skyndilega sló óþægilegri hugsun niður í kollinn á honum.

„Bíddu við – þetta tengdist ekki Vol – fyrirgefðu, Þú-veist-hverjum á einhvern hátt? Kinkaðu bara kolli eða hristu hausinn,“ bætti hann við í flýti þegar höfuðið á álfinum hallaðist hættulega nálægt veggnum.

Dobby hristi höfuðið hægt.

„Nei – það er ekki Sá-sem-ekki-má-nefna, herra minn …“

En augu Dobbys voru uppglennt og hann virtist vera að reyna að gefa Harry vísbendingu. Harry var engu nær.

„Hann á ekki bróður, getur það verið?“

Dobby hristi höfuðið og augun urðu stærri en nokkru sinni fyrr.

„Þá get ég ekki ímyndað mér hver annar ætti að geta valdið hræðilegum atburðum í Hogwartskóla,“ sagði Harry. „Ég á við, fyrst Dumbledore er þarna … Þú veist hver Dumbledore er, er það ekki?“ Dobby hneigði höfuðið.

„Albus Dumbledore er besti skólastjóri Hogwartskóla fyrr og síðar. Dobby veit það, herra minn. Dobby hefur heyrt að máttur Dumbled ores sé jafn mikill og Hans-sem-ekki-má-nefna þegar hann var sem máttugastur. En, herra minn …“ Dobby lækkaði róminn og hvíslaði leyndardómsfullur: „Það eru öfl sem Dumbledore getur ekki … öfl sem enginn heiðvirður galdramaður gæti …“

Og áður en Harry náði að stöðva hann stökk hann fram úr rúminu, greip skrifborðslampann hans Harrys og byrjaði að slá sig í höfuðið með skerandi góli.

Niðri varð skyndilega þögn. Harry fékk dynjandi hjartslátt þegar hann heyrði að Vernon frændi kom inn ganginn andartaki síðar og kallaði: „Dudley hlýtur að hafa skilið sjónvarpið eftir í gangi, prakkarinn sá arna!“

„Fljótur! Inn í skápinn með þig!“ hvæsti Harry, tróð Dobby inn í skápinn, lokaði hurðinni og fleygði sér á rúmið í sömu andrá og hurðarhúnninn snerist.

„Hvað – í – fjandanum – ertu – að – gera?“ hvæsti Vernon frændi í gegnum samanbitnar tennurnar um leið og hann rak fésið ógnandi ofan að Harry. „Þér tókst að eyðileggja brandarann minn um japanska golfleikarann … Ef ég heyri svo mikið sem tíst í þér aftur, drengur, áttu eftir að óska þess að hafa aldrei fæðst!“ Hann þrammaði þungstígur út úr herberginu.

Harry hleypti Dobby út úr skápnum skjálfandi á beinunum.

„Sérðu hvernig þetta er hérna?“ sagði hann. „Skilurðu nú hvers vegna ég verð að komast aftur í skólann? Ég get hvergi annars staðar verið, þar eru vinir mínir – eða það hélt ég.“

„Vinir sem skrifa ekki einu sinni Harry Potter?“ sagði Dobby lymskulega.

„Ætli þau hafi ekki bara … bíddu nú við,“ sagði Harry og hleypti brúnum. „Hvernig veist þú að vinir mínir hafa ekki skrifað mér?“ Dobby tvísté.

„Harry Potter má ekki verða reiður við Dobby. Dobby gekk gott eitt til …“

„Tókst þú bréfin mín?“

„Dobby er með þau hérna, herra minn,“ sagði álfurinn. Hann færði sig fimlega utan seilingar og dró þykkan bunka af umslögum upp úr vasa innan á koddaverinu sem hann var í. Harry kom auga á snyrtilega rithönd Hermione, subbulegt krotið hans Rons og hrafnaspark sem hann kannaðist við frá skógarverði Hogwartskóla, Hagrid.

Dobby leit bænaraugum á Harry.

„Harry Potter má ekki vera reiður … Dobby vonaði … ef Harry Potter héldi að vinir hans hefðu gleymt honum … að Harry Potter vildi ekki fara aftur í skólann, herra minn …“

Harry heyrði ekki orð af því sem hann sagði. Hann reyndi að þrífa bréfin af Dobby en hann stökk undan.

„Harry Potter getur fengið bréfin, ef hann lofar Dobby að fara ekki aftur í Hogwartskóla. Ó, herra minn, þar leynast hættur sem þú mátt ekki lenda í! Segðu að þú farir ekki aftur, herra minn!“

„Nei,“ sagði Harry reiðilega. „Láttu mig fá bréfin frá vinum mínum!“

„Þá á Dobby engra kosta völ,“ sagði álfurinn dapur í bragði.

Áður en Harry áttaði sig skaust Dobby að herbergisdyrunum, opnaði þær og þaut niður stigann.

Þurr í munninum og með hnút í maganum hentist Harry á eftir honum og reyndi að fara hljóðlega. Hann hoppaði niður síðustu sex þrepin, lenti mjúklega eins og köttur á teppinu í

ganginum og skimaði eftir Dobby. Hann heyrði í Vernoni frænda innan úr borðstofunni:

„… segðu Petuniu skemmtilegu söguna um amerísku píparana, herra Mason. Hún iðar í skinninu …“

Harry hljóp eftir ganginum og inn í eldhúsið og fann blóðið frjósa í æðunum.

Snilldareftirrétturinn hennar Petuniu frænku, rjómafjallið með sykurhúðuðu fjólunum, sveif uppi við loftið. Uppi á skáp úti í horni húkti Dobby.

„Nei,“ hvíslaði Harry hálfkæfðri röddu. „Ekki gera þetta … þau drepa mig …“

„Harry Potter verður að segja að hann ætli ekki aftur í skólann …“

„Dobby … gerðu það …“

„Segðu það, herra minn …“

„Ég get það ekki …“

Dobby sendi honum dapurlegt augnaráð.

„Þá verður Dobby að gera þetta, herra minn. Það er Harry Potter fyrir bestu.“

Eftirrétturinn féll í gólfið með miklum hávaða. Rjómi slettist á glugga og veggi þegar skálin splundraðist. Dobby hvarf eins og hendi væri veifað. Það heyrðust öskur úr borðstofunni og Vernon frændi kom æðandi inn í eldhúsið þar sem Harry stóð sem steini lostinn þakinn eftirréttinum hennar Petuniu frænku frá hvirfli til ilja.

Í fyrstu leit út fyrir að Vernoni frænda tækist að gera lítið úr atvikinu. („Þetta er bara hann frændi okkar … á mjög bágt … ókunnugir setja hann svolítið úr jafnvægi svo að við höfðum hann á efri hæðinni …“) Hann rak furðu lostin Masonhjónin aftur inn í borðstofuna, hét Harry að hann yrði fleginn lifandi þegar Masonhjónin væru farin og rétti honum skrúbb. Petunia frænka gróf upp ís úr frystinum og Harry, sem enn skalf eins og hrísla, fór að þrífa eldhúsið.

Vernon frændi hefði ef til vill getað gengið frá samningnum – ef uglan hefði ekki komið til sögunnar.

Petunia frænka var að bjóða myntusúkkulaði eftir matinn þegar stór turnugla flögraði inn um borðstofugluggann, lét bréf falla á höfuðið á frú Mason og flögraði aftur út. Frú Mason gólaði eins og hýena og hljóp út úr húsinu æpandi um geðsjúklinga. Herra Mason staldraði við til að segja þeim að konan hans væri haldin sjúklegum ótta við fugla af öllum stærðum og gerðum og til að spyrja hvort þeim þætti þetta fyndið.

Harry stóð í eldhúsinu og ríghélt í skrúbbinn sér til stuðnings þegar Vernon frændi nálgaðist hann með djöfullegt blik í pínulitlum augunum.

„Lestu það!“ hvæsti hann illilega og veifaði bréfinu sem uglan hafði komið með. „Svona nú – lestu það!“ Harry tók við því. Þetta var ekki afmæliskort.

Kæri herra Potter.

Okkur hefur borist tilkynning um að Svif-galdri hafi verið beitt á heimili yðar í kvöld klukkan tólf mínútur yfir níu.

Eins og yður er kunnugt er þeim galdramönnum sem ekki hafa náð tilskildum aldri óheimilt að beita göldrum utan skólans og frekari galdrastarfsemi af yðar hálfu getur leitt til brottrekstrar úr áðurnefndum skóla (skv. Tilskipun um takmörkun á galdrastarfsemi galdramanna sem ekki hafa náð tilskildum aldri, 1875, málsgrein C).

Við viljum einnig biðja yður að minnast þess að hvers kyns galdrastarfsemi sem gæti vakið athygli galdralauss samfélags (Mugga) er alvarlegt brot á 13. grein laga Alþjóðasambands seiðmanna um leynd.

Hafið það gott í fríinu!

Yðar einlæg,

Mafalda Hopkirk Embættisstofnun um misnotkun galdra Galdramálaráðuneyti

Harry leit upp úr bréfinu og tók andköf.

„Þú minntist ekkert á að þú mættir ekki nota galdra utan skólans,“ sagði Vernon frændi og brjálsemisglampi tindraði í

augunum. „Gleymdir að minnast á það … Eflaust alveg stolið úr þér …“

Hann beygði sig niður að Harry og sýndi tennurnar eins og stór bolabítur. „Ég skal segja þér svolítið … Ég ætla að læsa þig inni … Þú ferð aldrei aftur í þennan skóla … aldrei … og ef þú reynir að galdra þig út úr herberginu – verður þú rekinn!“

Svo hló hann tryllingslega og dró Harry upp stigann.

Vernoni frænda var full alvara með orðum sínum. Morguninn eftir réð hann mann til að setja rimla fyrir gluggann á herbergi Harrys. Sjálfur kom hann lúgu fyrir á hurðinni svo hægt væri að ýta litlum matarskömmtum inn í herbergið þrisvar á dag. Harry var leyft að nota klósettið á morgnana og kvöldin. Annars var hann læstur inni í herbergi sínu allan sólarhringinn.

Þremur dögum síðar sýndu Dursleyhjónin enn engin merki um tilslökun og Harry eygði enga undankomuleið. Hann lá í rúminu sínu, horfði á sólsetrið í gegnum rimlana á glugganum og velti því vansæll fyrir sér hvað yrði um hann.

Hvaða gagn gerði það svo sem að galdra sig út úr herberginu ef hann yrði rekinn úr Hogwartskóla fyrir vikið? Lífið á Runnaflöt hafði samt aldrei verið eymdarlegra. Nú vissi fjölskyldan að það var engin hætta á að þau vöknuðu upp sem leðurblökur og þar með hafði Harry misst eina vopnið úr höndum sér. Dobby hafði kannski bjargað Harry frá hörmungum í Hogwartskóla en nú stefndi allt í það að hann dæi úr hungri. Lúgan opnaðist og höndin á Petuniu frænku ýtti skál af dósas úpu inn í herbergið. Harry, sem var farið að verkja af hungri, stökk á fætur og greip hana. Súpan var ísköld en hann svolgraði helminginn af henni í einum teyg. Síðan gekk hann yfir að búrinu hennar Hedwig, fiskaði mauksoðið grænmetið upp af botninum á skálinni og lagði á tóman matarbakkann hennar. Hún ýfði fjaðrirnar og leit á hann full af vandlætingu.

„Það þýðir ekkert að fitja upp á gogginn – þetta er það eina sem til er," sagði Harry hörkulega.

Hann lagði tóma skálina við hliðina á lúgunni og lagðist aftur í rúmið, enn svengri en áður.

Ef hann yrði enn á lífi eftir fjórar vikur, hvað ætli gerðist ef hann léti ekki sjá sig í skólanum? Yrði einhver sendur til að

athuga hvers vegna hann hefði ekki mætt? Ætli þeim tækist að fá Dursleyhjónin til að sleppa honum?

Það var tekið að skyggja í herberginu. Úrvinda, með garnagaul og óleysanlegar spurningar á fleygiferð um kollinn sofnaði Harry óværum svefni.

Hann dreymdi að hann væri til sýnis í dýragarði. Á búrinu hans var miði sem á stóð Galdramaður sem ekki hefur náð tilskildum aldri. Hópur fólks góndi á hann í gegnum rimlana þar sem hann lá svangur og veik burða á hálmfleti. Hann kom auga á andlit Dobbys í mannþrönginni og kallaði á hann sér til hjálpar, en hann sagði: „Harry Potter er öruggur hérna, herra minn!“ og hvarf. Þá birtist Dursleyfjölskyldan og Dudley hristi rimlana á búrinu og hló.

„Hættu þessu,“ muldraði Harry því skröltið glumdi í aumu höfðinu. „Látið mig í friði … hættu, ég er að reyna að sofa …“

Hann opnaði augun. Tunglið skein inn um rimlana á glugganum. Og einhver góndi á hann í gegnum rimlana: einhver freknóttur og rauðhærður með langt nef.

Ron Weasley var fyrir utan gluggann.

# Þriðji kafli

# Hreysið

„Ron!“ stundi Harry, læddist að glugganum og opnaði hann svo þeir gætu talast við í gegnum rimlana. „Ron, hvernig tókst þér að … Hvað í ósköpunum …?“

Harry varð steini lostinn þegar hann áttaði sig á því sem bar fyrir augu hans. Ron hallaði sér út um aftari gluggann á gömlum, himinbláum bíl sem var lagt í lausu lofti. Fred og George, eldri tvíburabræður Rons, sátu skælbrosandi frammí.

„Er ekki allt í lagi með þig, Harry?“ spurði George.

„Hvað er eiginlega að?“ spurði Ron. „Af hverju hefurðu ekki svarað bréfunum mínum? Ég er búinn að bjóða þér svona tólf sinnum í heimsókn og svo kom pabbi heim í dag og sagði að þú hefðir fengið formlega viðvörun fyrir að beita göldrum fyrir framan Muggana …“

„Það var ekki ég … og hvernig vissi hann það?“

„Hann vinnur hjá galdramálaráðuneytinu,“ sagði Ron. „Þú veist að okkur er ekki leyft að beita göldrum utan skólans …“ „Segir hver?“ sagði Harry og starði á svífandi bílinn.

„O, þetta telst ekki með,“ sagði Ron. „Við fengum hann bara lánaðan, pabbi á hann og við settum hann ekki í álög. En að galdra fyrir framan nefið á þessum Muggum sem þú býrð með …“

„Ég sagði þér að ég hefði ekki gert það – en það er ekki tími til að útskýra það núna – heyrðu, geturðu útskýrt fyrir þeim í Hogwartskólanum að Dursleyhjónin eru búin að loka mig inni og leyfa mér ekki að snúa aftur og það liggur í augum uppi að ég get ekki galdrað mér leið út því galdramálaráðuneytið heldur þá að þetta sé annað galdraverkið sem ég frem á þremur dögum …“

„Hættu þessu bulli,“ sagði Ron. „Við erum komnir til að taka þig með okkur heim.“

„En þið megið heldur ekki galdra mig út …“

„Við þurfum þess ekki,“ sagði Ron brosandi og kinkaði kolli í átt að samferðamönnum sínum. „Þú sérð hverja ég tók með mér.“

„Bittu þetta utan um rimlana,“ sagði Fred og fleygði kaðalspotta til Harrys.

„Ef þau vakna er ég dauðans matur,“ sagði Harry um leið og hann batt kaðalinn þéttingsfast utan um rimlana og Fred þandi vélina.

„Hafðu engar áhyggjur,“ sagði Fred, „og færðu þig frá.“

Harry hörfaði inn í myrkrið til Hedwig, sem virtist gera sér grein fyrir alvöru málsins og sat kyrr og þögul. Drunurnar urðu sífellt hærri og skyndilega losnuðu rimlarnir úr glugganum með háværum bresti þegar Fred stýrði bílnum beint upp í loftið. Harry hljóp út að glugganum og sá hvar rimlarnir dingluðu nokkra metra fyrir ofan jörðina. Ron hífði þá móður og másandi upp í bílinn. Harry lagði kvíðinn við hlustir en ekkert heyrðist úr svefnherbergi Dursleyhjónanna.

Þegar rimlarnir voru komnir í aftursætið til Rons bakkaði Fred bílnum eins nálægt glugganum hans Harrys og unnt var.

„Hoppaðu upp í,“ sagði Ron.

„En hvað með allt skóladótið mitt – töfrasprotann – galdrakústinn …?“

„Hvar er það?“

„Læst inni í kompunni undir stiganum og ég kemst ekki út úr herberginu …“

„Ekkert mál,“ sagði George úr framsætinu. „Færðu þig, Harry.“ Fred og George klifruðu gætilega inn um gluggann og inn í her bergið. Það er eins gott að láta þá um þetta, hugsaði Harry þegar George dró venjulega hárspennu upp úr vasanum og byrjaði að fikta við lásinn.

„Mörgum galdramönnum finnst það tímasóun að læra svona Muggabrögð,“ sagði Fred, „en þau eru gagnleg þótt þau séu dálítið seinvirk.“

Lágur smellur heyrðist og dyrnar galopnuðust.

„Við náum þá í koffortið þitt – þú tekur það sem þú þarft úr herberginu þínu og réttir Ron út um gluggann,“ hvíslaði George.

„Varið ykkur á neðsta þrepinu – það marrar í því,“ hvíslaði Harry um leið og tvíburarnir hurfu fram á myrkan stigapallinn.

Harry þeyttist um herbergið og safnaði saman eigum sínum sem hann rétti svo út um gluggann til Rons. Því næst fór hann fram og hjálpaði Fred og George með koffortið upp stigann. Hann heyrði Vernon frænda hósta.

Loks komust þeir lafmóðir upp á stigapallinn og burðuðust með koffortið að glugganum á herbergi Harrys. Fred klifraði upp í bílinn og þeir Ron drógu koffortið til sín en George og Harry stóðu inni og ýttu. Smátt og smátt mjakaðist koffortið í gegnum gluggann.

Vernon frændi hóstaði aftur.

„Aðeins lengra,“ stundi Fred innan úr bílnum. „Og einu sinni enn –“

Harry og George köstuðu sér á koffortið og það rann út um gluggann og niður í aftursætið á bílnum.

„Nú drífum við okkur,“ hvíslaði George.

En jafnskjótt og Harry klifraði upp á gluggakistuna heyrðist hávært væl fyrir aftan hann og svo þrumandi rödd Vernons frænda.

„Bölvuð uglan!“

„Ég gleymdi Hedwig!“

Harry þaut þvert yfir herbergið um leið og ljósið á stigapallinum kviknaði. Hann greip búrið, hljóp að glugganum og rétti það út um gluggann til Rons. Hann var að klöngrast aftur upp á gluggakistuna þegar Vernon frændi lamdi á ólæstar dyrnar – og hurðin þeyttist upp með miklu braki.

Eitt andartak stóð hann í dyragættinni; síðan öskraði hann eins og tarfur í vígahug, steypti sér í áttina að Harry og greip í ökklann á honum.

Ron, Fred og George héldu í hendurnar á Harry og toguðu á móti eins fast og þeir gátu.

„Petunia!“ æpti Vernon frændi. „Hann er að flýja! Hann er að flýja!“

En Weasleybræðurnir rykktu í af öllum mætti og Vernon frændi missti takið á fætinum. Um leið og Harry var kominn inn í bílinn og hafði skellt á eftir sér kallaði Ron: „Gefðu allt í botn, Fred!“ og bíllinn skaust í átt til himins.

Harry átti bágt með að trúa þessu – hann var frjáls. Hann skrúfaði niður rúðuna, næturloftið lék um hár hans, hann leit um öxl yfir húsþökin á Runnaflöt sem fjarlægðust óðfluga. Vernon frændi, Petunia frænka og Dudley héngu öll sem steini lostin út um herbergisglugga Harrys.

„Sjáumst næsta sumar!“ hrópaði Harry.

Weasleybræðurnir skelltu upp úr og Harry hallaði sér aftur í sætið sitt, brosandi út að eyrum.

„Hleyptu Hedwig út,“ sagði hann við Ron. „Hún getur flogið á eftir okkur. Það er óratími síðan hún fékk að teygja úr vængjunum.“

George fékk Ron hárspennuna og andartaki síðar flögraði Hedwig alsæl út um gluggann og sveif við hlið bílsins eins og vofa.

„Jæja – hvað er um að vera?“ spurði Ron óþolinmóður. „Hvað gerðist eiginlega?“

Harry sagði þeim frá Dobby, viðvöruninni sem hann hafði gefið honum og tiltækinu með fjólueftirréttinn. Þegar hann hafði lokið máli sínu varð löng þögn.

„Mjög einkennilegt,“ sagði Fred loks.

„Eitthvað er gruggugt við þetta,“ samþykkti George. „Og hann vildi ekki einu sinni segja þér hver stæði á bak við ráðabruggið.“

„Ég held hann hafi ekki getað það,“ sagði Harry. „Alltaf þegar hann var að því kominn að missa eitthvað út úr sér lamdi hann hausnum á sér utan í vegginn.“

Hann sá að Fred og George litu hvor á annan.

„Haldið þið að hann hafi verið að ljúga að mér?“ spurði Harry.

„Ja,“ sagði Fred, „lítum á það þannig að húsálfar búa sjálfir yfir miklum galdramætti en geta yfirleitt ekki notað hann nema með leyfi húsbónda síns. Ég held að Dobby gamli hafi verið sendur til þín til að koma í veg fyrir að þú færir aftur í Hogwartskóla. Einhver að reyna að vera fyndinn. Manstu eftir einhverjum í skólanum sem er illa við þig?“

„Já,“ sögðu Harry og Ron í kór.

„Draco Malfoy,“ útskýrði Harry. „Hann þolir mig ekki.“

„Draco Malfoy?“ sagði George og sneri sér við. „Sonur Luciusar Malfoy?“

„Það hlýtur að vera, þetta er ekki mjög algengt nafn,“ sagði Harry.

„Af hverju?“

„Ég hef heyrt pabba tala um hann,“ sagði George. „Hann var ákafur stuðningsmaður Þú-veist-hvers.“

„Og þegar Þú-veist-hver hvarf,“ sagði Fred og sneri sér að Harry, „kom Lucius Malfoy og sagðist ekki hafa verið nein alvara með þessu. Kjaftæði – pabbi er viss um að hann hafi verið innsti koppur í búri hjá Þú-veist-hverjum.“

Harry hafði áður heyrt þennan orðróm um fjölskyldu Malfoys og þetta kom honum ekkert á óvart. Miðað við Malfoy virtist Dudley góðhjartaður, hugulsamur og viðkvæmur drengur.

„Ég veit ekki hvort Malfoyfjölskyldan á húsálf …“ sagði Harry.

„En hver svo sem á hann, þá er það gömul og rík galdrafjölskylda,“ sagði Fred.

„Já, mamma óskar sér oft að hún hefði húsálf til að strauja fyrir sig,“ sagði George. „Heima hjá okkur er bara gömul og hallærisleg ófreskja uppi á háalofti og í garðinum er allt morandi af jarðdvergum. Húsálfar fylgja yfirleitt gömlum aðalssetrum og kastölum og þess háttar; það er alveg örugglega enginn húsálfur heima hjá okkur …“

Harry var þögull. Í ljósi þess að Draco átti yfirleitt það flottasta af öllu hlaut fjölskyldan að synda í galdragulli; hann gat auðveldlega séð Draco spígspora í kringum stærðar herragarð. Það var líka dæmigert fyrir Malfoyfólkið að senda fjölskylduþjóninn til að hindra Harry í að snúa aftur til Hogwartskóla. Hafði það verið vitleysa hjá Harry að taka mark á Dobby?

„Ég er í það minnsta feginn að við komum að ná í þig," sagði Ron. „Ég var orðinn svo áhyggjufullur af því þú svaraðir aldrei bréfunum frá mér. Fyrst hélt ég að það væri Errol að kenna –"

„Hver er Errol?"

„Uglan okkar. Hún er ævagömul. Það væri ekki í fyrsta skiptið sem hún hrapaði í miðri sendiferð. Þess vegna reyndi ég að fá Hermes lánaðan –"

„Hvern?"

„Ugluna sem mamma og pabbi gáfu Percy þegar hann var gerður umsjónarmaður," sagði Fred úr framsætinu.

„En Percy vildi ekki lána mér hann,“ sagði Ron. „Hann sagðist þurfa að nota hann.“

„Percy hefur hegðað sér mjög einkennilega í allt sumar,“ sagði George og yggldi sig. „Hann hefur sent ógrynni af bréfum og lokað sig inni í herberginu sínu tímunum saman … Ég meina það, það er ekki hægt að fægja umsjónarmannsnæluna endalaust … Þú ert kominn of langt í vestur, Fred,“ bætti hann við og benti á áttavita í mæla borðinu. Fred snarsneri stýrinu.

„Veit pabbi ykkar að þið fenguð bílinn lánaðan?“ spurði Harry þótt hann grunaði svarið.

„Uhum, nei,“ sagði Ron. „Hann þurfti að vinna í kvöld. Vonandi tekst okkur að koma bílnum í bílskúrinn án þess að mamma komist að þessu flugi.“

„Við hvað vinnur pabbi ykkar eiginlega í galdramálaráðuneytinu?“

„Hann vinnur í leiðinlegustu deildinni,“ sagði Ron. „Stofnun til varnar misnotkun á Muggaeigum.“

„Ha?“

„Hún fjallar um hluti sem Muggar hafa búið til og eru í álögum, þú veist, ef þeir lenda aftur í Muggabúð – eða á heimili. Til dæmis dó gömul norn í fyrra og bollastellið hennar var selt í fornmunaverslun. Einhver Muggakona keypti það, fór með það heim og reyndi að bjóða vinum sínum upp á te. Það snerist upp í algjöra martröð – pabbi þurfti að vinna yfirvinnu í margar vikur.“

„Hvað gerðist?“

„Tekannan gekk berserksgang og skvetti sjóðandi heitu tei út um allt og einn maður endaði á sjúkrahúsi af því að sykurtöngin læsti sig fasta á nefið á honum. Pabbi var alveg að verða brjálaður – þeir eru bara tveir í stofnuninni, hann og gamall seiðkarl sem heitir Perkins – og þeir þurftu að beita gleymskuálögum og alls konar brögðum til að halda þessu leyndu …“

„En pabbi ykkar – hann á þennan bíl …“

Fred hló. „Já, pabbi er með algjöra dellu varðandi allt sem viðkemur Muggunum; skúrinn okkar er fullur af Muggahlutum.

Hann tekur þá í sundur, galdrar þá og setur aftur saman. Ef hann gerði rassíu heima hjá okkur yrði hann að handtaka sjálfan sig. Mamma er að verða vitlaus á þessu.“

„Þarna er aðalgatan,“ sagði George og rýndi út um framrúðuna.

„Við verðum komnir eftir tíu mínútur … Eins gott, það er farið að birta …“

Í austri mátti greina daufbleikan bjarma við sjónarrönd.

Fred lækkaði flugið og Harry kom auga á trjáþyrpingar og akra sem mynduðu kantað mynstur.

„Við erum rétt utan við þorpið Sankti Ottery Catchpole,“ sagði George.

Bíllinn flaug sífellt lægra og lægra. Roðagyllt morgunsólin skein nú í gegnum trén.

„Nú lendum við!“ sagði Fred um leið og þeir skullu niður á jörðina. Þeir lentu í litlum garði við hliðina á hrörlegum bílskúr og heimili Rons bar í fyrsta sinn fyrir augu Harrys.

Það hafði líklega einhvern tíma verið stór, steinhlaðin svínastía en herbergjum hafði verið bætt við hér og þar uns það var orðið nokkurra hæða hátt og svo hlykkjótt og snúið að það leit út fyrir að hanga uppi af göldrum einum saman (sem það gerði líklega, hugsaði Harry með sjálfum sér). Fjórir eða fimm reykháfar trónuðu uppi á rauðu þakinu. Við innganginn hafði verið hrófað upp skilti sem á stóð: Hreysið. Við útidyrnar lá hrúga af gúmmístígvélum og kolryðgaður seiðpottur. Nokkur feit, brún hænsni spígsporuðu um húsagarðinn. „Þetta er nú ekkert merkilegt," sagði Ron.

„Mér finnst þetta frábært," sagði Harry alsæll og minntist Runnaflatar.

Þeir stigu út úr bílnum.

„Nú læðumst við mjög hljóðlega upp á loft," sagði Fred, „og bíðum eftir að mamma kalli á okkur í morgunmat. Þá kemur þú hlaupandi niður, Ron, og segir: „Sjáðu, mamma, hver birtist hérna í nótt!" og hún verður himinlifandi að sjá Harry og enginn kemst að því að við tókum bílinn."

„Einmitt," sagði Ron. „Komdu, Harry, ég sef uppi …"

Skyndilega varð Ron grænn í framan og einblíndi í átt að húsinu. Hinir þrír snarsneru sér við.

Frú Weasley steðjaði yfir garðinn og tvístraði hænsnunum. Það var ótrúlegt hversu mjög þessi hnellna og blíðlega kona gat líkst hvasstenntu tígrisdýri.

„Ó," sagði Fred.

„Ó, nei," sagði George.

Frú Weasley nam staðar fyrir framan þá með hendur á mjöðmum og starði á hvert sakbitið andlitið af öðru. Hún var með blóms kreytta svuntu og upp úr vasanum stóð töfrasproti.

„Jæja," sagði hún.

„Góðan daginn, mamma," sagði George með rödd sem hann hélt greinilega að væri bæði heillandi og fjörleg.

„Gerið þið ykkur nokkra grein fyrir því hvað ég hef verið áhyggjufull?" hvíslaði frú Weasley með ógnþrunginni röddu.

„Fyrirgefðu, mamma, en við urðum að …“

Allir voru synirnir hærri í loftinu en hún en þeir lyppuðust niður undan reiði hennar.

„Rúmin auð! Ekkert bréf! Bíllinn horfinn – ég hélt hann hefði brotlent – var orðin vitlaus af áhyggjum – skipti það ykkur máli? Ó, nei, það hefur aldrei skipt neinu – bíðið bara þar til pabbi ykkar kemur heim, aldrei lentum við í svona vandræðum með Bill eða Charlie eða Percy …“

„Hinn fullkomni Percy,“ muldraði Fred.

„Þú mættir alveg taka hann Percy þér til fyrirmyndar!“ æpti frú Weasley og potaði fingri í bringuna á Fred. „Þið hefðuð getað dáið, það hefði getað sést til ykkar, pabbi ykkar hefði getað misst vinn una …“

Svona héldu skammirnar áfram að því er virtist í óratíma. Frú Weasley var orðin hás af öskrum þegar hún sneri sér að Harry sem hörfaði undan.

„Mikið er gaman að sjá þig, Harry minn," sagði hún. „Komdu inn og fáðu þér morgunmat."

Hún snerist á hæli og gekk aftur inn í húsið. Harry fylgdi kvíðinn á hæla hennar eftir að Ron hafði sent honum uppörvandi augnaráð.

Eldhúsið var lítið og þröngt. Í miðjunni stóð vel skrúbbað viðarborð og stólar. Harry tyllti sér á stólbrún og leit í kringum sig. Hann hafði aldrei fyrr komið inn á galdraheimili. Klukkan á veggnum andspænis honum hafði aðeins einn vísi og alls enga tölustafi. Meðfram úrskífunni voru skrifaðar setningar á borð við: Hellt upp á te, hænsnin fóðruð og þú ert orðinn of seinn. Á arinhillunni stóð þreföld röð af bókum með titlum eins og Magnaðu þinn eigin mysing, Bökunargaldrar og Veisluborð í einni andrá – töfrum líkast! Og ef heyrnin brást honum ekki var verið að kynna þáttinn Töfrastund með hinni sívinsælu syngjandi seiðkonu Celestinu Warbeck í gamla útvarpinu við hliðina á vaskinum.

Frú Weasley bjó til morgunverð og skarkaði í pottum og pönnum með dálítið fálmkenndum tilburðum. Þess á milli sendi hún sonum sínum eitrað augnaráð um leið og hún fleygði pylsum á steikarpönnuna. Annað slagið tautaði hún í

barm sér „skil ekki hvað þið voruð að hugsa,“ og „hefði aldrei trúað þessu upp á ykkur.“

„Ég er ekki að kenna þér um þetta, elskan,“ sagði hún hughreystandi við Harry og hrúgaði átta eða níu pylsum á diskinn hans. „Við Arthúr höfðum líka miklar áhyggjur af þér. Síðast í gær vorum við að tala um að fara sjálf og ná í þig ef Ron yrði ekki búinn að fá bréf frá þér á föstudaginn. Í alvöru,“ (hún bætti þremur spældum eggjum ofan á hrúguna á diskinum hans) „hvað á það að þýða að fljúga ólög legum bíl þvert yfir landið? Hver sem er hefði getað séð til ykkar …“

Hún sveiflaði töfrasprotanum kæruleysislega í áttina að uppvaskinu í vaskinum og lágvært glamur heyrðist þegar sjálfvirka uppvaskið fór í gang.

„Það var skýjað, mamma!“ sagði Fred.

„Hér tölum við ekki með fullan munninn!“ hreytti frú Weasley út úr sér.

„Þau sveltu hann, mamma!“ sagði George.

„Það sama gildir um þig!“ sagði frú Weasley en svipur hennar varð aðeins mildari þegar hún skar brauðsneiðar handa Harry og smurði þær.

Skyndilega beindist athygli allra að lítilli, rauðhærðri veru í síðum náttkjól sem birtist í eldhúsinu, gaf frá sér óp og hljóp út aftur. „Þetta var Ginny,“ hvíslaði Ron að Harry. „Systir mín. Hún hefur talað um þig í allt sumar.“

„Já, hún á eftir að biðja þig um eiginhandaráritun, Harry,“ sagði Fred glottandi en mætti tilliti móður sinnar og grúfði sig þegjandi yfir diskinn. Fleira var ekki sagt fyrr en búið var að hreinsa af diskunum fjórum, sem tók undraskamman tíma.

„Rosalega er ég orðinn þreyttur,“ sagði Fred geispandi og lagði frá sér hnífapörin. „Ég ætla í rúmið og …“

„Ég held nú síður,“ sagði frú Weasley höstugum rómi. „Þú getur sjálfum þér um kennt að hafa verið á fótum í alla nótt. Þú átt að afdverga garðinn fyrir mig; það er allt orðið krökkt eina ferðina enn …“

„O, mamma …“

„Og þið hjálpið honum,“ sagði hún og horfði hvasst á Ron og Fred.

„Þú getur farið í rúmið, elskan mín,“ sagði hún við Harry. „Þú baðst þá ekki að fljúga þessu bílhræi.“

En Harry, sem var glaðvakandi, flýtti sér að segja: „Ég skal hjálpa Ron. Ég hef aldrei séð afdvergun …“

„Það er fallegt af þér, hjartað mitt, en þetta er leiðindaverk,“ sagði frú Weasley. „Lítum nú á hvað Lockhart hefur að segja um þetta efni …“

Hún dró fram þykka bók úr bunkanum á arinhillunni. George stundi.

„Mamma, við kunnum að afdverga garðinn …“

Harry leit á bókina í höndum frú Weasley. Þvert yfir kápuna stóð letrað með gylltum skrautstöfum: Handbók Gilderoys Lockhart um heimilisplágur. Framan á var stór mynd af afar myndarlegum galdramanni með ljóst liðað hár og skærblá augu. Eins og alltaf í galdraheiminum var ljósmyndin á hreyfingu; galdramaðurinn, sem Harry gerði ráð fyrir að væri

Gilderoy Lockhart, blikkaði þau í sífellu kinnroðalaust. Frú Weasley horfði hugfangin á hann.

„Ó, hann er dásamlegur,“ sagði hún. „Hann veit sko sitthvað um heimilisplágur. Þetta er yndisleg bók …“

„Mamma er skotin í honum,“ sagði Fred hálfhátt.

„Láttu ekki eins og kjáni, Fred,“ sagði frú Weasley rjóð í vöngum.

„En ef þú heldur að þú vitir betur en Lockhart skaltu fara út og byrja á þessu og vei þér, ef ég finn svo mikið sem einn einasta jarðdverg þegar ég yfirfer garðinn.“

Bræðurnir hengsluðust út kvartandi og kveinandi. Harry fylgdi á hæla þeirra. Garðurinn var stór og Harry fannst hann alveg eins og garðar ættu að vera. Vernon og Petunia hefðu ekki orðið hrifin – illgresið spratt óáreitt og grasið hafði ekki verið slegið lengi – en meðfram veggjunum uxu kræklótt tré, í blómabeðunum voru jurtir sem Harry hafði aldrei augum litið og í garðinum var stór græn tjörn full af froskum.

„Það eru líka jarðdvergar í görðunum hjá Muggunum," sagði Harry við Ron þegar þeir gengu yfir garðinn.

„Já, ég hef séð það sem þeir kalla dverga," sagði Ron með höfuðið inni í rósarunna. „Þeir eru eins og litlir feitir jólasveinar með veiðistangir …"

Innan úr runnanum barst hljóð frá heiftúðugum áflogum, runninn hristist og Ron rétti úr sér. „Þetta er jarðdvergur," sagði hann hörkulega.

„Slepptu mér! Slepptu mér!" gargaði jarðdvergurinn.

Hann líktist á engan hátt jólasveini. Hann var lítill og húðin var áþekk leðri. Höfuðið var stórt, hnúðótt og hárlaust, nákvæmlega eins og kartafla. Ron hélt honum í seilingarfjarlægð svo hann næði ekki að sparka í hann með litlum, sigggrónum fótunum. Hann greip um ökklana á dvergnum og hafði endaskipti á honum.

„Svona gerir maður," sagði Ron. Hann hóf dverginn yfir höfuð sér („Slepptu mér!") og sveiflaði honum í stóra hringi eins og snöru. Þegar Ron sá hvað Harry var brugðið bætti hann við:

„Þeir meiða sig ekki – maður þarf bara að gera þá svo ringlaða að þeir rati ekki aftur í dvergaholuna sína.“

Hann sleppti takinu á dvergnum sem flaug sex metra upp í loft og lenti með dynk á jörðinni handan við limgerðið.

„Þetta var nú lélegt,“ sagði Fred. „Ég þori að veðja að ég get kastað lengra.“

Harry hætti fljótlega að kenna of mikið í brjósti um jarðdvergana. Hann ákvað að sveifla þeim yfir limgerðið en dvergurinn skynjaði veikleika Harrys og sökkti hárbeittum tönnunum í fingurinn á honum. Hann ætlaði aldrei að ná að hrista hann af sér – fyrr en –

„Vá, Harry, þetta hljóta að hafa verið fimmtán metrar …“ Fljótlega var mökkur af fljúgandi jarðdvergum í loftinu.

„Þeir stíga ekki beint í vitið,“ sagði George og greip fimm eða sex dverga í einu. „Um leið og þeir skynja að við séum að afdverga þjóta þeir upp úr holunum til að forvitnast. Maður hefði haldið að þeir væru búnir að læra að halda kyrru fyrir.“

Brátt mátti sjá hópa af dvergum með litlar, kýttar axlir reika á brott í óskipulegri röð.

„Þeir koma aftur,“ sagði Ron þar sem þeir stóðu og fylgdust með dvergunum hverfa inn í runna í fjarska. „Þeim líður svo vel hérna …

Pabbi er allt of linur við þá, honum finnst þeir sniðugir …“ Í sömu mund var útidyrahurðinni skellt.

„Hann er kominn!“ sagði George. „Pabbi er kominn heim!“ Þeir flýttu sér yfir grasflötina og inn í húsið.

Herra Weasley hafði hlunkað sér niður á eldhúskoll, tekið af sér gleraugun og sat nú með lokuð augun. Hann var grannvaxinn, hárið farið að þynnast en það litla sem var eftir var alveg jafn rautt og hár barna hans. Hann klæddist síðri, grænni skikkju sem var rykug og þvæld.

„Hvílík nótt,“ muldraði hann og greip tekönnuna um leið og þeir fengu sér sæti í kringum hann. „Níu rassíur. Níu! Og Mundungus Fletcher gamli reyndi að koma álögum yfir mig þegar ég sneri í hann baki …“

Herra Weasley fékk sér stóran sopa af tei og andvarpaði.

„Fannstu eitthvað, pabbi?“ spurði Fred ákafur.

„Ég hafði ekkert upp úr krafsinu nema nokkra lykla sem hverfa og suðuketil sem bítur,“ sagði herra Weasley og geispaði. „Það komu þó upp nokkur leiðindamál sem heyra ekki undir mitt embætti. Mortlake var yfirheyrður um nokkra ákaflega skrítna merði sem hann á, en sem betur fer sjá þeir í Tilraunagaldraráðinu um það …“

„Hver hefur fyrir því að setja lykla í álög?“ spurði George.

„Það er Muggatálbeita,“ stundi herra Weasley. „Muggum eru seldir lyklar sem skreppa saman þar til þeir verða að engu og svo finnast þeir ekki þegar á þarf að halda. Auðvitað er mjög erfitt að ákæra einhvern því að Muggar myndu aldrei viðurkenna að lyklarnir þeirra væru alltaf að minnka – þeir halda því fram að lyklarnir séu alltaf að týnast. Sem betur fer látast þeir ekki sjá galdra, jafnvel þó að þeir gerist beint fyrir framan nefið á þeim … En okkar fólk er farið að leggja álög á ótrúlegustu hluti, þið mynduð aldrei trúa …“

„Eins og til dæmis bíla!“

Frú Weasley stóð í dyrunum og brá skörungi á loft eins og sverði.

Herra Weasley rak upp stór augu. Hann starði sakbitinn á konu sína. „B-bíla, Molly, elskan mín?“

„Já, Arthúr, bíla,“ sagði frú Weasley og hvessti augun. „Ímyndaðu þér galdramann sem kaupir gamlan og ryðgaðan bíl og segir konunni sinni að hann langi bara að taka hann í sundur til að sjá hvernig hann virki. En í rauninni galdrar hann bílinn svo hann geti flogið.“ Herra Weasley deplaði augunum.

„Já, en mín kæra, það er ekki ólöglegt, jafnvel þó að hann hefði betur sagt, huhum, konunni sinni frá því … Sjáðu til, það er hægt að finna smugu í lögunum … Svo lengi sem hann ætlaði sér ekki að fljúga bílnum, að bíllinn geti flogið af sjálfu sér …“

„Arthúr Weasley, þú skildir þessa smugu viljandi eftir þegar þú skrifaðir lögin!“ æpti frú Weasley. „Bara svo þú gætir haldið áfram að fikta við þetta Muggadrasl úti í geymslu! Bara svo þú vitir það, þá kom Harry í morgun á bílnum sem þú ætlaðir ekki að fljúga!“

„Harry?“ sagði herra Weasley skilningssljór. „Hvaða Harry?“ Hann leit í kringum sig, kom auga á Harry og stökk á fætur.

„Herra minn trúr, er þetta Harry Potter? Sönn ánægja að hitta þig, Ron hefur sagt okkur svo margt …“

„Synir þínir flugu bílnum heim til Harrys og aftur til baka í nótt!“ æpti frú Weasley. „Hvað hefurðu um það að segja?“

„Er það?“ sagði herra Weasley ákafur. „Gekk vel? Ég – ég á við,“ stamaði hann þegar augu frú Weasley skutu gneistum, „það – það máttuð þið alls ekki, drengir … það er alveg stranglega bannað …“

„Við skulum láta þau um þetta,“ hvíslaði Ron að Harry um leið og frú Weasley belgdi sig upp eins og froskur. „Komdu, ég skal sýna þér herbergið mitt.“

Þeir smeygðu sér út úr eldhúsinu og inn þröngan gang að kræklóttum stiga sem lá í kröppum hlykkjum upp í gegnum húsið. Á stigapallinum á þriðju hæð stóðu dyr opnar í hálfa gátt. Harry sá tvö skær, tindrandi brún augu sem störðu á hann. En svo skullu dyrnar aftur.

„Ginny,“ sagði Ron. „Þú getur ekki ímyndað þér hvað það hlýtur að vera skrítið fyrir hana að vera svona feimin, hún er venjulega síblaðr andi …“

Þeir klifu upp tvo stiga í viðbót og komu að hurð með flagnaðri málningu og skilti sem á stóð: Herbergi Ronalds.

Harry steig inn og rak sig næstum upp undir aflíðandi loftið. Hann pírði augun. Þetta var eins og að ganga inn í bræðsluofn: Næstum allt í herbergi Rons var í æpandi appelsínugulum lit: Rúmteppið, vegg irnir og jafnvel loftið. En þá tók Harry eftir því að Ron hafði hulið næstum hvern þumlung af snjáðu veggfóðrinu með myndum af sjö galdramönnum og nornum sem öll klæddust skærum appelsínugulum skikkjum, héldu á galdrakústum og veifuðu ákaft.

„Er þetta Quidditchliðið þitt?“ spurði Harry.

„Já, Chudley-raketturnar,“ sagði Ron og benti á appelsínugult rúmteppið sem var skreytt með stóru svörtu CR og þjótandi rakettu.

„Þau eru í níunda sæti í deildinni.“

Skólabækur Rons lágu í hrúgu úti í horni við hliðina á stöflum af teiknimyndablöðum sem öll virtust fjalla um Ævintýri Martins Migg, Muggans bandóða. Töfrasprotinn hans Rons lá ofan á fiskabúri í gluggakistunni sem var fullt af froskaseiðum og við hliðina á því lá feita, gráa rottan hans, Scabber, og dottaði í sólinni.

Harry steig yfir stokk af sjálfstokkandi spilum sem lá á gólfinu og leit út um örsmáan gluggann. Á jörðinni langt fyrir neðan hann sá hann hóp af jarðdvergum sem laumuðust einn af öðrum í gegnum limgerðið og inn í garð Weasleyfjölskyldunnar á nýjan leik. Síðan sneri hann sér við og leit á Ron sem horfði allt að því órólegur á hann eins og hann biði eftir áliti hans.

„Það er dálítið lítið,“ sagði Ron óðamála. „Ekki eins og herbergið sem þú hafðir hjá Muggunum. Og það er beint undir háaloftinu þar sem ófreskjan er alltaf að berja í rörin og rymja …“

En Harry brosti út að eyrum og sagði: „Þetta er besta hús sem ég hef komið í.“

Ron roðnaði upp í hársrætur.

# Fjórði kafli

# Verslunarferðin

Lífið í Hreysinu var eins ólíkt lífinu á Runnaflöt og hugsast gat. Dursleyhjónin vildu hafa allt í röð og reglu; heimili Weasleyfjölskyldunnar iðaði af hinu undarlega og óvænta. Harry dauðbrá í fyrsta skipti sem hann leit í spegilinn fyrir ofan arinhilluna og hann öskraði: „Girtu þig, sóði!“ Ófreskjan á háaloftinu gólaði og grýtti rörum í gólfið ef henni þótti orðið of hljótt og sprengingar úr herbergi Freds og Georges voru daglegt brauð. Það sem kom Harry mest á óvart heima hjá Ron var hvorki spegillinn talandi né hávaðasama ófreskjan heldur að öllum virtist líka vel við hann.

Frú Weasley fussaði yfir ástandinu á sokkunum hans og reyndi að neyða hann til að fá sér fjórum sinnum á diskinn í hvert mál. Herra Weasley vildi setja Harry við hliðina á sér við matarborðið svo hann gæti látið spurningum um lífið hjá Muggunum rigna yfir hann. Hann vildi til dæmis fá

útskýringar á því hvernig innstungur og póst þjónusta virkuðu.

„Heillandi!“ endurtók hann í sífellu þegar Harry útskýrði fyrir honum hvernig maður notar síma. „Snilldarlegt hvað Muggunum hefur tekist að bjarga sér án galdra.“

Harry barst bréf frá Hogwartskóla einn sólbjartan morgun um það bil viku eftir að hann kom til Rons. Þegar þeir Ron komu niður í morgunmat sátu Weasleyhjónin og Ginny við eldhúsborðið. Þegar Ginny sá Harry rak hún sig í grautarskálina sína svo hún datt í gólfið með miklum hvelli. Ginny virtist missa eitthvað í hvert sinn sem Harry birtist. Hún beygði sig undir borðið til að ná í skálina og reis upp rauðglóandi í framan eins og logandi sól. Harry þóttist ekki taka eftir neinu, fékk sér sæti og tók við brauðinu sem frú Weasley bauð honum.

„Það eru komin bréf frá skólanum,“ sagði herra Weasley og rétti Harry og Ron samskonar umslög úr gulleitu pergamenti, árituð með grænu bleki. „Dumbledore veit nú þegar að þú ert hérna, Harry – það fer ekkert framhjá þeim manni. Þið fenguð líka bréf,“ bætti hann við þegar Fred og George lötruðu inn, enn í náttfötunum.

Í nokkrar mínútur var þögn á meðan þeir lásu bréfin. Í bréfinu til Harrys stóð að hann þyrfti að taka lestina til Hogwartskóla frá King’s Cross-lestarstöðinni hinn fyrsta september eins og venjulega. Með bréfinu fylgdi líka listi yfir nýjar bækur sem hann þyrfti fyrir næsta vetur.

Annars árs nemar lesa eftirtaldar bækur:

Almenna álagabókin (2. stig) eftir Miröndu Goshawk

Vikufrí hjá vofu eftir Gilderoy Lockhart

Á flakki með forynjum eftir Gilderoy Lockhart

Veiðiferð með vörgum eftir Gilderoy Lockhart

Trítlað með tröllum eftir Gilderoy Lockhart

Í vist hjá vampírum eftir Gilderoy Lockhart

Á vergangi með varúlfum eftir Gilderoy Lockhart

Sumardvöl hjá snjómanninum eftir Gilderoy Lockhart

Fred var búinn að fara yfir sinn lista og leit á Harry.

„Þið eigið líka að kaupa allar bækur Lockharts!“ sagði hann. „Sá sem kennir varnir gegn myrku öflunum í vetur hlýtur að vera mikill aðdáandi – ég þori að veðja að það er galdranorn.“

Á þessu augnabliki fann Fred fyrir augnatilliti móður sinnar og varð skyndilega önnum kafinn við að smyrja marmelaði á brauðið sitt.

„Þetta verður ekki ódýrt,“ sagði George og skotraði augunum til foreldra sinna. „Bækurnar hans Lockharts eru rosalega dýrar …“

„Við ráðum fram úr því,“ sagði frú Weasley en hún virtist áhyggjufull. „Ætli við getum ekki fundið einhverja notaða hluti handa Ginny.“ „Ó, ert þú að byrja í Hogwartskóla núna?“ spurði Harry Ginny.

Hún kinkaði kolli, roðnaði upp í sínar rauðu hársrætur og lagði olnbogann ofan í smjördiskinn. Sem betur fer sá þetta enginn nema Harry því í sömu andrá gekk Percy, eldri bróðir Rons,

inn. Hann var klæddur og gljáandi umsjónarmannsnælan frá Hogwartskóla var næld í prjónaða vestispeysuna hans.

„Góðan daginn, öllsömul,“ sagði hann hressilega. „Aldeilis fallegur dagur.“

Hann settist á eina lausa stólinn en spratt samstundis aftur á fætur og dró undan sér gráan fjaðrakúst – eða það hélt Harry að minnsta kosti í fyrstu þar til hann sá að kústurinn andaði.

„Errol!“ hrópaði Ron, tók veiklulegan fuglinn í fangið og dró bréf undan vængnum. „Loksins – hann er með svar frá Hermione. Ég skrifaði henni til að segja henni að við ætluðum að reyna að bjarga þér frá Dursleyfjölskyldunni.“

Hann bar Errol að fuglapriki sem var við bakdyrnar og reyndi að láta hann tolla á því. Errol hrundi samstundis af því svo að Ron lagði hann á eldhúsborðið og muldraði: „En aumingjalegt.“ Því næst opnaði hann bréfið frá Hermione og las það upphátt:

„Kæri Ron, og Harry ef þú ert þarna.

Ég vona að allt hafi gengið vel og Harry hafi það gott og þú hafir ekki gert neitt ólöglegt til að ná honum út, Ron, því þá gæti Harry líka lent í vandræðum. Ég hef haft miklar áhyggjur af þessu og ef Harry er heill á húfi viltu þá láta mig vita undireins. Það væri kannski betra að senda aðra uglu af því að ég held að önnur sendiferð gæti riðið þessari að fullu.

Ég er auðvitað mjög önnum kafin við lærdóminn – hvernig getur það staðist?“ sagði Ron og hryllti sig. „Við erum í fríi! – Og við ætlum til London á miðvikudaginn til að kaupa nýjar bækur fyrir skólann. Eigum við að hittast í Skástræti?

Láttu heyra frá þér sem allra fyrst.

Ástarkveðjur, Hermione.“

„Já, það hentar vel. Við getum þá farið og keypt það sem ykkur vantar,“ sagði frú Weasley og fór að taka af borðinu. „Hvað stendur til hjá ykkur í dag?“

Harry, Ron, Fred og George ætluðu að fara upp á hæðina, þar sem var dálítið rjóður í eigu Weasleyfjölskyldunnar. Allt um kring uxu há tré sem huldu svæðið augum fólksins í þorpunum fyrir neðan svo vel var hægt að æfa Quidditch ef

ekki var flogið of hátt. Þeir gátu þó ekki notað alvöru Quidditchbolta því það hefði getað reynst erfitt að finna sennilega útskýringu ef boltarnir hefðu sloppið og flogið niður í þorpið. Þess í stað köstuðu þeir eplum til að æfa gripið. Þeir skiptust á um að fljúga Nimbus 2000 galdrakústinum hans Harrys því hann var án efa besti kústurinn; gamli kústurinn hans Rons, Halastjarnan, fór stundum hægar en fiðrildin sem flögruðu um.

Fimm mínútum síðar þrömmuðu þeir upp á hæðina með galdrakústana á öxlunum. Þeir höfðu spurt Percy hvort hann vildi koma með en hann hafði sagst vera upptekinn. Harry hafði bara séð Percy á matmálstímum; annars lokaði hann sig inni í herberginu sínu.

„Ég vildi að ég vissi hvað hann er að bauka,“ sagði Fred og gretti sig. „Hann er svo ólíkur sjálfum sér. Niðurstöðurnar úr prófunum bárust daginn áður en þú komst; tólf U.G.L.ur og hann montaði sig eiginlega ekki neitt.“

„Undraverð GaldraLeikni,“ útskýrði George þegar hann sá undrunarsvipinn á Harry. „Bill fékk líka tólf. Fyrr en varir verðum við komin með annan nemendaformann í fjölskylduna. Ég er ekki viss um að ég afberi slíka skömm.“

Bill var elstur Weasleybræðranna. Hann og Charlie, næstelsti bróðirinn, höfðu lokið námi við Hogwartskóla. Harry hafði aldrei hitt þá, en hann vissi að Charlie var í Rúmeníu að rannsaka dreka og að Bill vann fyrir Gringottbankann í Egyptalandi.

„Ég skil ekki hvernig mamma og pabbi ætla að skrapa saman peningum fyrir skólabókunum okkar í ár,“ sagði George eftir nokkra stund. „Fimm sett af bókunum hans Lockharts! Og Ginny þarf að fá skikkjur, töfrasprota og allt ...“

Harry þagði. Hann var dálítið vandræðalegur. Í neðanjarðarhvelfingu Gringottbanka undir London var geymdur álitlegur sjóður sem Harry hafði erft eftir foreldra sína. Auðvitað var það þó aðeins í galdra heiminum sem hann átti peninga; engin leið var að nota galleon, sikkur og knúta í Muggabúðunum. Hann hafði aldrei minnst á bankareikning í Gringottbaka við Dursleyfjölskylduna; hann var ekki viss um að hryllingur þeirra á öllu því sem viðkom göldrum næði yfir gildan gullsjóð.

Frú Weasley vakti þau snemma næsta miðvikudag. Þegar þau höfðu hvert um sig gleypt í sig nokkrar beikonsamlokur

klæddu þau sig í jakkana og frú Weasley sótti blómapott ofan af arinhillunni og gægðist ofan í hann.

„Það er lítið eftir, Arthúr,“ andvarpaði hún. „Við verðum að kaupa meira í dag … Jæja, gestirnir hafa forgang! Fáðu þér, Harry, elskan!“ Hún rétti honum blómapottinn. Harry starði forviða á þau.

„Hv-hvað á ég að gera?“ stamaði hann.

„Hann hefur aldrei ferðast með flugdufti,“ sagði Ron allt í einu. „Fyrirgefðu, Harry, ég var búinn að gleyma því.“

„Aldrei?“ sagði herra Weasley. „En hvernig komstu niður í Skástræti til að kaupa skóladótið í fyrra?“

„Ég fór með neðanjarðarlestinni …“

„Í alvöru?“ sagði herra Weasley ákafur. „Voru ekki rúllustigar? Hvernig virka …“

„Ekki núna, Arthúr,“ sagði frú Weasley. „Flugduft er mun fljótvirkara, elskan, en hjálpi mér, ef þú hefur aldrei prófað það áður …“

„Þetta verður allt í lagi, mamma,“ sagði Fred. „Harry, fylgstu með okkur.“

Hann tók smáskammt af glitrandi dufti upp úr blómapottinum, gekk að eldinum og fleygði duftinu inn í logana.

Eldurinn varð smaragðsgrænn með miklum gný, logarnir mögnuðust svo að þeir gnæfðu yfir Fred sem gekk beint inn í þá og æpti:

„Skástræti!“ og hvarf.

„Þú verður að tala skýrt, elskan mín,“ sagði frú Weasley um leið og George stakk hendinni ofan í blómapottinn. „Og passaðu þig á að fara út á réttu eldstæði …“

„Réttu hvað?“ spurði Harry taugaóstyrkur um leið og eldurinn magnaðist og hreif George á braut.

„Ja, það er ógrynni af galdraeldstæðum sem hægt er að velja um … en ef þú talar skýrt …“

„Það verður allt í lagi með hann, Molly, slakaðu nú á,“ sagði herra Weasley og seildist ofan í blómapottinn eftir flugdufti.

„En ef hann nú týnist, minn kæri. Hvernig eigum við að útskýra það fyrir frændfólki hans?“

„Þeim er alveg sama,“ sagði Harry ákveðinn. „Dudley myndi hlæja sig máttlausan ef ég gufaði upp í gegnum reykháf, hafðu ekki áhyggjur af því …“

„Jæja, allt í lagi, þú ferð á eftir Arthúri,“ sagði frú Weasley. „Þegar þú stígur inn í eldinn skaltu segja hvert þú ætlar …“

„Og haltu olnbogunum þétt að þér,“ ráðlagði Ron honum.

„Og hafðu augun lokuð,“ sagði frú Weasley. „Sótið …“

„Og vertu kyrr,“ sagði Ron. „Annars gætirðu auðveldlega dottið út úr röngu eldstæði …“

„Og ekki verða hræddur og fara út of snemma; bíddu þar til þú kemur auga á Fred og George.“

Harry reyndi að hafa þetta allt í huga, tók handfylli af flugdufti og gekk að eldinum. Hann dró djúpt að sér andann, sáldraði duftinu inn í logana og steig inn; eldurinn var eins og heit gola; hann opnaði munninn og gleypti samstundis heilmikið af heitri ösku.

„Sk-skástræti,“ hóstaði hann.

Það var eins og hann sogaðist niður um gríðarstórt niðurfall. Honum fannst hann hringsnúast mjög hratt – drunurnar í eyrum hans voru ærandi – hann reyndi að hafa augun opin en grænir logar snarsnerust í kringum hann svo honum varð ómótt – eitthvað hart rakst í olnbogana á honum svo hann flýtti sér að halda þeim að sér – áfram hringsnerist hann – nú var sem kaldar hendur löðrunguðu hann – hann rýndi í gegnum gleraugun og sá óljósar raðir af eldstæðum og þar fyrir aftan voru herbergi – beikonsamlokurnar ólguðu í maganum á honum – hann lokaði augunum og óskaði þess að þetta hætti, og skyndilega – datt hann fram fyrir sig á kaldan stein og fann að gleraugun hans brotnuðu.

Þakinn sóti reis hann gætilega á fætur, ringlaður og skrámaður og bar brotin gleraugun upp að augunum. Hann var aleinn, en hann hafði ekki hugmynd um hvar hann var.

Hann stóð í steinlögðu eldstæði í einhverju sem líktist helst stórri og rökkvaðri galdrabúð, svo mikið var víst – en ekkert hér í hillunum virtist líklegt til að lenda nokkurn tíma á innkaupalista frá Hogwartskóla.

Í glerkassa skammt undan lá skorpin hönd á púða, spilastokkur með blóðslettum og starandi auga úr gleri. Grimmdarlegar grímur héngu með lymskulegum svip á veggjunum, á afgreiðsluborðinu var hrúga af ýmiss konar mannabeinum og ryðguð verkfæri með göddum dingluðu niður úr loftinu. En það sem verra var; dimma og þrönga gatan sem blasti við Harry út um kámugan búðargluggann var sannarlega ekki Skástræti.

Því fyrr sem hann kæmist héðan út, þeim mun betra. Nefið á Harry var enn helaumt eftir fallið ofan í eldstæðið en hann vatt sér hratt og hljóðlega í átt til dyra. Hann var ekki kominn hálfa leið að dyrunum þegar tvær verur birtust handan við gluggann – og aðra þeirra vildi Harry síst af öllum hitta þegar hann var týndur, sótugur upp fyrir haus og með brotin gleraugu; Draco Malfoy. Harry skimaði í hraði í kringum sig og kom auga á stóran, svartan skáp á vinstri hönd; hann skaust inn í hann og lokaði á eftir sér, en hafði litla rifu á dyrunum

svo hann gæti gægst út. Andartaki síðar klingdi bjalla og Draco gekk inn í búðina.

Maðurinn, sem fylgdi á hæla Dracos, hlaut að vera faðir hans. Hann var með sama föla húðlitinn, hörkulegt andlit og augun voru köld og grá eins og augu Dracos. Herra Malfoy gekk þvert yfir búðargólfið, leit áhugalaus á verslunarvarninginn og hringdi bjöllu á afgreiðsluborðinu áður en hann sneri sér að syni sínum og sagði: „Ekki snerta neitt, Draco.“

Draco hafði teygt sig í gleraugað og sagði: „Ég hélt að þú ætlaðir að kaupa gjöf handa mér.“

„Ég sagðist ætla að gefa þér keppniskúst,“ sagði faðir hans og trommaði með fingrunum á afgreiðsluborðið.

„Ég er ekki í heimavistarliðinu svo að hann er óþarfur,“ sagði Draco fýldur og pirraður. „Harry Potter fékk Nimbus 2000 í fyrra. Hann fékk sérstakt leyfi frá Dumbledore svo hann gæti spilað með Gryffin dorliðinu. Hann er samt ekkert sérlega góður, það er bara af því hann er frægur … frægur fyrir að hafa asnalegt ör á enninu …“

Draco beygði sig niður til að skoða nánar hillu sem var hlaðin höfuðkúpum.

„… öllum finnst hann svo klár, þessi yndislegi Harry Potter með örið sitt og galdrakústinn …“

„Þú hefur sagt mér þetta hundrað sinnum,“ sagði herra Malfoy og hvessti augun á son sinn. „Og ég vil minna þig á að það er ekki – skynsamlegt – að láta í það skína að þú sért ekki hrifinn af Harry Potter þegar flest okkar fólk virðir hann sem hetjuna sem lét hinn Myrka herra hverfa – aha, herra Borgin.“

Lotinn maður stóð nú fyrir aftan afgreiðsluborðið og mjakaði fitugu hárinu frá andlitinu.

„Herra Malfoy, það gleður mig að sjá þig aftur,“ sagði herra Borgin með raddblæ sem var eins olíuborinn og hárið á honum. „Ánægjulegt – og líka ungi meistarinn, Draco – yndislegt. Hvað get ég gert fyrir ykkur? Ég má til með að sýna ykkur, var að koma inn, mjög gott verð …“

„Ég ætla ekki að kaupa neitt í dag, herra Borgin, heldur selja,“ sagði herra Malfoy.

„Selja?“ Brosið dofnaði örlítið á vörum herra Borgins.

„Það hefur auðvitað ekki farið framhjá þér að ráðuneytið er að gera rassíur,“ sagði herra Malfoy, dró rúllu af pergamenti upp úr innri vasa sínum og slétti úr henni fyrir framan herra Borgin. „Ég er með nokkra – humm – hluti heima sem gætu komið sér illa fyrir mig ef ráðuneytið kæmi í heimsókn ...“

Herra Borgin kom lonníettum fyrir á nefinu á sér og renndi augunum yfir listann.

„Ráðuneytið færi þó aldrei að ónáða þig, herra?“ Herra Malfoy geiflaði varirnar.

„Ég hef ekki verið heimsóttur enn. Nafnið Malfoy vekur enn nokkra virðingu en ráðuneytið verður sífellt afskiptasamara. Ég hef heyrt orðróm um að setja eigi ný lög til að vernda Muggana – ég efast ekki um að flóabitni Muggavinurinn og bjáninn hann Arthúr Weasley stendur á bak við það …

“ Harry fann reiðina gjósa upp í sér.

„… og eins og þú skilur gætu sum þessara eiturefna virst …“

„Ég skil, herra, auðvitað,“ sagði herra Borgin. „Látum okkur sjá …“

„Má ég fá þetta?“ gall í Draco og hann benti á skorpnu höndina á púðanum.

„Ó, Sigurhöndin!“ sagði herra Borgin, hætti að hugsa um lista herra Malfoys og hraðaði sér til Dracos. „Ef sett er kerti í greip hennar lýsir hún eigandanum en engum öðrum! Besti vinur þjófa og ræningja! Sonur þinn hefur fágaðan smekk, herra!“

„Ég ætla rétt að vona að sonur minn verði eitthvað annað og meira en þjófur og ræningi, Borgin,“ sagði herra Malfoy kuldalega og herra Borgin flýtti sér að segja: „Þetta var ekki illa meint, herra, þetta var alls ekki illa meint.“

„En ef hann fer ekki að fá betri einkunnir,“ sagði herra Malfoy ískaldri röddu, „gæti sú iðja einmitt verið við hans …“

„Það er ekki mér að kenna,“ svaraði Draco um hæl. „Kennararnir halda allir upp á Hermione Granger …“

„Þú ættir að skammast þín fyrir að stúlka úr Muggafjölskyldu skuli vera hærri en þú á öllum prófum," hreytti herra Malfoy út úr sér.

„Hah!" sagði Harry í hálfum hljóðum og gladdist mjög þegar hann sá að Draco varð bæði sneyptur og reiður.

„Það er alls staðar sama sagan," sagði herra Borgin sinni fitumjúku röddu. „Galdrablóð hefur sífellt minna vægi …"

„Ekki í mínum huga," sagði herra Malfoy og þandi nasavængina.

„Nei, herra minn, ekki heldur í mínum," sagði herra Borgin og hneigði sig djúpt.

„Fyrst svo er, þá ættum við kannski að líta aftur á listann minn," sagði herra Malfoy stuttur í spuna. „Ég er á hálfgerðri hraðferð, Borgin, ég þarf að sinna fleiri mikilvægum erindum í dag …"

Þeir byrjuðu að prútta. Harry fylgdist kvíðinn með Draco sem ráfaði um búðina og skoðaði búðarvarninginn og nálgaðist felustaðinn stöðugt. Hann staldraði við til að handfjatla langa

hengingaról og lesa glottandi á miða sem var hjá stórfenglegu hálsmeni úr skrautsteinum: Varúð: Snertið ekki. Í álagaham – hefur svipt nítján Muggaeigendur lífi.

Draco sneri sér við og sá svarta skápinn beint fyrir framan sig. Hann gekk að honum – hann rétti fram höndina og tók um handfangið –

„Afgreitt," sagði herra Malfoy við búðarborðið. „Komdu, Draco …" Harry þurrkaði sér um ennið með erminni þegar Draco sneri við.

„Vertu sæll, herra Borgin. Ég býst þá við að þú sækir vörurnar á herragarðinn á morgun."

Um leið og dyrnar lokuðust hvarf smeðjulegur svipurinn af andliti Borgins.

„Vertu sæll sjálfur, herra Malfoy, og ef það er satt sem fólk segir, þá er þetta ekki brot af því sem þú felur á herragarðinum þínum …"

Herra Borgin tuldraði fyrir munni sér myrkum rómi og hvarf inn í bakherbergi. Harry beið nokkra stund til öryggis en

smeygði sér svo eins hljóðlega og hann gat út úr skápnum, framhjá glerskápnum og út um búðardyrnar.

Harry bar brotin gleraugun upp að augunum og svipaðist um. Hann hafði lent inni í skuggalegu öngstræti þar sem eingöngu var að finna búðir sem helguðu sig svartagaldursvarningi. Verslunin sem hann hafði heimsótt, Borgin og Burkes, virtist þeirra stærst. En beint á móti blasti við viðbjóðslegur búðargluggi þar sem uppþornuðum hausum var stillt upp, en tveim húsum neðar í götunni stóð stórt búr iðandi af svörtum risakönguló m. Tveir sóðalegir galdramenn fylgdust með honum úr dimmri dyragætt og hvísluðust eitthvað á. Harry lagði hálfskelkaður af stað, reyndi að láta gleraugun tolla á nefinu og telja sér trú um að hann gæti ratað héðan burt.

Á gömlu tréskilti, sem hékk yfir sérverslun með eitruð kerti, stóð skrifað: „Hlykkjasund“. Harry hafði aldrei heyrt þeirrar götu getið svo að það kom að litlum notum. Hann hafði sennilega ekki verið nægilega skýrmæltur þegar hann sagði götunafnið með munninn fullan af ösku í eldstæði Weasleyfjölskyldunnar. Hann reyndi að halda ró sinni og velti fyrir sér hvað hann gæti tekið til bragðs.

„Þú ert þó ekki villtur, litli minn?“ sagði rödd í eyrað á honum svo hann hrökk í kút.

Öldruð norn stóð fyrir framan hann og hélt á bakka með einhverju sem helst líktist heilum fingurnöglum. Hún glotti svo skein í mosavaxnar tennurnar. Harry hörfaði undan.

„Nei, það er allt í lagi með mig, þakka þér fyrir,“ sagði hann. „Ég er bara …“

„Harry! Hvað í áranum ertu eiginlega að gera hérna?“

Hjartað í Harry hoppaði og það gerði nornin líka; hrúga af nöglum hrundi niður á fæturna á henni svo hún stóð sótbölvandi þegar Hagrid, skógarvörðurinn í Hogwartskóla, kom stikandi í öllu sínu veldi og kolsvört augun ofan við mikið og úfið skeggið skutu gneistum.

„Hagrid!“ stundi Harry af feginleika. „Ég villtist … flugduftið …“

Hagrid greip í hnakkadrambið á Harry og kippti honum frá norninni og sló um leið bakkann úr höndunum á henni. Skrækirnir í henni fylgdu þeim alla leið eftir hlykkjóttu

strætinu og út í skjannabjart sólskinið. Harry kom auga á kunnuglega, snjóhvíta marmarabyggingu í fjarska – Gringottbankann. Hagrid hafði leitt hann beint inn á Skástræti.

„Þú ert drulluskítugur,“ sagði Hagrid höstuglega og dustaði sótið svo kröftuglega að engu munaði að hann bankaði Harry ofan í tunnu fulla af drekaskít sem stóð fyrir utan apótekið. „Hvað á það að þýða að þvælast um í Hlykkjasundi … það er vafasamur staður, Harry … þú mátt ekki láta sjá þig þar …“

„Ég er búinn að komast að því,“ sagði Harry og skaut sér undan þegar Hagrid gerði sig líklegan til að halda áfram að berja af honum sótið. „Ég sagði þér að ég hefði villst – hvað varst þú þá að gera þarna?“

„Ég var að leita að fælu fyrir kjötætusnigla,“ drundi í Hagrid. „Þeir eru að eyðileggja allt kálið í matjurtagarðinum. Ertu einn?“

„Ég bý hjá Weasleyfjölskyldunni núna, en við urðum viðskila,“ útskýrði Harry. „Ég verð að finna þau …“

Þeir gengu saman af stað niður Skástræti.

„Af hverju svaraðirðu aldrei bréfunum frá mér?“ sagði Hagrid við Harry sem skokkaði við hlið hans (Harry tók þrjú skref fyrir hvert risaskref sem Hagrid tók á tröllastígvélunum). Harry sagði honum frá Dobby og Dursleyhjónunum.

„Fjárans Muggarnir,“ hvæsti Hagrid. „Hefði ég vitað þetta …“

„Harry! Harry! Ég er hérna!“ Harry leit upp og sá Hermione standa efst í hvítu tröppunum á Gringottbankanum. Hún hljóp til þeirra og þykkur, brúnn hármakkinn stóð aftur af henni.

„Hvað kom fyrir gleraugun þín? Hæ, Hagrid – ó, það er frábært að sjá ykkur aftur – ertu að fara í bankann, Harry?“

„Um leið og ég hef fundið Weasleyfjölskylduna,“ sagði Harry.

„Þú þarft ekki að bíða lengi eftir því,“ sagði Hagrid og glotti. Harry og Hermione litu við: Ron, Fred, George, Percy og herra Weasley komu á harðahlaupum í gegnum mannþröngina á götunni.

„Harry,“ másaði herra Weasley. „Við vorum að vona að þú hefðir bara farið einu eldstæði of langt …“ Hann þerraði

gljáandi skallann. „Molly er alveg dauðhrædd … þarna kemur hún …“ „Hvar lentirðu?“ spurði Ron.

„Í Hlykkjasundi,“ sagði Hagrid hörkulega.

„Ótrúlegt!“ sögðu Fred og George báðir í kór.

„Við höfum aldrei fengið að fara þangað,“ sagði Ron og það gætti öfundar í röddinni.

„Það er eins gott,“ urraði Hagrid.

Frú Weasley birtist á harðastökki, handtaskan sveiflaðist í annarri hendinni og Ginny hélt sér dauðahaldi í hina.

„Ó, Harry – elskan mín – þú hefðir getað lent hvar sem var …“

Hún stóð á öndinni af mæði en dró stóran fatabursta upp úr töskunni og fór að dusta leifarnar af sótinu af Harry. Herra Weasley tók gleraugun hans, sló létt á þau með sprotanum sínum og rétti honum þau aftur, eins og ný.

„Jæja, verð að drífa mig,“ sagði Hagrid um leið og frú Weasley kreisti á honum höndina. („Hlykkjasund! Ef þú hefðir

nú ekki fundið hann, Hagrid!“) „Sjáumst í skólanum!“ Svo skálmaði hann á brott, og bar höfuð og herðar yfir alla í mannþrönginni.

„Hverja haldið þið að ég hafi séð í búðinni?“ sagði Harry við Ron og Hermione um leið og þau gengu upp þrepin á Gringottbanka. „Draco og pabba hans.“

„Keypti Lucius Malfoy eitthvað?“ spurði herra Weasley hvasst fyrir aftan þau.

„Nei, hann var að selja …“

„Nú, hann er þá áhyggjufullur,“ sagði herra Weasley með illkvittnislegri velþóknun. „Ó, hvað ég vildi koma upp um Lucius …“

„Farðu varlega, Arthúr,“ sagði frú Weasley hvasst um leið og þeim var vísað inn í bankann af bugtandi svartálfi. „Vandræði þeirrar fjölskyldu, gleyptu nú ekki stærri bita en þú getur kyngt.“

„Þú heldur kannski að ég sé ekki jafnoki Luciusar Malfoy?“ sagði herra Weasley hálfspældur en gleymdi sér strax því

hann kom auga á foreldra Hermione. Þau stóðu taugaóstyrk við afgreiðsluborðið sem náði þvert yfir hvítan marmarasalinn og biðu eftir því að Hermione kynnti þau.

„En þið eruð Muggar!“ sagði herra Weasley ánægjulega. „Við verðum að fá okkur í glas saman! Hvað eruð þið með þarna? Ó, þið eruð að skipta Muggapeningum. Molly, sjáðu!“ Hann benti spenntur á tíu punda seðlana í hendi herra Grangers.

„Við sjáumst hérna á eftir,“ sagði Ron við Hermione þegar Harry og Weasleyfjölskyldan voru leidd af stað niður í neðanjarðarfjárhirslurnar. Að fjárhirslunum í neðanjarðargöngunum lágu örmjóir brautar teinar sem svartálfar fóru um á pínulitlum vögnum. Harry naut háskalegrar ökuferðarinnar en varð alveg miður sín, meira miður sín en í Hlykkjasundi, þegar fjárhirslu Weasleyfjölskyldunnar var lokið upp. Inni í henni var lítil hrúga af silfursikkum og aðeins eitt gullgalleon. Frú Weasley þreifaði vandlega út í öll horn áður en hún sópaði allri hrúgunni ofan í töskuna sína. Harry leið enn verr þegar þau komu að fjárhirslunni hans. Hann reyndi að koma í veg fyrir að þau sæju inn í hirsluna og skóflaði í flýti handfylli af mynt ofan í leðurtuðru.

Þegar þau komu aftur út á marmaraþrepin skildust leiðir. Percy muldraði eitthvað um að hann vantaði nýjan fjaðurstaf. Fred og George höfðu komið auga á Lee Jordan sem var vinur þeirra úr skólanum. Frú Weasley og Ginny ætluðu í búð sem seldi notaðar skikkjur. Herra Weasley vildi endilega bjóða Grangerhjónunum upp á drykk á Leka seiðpottinum.

„Við skulum hittast í Flourish & Blotts eftir klukkutíma til að kaupa skólabækurnar," sagði frú Weasley og hélt af stað með Ginny. „Og þið stígið ekki fæti inn í Hlykkjasund!" kallaði hún á eftir tvíburunum.

Harry, Ron og Hermione röltu af stað eftir hlykkjóttu, steinlögðu strætinu. Í leðurtuðru Harrys glamraði glaðlega hálfgerður eyðslusöngur í gulli, silfri og bronsi svo hann keypti þrjá stóra íspinna með jarðarberja- og hnetusmjörsbragði. Þau sleiktu ísinn sæl á göngu sinni upp eftir götunni og skoðuðu stórfenglega búðargluggana. Ron starði löngunaraugum á glæsilegar liðsskikkjur Chudleyrakettnanna í glugganum á verslun sem nefndist Quidditchgæðavörur þar til Hermione dró þá í burt til að kaupa blek og pergament í næstu búð. Þau hittu Fred, George og Lee Jordan í Grín- og glensvöruverslun fyrir galdramenn þar sem þeir voru í óðaönn að birgja sig upp af hinum

mögnuðu flugeldum Doktors Filibusters (enginn hiti og enginn þráður) og í lítilli skranbúð sem var full af brotnum töfrasprotum, skökkum látúnsvogum og gömlum skikkjum fundu þau Percy niður sokk inn í litla og afar leiðinlega bók sem nefndist Umsjónarmenn sem komist hafa til valda.

„Athugun á umsjónarmönnum Hogwartskóla og starfsferli þeirra,“ las Ron upphátt af baksíðunni. „Þetta virðist stórfenglegt …“ „Farðu,“ hreytti Percy út úr sér.

„Auðvitað, hann er mjög metnaðargjarn, Percy, þetta er allt þaulhugsað hjá honum … Hann langar að verða galdramálaráðherra …“ hvíslaði Ron að Harry og Hermione þegar þau yfirgáfu Percy.

Klukkustund síðar tóku þau stefnuna á Flourish & Blotts. Þau voru langt frá því að vera þau einu á leið í bókabúðina. Þegar þau nálguðust sáu þau sér til mikillar undrunar að fjölmargt fólk tróðst og stimpaðist fyrir utan og reyndi að komast inn. Ástæðuna fyrir þessu mátti lesa á stórum borða sem strengdur var yfir búðargluggana:

GILDEROY LOCKHART

mun árita eintök af sjálfsævisögu sinni

Hinn göldrum líki Gilderoy

í dag frá klukkan 12:30–16:30.

„Við fáum að sjá hann með eigin augum!“ skrækti Hermione. „Ég meina, hann skrifaði eiginlega allar bækurnar á bókalistanum!“

Í hópnum fyrir utan búðina virtust nær eingöngu vera nornir á aldur við frú Weasley. Í dyrunum stóð skelkaður galdramaður sem sagði: „Rólegar, dömur mínar … ekki troðast … passið bækurnar …“

Harry, Ron og Hermione þröngvuðu sér inn fyrir. Löng röð hlykkjaðist út í hinn enda búðarinnar þar sem Gilderoy Lockhart áritaði bækurnar sínar. Þau gripu hvert sitt eintakið af Trítlað með tröllum og laumuðu sér í röðina þar sem hinir meðlimir Weasleyfjölskyldunnar stóðu ásamt Grangerhjónunum.

„Jæja, þarna eruð þið, það var fínt,“ sagði frú Weasley. Hún var dálítið andstutt og lagaði í sífellu á sér hárið. „Bráðum sjáum við hann …“

Gilderoy Lockhart sat við borð umkringdur myndum af sjálfum sér sem allar blikkuðu mannfjöldann og brostu svo glampaði á skjannahvítar tennurnar. Lockhart sjálfur bar gleym-mér-ei-bláa skikkju sem passaði fullkomlega við augun; uppmjór galdrahatturinn sat skáhallt á liðuðu hárinu.

Lítill og skapvondur maður hoppaði um og tók myndir á stóra, svarta myndavél svo fjólubláir reykjarbólstrar stóðu upp af henni og blindandi leiftur lýstu upp salinn.

„Færðu þig frá,“ urraði hann á Ron og bakkaði til að ná betri mynd.

„Ég er frá Spámannstíðindum …“

„Og hvað með það?“ sagði Ron og nuddaði fótinn sem ljósmyndarinn hafði stigið ofan á.

Gilderoy Lockhart heyrði til hans. Hann leit upp. Hann sá Ron – og svo sá hann Harry. Hann glápti. Því næst stökk hann á fætur og hrópaði upp yfir sig: „Þetta er þó ekki Harry Potter!“

Mannfjöldinn tvístraðist og hvískraði spenntur; Lockhart stakksér fram á við, greip í handlegginn á Harry og dró hann til sín. Allir klöppuðu. Harry stokkroðnaði þegar Lockhart tók í höndina á honum fyrir ljósmyndarann sem smellti af eins og óður væri svo að þykkur reykur lagðist yfir Weasleyfjölskylduna.

„Brostu breitt, Harry,“ sagði Lockhart í gegnum skínandi tennurnar. „Saman erum við forsíðunnar virði.“

Harry var orðinn dofinn í fingrunum þegar Lockhart sleppti loks takinu á hönd hans. Hann reyndi að laumast aftur til Weasleyfjölskyldunnar en Lockhart slengdi handleggnum utan um hann og dró hann fast upp að sér.

„Dömur mínar og herrar,“ sagði hann hárri röddu og gaf handarmerki um hljóð. „Þetta er stórbrotin stund! Þetta er hin fullkomna stund til að gefa út löngu tímabæra yfirlýsingu! Þegar Harry litli Potter gekk inn í þessa búð í dag langaði hann bara að kaupa sjálfsævisögu mína – sem ég færi honum

með mikilli ánægju, ókeypis …“ Mannfjöldinn fagnaði aftur. „Hann hafði ekki hugmynd um,“ hélt Lockhart áfram og kreisti Harry svo að gleraugun runnu fram á nefbroddinn á honum, „að fljótlega fengi hann svo miklu, miklu meira en bara bókina mína, Hinn göldrum líki Gilderoy. Hann og skólafélagar hans munu raunar fá hinn eina sanna göldrum líka Gilderoy. Já, dömur mínar og herrar, það er mér heiður að tilkynna að í september mun ég taka við stöðu kennara í vörnum gegn myrku öflunum í Hogwart – skóla galdra og seiða!“

Mannfjöldinn blístraði og klappaði. Áður en Harry vissi af hafði Gilderoy gefið honum heildarútgáfu bóka sinna. Hann riðaði dálítið undan þyngdinni en tókst að láta sig hverfa úr sviðsljósinu og út í enda búðarinnar þar sem Ginny stóð við hliðina á nýja seiðpottinum sínum.

„Eigðu þær,“ muldraði hann og lét bækurnar detta ofan í seiðpottinn. „Ég kaupi mínar eigin …“

„Þetta var eitthvað fyrir þig, Harry!“ sagði rödd sem Harry átti ekki í neinum erfiðleikum með að þekkja aftur. Hann rétti úr sér og stóð þá augliti til auglitis við Draco Malfoy sem hafði sett upp sitt vanalega hæðnisglott.

„Hinn frægi Harry Potter,“ sagði Draco. „Getur ekki einu sinni farið í bókabúð öðruvísi en að lenda á forsíðu.“

„Láttu hann í friði, hann bað ekki um þetta!“ sagði Ginny. Þetta var í fyrsta skipti sem hún talaði fyrir framan Harry. Hún hvessti augun á Draco.

„Þú ert bara búinn að ná þér í kærustu, Harry!“ drafaði Draco. Ginny varð kafrjóð. Ron og Hermione brutu sér leið til þeirra með fangið fullt af bókunum hans Lockharts.

„Ó, ert þetta þú,“ sagði Ron og leit á Draco eins og hann væri einhver viðbjóður undir skósólanum hans. „Þú ert líklega hissa á að sjá Harry hérna, ha?“

„Ekki jafn hissa og á að sjá þig inni í verslun, Weasley,“ svaraði Draco um hæl. „Foreldrar þínir hljóta að þurfa að svelta sig í mánuð til að geta borgað fyrir allt dótið.“

Ron varð jafn rauður og Ginny. Hann lét bækurnar líka detta ofan í seiðpottinn og gekk ógnandi til Dracos. Harry og Hermione flýttu sér að grípa í jakkann hans.

„Ron!“ sagði herra Weasley sem smeygði sér áfram með Fred og George á hælunum. „Hvað gengur á? Það er allt að verða vitlaust hérna, komum okkur út.“

„Nei, nei, nei – Arthúr Weasley.“

Þetta var herra Malfoy. Hann stóð með handlegginn um herðar Dracos, hæðnissvipurinn sá sami.

„Lucius,“ sagði herra Weasley og kinkaði kuldalega kolli.

„Ég frétti að það væri mikið að gera í ráðuneytinu,“ sagði herra Malfoy. „Allar þessar rassíur … ég vona að þeir borgi þér yfirvinnu?“

Hann teygði sig ofan í pottinn hennar Ginnyar og upp úr hrúgu af glansandi bókum Lockharts veiddi hann mjög gamalt og mjög velkt eintak af Leiðarvísi í ummyndun fyrir byrjendur.

„Greinilega ekki,“ sagði herra Malfoy. „Hamingjan sanna, til hvers að ata nafn galdramanns auri ef ekki er greitt almennilega fyrir það?“ Herra Weasley varð enn rauðari en bæði Ron og Ginny.

„Við höfum mjög ólíkar skoðanir á því hvað saurgar nafn galdramanns, Malfoy,“ sagði hann.

„Augljóslega,“ sagði herra Malfoy og gaut augunum á Grangerhjónin sem stóðu og fylgdust kvíðin með. „Félagsskapurinn sem þú velur þér, Weasley … og ég sem hélt að fjölskyldan þín gæti ekki sokkið dýpra …“

Það heyrðist málmkenndur dynkur þegar seiðpottur Ginnyar hófst á loft; herra Weasley hafði kastað sér á herra Malfoy svo hann féll aftur fyrir sig á bókahillu. Þungar galdrabækur hrundu ofan á þá; Fred og George æptu: „Áfram pabbi!“; frú Weasley æpti: „Nei, Arthúr, nei!“; þyrpingin hörfaði aftur á bak og felldi enn fleiri bókahillur. „Herrar mínir, viljið þið gjöra svo vel!“ kallaði búðarmaðurinn en svo heyrðist þrumuraust sem yfirgnæfði allt –

„Hættið þessu, svona, hættið þessu …“

Hagrid kom askvaðandi til þeirra í gegnum hafsjó af bókum. Í einni svipan hafði hann skilið herra Weasley og herra Malfoy í sundur. Herra Weasley var með sprungna vör og herra Malfoy hafði fengið Alfræðiorðabók hattsveppa í augað. Hann hélt

enn á gömlu ummyndunarbókinni hennar Ginnyar í hendinni. Hann skellti henni í fang hennar, illskan logaði í augunum.

„Hérna, stelpa – taktu bókina þína – þetta er greinilega það skásta sem faðir þinn getur gefið þér …“

Hann sleit sig úr hendi Hagrids, gaf Draco bendingu og geystist út úr búðinni.

„Þú hefðir átt að láta eins og þú sæir hann ekki, Arthúr,“ sagði Hagrid og hóf herra Weasley næstum á loft um leið og hann sléttaði úr skikkjunni hans. „Öll fjölskyldan er rotin í gegn, það vita það allir – maður á ekki að hlusta á hann. Illt blóð, annað er ekki hægt að segja – komdu nú – förum héðan.“

Af svipnum á búðarmanninum að dæma virtist hann helst vilja meina þeim útgöngu en hugsaði sig greinilega tvisvar um þar sem hann náði Hagrid varla í mitti. Þau flýttu sér upp götuna, Grangerhjónin skjálfandi af ótta og frú Weasley logaði af reiði.

„Þetta var aldeilis gott fordæmi sem þú gafst börnunum … slást á almannafæri … ég veit ekki hvað Gilderoy Lockhart hefur haldið …“

„Hann var ánægður,“ sagði Fred. „Heyrðirðu ekki hvað hann sagði þegar við gengum út? Hann var að spyrja náungann frá Spámannstíðindum hvort hann gæti komið slagsmálunum inn í greinina – hann sagði að þetta væri góð auglýsing …“

En það var niðurlútur hópur sem hélt til eldstæðisins á Leka seið pottinum en þaðan ætluðu Weasleyfjölskyldan og Harry með allan varni nginn aftur heim í Hreysið með hjálp flugduftsins. Þau kvöddu Grangerfjölskylduna sem ætlaði í gegnum Leka seiðpottinn út á Mugga götuna fyrir framan krána. Herra Weasley tók að spyrja hvernig biðstöðvar strætisvagna virkuðu en þagnaði snögglega þegar hann sá svipinn á andliti frú Weasley.

Harry tók af sér gleraugun og stakk þeim djúpt ofan í vasann áður en hann náði sér í handfylli af flugdufti. Þetta var víst áreiðanlega ekki uppáhaldsferðamátinn hans.

# Fimmti kafli

# Eikin armalanga

Harry fannst sumarleyfinu ljúka allt of fljótt. Hann hlakkaði til að fara aftur í Hogwartskólann en hann hafði aldrei verið hamingjusamari en þennan mánuð í Hreysinu. Hann þurfti að herða sig upp til að fara ekki að öfunda Ron þegar honum varð hugsað til Dursleyfjölskyldunnar og um þær móttökur sem hann gæti átt von á næst þegar hann birtist á Runnaflöt.

Síðasta kvöldið þeirra töfraði frú Weasley fram mikilfenglega kvöld máltíð, hún bar fram alla uppáhaldsrétti Harrys og setti punktinn yfir i-ið með girnilegum sírópsbúðingi.

Fred og George fullkomnuðu kvöldið með Filibusterflugeldasýningu, sem fyllti eldhúsið af rauðum og bláum stjörnum sem þutu milli lofts og veggja í að minnsta kosti hálfa klukkustund.

Þá var komið að síðasta kakóbollanum áður en þau lögðust til hvílu. Þau voru lengi að koma sér af stað næsta morgun. Þau voru komin á fætur við fyrsta hanagal en af einhverjum ástæðum virtist vera í nógu að snúast. Frú Weasley flengdist um húsið í vondu skapi og leitaði að aukasokkum og fjaðurstöfum. Hver rakst á annan í stiganum, allir hálfklæddir, með hálfétnar ristaðar brauðsneiðar í höndunum og herra Weasley var nærri búinn að hálsbrjóta sig þegar hann hrasaði um rammvillta hænu þegar hann þaut yfir húsagarðinn að bílnum með koffort Ginnyar í fanginu.

Harry gat ekki skilið hvernig átta manns, sex stór koffort, tvær uglur og rotta ættu að komast fyrir í einum litlum Ford Anglia. En það var auðvitað áður en hann áttaði sig á því að herra Weasley hafði gætt bílinn sérstökum eiginleikum.

„Ekki segja Molly,“ hvíslaði hann að Harry um leið og hann opnaði skottið og sýndi honum hvernig það hafði á undraverðan hátt þanist út svo að farangurinn komst nú auðveldlega fyrir.

Seint og um síðir sátu þau öll í bílnum. Frú Weasley leit aftur í – þar sem Harry, Ron, Fred, George og Percy sátu í mestu

makindum hlið við hlið – og sagði: „Muggunum er nú ekki alls varnað – eða hvað?“

Þær Ginny settust í framsætið sem hafði verið breikkað svo nú líktist það helst bekk í almenningsgarði – „Ég meina, manni dytti aldrei í hug að bíllinn væri svona rúmgóður utan frá séð, er það nokkuð?“

Herra Weasley ræsti bílinn og þau renndu úr hlaði.

Harry sneri sér við til að líta húsið í síðasta sinn. Hann hafði varla komist svo langt að velta því fyrir sér hvenær hann sæi það aftur þegar þau voru komin til baka – George hafði gleymt kassanum með Filibusterflugeldunum. Fimm mínútum síðar renndu þau enn á ný inn heimreiðina svo Fred gæti hlaupið inn eftir töfrasprotanum sínum. Þau voru næstum komin upp á hraðbrautina þegar Ginny æpti að hún hefði gleymt dagbókinni sinni. Þegar hún var komin aftur inn í bílinn voru þau orðin alltof sein og allir orðnir heldur skapstirðir.

Herra Weasley leit á úrið sitt og svo á konuna sína: „Molly mín …“ „Nei, Arthúr …“

„Það tæki enginn eftir því. Þessi litli huliðshnappur sem ég er bú inn að koma fyrir hérna sendir okkur upp í loftið – og síðan fljúgum við ofar skýjum. Við yrðum komin eftir tíu mínútur og engan myndi gruna neitt.“

„Ég sagði nei, Arthúr – ekki um hábjartan dag …“

Þau voru komin á King’s Cross brautarstöðina þegar klukkuna vantaði korter í ellefu. Herra Weasley þeyttist yfir götuna til að ná í kerru undir koffortin þeirra og þau hröðuðu sér inn á stöðina.

Harry hafði tekið Hogwarthraðlestina árið áður. Erfiðast var að komast á brautarpall níu og þrjá fjórðu, sem var Muggunum ósýnilegur. Maður varð að ganga í gegnum sterkbyggðan vegg sem skildi að brautarpall númer níu og tíu. Það var sársaukalaust en varð að gerast mjög gætilega svo að Muggarnir sæju mann ekki hverfa.

„Percy fer fyrstur,“ sagði frú Weasley og horfði áhyggjufull á klukkuna fyrir ofan þau, sem sýndi að þau hefðu aðeins fimm mínútur til að láta sig hverfa kæruleysislega í gegnum vegginn.

Percy gekk rösklega áfram og hvarf, herra Weasley fór næstur, Fred og George komu þar á eftir.

„Ég tek Ginny með mér og þið tveir komið á hæla okkur,“ sagði frú Weasley við Ron og Harry, greip í höndina á Ginny og lagði af stað. Á augabragði voru þær horfnar.

„Við skulum fara saman, við höfum bara eina mínútu,“ sagði Ron við Harry.

Harry fullvissaði sig um að búr Hedwigar væri örugglega skorðað ofan á koffortinu og ýtti kerrunni sinni að veggnum. Hann var hvergi banginn; þetta var ekki nærri því eins óþægilegt og að nota flugduftið. Þeir hölluðu sér báðir yfir handföngin á kerrunum sínum, gengu einbeittir í áttina að veggnum og greikkuðu sporið. Þegar þeir áttu nokkra metra ófarna að veggnum tóku þeir á rás og …

KRASS …

Báðar kerrurnar rákust á vegginn og köstuðust aftur á bak. Koffort Rons hrundi með háum skelli og Harry datt kylliflatur. Búrið hennar Hedwigar kastaðist á gljáfægt gólfið og hún

rúllaði af stað og skrækti sármóðguð. Fólk í kring starði á þá og nærstaddur vörður kallaði:

„Hvað í ósköpunum þykist þið vera að gera?“

„Missti stjórn á kerrunni,“ stundi Harry og hélt um síðuna um leið og hann stóð á fætur. Ron hljóp af stað til að ná í Hedwig, sem varð alveg vitlaus svo að fólk hópaðist í kringum þá og fór að tauta eitthvað um slæma meðferð á dýrum.

„Af hverju komumst við ekki í gegn?“ hvæsti Harry að Ron.

„Veit ekki …“

Ron horfði æstur í kringum sig. Hópur af forvitnu fólki fylgdist enn með þeim.

„Við missum af lestinni,“ hvíslaði Ron. „Ég skil ekki af hverju hliðið innsiglaðist af sjálfu sér.“

Harry leit upp á risastóra klukkuna og fékk hnút í magann. Tíu sekúndur … níu sekúndur …

Hann mjakaði kerrunni sinni varlega áfram þar til hún nam alveg við vegginn og ýtti svo af öllum kröftum. Veggurinn bifaðist ekki.

Þrjár sekúndur … tvær sekúndur … ein sekúnda.

„Hún er farin,“ sagði Ron agndofa. „Lestin er farin. Hvað ef pabbi og mamma komast ekki til baka til okkar? Ertu með einhverja Muggapeninga?“

Harry hló hljómlaust. „Dursleyfjölskyldan hefur ekki látið mig hafa vasapeninga í um það bil sex ár.“

Ron þrýsti eyranu að köldum veggnum.

„Ég heyri ekkert,“ sagði hann kvíðinn. „Hvað eigum við að gera? Ég veit ekki hvað það tekur pabba og mömmu langan tíma að komast aftur til okkar.“

Þeir lituðust um. Fólk gaf þeim enn auga, aðallega vegna þess að Hedwig skrækti án afláts.

„Ég held að við ættum að fara og bíða við bílinn,“ sagði Harry. „Við vekjum of mikla athygl …“

„Harry!“ sagði Ron og augun ljómuðu. „Bíllinn!“

„Hvað með hann?“

„Við getum flogið á bílnum í skólann!“

„En ég hélt …“

„Við erum strand, er það ekki? Og verðum við ekki að komast í skólann? Jafnvel galdramönnum undir aldri leyfist að nota galdra í algerri neyð – nítjánda grein eða eitthvað í reglum um takmörkun á einhverju …“

Harry fann hvernig kvíðinn vék fyrir tilhlökkun.

„Kannt þú að fljúga honum?“

„Ekkert mál,“ sagði Ron og sneri kerrunni sinni í átt að útganginum. „Komdu, við skulum drífa okkur. Ef við flýtum okkur getum við elt Hogwartlestina …“

Og þeir örkuðu af stað, í gegnum hóp af forvitnum Muggum, út úr lestarstöðinni og inn í hliðargötuna þar sem gamla Ford Angliabílnum hafði verið lagt.

Ron opnaði gríðarstórt farangursrýmið með nokkrum léttum höggum með töfrasprotanum sínum. Þeir settu farangurinn í skottið, Hedwig í aftursætið og fóru sjálfir frammí.

„Gáðu hvort einhver er að horfa á okkur," sagði Ron og ræsti bílinn með nýrri töfrasprotasveiflu. Harry rak höfuðið út um gluggann, um ferðin var þung á aðalbrautinni en enginn átti leið um götuna þeirra.

„Allt í lagi," sagði hann.

Ron þrýsti á lítinn silfurhnapp í mælaborðinu. Bíllinn hvarf – og þeir líka. Harry fann titring í sætinu, heyrði í vélinni, fann fyrir höndunum á hnjánum og gleraugunum á nefinu, en hann gat ekki betur séð en hann væri bara augu á flugi yfir óhrjálegri götu þar sem bílum var lagt á báðar hendur.

„Þá leggjum við í'ann," sagði rödd Rons hægra megin við hann.

Og jörðin og skítugar byggingarnar fjarlægðust, hurfu sjónum þegar bíllinn hækkaði sig. Örstuttu síðar var London í reykmettaðri ljósadýrð fyrir neðan þá.

Þá heyrðist smellur og bíllinn, Harry og Ron birtust á ný.

„Æ, æ,“ sagði Ron og ýtti á huliðshnappinn. „Hann er bilaður.“

Þeir hömuðust báðir á hnappnum. Bíllinn hvarf. Síðan birtist hann aftur eins og flöktandi ljós.

„Haltu þér!“ kallaði Ron og skellti fætinum á bensíngjöfina svo þeir skutust beint inn í bómullarskýin og allt varð litlaust og þokuslungið.

„Hvað nú?“ spurði Harry og pírði augun þegar hann sá þétt skýja þykknið þrengja að þeim á alla vegu.

„Við verðum að sjá lestina til að vita í hvaða átt við eigumað fara,“ sagði Ron.

„Dýfðu þér aftur – fljótur …“

Þeir þutu aftur niður gegnum skýin og skimuðu í allar áttir niður á jörðina.

„Ég sé hana!“ æpti Harry. „Beint fram undan – þarna!“ Hogwarthraðlestin brunaði áfram fyrir neðan þá eins og skarlats rauður ormur. „Beint í norður,“ sagði Ron og leit á áttavitann í mælaborðinu.

„Allt í lagi, við verðum bara að gá að henni á svona hálftíma fresti – haltu þér –“ Og þeir skutust upp gegnum skýin. Andartaki síðar voru þeir baðaðir skæru sólarljósi.

Þetta var annar heimur. Bílhjólin sleiktu skýjahnoðrana og yfir þeim og allt um kring var skjannabjört sólin og óravíður himinbláminn.

„Við þurfum bara að hafa áhyggjur af flugvélum núna,“ sagði Ron.

Þeir litu hvor á annan og fóru að hlæja og ætluðu aldrei að geta hætt.

Það var eins og þeim hefði verið varpað inn í stórkostlegan draum.

Svona átti sko að ferðast, hugsaði Harry; yfir snjóhvíta skýjatoppa, í bíl sem var fullur af hlýju, björtu sólskini, með troðfulla poka af karamellum í hanskahólfinu og eiga í vændum að sjá öfundarsvipinn á Fred og George þegar þeir lentu mjúklega og virðulega á sléttri grasflötinni fyrir framan Hogwartkastala.

Þeir athuguðu ferðir lestarinnar við og við á leið sinni í norður, í hverri dýfu niður úr skýjunum hafði landslagið tekið breytingum. London var þegar langt að baki, í staðinn tóku við snyrtilegir, grænir akrar og rauðleitar mýrar, lítil þorp með örsmáum þorpskirkjum, stórborg með brunandi bílum sem voru eins og litríkir maurar.

Harry varð samt sem áður að viðurkenna nokkrum tíðindalausum klukkutímum síðar að honum var farið að leiðast. Þeir voru orðnir ofboðslega þyrstir af karamelluátinu og áttu ekkert að drekka. Þeir Ron höfðu farið úr peysunum, en bolurinn hans Harrys límdist við sætisbakið og gleraugun runnu alltaf fram á sveitt nefið. Hann var hættur að taka eftir fallegri lögun skýjanna og farið að langa til að komast í lestina mörgum kílómetrum fyrir neðan þar sem hægt var að kaupa ískaldan graskerjasafa úr söluvagni sem bústin norn dró. Af

hverju höfðu þeir ekki komist inn á brautarpall níu og þrjá fjórðu?

„Við hljótum að fara að verða komnir," stundi Ron, mörgum klukkustundum síðar þegar sólin var að hníga ofan í skýjabreiðuna og léði henni ljósrauðan blæ. „Eigum við að kíkja aftur á lestina?"

Hún var enn beint fyrir neðan þá, hlykkjaðist leiðar sinnar framhjá fjalli með snæviþöktum tindum. Það var mun meira myrkur undir skýjahvelfingunni.

Ron steig á bensínið og keyrði þá upp aftur, en um leið byrjaði vélin að stynja.

Harry og Ron litu taugaóstyrkir hvor á annan.

„Hann er sennilega bara orðinn þreyttur," sagði Ron. „Hann hefur aldrei farið svona langt fyrr."

Þeir þóttust hvorugur taka eftir því að vélarýlfrið varð æ háværara og það dimmdi stöðugt í lofti. Stjörnur tindruðu í svartnættinu. Harry fór aftur í peysuna og reyndi að láta sem

hann sæi ekki hvernig rúðuþurrkurnar gengu dauflega eins og í mótmælaskyni.

„Ekki langt eftir,“ sagði Ron, frekar við bílinn en Harry. „Ekki svo langt eftir,“ og hann klappaði órólegur á mælaborðið.

Þegar þeir flugu aftur neðar skýjum stuttu síðar urðu þeir að rýna í gegnum myrkrið eftir kunnuglegum kennileitum.

„Þarna!“ kallaði Harry svo að Ron og Hedwig hrukku í kút. „Beint fram undan!“

Hátt uppi á kletti fyrir ofan vatnið reis Hogwartkastali með turnum og virkisveggjum eins og skuggamynd við dökkan sjóndeildarhringinn.

En bíllinn var farinn að skjálfa og missa ferðina.

„Svona nú,“ sagði Ron lokkandi og danglaði létt í stýrið. „Við erum að verða komnir – áfram nú.“

Vélin emjaði. Mjóir gufustrókar liðuðust undan vélarlokinu. Harry greip ósjálfrátt krampataki um sætisbrúnina báðum höndum þegar þeir stefndu að vatninu.

Bíllinn nötraði. Út um gluggann sá Harry mjúkt, svart og spegilslétt yfirborð vatnsins rétt fyrir neðan. Ron kreppti hnefana utanum stýrið svo hnúarnir hvítnuðu. Bíllinn hristist og skalf.

„Áfram með þig," muldraði Ron.

Þeir voru yfir vatninu – kastalinn var beint fram undan – Ron steig á bensíngjöfina.

Þá heyrðist hár dynkur, fruss og vélin gaf algjörlega upp öndina.

„Ó, nei," hrópaði Ron inn í þögnina.

Bíllinn stakkst með nefið niður. Þeir hröpuðu, flughraðinn jókst og þeir stefndu beint á kastalavegginn.

„Neeeeeeeeeeeiii!" æpti Ron og sneri stýrinu. Þeir sluppu með naumindum framhjá dökkum steinveggnum þegar bíllinn tók stóran sveig og sveif hátt yfir myrkvuðum gróðurhúsunum, yfir grænmetisgarðinn, yfir dimmsvartar grasflatirnar og alltaf lækkaði hann flugið.

Ron sleppti alveg takinu á stýrinu og dró töfrasprotann sinn upp úr rassvasanum –

„Stopp! Stopp!“ æpti hann og sló fast í mælaborðið og framrúðuna, en þeir steyptust áfram niður og jörðin kom fljúgandi á móti þeim –

„Varaðu þig á trénu!“ öskraði Harry um leið og hann kastaði sér á stýrið – en of seint.

KRASS!

Með ærandi hvelli skullu þeir á gildum trjábol og féllu á jörðina með þungum dynk. Gufustrókur stóð undan beyglaðri vélarhlífinni; Hedwig skrækti af skelfingu; Harry hafði rekið sig í framrúðuna og kúla á stærð við tennisbolta var að myndast á enni hans. Hægra megin við hann heyrðist Ron gefa frá sér lága, örvæntingarfulla stunu. „Er allt í lagi með þig?“ spurði Harry óttasleginn.

„Töfrasprotinn minn,“ sagði Ron titrandi röddu. „Sjáðu töfrasprotann minn …“

Hann hafði brotnað – næstum í tvennt. Oddurinn hékk máttleysislega á nokkrum flísum.

Harry opnaði munninn og ætlaði að fara að segja að hann væri viss um að hægt væri að laga hann í skólanum en hann komst ekki lengra. Í sömu andrá slóst eitthvað utan í bílinn farþegamegin af slíku ofurafli að hann kastaðist til hliðar og lenti á Ron og um leið kom annað jafnþungt högg á þakið.

„Hvað er að ger …?“

Ron greip andann á lofti og starði út um framrúðuna og Harry sneri sér við um leið og trjágrein á stærð við kyrkislöngu lamdi í rúðuna. Tréð sem þeir höfðu rekist á réðst á þá. Trjábolurinn sveigðist næstum niður að jörð og kræklóttar greinarnar börðu allan bílinn að utan.

„Áááááá!“ sagði Ron þegar enn ein kræklótt trjágrein kramdi bílinn allan í örmum sínum. Framrúðan titraði undan stöðugum höggum frá hnúðóttum kvistum og trjágrein á stærð við múrbrjót barði af mikilli heift á þakið sem virtist vera að leggjast saman –

„Forðaðu þér!“ hrópaði Ron og fleygði sér af öllum sínum þunga á dyrnar, en á næsta andartaki hentist hann í kjöltuna á Harry undan þungu höggi frá annarri trjágrein.

„Við erum búnir að vera!“ vældi hann þegar bílþakið svignaði undan þunganum. Allt í einu kom titringur í bílgólfið – vélin var aftur komin í gang.

„Bakka!“ æpti Harry og bíllinn þaut aftur á bak. Tréð var enn að berja þá; þeir heyrðu bresti í jörðinni þegar nærri lá að það rifi sjálft sig upp með rótum til að ná til þeirra á flóttanum.

„Þarna,“ sagði Ron móður og másandi, „munaði litlu. Fínt hjá þér, bíll …“

En nú var bíllinn hins vegar búinn að vera. Tveir háir smellir, dyrnar flugu upp og Harry fann að sætið hans hallaðist til hliðar. Næst vissi hann af sér þar sem hann lá endilangur á rakri jörðinni. Hann merkti af háværu skröltinu að bíllinn var að fleygja farangrinum þeirra út úr skottinu. Búrið hennar Hedwigar sveif í gegnum loftið og opnaðist; hún tók flugið með reiðilegum skræk og hraðaði sér til kastalans án þess að líta um öxl. Það rauk úr beygluðum og illa rispuðum bílnum sem hökti út í nóttina og afturljósin blikkuðu reiðilega.

„Komdu til baka!“ hrópaði Ron á eftir honum og sveiflaði brotnum töfrasprotanum. „Pabbi drepur mig!“

En bíllinn hvarf úr augsýn og gaf frá sér eitt örmagna hnuss í kveðjuskyni.

„Rosalega erum við heppnir,“ sagði Ron vesældarlega og beygði sig eftir Scabber, rottunni sinni. „Að við skyldum lenda á eina trénu sem ræðst á mann!“

Hann leit um öxl á ævafornt tréð sem enn sveiflaði greinunum ógnandi.

„Komdu,“ sagði Harry þreytulega, „það er best að við förum að koma okkur í skólann.“

Koman í skólann var langt frá því að vera jafn glæsileg og þeir höfðu ímyndað sér. Stirðir, kaldir og skrámaðir seildust þeir eftir handföngunum á koffortunum sínum og drógu þau upp grösuga brekkuna heim að stóru eikardyrunum.

„Ég held að hátíðahöldin séu byrjuð,“ sagði Ron, sleppti koffortinu sínu fyrir neðan aðaltröppurnar og læddist hljóðlega til að gægjast inn um uppljómaðan glugga.

„Harry, komdu og sjáðu – það er verið að raða niður á heimavistirnar!“

Harry flýtti sér til hans og þeir gægðust báðir inn í Stóra salinn.

Yfir fjórum þéttsetnum borðum svifu óteljandi kerti í lausu lofti svo það glampaði á bikara og gulldiska. Uppi yfir þeim tindruðu stjörnurnar á hvelfdu álagaloftinu sem alltaf samsvaraði himninum fyrir utan.

Inni í skógi af uppmjóum Hogwarthöttum sá Harry langa röð af óttaslegnum nýnemum fylkja sér inn í salinn. Ginny var á meðal þeirra, auðþekkt á líflegu Weasleyhárinu. Á meðan var McGonagall prófessor, norn með gleraugu og hárið í þéttum hnút, að koma hinum fræga flokkunarhatti Hogwartskóla fyrir á stól andspænis nýja fólkinu.

Á hverju ári raðaði þessi gamli, fornfálegi hattur – óhreinn og bættur – nýjum nemendum í heimavistirnar fjórar (Gryffindor,

Huffle puff, Ravenclaw og Slytherin). Harry mundi vel eftir því þegar hann setti hattinn upp fyrir nákvæmlega einu ári og beið skelfingu lostinn eftir að heyra hvað hann muldraði í eyra hans. Nokkur hræðileg augnablik óttaðist hann að hatturinn myndi setja hann á Slytherinheimavistina, sem hafði alið af sér meira af illum galdramönnum og nornum en nokkur önnur heimavist. En hann hafði lent á Gryffindorvistinni með Ron, Hermione og hinum Weasleybræðrunum. Á síðustu önn höfðu hann og Ron hjálpað Gryffindor til sigurs í keppni heimavistanna, þegar Gryffindor vann Slytherin sem ekki hafði beðið ósigur í sjö ár.

Agnarsmár drengur með músarlitt hár hafði verið kallaður fram til að setja á sig hattinn. Augu Harrys hvörfluðu frá honum að skólameistaranum, prófessor Dumbledore, sem sat og fylgdist með röðuninni frá háborðinu. Sítt, silfurlitt skeggið og hálfmánalöguð gleraugun glömpuðu í skini kertaljósanna. Nokkrum sætum fjær sat Gilderoy Lockhart klæddur sægrænni skikkju. Og við borðendann var Hagrid, risavaxinn og loðinn og svalg stórum úr bikarnum sínum.

„Bíddu við …“ hvíslaði Harry að Ron. „Það er autt sæti við háborð ið … Hvar er Snape?“

Severus Snape prófessor var sá kennari sem var í minnstu uppáhaldi hjá Harry, Harry var líka sá nemandi sem var í minnstu uppáhaldi hjá Snape. Snape var grimmlyndur, kaldhæðinn og illa liðinn af öllum, nema nemendum á sinni eigin heimavist (Slytherin).

„Kannski er hann veikur!“ sagði Ron vongóður.

„Kannski er hann hættur,“ sagði Harry. „Af því að hann fékk ekki að kenna varnir gegn myrku öflunum.“

„Eða rekinn!“ sagði Ron upprifinn. „Ég meina, það þolir hann enginn …“

„Eða ef til vill,“ heyrðist sagt ískaldri röddu að baki þeim,„er hann að bíða eftir útskýringum ykkar á því hvers vegna þið komuð ekki með skólalestinni.“

Harry snarsneri sér við. Þarna stóð Severus Snape í köldum andvaranum, klæddur svartri skikkju. Hann var grannvaxinn með gráföla húð, arnarnef og fitugt, svart axlasítt hár. Úr brosi hans mátti lesa að Harry og Ron væru í miklum vandræðum.

„Fylgið mér,“ sagði Snape.

Harry og Ron þorðu ekki einu sinni að líta hvor á annan þegar þeir fylgdu Snape upp tröppurnar inn í gríðarstóran, bergmálandi forsalinn sem var uppljómaður af logandi kyndlum. Unaðslegur matarilmur barst frá Stóra salnum, en Snape leiddi þá burt úr hlýjunni og birtunni niður þröngan, steinlagðan stiga að kjallarahvelfingunum.

„Inn með ykkur!“ sagði hann og vísaði þeim inn um opnar dyr á miðjum svölum kjallaraganginum.

Þeir stigu inn í skrifstofu Snapes, skjálfandi á beinunum. Á dimmum veggjunum voru raðir af hillum með glerkrúsum þar sem ýmsir ógeðfelldir hlutir, sem Harry kærði sig ekki um að vita hvað hétu, möruðu í hálfu kafi.

Eldstæðið var svart og tómt. Snape lokaði dyrunum og sneri sér að þeim.

„Jæja,“ sagði hann mjúkmáll. „Lestin er ekki nógu fín fyrir hinn fræga Harry Potter og hans trygga fylginaut, Ron. Langaði ykkur að mæta með stæl, piltar mínir?“

„Nei, herra, veggurinn á aðaljárnbrautarstöðinni, hann …“

„Þögn!“ skipaði Snape kuldalega. „Hvað gerðuð þið við bílinn?“

Ron kyngdi. Þetta var ekki í fyrsta sinn sem Harry fékk það á tilfinninguna að Snape gæti lesið hugsanir. En andartaki síðar fékk hann skýringuna þegar hann sá Snape vinda ofan af eintaki af nýjustu Spámannstíðindum.

„Það sást til ykkar,“ hvæsti hann og sýndi þeim fyrirsögnina: Fljúgandi Ford Anglia veldur Muggum heilabrotum. Hann las upphátt: „Tveir Muggar í London eru sannfærðir um að hafa séð gamlan bíl fljúga yfir pósthústurninn … frú Hetty Bayliss í Norfolk var að hengja út þvottinn sinn … Herra Angus Fleet frá Peebles tilkynnti lögreglunni … Sex eða sjö Muggar samtals. Mér skilst að faðir þinn starfi á skrifstofu þar sem er unnið að því að slá ryki í augun á Muggunum?“ sagði hann og leit á Ron og brosti kvikindislega. „Hvaða vandræði – hans eigin sonur …“

Harry leið eins og hann hefði fengið högg í magann frá einni af stærstu trjágreinum brjálaða trésins. Ef einhver kæmist nú

að því að herra Weasley hefði beitt bílinn göldrum … hann hafði ekki hugsað út í það …

„Ég tók eftir því í rannsókn minni á garðinum að armalanga eikin okkar hefur orðið fyrir umtalsverðum skemmdum,“ hélt Snape áfram.

„Tréð meiddi okkur meira en við …“ glopraði Ron út úr sér.

„Þögn!“ hreytti Snape út úr sér. „Því miður eruð þið ekki á minni heimavist og það er því ekki á mínu valdi að reka ykkur. Það eru aðrir, sem ég mun sækja núna, sem hafa það ánægjulega vald. Þið bíðið hér.“ Harry og Ron horfðu fölir hvor á annan. Harry var ekki lengur svangur. Honum var hræðilega óglatt. Hann reyndi að komast hjá því að horfa á stórt, slímugt fyrirbrigði sem flaut um í grænum vökva í krukku á hillu fyrir aftan skrifborð Snapes. Ef Snape hafði farið að sækja McGonagall prófessor, yfirmann Gryffindorvistarinnar, væru þeir varla mikið betur settir. Hún yrði hugsanlega réttlátari en Snape en hún var samt hrikalega ströng.

Tíu mínútum síðar kom Snape til baka og McGonagall prófessor var sannarlega í fylgd með honum. Harry hafði séð

McGonagall prófessor reiða en annaðhvort hafði hann gleymt því hvað varirnar gátu orðið samanherptar eða aldrei séð hana svona reiða fyrr. Hún hóf upp töfrasprotann sinn um leið og hún kom inn. Harry og Ron viku sér undan en hún var aðeins að beina honum að tómu eldstæðinu, og þar byrjaði skyndilega að skíðloga.

„Setjist," sagði hún og þeir hörfuðu og settust í stóla við eldinn.

„Útskýrið mál ykkar," sagði hún og gleraugun leiftruðu óheillavænlega.

Ron hóf að segja frá og byrjaði á veggnum á járnbrautarstöðinni sem hleypti þeim ekki í gegn.

„Við áttum engra kosta völ, prófessor. Við komumst ekki um borð í lestina."

„Hvers vegna senduð þið okkur ekki bréf með uglu? Mér skilst að þú eigir uglu," sagði McGonagall prófessor kuldalega við Harry.

Harry góndi á hana. Þegar hún sagði þetta virtist augljóst að þetta hefðu þeir átt að gera.

„Ég – ég hugsaði ekki –“

„Það,“ sagði McGonagall, „… er augljóst.“

Barið var á skrifstofudyrnar og Snape, sem virtist hamingjusamari en nokkru sinni, opnaði. Þarna stóð prófessor Dumbledore skólameistari.

Harry stóð sem lamaður. Dumbledore var óvenju alvarlegur í bragði. Hann horfði á þá niður eftir krókbognu nefinu og Harry óskaði þess allt í einu að eikin armalanga væri að berja þá Ron.

Það var löng þögn. Svo sagði Dumbledore prófessor: „Viljið þið vera svo góðir að útskýra af hverju þið gerðuð þetta?“

Það hefði verið betra ef öskrað hefði verið á þá. Harry þoldi ekki að heyra vonbrigðahreiminn í röddinni. Af einhverjum ástæðum gat hann ekki horfst í augu við Dumbledore en einblíndi þess í stað á hnén á sér meðan hann talaði. Hann sagði Dumbledore allt nema að herra Weasley ætti

galdrabílinn og lét það hljóma eins og þeir Ron hefðu fyrir tilviljun fundið flugfæran bíl í stæði fyrir utan brautarstöðina. Hann vissi að Dumbledore sæi strax í gegnum það, en Dumbledore spurði einskis varðandi bílinn. Þegar Harry hafði lokið máli sínu hélt hann bara áfram að rýna á þá í gegnum gleraugun.

„Við förum og sækjum dótið okkar," sagði Ron með vonleysi í röddinni.

„Um hvað ertu að tala, Ron?" gelti McGonagall prófessor.

„Nú, eruð þið ekki að reka okkur?" sagði Ron. Harry leit snöggt á Dumbledore.

„Ekki í dag, Ron Weasley," sagði Dumbledore. „En ég vil að þið skiljið hvað málið er alvarlegt. Ég ætla að skrifa fjölskyldum ykkar beggja í kvöld. Ég ætla líka að vara ykkur við því að komi eitthvað þessu líkt fyrir aftur á ég engra annarra kosta völ en að víkja ykkur úr skólanum."

Af svipnum á Snape mátti helst ráða að jólunum hefði verið aflýst.

Hann ræskti sig og sagði: „Dumbledore prófessor – þessir piltar hafa virt að vettugi tilskipun um takmörkun á galdrastarfsemi galdramanna sem ekki hafa náð tilskildum aldri og stórskemmt gamalt, dýrmætt tré – það er ljóst að verknaður af þessu tagi …“

„McGonagall prófessor ákveður refsingu þessara drengja, Severus,“ sagði Dumbledore rólega. „Þeir eru á heimavistinni hennar og þar af leiðandi á hennar ábyrgð.“ Hann sneri sér að McGonagall prófessor. „Ég verð að snúa aftur til hátíðarinnar, Mínerva. Það eru nokkur atriði sem ég ætla að koma á framfæri. Komdu, Severus, það er afar girnileg eggjabúðingsbaka sem mig langar að bragða á …“

Snape sendi Harry og Ron eitrað augnaráð áður en hann lét teyma sig út úr skrifstofunni. Nú voru þeir einir með McGonagall prófessor sem einblíndi ennþá á þá eins og reiður örn.

„Þú ættir að fara yfir í sjúkraálmuna, Ron, þér blæðir.“

„Ekki mikið,“ sagði Ron og flýtti sér að þurrka skurðinn yfir auganu með erminni. „Prófessor, mig langaði til að sjá í hvaða heimavist systir mín lendir …“

„Flokkunarathöfninni er lokið,“ sagði McGonagall prófessor. „Systir þín er líka í Gryffindorvistinni.“ „Ó, gott,“ sagði Ron.

„Og talandi um Gryffindor …“ sagði McGonagall prófessor hvasst, en Harry greip fram í fyrir henni: „Prófessor, þegar við tókum bílinn var önnin ekki byrjuð, svo að … svo að í rauninni ætti Gryffindor ekki að missa stig – eða hvað?“ sagði hann að síðustu og horfði áhyggju fullur á hana.

McGonagall pírði augun en Harry var viss um að hún gat varla varist brosi. Munnurinn var að minnsta kosti ekki eins samanherptur.

„Ég mun ekki taka nein stig af Gryffindor,“ sagði hún og Harry var létt. „En þið verðið báðir látnir sæta refsingu.“

Þetta var betra en Harry hafði búist við. Það skipti engu máli þó að Dumbledore skrifaði Dursleyfjölskyldunni. Harry vissi það mætavel að þau yrðu bara vonsvikin þegar þau læsu að eikin armalanga hefði ekki lamið hann í spað.

McGonagall prófessor hóf sprotann sinn aftur á loft og beindi honum að skrifborði Snapes. Stórt fat með samlokum, tveir

silfurbikarar og kanna af ísköldum graskerjasafa birtist með hvelli.

„Þið borðið hér og farið síðan beint upp í svefnsalinn ykkar,“ sagði hún. „Ég verð að snúa aftur til hátíðahaldanna.“

Þegar dyrnar höfðu lokast að baki henni blístraði Ron lágt og langdregið.

„Ég hélt að við værum búnir að vera,“ sagði hann og nældi sér í samloku.

„Það hélt ég líka,“ sagði Harry og fékk sér líka eina.

„Við erum ótrúlega heppnir, eða hitt þó heldur?“ sagði Ron með munninn fullan af kjúklingi og skinku. „Fred og George hafa áreiðanlega flogið þessum bíl fimm eða sex sinnum og enginn Muggi sá þá.“ Hann kyngdi og fékk sér annan risastóran bita. „Af hverju komumst við ekki gegnum vegginn?“

Harry yppti öxlum. „Við verðum að gæta okkar,“ sagði hann og fékk sér langþráðan sopa af graskerjasafa. „Ég vildi óska að við hefðum getað farið í veisluna …“

„Hún vildi ekki að við værum eitthvað að sýna okkur,“ sagði Ron spekingslega. „Hún vill ekki að fólk haldi að það sé sniðugt að koma í fljúgandi bíl.“

Þegar þeir voru búnir að borða eins margar samlokur og þeir gátu í sig látið (fatið fylltist jafnóðum og tekið var af því) stóðu þeir á fætur og fóru út úr skrifstofunni og fylgdu hinni gamalkunnu leið upp í Gryffindorturn. Í kastalanum var allt hljótt. Hátíðinni virtist vera lokið. Þeir fóru framhjá hvíslandi málverkum og brakandi herklæðum og þrömmuðu upp þrönga steinlagða stiga þar til þeir komu loks að ganginum þar sem leynidyrnar að Gryffindorturni voru faldar – á bak við olíumálverk af akfeitri konu í bleikum silkikjól.

„Leyniorð?“ sagði hún þegar þeir nálguðust.

„Umm …“ sagði Harry. Þeir þekktu ekki nýja leyniorðið á þessu skólaári, því þeir höfðu ekki enn hitt umsjónarmann Gryffindorvistar, en þeim var strax komið til hjálpar. Að baki þeim heyrðist hratt fótatak og þegar þeir sneru sér við sáu þeir Hermione koma þjótandi í áttina til þeirra.

„Þarna eruð þið! Hvar hafið þið verið? Það ganga um ykkur fáránlegar sögur – einhver sagði að þið hefðuð verið reknir fyrir að brotlenda fljúgandi bíl …“

„Ja, það er ekki búið að reka okkur,“ fullvissaði Harry hana um.

„Þið ætlið þó ekki að segja mér að þið hafið flogið hingað?“ sagði Hermione, næstum jafn ströng og McGonagall prófessor.

„Vertu ekki að nöldra í okkur,“ sagði Ron óþolinmóður, „segðu okkur nýja aðgangsorðið.“

„Spæta,“ sagði Hermione óþolinmóð, „en það er ekki málið …“

Hún komst samt ekki lengra, því málverkið af feitu konunni laukst upp og mikil fagnaðarlæti brutust út. Það var engu líkara en allir á Gryffindorheimavistinni væru enn á fótum, öll í einum hnapp inni í hringlaga setustofunni. Sumir stóðu uppi á skökkum borðum og þröngum hægindastólum og biðu komu þeirra. Hendur teygðu sig gegnum opið á málverkinu til

að draga Harry og Ron inn fyrir og Hermione varð að klöngrast hjálparlaust inn á eftir þeim.

„Frábært!“ hrópaði Lee Jordan. „Frábær hugmynd! Hvílík innkoma! Að fljúga bíl beint á eikina armalöngu. Það verður ekki talað um annað næstu árin …“

„Gott hjá ykkur,“ sagði fimmta árs nemi sem Harry hafði aldrei talað við; einhver klappaði honum á bakið eins og hann hefði unnið maraþonhlaup; Fred og George tróðu sér fremst í hópinn og sögðu í kór: „Af hverju kölluðuð þið ekki á okkur?“ Ron var eldrauður í framan og hló vandræðalega en Harry tók eftir einum sem virtist hreint ekki ánægður. Percy gnæfði yfir hóp nokkurra fyrsta árs nema og virtist vera að reyna að komast nær þeim til að hella sér yfir þá. Harry hnippti í Ron og kinkaði kolli til Percys. Ron áttaði sig um leið.

„Við verðum að drífa okkur upp – við erum dálítið þreyttir,“ sagði hann og þeir tróðust í átt að dyrum í hinum enda setustofunnar þar sem hringstigi lá upp til svefnsalarins.

„Góða nótt,“ kallaði Harry til Hermione sem var yggld á svip eins og Percy.

Þeim tókst að olnboga sig í gegnum fagnandi hópinn að hringstiganum þar sem var örlítið rólegra. Þeir flýttu sér alla leið upp og komu á endanum að dyrunum þar sem á hékk skjöldur með áletruninni „Annars árs nemar“. Þeir stigu inn í kunnuglegt, hringlaga herbergið þar sem voru fimm himinsængur með rauðum flauelstjöldum og háir, þröngir gluggar. Koffortin þeirra höfðu verið borin upp fyrir þá og stóðu við rúmgaflana.

Ron glotti sakbitinn til Harrys.

„Ég veit að ég hefði ekki átt að hafa gaman af þessu, en …“

Dyrunum á svefnsalnum var hrundið upp og inn komu hinir annars árs nemarnir á Gryffindor, Seamus Finnigan, Dean Thomas og Neville Longbottom.

„Ótrúlegt,“ sagði Seamus og ljómaði.

„Glæsilegt,“ sagði Dean.

„Geggjað,“ sagði Neville, fullur lotningar. Harry gat ekki að því gert. Hann glotti líka.

# Sjötti kafli

# Gilderoy Lockhart

Daginn eftir stökk Harry þó varla bros. Strax við morgunverðarborðið í Stóra salnum fór að halla undan fæti. Langborðin fjögur svignuðu undan kræsingum; skálar fullar af hafragraut, diskar með saltaðri og reyktri síld, heil fjöll af ristuðu brauði og egg og beikon eins og hver gat í sig látið. Yfir öllu grúfði álagaloftið í Stóra salnum (í dag leiðinlega þokugrátt). Harry og Ron fengu sér sæti við Gryffindorborðið við hliðina á Hermione sem hafði stillt eintaki af Á vergangi með varúlfum upp við mjólkurkrús. Það örlaði á stífni í málrómnum þegar hún bauð þeim „góðan daginn“ svo Harry skynjaði að henni mislíkaði enn hvernig þeir höfðu komið til skólans. Neville Longbottom heilsaði þeim aftur á móti glaðlega. Neville var búlduleitur hrakfallabálkur og Harry þekkti engan jafn illa minnugan.

„Pósturinn ætti að fara að koma – ég held að amma sendi mér það sem ég gleymdi.“

Harry var rétt byrjaður á hafragrautnum þegar þytur heyrðist fyrir ofan þau og um það bil hundrað uglur streymdu inn, hringsóluðu um salinn og létu bréf og pakka falla niður í skvaldrandi þvöguna. Stór, krumpaður pakki skall á höfði Nevilles og andartaki síðar féll eitthvað stórt og grátt ofan í krúsina hennar Hermione og mjólkurskvettur og fjaðrir gusuðust yfir þau.

„Errol!“ sagði Ron og dró óhrjálega ugluna upp á fótunum. Errol, sem var með rautt umslag í gogginum, valt meðvitundarlaus á bakið.

„Ó, nei …“ andvarpaði Ron.

„Þetta er allt í lagi, hann er enn á lífi,“ sagði Hermione og potaði varlega í Errol.

„Það er ekki það … það er þetta.“

Ron benti á rauða umslagið. Harry fannst það ósköp venjulegt, en Ron og Neville horfðu á það eins og þeir byggjust við að það spryngi í loft upp.

„Hvað er að?“ spurði Harry.

„Hún – hún sendi mér öskrara,“ sagði Ron vonleysislega.

„Þú ættir að opna það, Ron,“ hvíslaði Neville óttasleginn. „Þú gerir bara illt verra ef þú geymir það. Amma sendi mér einu sinni öskrara og ég opnaði hann ekki,“ – hann tók andköf – „það var hræðilegt.“ Harry leit af steinrunnum andlitum þeirra á rauða umslagið.

„Hvað er öskrari?“ spurði hann.

En öll athygli Rons beindist að umslaginu þegar tók að rjúka úr hornunum á því.

„Opnaðu það,“ sagði Neville uppörvandi. „Þetta tekur fljótt af …“ Ron rétti fram skjálfandi höndina, losaði umslagið úr gogginum á Errol og reif það upp. Neville tróð fingrunum í eyrun. Sekúndubroti síðar skildi Harry ástæðuna. Eitt

augnablik hélt hann að umslagið hefði sprungið; þrumugnýr fyllti Stóra salinn svo að ryk sáldraðist niður úr loftinu.

„– svo stelurðu bílnum! Það hefði ekki undrað mig þótt þau hefðu rekið þig, bíddu bara þangað til ég næ þér, þú hefur líklega ekki staldrað augnablik við til að íhuga hvernig okkur föður þínum leið þegar við sáum að hann var horfinn –“

Hrópin í frú Weasley hljómuðu á hundraðföldum styrk svo að diskar og skeiðar dönsuðu á borðinu og ærandi bergmál endurkastaðist af veggjunum. Allir í salnum sneru sér við í sætunum til að sjá hver hefði fengið sendan öskrara og Ron sökk svo djúpt ofan í stólinn að ekkert sást af honum nema eldrautt ennið.

„– svo kom bréf frá Dumbledore í gær, ég hélt að faðir þinn myndi deyja af skömm, okkur hefur greinilega mistekist eitthvað í uppeldinu, þið Harry hefðuð auðveldlega getað dáið –“

Harry hafði verið að velta því fyrir sér hvenær nafnið hans bæri á góma. Hann gerði sitt besta til að láta eins og hann heyrði ekki röddina sem var að sprengja í honum hljóðhimnurnar.

„… þetta er svívirðilegt – faðir þinn á yfir höfði sér rannsókn vegna bílsins og það er þér að kenna. Ef þú ferð með svo mikið sem eina tá yfir strikið verður þú sendur beinustu leið heim.“

Það varð dauðaþögn. Rauða umslagið, sem Ron hafði misst út úr höndunum, stóð allt í einu í ljósum logum, rúllaðist upp og varð að ösku. Harry og Ron sátu dolfallnir eins og brotsjór hefði gengið yfir þá. Nokkrir hlógu og smám saman braust út skvaldur á ný.

Hermione lokaði bókinni og horfði ofan á kollinn á Ron. „Ja, ég veit ekki við hverju þú bjóst, Ron, en þú …“ „Ekki segja að ég hafi átt þetta skilið,“ hvæsti Ron.

Harry ýtti hafragrautnum frá sér. Hann logaði af skömm. Herra Weasley átti rannsókn yfir höfði sér. Eftir allt sem þau hjónin höfðu gert fyrir hann um sumarið …

En hann hafði engan tíma til að velta sér upp úr þessu; McGonagall prófessor var komin að Gryffindorborðinu og afhenti stundaskrár. Harry tók við sinni og sá að fyrsta

kennslustundin var tvöfaldur jurtafræðitími með þeim á Hufflepuff.

Þau Harry, Ron og Hermione yfirgáfu kastalann, gengu yfir mat jurtagarðinn og stefndu í átt að gróðurhúsunum þar sem töfrajurtirnar voru geymdar. Öskrarinn hafði þó komið einu til leiðar; Hermione fannst greinilega að þeir hefðu tekið út sína refsingu og var aftur orðin jafn vinsamleg og fyrr.

Þegar þau nálguðust gróðurhúsin sáu þau að bekkjarfélagarnir stóðu fyrir utan og biðu eftir Spíru prófessor. Harry, Ron og Hermione voru nýkomin þegar þau sáu hana koma askvaðandi yfir grasflötina í fylgd Gilderoys Lockhart. Hún var með fangið fullt af sáraumbúðum og Harry fann aftur fyrir nagandi samviskubiti þegar hann sá í fjarska að nokkrar greinar á eikinni armalöngu voru í fatla. Spíra prófessor var lítil og bústin norn sem bar bættan hatt ofan á óstýrilátu hárinu. Fötin hennar voru ötuð mold og skíturinn undir fingurnöglunum hefði nægt til að liði yfir Petuniu. Gilderoy Lockhart var hins vegar óaðfinnanlegur í skósíðri, túrkísblárri skikkju sem bylgjaðist þegar hann gekk; það lýsti á gullið hárið undir túrkísbláum hatti með gylltu hattbandi sem hafði verið komið vandlega fyrir á höfðinu.

„Ó, halló öllsömul!“ kallaði hann og sendi hópnum geislandi bros.

„Ég var að sýna Spíru prófessor hvernig best er að meðhöndla eikina armalöngu! En ég vil ekki að þið fáið þá flugu í höfuðið að ég sé henni færari í jurtafræði! Það vill bara svo til að ég hef rekist á nokkrar framandi plöntur á ferðum mínum …“

„Gróðurhús þrjú í dag, krakkar!“ sagði Spíra, augljóslega önug í skapi, fjarri því að vera jafn glaðvær og hún átti að sér.

Það fór ánægjukliður um hópinn. Áður höfðu þau alltaf unnið í gróðurhúsi eitt – í gróðurhúsi þrjú voru miklu hættulegri og meira spennandi plöntur. Spíra prófessor dró upp stóran lykil úr belti sínu og opnaði dyrnar. Harry fann daufa lykt af rakri jörð og áburði sem blandaðist þungum ilmi af einhverjum risavöxnum blómum á stærð við regnhlífar sem héngu niður úr loftinu. Hann var í þann veginn að ganga inn í humátt á eftir Ron og Hermione þegar höndin á Lockhart skaust út.

„Harry! Mig langar að eiga við þig orð – er þér ekki sama þótt hann komi aðeins of seint, Spíra prófessor?“

Af reiðisvipnum á andliti hennar að dæma var henni alls ekki sama en Lockhart sagði: „Það var lagið,“ og lokaði dyrum gróðurhússins á nefið á henni.

„Harry,“ sagði Lockhart og það glampaði á stórar, hvítar tennurnar í sólskininu þegar hann hristi höfuðið. „Harry, Harry, Harry.“ Harry vissi ekki hvaðan á sig stóð veðrið og þagði.

„Þegar ég frétti þetta – jæja, þetta er auðvitað allt mér að kenna. Ég hefði getað sparkað í sjálfan mig.“

Harry hafði ekki minnstu hugmynd um hvað hann átti við. Hann var kominn á fremsta hlunn með að segja honum það þegar Lockhart hélt áfram: „Það er langt síðan mér hefur verið svona brugðið. Að fljúga bíl til Hogwartskóla! En auðvitað vissi ég strax hvers vegna þú gerðir það. Það var svo augljóst. Harry, Harry, Harry.“

Það var ótrúlegt hvernig honum tókst að sýna hverja einustu skínandi tönn jafnvel þegar hann þagði.

„Ég kom þér á bragðið, er það ekki?“ sagði Lockhart. „Þú ert kominn með bakteríuna. Þú gast ekki beðið eftir að komast aftur á forsíðuna á blaðinu eftir að þú birtist þar með mér.“

„Nei, alls ekki, prófessor, ég ...“

„Harry, Harry, Harry,“ sagði Lockhart, teygði sig fram og tók um öxlina á honum. „Ég skil þig vel. Það er bara eðlilegt að vilja meira þegar þú ert einu sinni kominn á bragðið – og ég álasa sjálfum mér fyrir að hafa gefið þér nasasjón af frægðinni, auðvitað hlaut frægðin að stíga þér til höfuðs – en sjáðu til, ungi maður, þú mátt ekki fara að leggja það í vana þinn að fljúga bílum til að reyna að vekja athygli á sjálfum þér. Taktu því bara rólega. Þú hefur nægan tíma til slíkra hluta þegar þú verður eldri. Já, já, ég veit hvað þú ert að hugsa! Þú ert að hugsa: „Hann getur trútt um talað, hann er orðinn heimsfrægur galdramaður!“ En þegar ég var tólf ára var ég alveg jafn lítilvægur og þú. Í rauninni var ég jafnvel enn lítilvægari! Einhverjir hafa heyrt þín getið? Eftir allt þetta vesen með Hann-sem-ekki-má-nefna!“ Hann gaut augunum á eldingarlagað örið á enni Harrys. „Ég veit, ég veit – það er þó ekki jafn merkilegt og að vera kosinn fimm sinnum í röð Töfrabros vikunnar hjá Nýju nornalífi eins og ég – en þetta er þó byrjun hjá þér, Harry, þetta er byrjun.“

Hann blikkaði Harry glaðlega og skálmaði á brott. Harry stóð agndofa nokkra stund en mundi svo allt í einu að hann átti að vera í gróðurhúsinu; hann opnaði dyrnar og laumaði sér inn fyrir.

Spíra prófessor stóð við vinnuborð í miðju gróðurhúsinu. Um það bil tuttugu heyrnarhlífar í allskonar litum lágu á borðinu. Þegar Harry hafði komið sér fyrir á milli Rons og Hermione sagði hún: „Í dag ætlum við að umpotta Alrúnum. Getur einhver sagt mér hverjir eru eiginleikar Alrúna?“

Það kom engum á óvart að höndin á Hermione var fyrst á loft.

„Alrún eða Mandragora er kröftug lækningajurt,“ sagði Hermione sem hljómaði að venju eins og hún hefði gleypt kennslubókina. „Hún er notuð til að breyta fólki, sem er í álögum eða hefur verið ummyndað, aftur í upprunalega mynd.“

„Frábært. Fyrir þetta fær Gryffindor tíu stig,“ sagði Spíra prófessor.

„Alrúnin er þar að auki uppistaðan í flestum tegundum móteiturs. Hún er þó líka mjög hættuleg. Getur einhver sagt mér hvers vegna?“

Höndin á Hermione smaug naumlega framhjá gleraugunum hans Harrys þegar hún skaust aftur á loft.

„Öskur Alrúnar er banvænt hverjum sem það heyrir,“ sagði hún hiklaust.

„Einmitt. Þar fenguð þið önnur tíu stig,“ sagði Spíra. „Alrúnirnar, sem við erum með hérna, eru enn mjög ungar.“

Máli sínu til stuðnings benti hún á röð af djúpum bökkum og hópurinn þokaðist nær til að kíkja ofan í þá. Um hundrað litlar plöntur, brúskóttar og fjólugrænar á litinn, uxu þar í röð. Harry fannst þær frekar ómerkilegar að sjá og hafði ekki hugmynd um hvað Hermione átti við með „öskri“ Alrúnarinnar.

„Takið ykkur heyrnarhlífar,“ sagði Spíra prófessor.

Það varð handagangur í öskjunni því allir reyndu að ná sér í heyrnarhlífar sem ekki voru loðnar og bleikar.

„Þegar ég segi ykkur að setja þær upp, passið þá að eyrun séu alveg hulin," sagði Spíra. „Ég gef ykkur merki þegar óhætt er að taka þær niður aftur. Jæja – upp með heyrnarhlífarnar!"

Harry skellti heyrnarhlífunum á sig. Þær útilokuðu algerlega öll hljóð. Spíra setti upp bleikar og loðnar heyrnarhlífar, bretti upp ermarnar á skikkjunni sinni, greip í einn plöntubrúskinn og rykkti í.

Harry varð svo undrandi að hann tók andköf sem að sjálfsögðu enginn heyrði.

Í staðinn fyrir rætur birtist lítið, skítugt og ófrýnilegt barn upp úr moldinni. Á höfðinu uxu laufblöð og húðin var ljósgræn og flekkótt. Það orgaði auðsjáanlega af öllum lífs- og sálarkröftum.

Spíra prófessor tók stóran blómapott undan borðinu, stakk Alrúninni ofan í og gróf hana djúpt ofan í dökkan og rakan safnhauginn þar til ekkert sást nema laufbrúskurinn. Spíra dustaði af höndunum, gaf þeim merki og tók af sér heyrnarhlífarnar.

„Öskrin í Alrúnum eru enn ekki orðin banvæn þar sem þær eru enn aðeins ungar fræplöntur,“ sagði hún rólega eins og hún hefði ekki verið að gera neitt merkilegra en að vökva begóníur. „Öskrin í þeim nægja þó til að slá ykkur í rot í nokkra klukkutíma og þar sem ég er viss um að ekkert ykkar vill missa úr fyrsta skóladeginum er eins gott að hafa heyrnarhlífarnar á sínum stað á meðan þið vinnið. Ég gef ykkur merki þegar tími er kominn til að pakka saman.

Fjórir um hvern bakka – hérna eru birgðir af blómapottum – þarna er safnhaugurinn – og varið ykkur á eitruðu griparma plöntunni, hún er að taka tennur.“

Hún sló fast á oddhvassa, dökkrauða plöntu á meðan hún gaf skipanir svo að fálmararnir, sem höfðu þumlungað sig laumulega upp á öxlina á henni, drógu sig til baka.

Hrokkinhærður strákur úr Hufflepuff sem Harry þekkti í sjón en hafði aldrei talað við slóst í hóp með Harry, Ron og Hermione.

„Ég heiti Justin Finch-Fletchley,“ sagði hann hressilega og tók í höndina á Harry. „Ég veit auðvitað hver þú ert, hinn frægi

Harry Potter … Og þú ert Hermione Granger – alltaf hæst í öllu …“ (Hermione ljómaði þegar hann tók í höndina á henni líka) „… og Ron Weasley. Áttir þú ekki bílinn fljúgandi?“

Ron brosti ekki. Öskrarinn var honum greinilega ennþá ofarlega í huga.

„Þessi Lockhart er alveg ótrúlegur!“ sagði Justin glaðlega um leið og þau byrjuðu að moka drekamykjunni ofan í blómapottana. „Alveg rosalega hugrakkur. Hafið þið lesið bækurnar hans? Ég hefði dáið úr hræðslu ef varúlfur hefði króað mig af inni í símaklefa, en hann var alveg pollrólegur og – vúmm – alveg frábært.

Ég átti að fara í einkaskólann í Eton. Þið getið ekki ímyndað ykkur hvað ég var feginn að komast hingað í staðinn. Mamma varð auðvitað fyrir dálitlum vonbrigðum en ég lét hana lesa allar bækurnar hans Lockharts og þá fór hún að skilja hversu mikilvægt það er að hafa fullnuma galdramann í fjölskyldunni …“

En nú gafst ekki meiri tími til að spjalla. Þau skelltu á sig heyrnarhlífunum og einbeittu sér að Alrúnunum. Þær voru ekki jafn auðveldar viðfangs og virtist í höndum Spíru.

Alrúnunum var ekkert um það gefið að koma upp úr moldinni en þær voru heldur alls ekki viljugar að fara ofan í hana aftur. Þær börðust um, spörkuðu, slógu með litlum krepptum hnefunum og gnístu tönnum; Harry var heilar tíu mínútur að troða einni sérstaklega pattaralegri ofan í pott.

Í lok tímans voru þau öll sveitt, helaum og skítug upp fyrir haus. Þau þrömmuðu til baka í kastalann til að þvo sér og aðþví loknu flýttu Gryffindornemendurnir sér í kennslustund í ummyndun.

Tímarnir hjá McGonagall prófessor voru alltaf heilmikið púl en þessi var óvenju strembinn. Allt sem Harry hafði lært veturinn áður virtist hafa lekið úr höfðinu á honum um sumarið. Hann átti víst að breyta bjöllu í hnapp, en það eina sem gerðist var að bjallan hans fékk heilmikla þjálfun í því að skjótast fram og aftur um borðið hans á flótta undan töfrasprotanum.

Ron átti þó í mun meiri vandræðum. Hann hafði fengið lánað lím band til að líma saman sprotann sinn en hann var of illa farinn til að hægt væri að laga hann. Það gnast og brast í sprotanum á ólíklegustu stundum og þegar Ron reyndi að ummynda bjöllunni sinni gaus upp grár reykur sem lyktaði af fúleggjum. Blindaður af reyk kramdi Ron bjölluna óvart undir

olnboganum og varð að biðja um nýja. McGonagall prófessor var ekki ánægð.

Harry varð feginn þegar hringt var út. Heilinn í honum var eins og undin tuska. Allir gengu í röð út úr kennslustofunni nema þeir Ron. Ron stóð og barði sprotanum sínum reiðilega í borðið.

„Óþolandi – gagnslausa – drasl –“

„Skrifaðu heim og biddu um annan,“ stakk Harry upp á þegar sprotinn sendi frá sér hryðju af hvellum eins og flugeldur.

„Einmitt, og fá sendan annan öskrara,“ sagði Ron og tróð sprotanum, sem nú var farinn að hvæsa, ofan í töskuna sína. „Þú getur sjálfum þér um kennt að sprotinn brotnaði …“

Skapið í Ron lagaðist ekki þegar þeir fóru niður í mat og Hermione sýndi þeim handfylli af fullkomnum jakkahnöppum sem hún hafði búið til í ummyndunartímanum.

„Hvað er seinni partinn?“ spurði Harry til að skipta um umræðuefni sem fyrst.

„Varnir gegn myrku öflunum,“ svaraði Hermione að bragði.

„Af hverju,“ spurði Ron og teygði sig í stundatöfluna hennar, „ertu búin að teikna hjörtu utan um allar kennslustundirnar hjá Lockhart?“

Hermione þreif harkalega af honum stundatöfluna, kafrjóð í framan.

Þau gengu út í þokuhulinn kastalagarðinn að lokinni máltíðinni. Hermione settist á steinþrep og sökkti sér aftur ofan í Á vergangi með varúlfum. Harry og Ron höfðu staðið nokkra stund og spjallað um Quidditch þegar Harry varð þess áskynja að einhver fylgdist grannt með honum. Hann leit upp og kom auga á mjög lágvaxinn strák með músarlitt hár – þetta var sá sem hann hafði séð máta flokkunarhattinn kvöldið áður – sem starði á Harry eins og hann væri dáleiddur. Hann hélt fast um eitthvað sem líktist venjulegri Muggamyndavél. Um leið og Harry kom auga á hann roðnaði hann upp í hársrætur.

„Hvað segirðu, Harry? Ég – ég heiti Colin Creevey,“ sagði hann andstuttur og kom hikandi nær. „Ég er líka í Gryffindor.

Heldurðu … væri í lagi … má ég taka mynd?“ spurði hann og lyfti myndavélinni vongóður.

„Mynd?“ endurtók Harry skilningsvana.

„Svo ég geti sannað að ég hafi hitt þig,“ sagði Colin Creevey ákafur og fikraði sig enn nær. „Ég veit allt um þig. Um það hvernig þú lifðir af þegar Þú-veist-hver reyndi að drepa þig og þegar hann hvarf og allt það og að þú ert ennþá með eldingarlaga ör á enninu,“ (hann skotraði augunum á ennið á Harry) „og strákur, sem er í sama svefnsal og ég, sagði að ef ég framkallaði filmuna í réttri blöndu þá gætu myndirnar hreyfst.“ Colin gaf frá sér spennuþrungið, titrandi andvarp og sagði:

„Finnst þér ekki frábært að vera hérna? Mig grunaði aldrei að allir þessir skrítnu hlutir sem ég gat gert væru galdrar fyrr en ég fékk bréfið frá Hogwartskóla. Pabbi er mjólkurpóstur og hann trúði þessu heldur ekki. Þess vegna ætla ég að taka fullt af myndum og senda honum. Og það væri óskaplega gott ef ég mætti taka eina af þér,“ – hann horfði bænaraugum á Harry – „kannski gæti vinur þinn tekið myndina svo ég gæti verið með á henni? Og myndirðu svo vilja árita myndina?“

„Árita myndir? Ert þú farinn að árita myndir, Harry?“

Rödd Dracos Malfoy bergmálaði há og skerandi um kastalagarðinn. Hann hafði tekið sér stöðu fyrir aftan Colin og eins og venjulega var hann í fylgd stórra og ruddalegra náunga, Crabbe og Goyle.

„Allir í röð!“ öskraði hann yfir þéttskipaðan garðinn. „Harry Potter áritar myndir!“

„Nei, það er ekki rétt,“ sagði Harry reiðilega og kreppti hnefana.

„Þegiðu, Draco!“

„Þú ert bara öfundsjúkur,“ gall í Colin sem var svo lítill að líkaminn var álíka sver og hálsinn á Crabbe.

„Öfundsjúkur?“ sagði Draco, hann þurfti ekki að æpa lengur; helmingurinn af þeim sem voru í kastalagarðinum fylgdist með. „Út í hvað? Ekki vildi ég hafa ógeðslegt ör á enninu, takk fyrir. Og persónulega finnst mér það ekki gera menn neitt merkilega að hafa látið skera hausinn á sér í tvennt.“

Crabbe og Goyle flissuðu heimskulega.

„Éttu skít, Draco,“ sagði Ron reiðilega. Crabbe hætti að hlæja og sýndi honum hnefana.

„Passaðu þig, Ron,“ sagði Draco hæðnislega. „Þú ættir ekki að koma þér í vandræði, annars kemur mamma þín og tekur þig úr skólanum.“ Hann gerði röddina hvella og skerandi. „Ef þú svo mikið sem setur eina tá yfir strikið …“

Hópur fimmta árs Slytherinnema hló dátt.

„Ron myndi þiggja áritaða mynd, Harry,“ sagði Draco glottandi. „Hún væri meira virði en allt húsið hans …“ Ron sveiflaði samanlímdum töfrasprotanum en áður en hann komst lengra skellti Hermione aftur Á vergangi með varúlfum og hvíslaði:

„Passaðu þig!“

„Hvað gengur hér á, hvað gengur hér á?“ Gilderoy Lockhart stikaði til þeirra, túrkísblá skikkjan flaksaðist aftur af honum. „Hver er að árita myndir?“

Harry opnaði munninn til að segja eitthvað en komst ekki lengra því Lockhart sveiflaði handleggnum utan um hann og þrumaði glettnislega: „Hefði mátt segja mér það sjálfur! Við erum alltaf að rekast hvor á annan, Harry!“

Harry, klemmdur upp að síðunni á Lockhart og logandi af skömm, sá Draco lauma sér glottandi inn í þvöguna.

„Drífðu þá í því, Colin Creevey,“ sagði Lockhart og sendi Colin geislandi bros. „Nú slærðu tvær flugur í einu höggi, það gerist ekki betra og við áritum hana báðir handa þér.“

Colin fálmaði eftir myndavélinni og tók myndina um leið og bjallan hringdi inn í síðdegistímana.

„Áfram með ykkur, af stað nú!“ kallaði Lockhart yfir garðinn og hélt heim að kastalanum, enn með handlegginn þétt utan um Harry sem óskaði einskis frekar en að hann kynni einhvern góðan galdur til að láta sig hverfa.

„Ég ætla að gefa þér heillaráð, Harry,“ sagði Lockhart föðurlega þegar þeir gengu inn um hliðardyr skólabyggingarinnar. „Ég tók þátt í þessu áðan til að redda þér – ég lét Colin litla taka mynd af mér líka svo

skólafélögunum fyndist þú kannski síður vera að setja þig á háan hest …“

Lockhart skellti skollaeyrum við staminu í Harry, sópaði honum með sér inn ganginn, þar sem fjöldi nemenda góndi á þá, og áfram upp stiga.

„Þú ert kominn svo skammt á framabrautinni að það virkar eins og mont að árita myndir, Harry, ef ég á að vera hreinskilinn. Það getur vel verið að sú stund renni upp, eins og hjá mér, að það komi sér vel að hafa bunka af myndum við höndina, en“ – hann flissaði – „ég held að það sé ekki alveg komið að því.“

Það var ekki fyrr en þeir voru komnir að kennslustofunni hans Lockharts að hann sleppti loks hendinni af Harry. Harry slétti úr brotunum á skikkjunni og fann sér sæti aftast í kennslustofunni þar sem hann raðaði öllum sjö bókunum hans Lockharts upp í stafla fyrir framan sig til að komast hjá því að horfa á Lockhart sjálfan.

Hinir bekkjarfélagarnir komu blaðskellandi inn og Ron og Hermione settust hvort sínum megin við Harry.

„Það hefði verið hægt að spæla egg á andlitinu á þér,“ sagði Ron.

„Við skulum bara vona að Colin og Ginny hittist ekki. Þau myndu örugglega stofna aðdáendaklúbb Harrys Potter“.

„Þegiðu nú,“ hreytti Harry út úr sér. Síst af öllu vildi hann að Lockhart heyrði orðin „aðdáendaklúbbur Harrys Potter“.

Þegar allir voru sestir ræskti Lockhart sig hátt og bekkurinn þagnaði. Hann beygði sig fram, tók upp eintakið hans Nevilles Longbottom af Trítlað með tröllum og hélt henni á lofti til að sýna kápumyndina af sér sem blikkaði þau.

„Ég,“ sagði hann, benti á myndina og blikkaði þau líka sjálfur.

„Gilderoy Lockhart, Merlinreglan, þriðju deild, heiðursmeðlimur í félaginu Vörn gegn myrku öflunum og hef fimm sinnum í röð verið valinn Töfrabros vikunnar hjá Nýju nornalífi – en ég tala aldrei um það. Ég losaði mig ekki við Hvítu vofuna með því að brosa til hennar!“ Hann beið eftir hlátri, nokkrir brostu dauflega.

„Ég sé að þið hafið öll keypt heildarútgáfu verka minna – fínt. Mér datt í hug að hefja daginn á smáprófi. Það er ekkert til að hafa áhyggjur af – bara til að athuga hvað þið eruð vel lesin, hversu mikið þið hafið lært …“

Þegar hann hafði lokið við að dreifa prófblöðunum gekk hann aftur að kennaraborðinu og sagði: „Þið fáið þrjátíu mínútur … byrjið … núna!“

Harry leit niður á blaðið og las:

1. Hver er uppáhaldslitur Gilderoys Lockhart?

2. Hvert er leynilegt takmark Gilderoys Lockhart?

3. Hvert er að þínu mati mesta afrek Gilderoys Lockhart?

Og svona hélt þetta áfram næstu þrjár blaðsíðurnar og endaði á:

54. Hvenær á Gilderoy Lockhart afmæli og hvers óskar hann sér helst af öllu í afmælisgjöf?

Hálfri klukkustund síðar safnaði Lockhart saman prófunum og fletti í gegnum þau fyrir framan bekkinn.

„Uss, uss – það mundi næstum enginn að uppáhaldsliturinn minn er lillablár. Það kemur fram í Sumardvöl hjá snjómanninum. Og nokkur ykkar þurfa að lesa Á vergangi með varúlfum mun betur – það kemur skýrt fram í 12. kafla að hin fullkomna afmælisgjöf, að mínu mati, er friður á milli galdrafólks og þeirra sem ekki kunna á galdra – þó myndi ég nú ekki slá hendinni á móti stórri flösku af Gamla eldviskíinu hans Ogdens!“

Hann leit prakkaralega á þau. Ron starði vantrúaður á Lockhart; Seamus Finnigan og Dean Thomas, sem sátu fremst, hristust af niðurbældum hlátri. Hermione sat og hlustaði hugfangin en dauðbrá þegar hann nefndi hana á nafn.

„… en ungfrú Hermione Granger vissi að leynilegt takmark mitt er að frelsa heiminn undan öllu illu og setja á markað mína eigin línu af hársnyrtivörum – gott hjá stelpunni! Raunar,“ – hann fletti prófinu hennar – „er hún með allt rétt! Hvar er ungfrú Hermione Granger?“

Hermione rétti upp skjálfandi höndina.

„Frábært!“ sagði hann og ljómaði. „Alveg frábært! Gryffindor fær tíu stig! Og nú tekur alvaran við …“

Hann beygði sig niður og tók stórt búr með ábreiðu undan kennaraborðinu.

„Nokkur varnaðarorð! Það er hlutverk mitt að kenna ykkur varnir gegn andstyggilegustu skepnum galdraheimsins! Þið eigið líklega eftir að standa andspænis hræðilegum ógnum hér innan þessara veggja. En örvæntið ei því á meðan ég er á meðal ykkar getur ekkert skaðað ykkur. Ég bið ykkur aðeins um að vera róleg.“

Þrátt fyrir allt gat Harry ekki stillt sig um að gægjast til hliðar við bókastaflann til að fylgjast með. Lockhart lagði höndina ofan á ábreiðuna. Dean og Seamus voru hættir að hlæja. Neville hnipraði sig saman í sætinu sínu í fremstu röð.

„Ég bið ykkur um að æpa ekki,“ sagði Lockhart lágmæltur. „Það gæti espað þá upp.“

Bekkurinn hélt niðri í sér andanum þegar Lockhart svipti ábreiðunni af búrinu.

„Já,“ sagði hann grafalvarlegur. „Þetta eru nýveiddir smáálfar frá Cornwall.“

Seamus Finnigan gat ekki hamið sig. Hann rak upp hláturgusu og jafnvel Lockhart gat ekki villst á henni og hræðsluópi.

„Já?“ sagði hann brosandi við Seamus.

„Ja, þeir eru ekki – þeir eru ekki mjög – hættulegir, eða hvað?“ spurði Seamus hálfkæfðri röddu.

„Vertu ekki of viss!“ sagði Lockhart og otaði fingrinum gremjulega framan í Seamus. „Þeir geta svo sannarlega verið illkvittnir, litlir prakkarar!“

Smáálfarnir voru rafbláir og um það bil 20 sentímetrar á hæð, hvassleitir og skrækar raddirnar minntu helst á rifrildi páfagauka. Jafnskjótt og ábreiðan hafði verið fjarlægð byrjuðu þeir að þvaðra og skjótast um búrið, skekja rimlana og gretta sig framan í nemendurna sem sátu næst þeim.

„Jæja,“ kallaði Lockhart út yfir bekkinn. „Við skulum sjá hvort þið ráðið við þá.“ Og hann opnaði búrið.

Í nokkra stund ríkti algjör ringulreið. Smáálfarnir skutust í allar áttir eins og rakettur. Tveir þeirra gripu hvor í sitt eyrað á Neville og hófu hann á loft. Nokkrir skutust beint í gegnum gluggann svo að glerbrotunum rigndi yfir öftustu sætaröðina. Hinir héldu áfram að leggja kennslustofuna í rúst á skemmri tíma en brjálaður nashyrningur. Þeir gripu blekbyttur og skvettu úr þeim yfir bekkinn, tættu bækur og blöð, rifu myndir niður af veggjunum, hvolfdu úr rusla körfunum, gripu töskur og bækur og hentu þeim út um brotinn gluggann; fljótlega höfðu flestir nemendurnir leitað skjóls undir borðum en Neville hékk niður úr járnkertastjaka í loftinu.

„Svona nú – safnið þeim saman, safnið þeim saman, þetta eru bara smáálfar,“ hrópaði Lockhart.

Hann bretti upp ermarnar, sveiflaði töfrasprotanum og þrumaði:

„Peskipiksi Pesternomi!“

Það hafði ekki nokkur áhrif; einn smáálfanna tók af honum sprotann og fleygði honum líka út um gluggann. Lockhart tók andköf, stakk sér undir kennaraborðið og slapp með naumindum undan Neville sem hrundi niður í sama mund og kertastjakinn brotnaði.

Bjallan hringdi og allir þutu að dyrunum. Allt varð kyrrara miðað við það sem á undan var gengið, Lockhart tók á sig rögg, kom auga á Harry, Ron og Hermione sem voru á leiðinni út og sagði: „Jæja, ég vil biðja ykkur um að skella þeim bara aftur í búrið.“ Hann geystist framhjá þeim og var fljótur að loka dyrunum á eftir sér.

„Hann er ótrúlegur!“ hrópaði Ron um leið og einn smáálfanna beit hann fast í eyrað.

„Hann vill bara sýna okkur hvernig hlutirnir eru í framkvæmd,“ sagði Hermione, festi tvo smáálfa með sniðugum frystigaldri og stakk þeim aftur ofan í búrið.

„Í framkvæmd?“ sagði Harry um leið og hann reyndi að grípa smáálf sem dansaði um og ullaði á hann. „Hermione, hann hafði ekki hugmynd um hvað hann var að gera …“

„Vitleysa,“ sagði Hermione. „Þú hefur lesið bækurnar hans – hugsaðu þér bara alla þessa ótrúlegu hluti sem hann hefur gert …“

„Sem hann segist hafa gert,“ muldraði Ron.

# Sjöundi kafli

# Blóðníðingar og muldur

Næstu daga átti Harry fullt í fangi með að forðast Lockhart á skólagöngunum. Það var erfiðara með Colin Creevey sem virtist hafa lært stundaskrána hans Harrys utanbókar. Ekkert virtist gleðja hann meira en að segja: „Hvað segirðu, Harry?“ sex eða sjö sinnum á dag og heyra svarið: „Hæ, Colin,“ þótt Harry hljómaði ekki glaðlega þegar hann svaraði.

Hedwig var ennþá reið út í Harry vegna hinnar hörmulegu bílferðar og sprotinn hans Rons var enn í ólagi, en verst var þegar hann skaust úr hendinni á Ron í töfrabragðatíma á föstudagsmorgni og lenti beint á milli augnanna á Flitwick gamla prófessor svo að þrútið, grænt graftarkýli spratt þar fram. Þegar öllu var á botninn hvolft var Harry mjög feginn að helgin var á næsta leiti. Hann, Ron og Hermione höfðu ráðgert að heimsækja Hagrid á sunnudagsmorguninn. Harry var vakinn með látum, löngu áður en hann hafði ætlað að vakna, af Oliver Wood, fyrirliða Quidditchliðs Gryffindor.

„Hvað er um að vera?“ spurði Harry ringlaður.

„Quidditchæfing!“ sagði Wood. „Drífðu þig!“

Harry leit út um gluggann og pírði augun. Á roðagylltum himninum var þokumóða. Nú, þegar hann var vaknaður, botnaði hann ekkert í hvernig hann hafði getað sofið fyrir fuglakvakinu.

„Oliver,“ sagði Harry í nöldurtón. „Það er varla farið að birta.“
„Einmitt,“ sagði Wood. Hann var stór og þrekvaxinn sjötta árs nemi og augu hans loguðu af ákafa. „Þetta er hluti af nýju æfingaáætluninni okkar. Svona, náðu í kústinn þinn og svo förum við,“ sagði Wood ákafur. „Ekkert hinna liðanna er byrjað að æfa ennþá; við skulum sigra í ár …“

Harry skreiddist geispandi með hálfgerðan kuldahroll fram úr rúminu og leitaði að Quidditchskikkjunni sinni.

„Það var lagið,“ sagði Wood. „Hitti þig niðri á velli eftir fimmtán mínútur.“

Þegar hann hafði fundið skarlatsrauðu Quidditchskikkjuna sína hripaði hann á miða skilaboð til Rons til að skýra hvert hann hefði farið og gekk svo niður hringstigann í setustofuna með Nimbus 2000 um öxl. Hann var rétt kominn að málverkinu þegar hann heyrði skarkala að baki sér og Colin Creevey kom rjúkandi niður stigann. Myndavélin sveiflaðist með miklum látum um hálsinn á honum og hann hélt fast á einhverju í hendinni.

„Ég heyrði einhvern nefna nafnið þitt í stiganum, Harry! Sjáðu hvað ég er með! Ég framkallaði hana, mig langaði að sýna þér …“

Harry leit annars hugar á myndina sem Colin veifaði fyrir framan nefið á honum.

Svarthvít mynd af Lockhart var á mikilli hreyfingu og togaði af öllum kröftum í handlegg sem Harry kannaðist við sem sinn eigin. Hann varð glaður við að sjá að myndin af honum sjálfum streittist af öllum mætti á móti því að láta draga sig inn á ljósmyndina. Á meðan Harry horfði á myndina gafst Lockhart upp og hallaði sér móður upp að hvítum rammanum á ljósmyndinni.

„Viltu árita hana?“ spurði Colin ákafur.

„Nei,“ sagði Harry ákveðinn og leit í kringum sig til að athuga hvort setustofan væri ekki örugglega mannlaus. „Því miður, Colin, ég er að flýta mér – Quidditchæfing …“

Hann klifraði í gegnum gatið á bak við málverkið.

„Heyrðu, vá! Bíddu eftir mér! Ég hef aldrei horft á Quidditchleik!“ Colin klöngraðist í gegnum opið á eftir honum.

„Það verður rosalega leiðinlegt,“ flýtti Harry sér að segja, en Colin hlustaði ekki á hann, andlitið geislaði af spenningi.

„Ert þú ekki yngsti leikmaðurinn í hundrað ár, Harry? Er það ekki?“ sagði Colin og trítlaði af stað við hlið hans. „Þú hlýtur að vera alveg frábær. Ég hef aldrei flogið. Er það auðvelt? Er þetta þinn eigin galdrakústur? Er þetta ekki sá besti?“

Harry vissi ekki hvernig hann átti að losna við hann. Honum leið eins og honum fylgdi ákaflega málgefinn skuggi.

„Ég skil ekki alveg reglurnar í Quidditch,“ sagði Colin andstuttur.

„Er það satt að þið notið fjóra bolta? Og að tveir þeirra fljúgi um og reyni að slá leikmennina af kústunum?“

„Já,“ sagði Harry þunglega og hóf að útskýra hinar flóknu reglur Quidditchleiksins. „Þeir kallast rotarar. Það eru tveir varnarmenn í hverju liði sem bera kylfur til að slá rotarana af sínum vallarhelmingi. Fred og George Weasley eru varnarmenn hjá Gryffindorliðinu.“

„Og til hvers eru hinir boltarnir?“ spurði Colin um leið og hann hrasaði niður nokkrar tröppur því hann hafði starað opinmynntur á Harry.

„Tromlan – það er stóri rauði boltinn – gefur mörkin. Þrír sóknarmenn úr hvoru liði kasta henni á milli sín og reyna að koma henni gegnum eitt af mörkunum þremur sem eru fyrir endanum á vellinum – það eru þrjár háar stangir með hringjum efst.“

„Og fjórði boltinn …“

„Er gullna eldingin,“ sagði Harry, „hún er mjög lítil og hraðfleyg og henni er mjög erfitt að ná. En leitarinn verður að

handsama gullnu eldinguna því að Quidditchleik lýkur ekki fyrr en hún hefur náðst. Og sá leitari sem grípur hana ávinnur liðinu sínu hundrað og fimmtíu stig aukalega.“

„Og ert þú ekki leitari Gryffindorliðsins?“ sagði Colin með lotningu.

„Jú,“ sagði Harry þegar þeir yfirgáfu kastalann og héldu af stað yfir döggvott grasið. „Og svo er það líka gæslumaðurinn. Hann stendur vörð um markstangirnar. Þá held ég að allt sé upptalið.“

En Colin lét spurningaflóðið hellast yfir hann alla leið niður aflíðandi grasflatirnar og að Quidditchvellinum. Harry tókst ekki að hrista hann af sér fyrr en þeir voru komnir að búningsklefunum. Colin kallaði á eftir honum hvellri röddu: „Ég fer og finn mér gott sæti, Harry!“ og flýtti sér að áhorfendapöllunum.

Hinir leikmenn Gryffindorliðsins voru þegar mættir í búningsklefann. Oliver Wood var sá eini sem leit út fyrir að vera glaðvakandi. Fred og George Weasley sátu með þrútin augu og úfið hár við hliðina á fjórða árs nemanum Aliciu Spinnet sem virtist hafa dottað uppi við vegginn. Hinir

sóknarmennirnir tveir, Katie Bell og Angelina John son, geispuðu hlið við hlið andspænis þeim.

„Þarna ertu, Harry, af hverju varstu svona lengi?“ sagði Oliver hressilega. „Áður en við förum út á völl langar mig að segja ykkur sem snöggvast frá æfingaáætluninni sem ég hef verið að vinna að í allt sumar. Ég held að hún eigi eftir að breyta miklu …“

Oliver hélt á lofti stórri skýringarmynd af Quidditchvelli. Á hana voru teiknaðar margar línur, örvar og krossar í mismunandi litum. Hann dró fram töfrasprotann sinn, sló honum létt á myndina og örvarnar byrjuðu að skríða eins og skordýr fram og til baka um myndina. Um leið og Oliver hóf ræðuna um nýju æfingaáætlunina seig höfuðið á Fred Weasley beint út á öxlina á Aliciu Spinnet og hann byrjaði að hrjóta.

Það tók næstum tuttugu mínútur að útskýra fyrsta spjaldið, en það var annað spjald undir því og það þriðja þar á eftir. Oliver talaði og talaði þar til Harry var orðinn stjarfur.

„Jæja,“ sagði Oliver löngu síðar svo Harry hrökk upp af draumórum um girnilegan morgunverðinn sem verið var að

reiða fram í kastalanum á þessari stundu. „Allt á hreinu? Einhverjar spurningar?“

„Ég er með eina spurningu, Oliver,“ sagði George sem hafði hrokkið upp af værum blundi. „Af hverju gastu ekki sagt okkur þetta allt í gær þegar við vorum vakandi?“ Oliver var ekki ánægður.

„Hlustið nú öll vel á mig,“ sagði hann og hvessti á þau augun. „Við hefðum átt að vinna Quidditchbikarinn á síðasta ári. Við erum lang besta liðið. En því miður – vegna atburða sem ekki var hægt að sjá fyrir …“

Harry ók sér sakbitinn í sætinu. Þegar lokaleikurinn fór fram í fyrra hafði hann legið meðvitundarlaus í sjúkrahúsálmunni og það varð til þess að leikmenn Gryffindor voru einum færri og liðið beið sinn stærsta ósigur í þrjú hundruð ár.

Oliver þagnaði eitt andartak til að ná stjórn á sér aftur. Hann var augljóslega ekki enn búinn að jafna sig á ósigrinum.

„Í ár skulum við komast í betri þjálfun en nokkru sinni fyrr … nú förum við og komum þessum leikáætlunum í framkvæmd!“ hrópaði Oliver, greip galdrakústinn sinn og

gekk í fararbroddi út úr búningsklefanum. Liðið fylgdi á eftir, stirðbusalegt og svefndrukkið.

Þau höfðu verið svo lengi inni í búningsklefanum að sólin var komin hátt á loft þó að enn lægi þokuslæðingur yfir grasinu á íþróttavellinum. Þegar Harry gekk inn á völlinn kom hann auga á Ron og Hermione á áhorfendapöllunum.

„Ertu ekki enn búinn?“ kallaði Ron vantrúaður.

„Ég er ekki einu sinni byrjaður,“ sagði Harry og horfði öfundaraugum á ristaða brauðið og marmelaðið sem Ron og Hermione höfðu tekið með sér úr Stóra salnum. „Oliver var að kenna okkur nýjar fléttur.“

Hann steig á bak galdrakústinum, spyrnti sér frá jörðu og stefndi beint upp. Svalur andvarinn, sem lék um andlit hans, var mun áhrifaríkari hressing en löng ræða Woods. Það var dásamlegt að vera kominn aftur á Quidditchvöllinn. Hann fór hringinn í kringum völlinn á ógnarhraða í kappi við Fred og George.

„Hvaða skrítnu smellir eru þetta?“ kallaði Fred um leið og þeir tóku beygju með leifturhraða.

Harry leit niður á áhorfendapallana. Colin sat í einu af efstu sætunum með myndavélina á lofti og smellti af í gríð og erg, hljóðið magnaðist undarlega á auðum íþróttavellinum.

„Líttu hingað, Harry! Hingað!“ skrækti hann.

„Hver er þetta?“ spurði Fred.

„Hef ekki hugmynd,“ laug Harry og gaf í til að komast eins langt frá Colin og mögulegt var.

„Hvað gengur á?“ sagði Oliver brúnaþungur um leið og hann sveif í áttina að þeim. „Af hverju er þessi fyrsta árs nemi að taka myndir? Ég kæri mig ekki um þetta. Hann gæti verið njósnari fyrir Slytherin að njósna um nýju æfingaáætlunina.“
„Hann er í Gryffindor,“ sagði Harry strax.

„Og Slytherinkrakkarnir þurfa engan njósnara, Oliver,“ sagði George.

„Af hverju segirðu það?“ spurði Oliver tortrygginn.

„Af því að liðið er mætt á staðinn,“ sagði George og benti.

Hópur nemenda í grænum skikkjum kom gangandi inn á völlinn með galdrakústa í höndunum.

„Ég trúi þessu ekki!“ hvæsti Oliver fullur af heift. „Ég pantaði völlinn í dag! Þeir komast ekki upp með þetta!“

Wood skaust í átt til jarðar en lenti í reiði sinni harkalegar en hann hafði ætlað sér og riðaði örlítið þegar hann steig af kústinum. Harry, Fred og George komu á eftir.

„Marcus!“ öskraði Wood að fyrirliða Slytherin. „Þetta er æfingatíminn okkar! Við vöknuðum snemma í morgun! Þið skuluð koma ykkur af vellinum!“

Marcus Flint var jafnvel stærri en Wood. Svipur hans lýsti álfslegri kænsku þegar hann svaraði: „Nóg pláss fyrir okkur öll, Oliver.“

Angelina, Alicia og Katie voru líka komnar. Það voru engar stelpur í Slytherinliðinu. Liðsmennirnir stóðu þétt saman og störðu illskulega á Gryffindorliðið.

„En ég pantaði völlinn!“ sagði Oliver og beinlínis frussaði af bræði.

„Ég pantaði hann!“

„Jæja,“ sagði Marcus. „En ég er með bréf frá Snape prófessor. Ég, S. Snape prófessor, veiti Slytherinliðinu hér með leyfi til að æfa á Quidditchvellinum í dag sökum þess að liðið þarf að þjálfa nýjan leitara sinn.“

„Eruð þið komnir með nýjan leitara?“ sagði Oliver ruglaður. „Hvar er hann?“

Og sjöundi leikmaðurinn steig fram eftir að hafa staðið falinn á bak við hina sex tröllvöxnu leikmenn Slytherin. Það var lágvaxinn drengur með hæðnislegt glott á fölu, skarpleitu andlitinu – þetta var Draco Malfoy.

„Ert þú ekki sonur Luciusar Malfoy?“ spurði Fred og horfði með óbeit á Draco.

„Fyndið að þú skulir minnast á föður Dracos,“ sagði Flint og ánægjubrosið varð enn breiðara á andlitum Slytherinliðsins.

„Leyfðu mér að sýna þér þá höfðinglegu gjöf sem hann færði Slytherinliðinu.“

Allir sjö réttu þeir fram galdrakústana sína. Sjö gljáfægðir, spánnýir kústar með fíngerðri, gylltri áletrun, „Nimbus 2001“, glitruðu í morgunsólinni fyrir framan nefin á leikmönnum Gryffindor.

„Nýjasta tegundin. Var sett á markað í síðasta mánuði,“ sagði Marcus kæruleysislega og dustaði rykögn af kústinum sínum. „Hann hefur víst marga eiginleika fram yfir gömlu 2000-gerðina. Og gömlu Cleansweep 5-kústarnir,“ – hann brosti illkvittnislega til Freds og Georges sem báðir héldu á Cleansweep-kústum – „eru ekki til annars nýtir en að sópa upp föllnum leikmönnum.“

Sjálfsánægjubrosið breiddist út um andlitið á Draco svo að augun urðu að litlum rifum.

„Nei, sjáiði,“ sagði Marcus. „Innrás.“

Ron og Hermione voru á leið yfir grasflötina til að athuga hvað gengi á.

„Hvað er að gerast?“ spurði Ron Harry. „Af hverju eruð þið ekki byrjuð að spila? Og hvað er hann að gera hér?“

Hann horfði á Draco og varð starsýnt á nýju Quidditchskikkjuna sem hann klæddist.

„Ég er nýi leitarinn fyrir Slytherinliðið, Ron,“ sagði Malfoy drjúgur með sig. „Við vorum að dást að galdrakústunum sem faðir minn keypti handa liðinu.“

Ron góndi opinmynntur á glæsikústana sjö sem Slytherinliðið hélt á lofti.

„Flottir, ekki satt?“ sagði Draco mjúkmáll. „Kannski tekst Gryffindor líka að safna smágulli til að kaupa nýja kústa. Ég er viss um að þið gætuð selt Cleansweep 5-kústana á fornminjasafn og fengið gott verð fyrir þá.“

Slytherinliðið öskraði af hlátri.

„Það þurfti að minnsta kosti enginn að kaupa sig inn í Gryffindorliðið,“ sagði Hermione hvasst. „Þeir eru í liðinu af því að þeir hafa hæfileika.“

Glottið á andliti Dracos hvarf snögglega.

„Það var enginn að spyrja þig, litli, ógeðslegi blóðníðingurinn þinn,“ hrækti Draco út úr sér.

Harry vissi um leið að Draco hafði sagt eitthvað hrikalega slæmt því samstundis fór allt í uppnám. Marcus varð að kasta sér fram fyrir Draco til að koma í veg fyrir að Fred og George stykkju á hann, Alicia skrækti: „Hvernig vogarðu þér!“ og Ron dró fram sprotann sinn og æpti:

„Þetta færðu borgað, Draco!“ og beindi honum trylltur af reiði að andliti Dracos.

Hár hvellur bergmálaði um völlinn og grænt leiftur skaust út úr öfugum enda á sprotanum hans Rons, hæfði hann beint í magann svo hann kútveltist aftur fyrir sig í grasinu.

„Ron! Ron! Er allt í lagi með þig!“ æpti Hermione.

Ron opnaði munninn til að segja eitthvað. Þess í stað ropaði hann ógurlega og nokkrir sniglar láku út úr munninum á honum og niður í kjöltuna.

Slytherinliðið veltist um af hlátri. Marcus lyppaðist niður og hélt sér í kústinn sér til stuðnings. Draco lá á fjórum fótum og barði hnefunum í jörðina. Gryffindorliðið hópaðist í kringum Ron sem hélt áfram að ropa upp stórum, glansandi sniglum. Enginn virtist hafa lyst á að snerta hann.

„Við skulum koma honum heim til Hagrids, það er stutt héðan," sagði Harry við Hermione, sem kinkaði ákveðin kolli og með sameiginlegu átaki drógu þau Ron á fætur.

„Hvað gerðist, Harry? Hvað gerðist? Er hann veikur? Getur þú ekki læknað hann?" Colin kom hlaupandi úr sætinu sínu og dansaði í kringum þau á leið sinni út af vellinum. Ron gaf frá sér hátt búkhljóð og enn fleiri sniglar láku út um munninn á honum.

„Vaaáááá," sagði Colin heillaður og hóf myndavélina á loft.

„Geturðu haldið honum kyrrum, Harry?"

„Farðu frá, Colin!" sagði Harry reiðilega. Þau Harry og Hermione studdu Ron út af vellinum, yfir grasflatirnar og að jaðri skógarins.

„Við erum alveg að koma, Ron,“ sagði Hermione þegar þau komu auga á kofa skógarvarðarins. „Bráðum verður allt í lagi með þig – nú erum við næstum komin –“

Þau voru rétt komin að kofanum þegar dyrnar opnuðust, en það var ekki Hagrid sem birtist. Það var Gilderoy Lockhart sem stikaði út, þennan dag klæddist hann ljóspurpurarauðri skikkju.

„Fljót, í felur hérna,“ hvíslaði Harry og dró Ron á bak við nálægan runna. Hermione fylgdi treglega á hæla þeirra.

„Þetta er ekkert mál ef þú veist hvað þú ert að gera!“ sagði Lockhart hárri röddu við Hagrid. „Ef þú þarfnast hjálpar þá veistu hvar mig er að finna! Ég ætla að gefa þér eintak af bókinni minni. Það kemur mér á óvart að þú skulir ekki eiga hana – ég árita eina í kvöld og sendi til þín. Jæja, vertu sæll!“ Og svo strunsaði hann á brott heim að kastalanum.

Harry beið þar til Lockhart var kominn úr augsýn áður en hann dró Ron út úr runnanum og að dyrunum hjá Hagrid. Þau börðu fast á dyrnar.

Hagrid opnaði samstundis, mjög geðillur á svip, en það birti yfir honum þegar hann sá að þetta voru þau.

„Ég er búinn að bíða eftir ykkur – komið inn, komið inn – hélt að Lockhart prófessor væri kannski kominn aftur –“

Harry og Hermione studdu Ron yfir þröskuldinn og inn í kofann. Kofinn var aðeins eitt herbergi með risastóru rúmi í einu horninu og í öðru logaði glatt í arni. Hagrid var ekki hið minnsta brugðið yfir sniglavandamáli Rons, sem Harry lýsti hraðmæltur á meðan hann aðstoðaði Ron við að setjast.

„Betra að þeir komi upp en fari niður,“ sagði hann glaðlega og skellti stórri koparskál fyrir framan Ron. „Spýttu þeim nú öllum út, Ron.“

„Ég held að það sé ekki annað að gera en að bíða eftir að þetta hætti,“ sagði Hermione kvíðin og fylgdist með Ron sem sat í keng yfir skálinni. „Það er nógu erfitt að framkvæma þessa bölvun við góð skilyrði – hvað þá með ónýtum sprota –“

Hagrid var á þönum í kringum þau að laga te á meðan veiðihundurinn hans, Tryggur, slefaði yfir Harry.

„Hvað var Lockhart að gera hérna, Hagrid?“ spurði Harry og klóraði Tryggi á bak við eyrun.

„Hann var að gefa mér ráð um hvernig ætti að losa sig við nykra úr brunni,“ urraði Hagrid, fjarlægði hálfreyttan hana af borðinu og lagði tepottinn frá sér. „Eins og ég kunni það ekki. Svo var hann að monta sig af því að hafa hrakið einhverja vofu á brott. Ef það var eitt sannleiksorð í þessari sögu, skal ég éta ketilinn minn.“

Það var afar ólíkt Hagrid að gagnrýna kennara við Hogwartskóla og Harry leit undrandi á hann. En Hermione, sem nú lá óvenju hátt rómur, svaraði: „Nú held ég að þú sért dálítið ósanngjarn. Dumbledore prófessor fannst greinilega að hann væri hæfasti umsækjandinn um starfið …“

„Hann var eini umsækjandinn,“ sagði Hagrid og bauð þeim sírópskökur af fati á meðan Ron hélt áfram að hósta upp sniglum svo að skvampaði í skálinni. „Og þá meina ég sá eini. Það er orðið erfitt að finna kennara til að kenna varnir gegn myrku öflunum. Það langar engan að sækja um þessa stöðu. Það ganga sögur um að starfinu fylgi ógæfa. Það er orðið langt síðan nokkur kennari hefur enst í því. En segðu mér nú,“

sagði Hagrid og hnykkti höfðinu í átt að Ron. „Á hvern var hann að reyna að leggja álög?“

„Draco kallaði Hermione eitthvað – það hlýtur að hafa verið eitthvað slæmt því það varð allt vitlaust.“

„Það var slæmt,“ sagði Ron hásri röddu og birtist undan borðinu, fölur og sveittur. „Draco kallaði hana blóðníðing, Hagrid …“ Ron hvarf aftur úr augsýn þegar ný gusa af sniglum braust fram.

Hagrid virtist sárreiður.

„Ég trúi því ekki!“ urraði hann á Hermione.

„Það er satt,“ sagði hún. „En ég veit ekki hvað það þýðir. Ég skildi auðvitað að það er eitthvað mjög dónalegt …“

„Þetta er líklega það mest móðgandi sem hægt er að láta út úr sér,“ stundi Ron sem birtist aftur. „Blóðníðingur er reglulega andstyggilegt orð sem notað er yfir þá sem eru af Muggaættum – þú veist, þeir sem eiga foreldra sem geta ekki galdrað. Sumir galdramenn – eins og í fjölskyldunni hans Dracos – halda að þeir séu betri en allir aðrir því þeir séu með

svokallað hreint blóð.“ Hann ropaði lágt og lítill snigill féll í útréttan lófa hans. Hann fleygði honum í skálina og hélt áfram:

„Ég meina, við hin vitum að þetta skiptir ekki neinu máli. Sjáðu Neville Longbottom – hann hefur hreint blóð en veit varla hvað snýr upp eða niður á seiðpotti.“

„Og það finnst ekki sá galdur sem hún Hermione okkar getur ekki beitt,“ sagði Hagrid með stolti og Hermione roðnaði eins og tómatur.

„Þetta er andstyggilegt skammaryrði,“ sagði Ron og strauk sveitt ennið með skjálfandi hendi. „Óhreint blóð og hreint blóð. Þetta er fáránlegt. Nú til dags eru flestir galdramenn með blandað blóð hvort sem er. Ef við hefðum ekki gifst Muggum hefðum við dáið út.“ Hann kúgaðist og hvarf aftur úr augsýn.

„Ekki álasa ég þér fyrir að reyna að leggja á hann álög, Ron,“ sagði Hagrid hárri röddu til að yfirgnæfa skvampið í sniglunum sem skullu ofan í skálina. „En kannski var það ekki svo slæmt að sprotinn þinn skyldi skjóta aftur úr sér. Annars hefðum við örugglega mátt búast við Luciusi Malfoy hingað í

skólann til að klaga þig. Þú komst þér að minnsta kosti ekki í nein vandræði.“

Harry langaði að benda á að það væri ekki hægt að lenda í mikið verri vandræðum en Ron að æla öllum þessum sniglum, en hann gat það ekki; síropskökurnar hans Hagrids höfðu límt saman á honum kjálkana.

„Harry,“ sagði Hagrid eins og hann hefði skyndilega fengið hugdettu. „Er það satt sem ég heyrði? Ég frétti að þú værir farinn að dreifa árituðum myndum af þér. Af hverju hef ég ekki fengið neina?“ Æfur af reiði losaði Harry kjálkana upp úr sírópinu.

„Ég hef ekki verið að gefa áritaðar myndir,“ sagði hann æstur. „Ef Lockhart er enn að breiða út kjaftasögur …“ En þá sá hann að Hagrid var hlæjandi.

„Ég er bara að grínast,“ sagði hann og klappaði Harry vingjarnlega á bakið svo að hann datt fram fyrir sig með andlitið ofan í borðið. „Ég veit vel að þú mundir aldrei gera neitt svoleiðis. Ég sagði Lockhart að þú þyrftir þess ekki. Þú værir frægari en hann án þess að þú þyrftir að hafa nokkuð fyrir því.“

„Það hefur honum væntanlega ekki líkað,“ sagði Harry og settist upp og neri hökuna.

„Nei, það held ég alveg örugglega ekki,“ sagði Hagrid með glampa í augum. „Og svo sagði ég honum að ég hefði aldrei lesið neina af bókunum hans og þá ákvað hann að fara. Sírópsköku, Ron?“ bætti hann við þegar Ron birtist á ný.

„Nei, takk,“ sagði Ron veiklulega. „Ég tek ekki áhættuna.“

„Nú skuluð þið koma og sjá hvað ég er að rækta,“ sagði Hagrid þegar Harry og Hermione höfðu tæmt tebollana sína.

Í litla matjurtagarðinum fyrir aftan kofann hans Hagrids óx tylft af þeim stærstu graskerjum sem Harry hafði augum litið. Hvert þeirra var á stærð við risavaxinn hnullung.

„Þau spretta vel, finnst ykkur ekki?“ sagði Hagrid glaðlega. „Þau verða notuð á hrekkjavökunni … þá ættu þau að vera orðin nógu stór.“

„Á hverju hefurðu eiginlega alið þau?“ spurði Harry.

Hagrid leit um öxl til að fullvissa sig um að enginn væri að hlusta. „Ja, ég hef aðeins … þú veist … hjálpað til …“

Harry tók eftir að bleika regnhlífin hans Hagrids hallaðist upp að bakhlið kofans. Harry hafði lengi haft grun um að þessi regnhlíf væri ekki öll þar sem hún var séð; raunar hafði hann það sterklega á tilfinningunni að þetta væri gamli skólasprotinn hans Hagrids í dulargervi. Hagrid mátti ekki galdra. Hann hafði verið rekinn úr Hogwartskóla á þriðja ári en Harry vissi enn ekki ástæðuna – ef hann minntist á það ræskti Hagrid sig og varð á dularfullan hátt heyrnarlaus þar til talið barst að einhverju öðru.

„Ítroðslugaldur, ekki satt?“ sagði Hermione með samblandi af vanþóknun og ánægju í röddinni. „Já, þér hefur tekist vel upp með þau.“

„Það sama sagði litla systir þín,“ sagði Hagrid og kinkaði kolli til Rons. „Hitti hana í gær.“ Hann gaut augunum á Harry. „Hún sagðist vera að skoða sig um á skólalóðinni en ég er viss um að hún vonaðist til að hitta einn ákveðinn mann heima hjá mér.“ Hann blikkaði Harry.

„Ég býst ekki við að hún myndi segja nei við áritaðri …“

„O, þegiðu nú,“ sagði Harry. Ron sprakk úr hlátri og sniglum rigndi yfir garðinn.

„Passaðu þig!“ æpti Hagrid og dró Ron í burt frá hinum hjartfólgnu graskerjum.

Það styttist í hádegismatinn og þar sem Harry hafði ekki borðað neitt nema síropsköku frá því í dögun var hann orðinn óþreyjufullur að komast upp í skóla í mat. Þau kvöddu Hagrid og gengu aftur upp að kastalanum. Ron hikstaði einstaka sinnum en aðeins tveir mjög litlir sniglar komu upp úr honum.

Þau voru varla komin inn í svalan forsalinn þegar kallað var á drengina hárri röddu: „Þarna eruð þið, Harry – Ron.“ McGonagall prófessor kom gangandi til þeirra ströng á svip. „Þið takið út refsingu ykkar í kvöld.“

„Hvað eigum við að gera, prófessor?“spurði Ron kvíðinn og reyndi að bæla niður ropa.

„Þú átt að fægja silfrið í minjagripaherberginu með herra Filch,“ sagði McGonagall prófessor. „Og þú notar enga galdra, Ron – þetta verður púl.“

Ron svelgdist á. Húsvörðurinn, Argus Filch, var fyrirlitinn af öllum nemendum skólans.

„Og þú, Harry, átt að aðstoða Lockhart prófessor við að svara aðdáendabréfum," sagði McGonagall prófessor.

„Ó, n... prófessor, má ég ekki fægja silfur líka?" spurði Harry örvæntingarfullur.

„Ég held nú síður," sagði McGonagall og lét brýnnar síga. „Lockhart prófessor bað sérstaklega um þig. Stundvíslega klukkan átta."

Harry og Ron lötruðu ákaflega niðurdregnir inn í Stóra sal, Hermione kom á hæla þeirra með ja-þið-brutuð-nú-einu-sinni-reglurnar-svipinn. Harry missti næstum matarlystina við þessar skipanir frá McGonagall prófessor. Báðum fannst sitt hlutskipti hið versta.

„Filch á eftir að halda mér þarna í alla nótt," sagði Ron þunglega.

„Enga galdra! Það eru örugglega fleiri en hundrað bikarar í herberginu. Ég er svo lélegur í Muggahreingerningu.“

„Ég væri sko til í að skipta við þig,“ sagði Harry tómlega. „Ég er í góðri þjálfun eftir vistina hjá Dursleyfjölskyldunni. En að svara aðdáendabréfum Lockharts … hann er algjör martröð, þessi maður …“ Þetta laugardagssíðdegi flaug frá þeim; klukkuna vantaði allt í einu ekki nema fimm mínútur í átta. Harry dróst áfram eftir ganginum á annarri hæð þar sem Lockhart var með skrifstofu. Hann gnísti tönnum og barði að dyrum.

Hurðinni var samstundis svipt upp. Lockhart stóð í dyrunum og sendi honum ljómandi bros.

„Ó, kemur litli þorparinn!“ sagði hann. „Komdu inn, Harry, komdu inn …“

Kertaljósin brugðu birtu á óteljandi innrammaðar myndir af Lockhart á veggjunum. Nokkrar þeirra voru meira að segja áritaðar. Á skrifborðinu hans lá stór hrúga af myndum.

„Þú mátt skrifa utan á umslögin!“ sagði Lockhart við Harry eins og það væri einstök skemmtun. „Fyrsta bréfið er til Gladysar Gudgeon, Guð blessi hana – einlægur aðdáandi …“

Mínúturnar snigluðust áfram. Harry lét masið í Lockhart sem vind um eyru þjóta en muldraði annað slagið: „Uhumm“ og „einmitt“ og „jaaá“. Stöku sinnum heyrði hann þó setningar á borð við: „Frægðin er fláráður félagi, Harry,“ eða „Orðstír deyr aldrei þeim er sér góðan getur, mundu það.“

Kertin brunnu niður og flöktandi ljósið varpaði dansandi skuggum á hin mörgu andlit Lockharts sem horfðu á hann. Harry hripaði niður heimilisfang Veronicu Smethley með aumri hendi á þúsundasta umslagið. Ég hlýt að mega fara bráðum, hugsaði Harry niðurdreginn, gerðu það, láttu þessu vera lokið …

Skyndilega heyrði hann eitthvað – eitthvað allt annað en snarkið í uppbrunnum kertunum eða endalaust þvaðrið í Lockhart um aðdáendur.

Það var rödd; rödd sem frysti blóð í æðunum, rödd sem var full af hræðilegri illsku.

„Komdu … komdu til mín … Láttu mig rífa þig á hol … Láttu mig tæta þig í mig … Láttu mig drepa þig …“

Harry hrökk í kút svo að stór, fölblá blekklessa lagðist yfir heimilisfang Veronicu Smethley.

„Ha?“ sagði hann hárri röddu.

„Já, þetta er ótrúlegt!“ sagði Lockhart. „Heila sex mánuði í efsta sæti á metsölulistanum! Það slær öll met!“

„Nei,“ sagði Harry örvæntingarfullur. „Þessi rödd!“

„Rödd?“ sagði Lockhart undrandi. „Hvað áttu við?“

„Þessi rödd – röddin sem sagði – heyrðirðu það ekki?“ Lockhart horfði forviða á Harry.

„Um hvað ertu að tala, Harry? Ertu orðinn dálítið syfjaður? Ja, hérna – sjáðu bara hvað klukkan er orðin! Við erum búnir að vera hérna í næstum fjóra tíma! Ég hefði aldrei trúað því – tíminn hefur svo sannarlega flogið frá okkur, ha?“

Harry svaraði engu. Hann lagði grannt við hlustir í von um að heyra röddina aftur, en ekkert heyrðist nema fjasið í Lockhart um að hann gæti ekki búist við svona lúxusmeðferð næst þegar honum yrði refsað. Harry kom dasaður út af skrifstofunni.

Klukkan var orðin svo margt að setustofa Gryffindor var næstum mannlaus. Harry fór beint upp í svefnsalinn. Ron var ekki kominn aftur. Harry klæddi sig í náttfötin, skreið upp í rúm og beið. Hálftíma síðar birtist Ron og hélt varfærnislega um hægri handlegginn þegar hann læddist inn í myrkvað herbergið. Sterk lykt af fægilegi lagðist yfir herbergið.

„Vöðvarnir á mér eru allir bólgnir," stundi hann og lét sig falla ofan í rúmið. „Hann lét mig fægja Quidditchbikarinn fjórtán sinnum áður en hann varð ánægður. Svo fékk ég annað sniglakast yfir alla verðlaunaskildina fyrir sérstakt framlag til skólans. Það tók óratíma að þvo slímið af … Hvernig var hjá Lockhart?"

Harry sagði Ron frá því sem gerst hafði um kvöldið, í lágum hljóðum til að vekja ekki Neville, Dean og Seamus.

„Og sagðist Lockhart ekki hafa heyrt neitt?“ sagði Ron. Harry sá að hann hleypti brúnum í tunglsljósinu. „Helldurðu að hann hafi logið því? En ég skil þetta ekki – jafnvel ósýnileg vera hefði þurft að opna dyrnar.“

„Ég veit það,“ sagði Harry, skreið undir sængina sína og starði upp í rúmhimininn. „Ég skil þetta heldur ekki.“

# Áttundi kafli

# Dánardagsveislan

Októbermánuður bar með sér raka og kulda sem smaug eftir jörðinni og inn í kastalann. Hjúkrunarkonan, fröken Pomfrey, átti annríkt vegna skyndilegrar kvefsóttar sem hrjáði starfsfólk og nemendur. Piparm ixtúran hennar verkaði undravel, enda þótt reykjarstrókar liðu úr eyrum þeirra sem hana drukku í nokkra klukkutíma á eftir. Ginny Weasley hafði verið dálítið guggin svo að Percy neyddi hana til að taka mixtúruna inn. Það var engu líkara en höfuðið á henni stæði í ljósum logum þegar reykjarstrókarnir liðuðust undan líflegu hárinu.

Dögum saman buldu regndropar á stærð við byssukúlur á kastalagluggunum. Yfirborð vatnsins hækkaði, blómabeðin urðu að forarleðju og graskerin hans Hagrids þöndust út og voru nú á stærð við garðskýli. Þetta varð þó ekki til að draga úr eldmóði Olivers Wood og æfingar voru haldnar reglulega. Því var Harry gegndrepa og forugur upp fyrir haus á leið til

baka í Gryffindorturn, síðdegis einn storma saman laugardag – nokkrum dögum fyrir hrekkjavökuna.

Þetta hafði ekki verið sérlega ánægjuleg æfing og rokið og rigningin bættu ekki úr skák. Fred og George höfðu verið að njósna um Slytherinliðið og séð með eigin augum hvað Nimbus 2001 fór hratt yfir. Þeir sögðu að það væri engu líkara en Slytherinliðið væri orðið að sjö grænleitum eldingum sem flygju svo hratt að þær væru varla greinanlegar með berum augum.

Þegar Harry staulaðist áfram eftir auðum ganginum gekk hann fram á einhvern sem virtist alveg jafn annars hugar og hann sjálfur. Næstum hauslausi Nick, Gryffindordraugurinn, stóð og starði niðurdreginn út um gluggann og muldraði eitthvað fyrir munni sér: „… uppfylli ekki kröfur þeirra … varla hálfur þumlungur …“ „Halló, Nick,“ sagði Harry.

„Halló, halló,“ sagði Næstum hauslausi Nick, hrökk við og leit í kringum sig. Hann bar glæsilegan fjaðrahatt á síðum slöngulokkunum og var klæddur aðskornum jakka með háum pípukraga, sem huldi þá staðreynd að hálsinn var nærri algjörlega skilinn frá bolnum. Hann var fölur eins og

reykjarslæða og Harry sá beint í gegnum hann út í húmið og helliriginguna fyrir utan.

„Þú hefur einhverjar áhyggjur, Harry,“ sagði Nick og braut saman gegnsætt bréf um leið og hann talaði og stakk því inn undir aðskorinn jakkann.

„Líka þú,“ sagði Harry.

„Ó, það …“ Næstum hauslausi Nick veifaði þokkafullri hendi. „Það skiptir ekki máli … mig langaði svo sem ekkert til að vera með … fannst að ég ætti að sækja um … en ég uppfylli greinilega ekki kröfurnar …“

Þrátt fyrir kæruleysislega röddina var hann bitur á svip.

„En fyndist þér ekki,“ braust allt í einu upp úr honum og hann dró bréfið aftur upp úr vasanum, „að sá sem hefur fengið fjörutíu og fimm högg á hálsinn með bitlausri exi ætti rétt á að taka þátt í veiðum hinna hauslausu?“

„Ja – jú,“ sagði Harry sem átti greinilega að vera þessu samþykkur.

„Ég meina, ég hefði auðvitað helst viljað að þetta hefði verið gert á snyrtilegan og fljótlegan hátt og höfuðið hefði verið höggvið almennilega af, ég meina, það hefði verið langtum sársaukaminna og ég hefði ekki orðið fyrir háði og spotti. Hvað um það ...“ Næstum hauslausi Nick hristi bréfið úr brotinu og las reiðilega:

Við getum aðeins samþykkt þá veiðimenn,
sem hafa misst höfuð sitt að fullu.
Þér hljótið að skilja að annars er ekki mögulegt
fyrir meðlimi að taka þátt í veiðiathöfnum eins
og hausakasti á hestbaki og hausa-ati.
Mér þykir það því mjög leitt að þurfa að tilkynna
yður að þér uppfyllið ekki kröfur okkar.
Með bestu kveðjum, herra Patrick Delaney-Podmore.

Næstum hauslausi Nick tróð bréfinu bálreiður í vasann.

„Hálfur þumlungur af húð og ein sin sem halda höfðinu á bolnum, Harry! Flestum þætti það gott og blessað, en nei, nei, það er ekki nóg fyrir hinn fullkomlega afhausaða Podmore.“

Næstum hauslausi Nick dró andann djúpt nokkrum sinnum og sagði svo mun rólegri: „Jæja – hvað er að angra þig? Er eitthvað sem ég get gert fyrir þig?“

„Nei,“ svaraði Harry. „Ekki nema þú vitir hvar við getum náð í sjö ókeypis Nimbus 2001 fyrir leikinn gegn Sly …“

Rödd hans drukknaði í háværu mjálmi sem átti sér upptök einhvers staðar við fætur hans. Hann leit niður og starði inn í tvö gul augu sem minntu á ljósker. Þetta var Frú Norris, gráa, grindhoraða læðan sem húsvörðurinn Argus Filch átti og notaði sem eftirlitsfulltrúa í enda lausri baráttu sinni við nemendur.

„Þú ættir að koma þér héðan, Harry,“ sagði Nick fljótmæltur.

„Filch er ekki í góðu skapi … hann er með flensuna og einhverjir þriðja árs nemendur klíndu óvart froskaheilum á allt loftið í dýflissu númer fimm. Hann er búinn að vera að þrífa í allan morgun og ef hann sér þig ata allt út hérna …“

„Það er rétt,“ sagði Harry og hörfaði undan ásakandi augnaráði Frú Norris, en var ekki nógu fljótur. Eitthvert dularfullt afl virtist tengja Argus Filch við ógeðslega köttinn

hans því að hann ruddist skyndilega fram úr veggtjöldunum, Harry á hægri hönd, másandi og blásandi og skimaði trylltum augum í kringum sig í leit að syndaselnum.

Hann var með þykkan, köflóttan ullartrefil vafinn um höfuðið og nefið var óvenju rauðleitt.

„Skítur!“ æpti hann og gnísti tönnum. Augun stóðu óhugnanlega á stilkum þegar hann benti á forarpollinn sem hafði lekið úr æfinga skikkju Harrys. „Skítur og drulla úti um allt! Ég er búinn að fá nóg, skal ég láta þig vita! Komdu með mér, Harry!“

Harry veifaði Næstum hauslausa Nick dapurlega í kveðjuskyni, elti Argus Filch til baka niður stigann og bætti um leið við forarslóðina á gólfinu.

Harry hafði aldrei komið inn á skrifstofu Argusar áður. Það var staður sem flestir nemendurnir forðuðust. Þetta var sóðalegt, gluggalaust herbergi, lýst upp með einum olíulampa sem hékk niður úr lágu loftinu. Daufur þefur af steiktum fiski lá í loftinu. Skjalaskápar úr viði stóðu meðfram veggjunum. Harry sá að þeir innihéldu, eftir merkispjöldunum að dæma, upplýsingar um alla nemendur sem Argus hafði refsað. Fred

og George Weasley höfðu heila skúffu út af fyrir sig. Gljáfægt safn af keðjum og handjárnum hékk á veggnum fyrir aftan skrif borðið. Það var altalað að Argus væri stöðugt að grátbiðja Dumbledore um að fá að hengja óþæga nemendur upp í loftið á ökklunum.

Argus greip fjaðurstaf úr krukku á borðinu og rótaði í skrifborðinu í leit að pergamenti.

„Skítur alls staðar,“ muldraði hann reiðilega, „risastórar, sjóðheitar drekahorklessur … froskaheilar … rottuinnyfli … ég er búinn að fá nóg af þessu … þér verður refsað … hvar er eyðublaðið … já … þarna …“

Hann náði í stóra rúllu af pergamenti úr skrifborðsskúffunni, breiddi úr henni fyrir framan sig og dýfði löngum, svörtum fjaðurstafnum í blekbyttuna.

„Nafn … Harry Potter. Afbrot …“

„Þetta var bara pínulítil leðja!“ sagði Harry.

„Í þínum augum er þetta bara pínulítil leðja, drengur minn, en ég þarf að leggja á mig aukalega hreingerningu í

klukkutíma!“ hrópaði Filch og ógeðfelldur dropi skalf fremst á þrútnu nefinu. „Afbrot ... svívirðing við kastalann ... tillaga að refsingu ...“

Filch þerraði rennslið úr nefinu og horfði illgirnislega út undan sér á Harry sem hélt niðri í sér andanum meðan hann beið þess að dómurinn félli.

En um leið og Filch bjó sig undir að skrá refsinguna kom gríðarlegt högg á loftið á skrifstofunni svo að olíulampinn lék á reiðiskjálfi.

„Peeves!“ öskraði Filch og fleygði frá sér fjaðurstafnum í ofsabræði. „Í þetta skiptið næ ég þér, ég næ þér!“

Og án þess að líta á Harry hljóp Filch óðslega út úr skrifstofunni með Frú Norris á hælunum.

Peeves var ærsladraugur skólans, glottandi plága sem flögraði um skólann en líf hans og yndi var að valda skaða og böli. Harry líkaði ekkert sérlega vel við Peeves en hann gat ekki annað en verið honum þakklátur á þessari stundu. Hvað sem hann hafði gert af sér núna (og það var engu líkara en

hann hefði eyðilagt heilmikið í þetta sinn) yrði vonandi til þess að Filch gleymdi Harry.

Harry fannst að hann ætti ef til vill að bíða eftir að Filch kæmi til baka svo að hann lét fallast í mölétinn stól við skrifborðið. Á því var aðeins eitt fyrir utan hálfútfyllt eyðublaðið: stórt gljáandi og purpurarautt umslag með silfruðum stöfum. Harry leit snöggt til dyra til að gá hvort Filch væri nokkuð á leiðinni til baka, tók upp umslagið og las:

Hraðgaldrar

Bréfaskóli í göldrum fyrir byrjendur.

Harry opnaði umslagið áhugasamur og dró út blað úr pergamenti. Þar stóð skrifað silfruðum, bogadregnum stöfum:

Finnst þér þú vera utangátta í heimi nútímagaldra? Reynirðu að koma þér undan því að framkvæma einfalda galdra? Hefur þér verið strítt vegna lélegra töfrabragða?

Það er hægt að ráða bót á því!

Hraðgaldrar: Glænýtt, öruggt, árangursríkt og auðvelt námskeið. Hundruð galdramanna og norna hafa haft gagn og gaman af hraðgaldraaðferðinni!

Frú Z. Nettles frá Topsham skrifar:

„Ég átti orðið erfitt með að muna töfraþulur og öll fjölskyldan gerði grín að töfradrykkjunum mínum! En eftir að ég lauk hraðgaldranámskeiðinu er ég orðin miðpunkturinn í öllum veislum og vinir mínir grátbiðja mig um uppskriftina að leifturdrykknum mínum!“

Seiðkarlinn D.J. Prod frá Didsbury segir:

„Konan mín var vön því að hæðast að lítilfjörlegu göldrunum mínum, en þegar ég var búinn að vera mánuð á ykkar frábæra námskeiði tókst mér að breyta henni í jakuxa!

Takk fyrir hjálpina, Hraðgaldrar!“

Harry blaðaði heillaður í gegnum allt sem eftir var í umslaginu. Hvers vegna í ósköpunum langaði Filch á hraðgaldranámskeið? Gat þetta þýtt að hann væri ekki raunverulegur galdramaður? Harry var að lesa fyrsta kafla:

„Hvernig halda ber á töfrasprota (nokkrar hagnýtar leiðbeiningar)“ þegar hann heyrði á þungu fótatakinu fyrir utan að Filch var á leiðinni til baka. Harry tróð pergamentsblöðunum aftur í um slagið og fleygði því á borðið um leið og dyrnar opnuðust.

Filch virtist sigri hrósandi.

„Þessi huliðsskápur var geysilega verðmætur,“ sagði hann fjörlega við Frú Norris. „Í þetta skiptið náum við Peeves, yndið mitt …“

Hann leit á Harry og síðan hvörfluðu augu hans að hraðgaldraumslaginu en nú var um seinan fyrir Harry að átta sig á því að það lá langt frá þeim stað þar sem það hafði verið.

Gráfölt andlitið á Filch varð purpurarautt. Harry bjó sig undir æðiskast. Filch haltraði að skrifborðinu sínu, þreif umslagið og henti því ofan í skúffu.

„Ertu búinn að … Lastu …?“ stamaði hann.

„Nei,“ laug Harry í flýti.

Filch neri saman beinaberum höndunum.

„Ef mig grunaði að þú hefðir lesið einka … ekki það að ég eigi þetta … heldur vinur minn … það er nú svo … samt sem áður …“

Harry starði dauðhræddur á hann. Filch hafði aldrei verið eins brjálæðislegur á svipinn. Augun stóðu út úr höfðinu á honum, taugakippir voru í annarri slapandi kinninni og ekki bætti köflótti trefillinn úr skák.

„Gott og vel … farðu og ekki eitt orð … ekki svo að skilja, ef þú hefur ekki lesið … farðu nú, ég verð að skrifa skýrslu um Peeves … farðu …“

Harry hentist út úr skrifstofunni, eftir ganginum og upp stigann, furðu lostinn yfir heppni sinni. Það hlaut að vera skólamet að sleppa út úr skrifstofunni hans Filch án refsingar.

„Harry, Harry! Tókst þetta?“

Næstum hauslausi Nick kom svífandi út úr kennslustofu. Fyrir aftan hann sá Harry sprekin úr stórum, svörtum og gylltum skáp sem virtist hafa dottið úr mikilli hæð.

„Ég taldi Peeves á að brjóta hann beint fyrir ofan skrifstofuna hjá Filch," sagði Nick ákafur. „Datt í hug að það myndi rugla hann í ríminu …"

„Varst það þú?" sagði Harry þakklátur. „Já það virkaði alveg, ég fékk ekki einu sinni áminningu. Takk, Nick!"

Þeir gengu saman af stað eftir ganginum. Næstum hauslausi Nick hélt enn á neitunarbréfinu frá herra Patrick Podmare.

„Ég vildi óska að ég gæti gert eitthvað fyrir þig út af veiðum hinna hauslausu," sagði Harry.

Næstum hauslausi Nick snarstansaði svo að Harry gekk beint í gegnum hann. Hann vildi að hann hefði látið það ógert – það var eins og að stíga undir ískalda sturtu.

„En það er dálítið sem þú getur gert fyrir mig," sagði Nick ákafur. „Harry, væri það til of mikils mælst … nei, þú myndir ekki vilja …" „Hvað er það?" spurði Harry.

„Ja, á þessari hrekkjavöku á ég fimm hundruð ára dánarafmæli,“ sagði Næstum hauslausi Nick og rétti úr sér virðulegur í fasi.

„Ó,“ sagði Harry og vissi ekki hvort hann átti að samhryggjast honum eða óska til hamingju. „Einmitt.“

„Ég ætla að halda veislu í einni af rúmgóðu dýflissunum. Vinir mínir koma hvaðanæva frá öllu landinu. Það væri mér svo mikill heiður ef þú vildir koma. Herra Ron Weasley og ungfrú Hermione Granger eru auðvitað hjartanlega velkomin líka … en ég býst við að þú viljir heldur fara á skólahátíðina?“ Hann horfði á Harry með kvíða blandinni eftirvæntingu.

„Nei,“ flýtti Harry sér að segja, „ég kem …“

„Elsku drengurinn! Harry Potter, í dánardagsveisluna mína! Og“ – hann hikaði spenntur á svip – „heldurðu að þú gætir hugsanlega minnst á það við herra Patrick hvað þér finnst ég ógnvekjandi og áhrifamikill?“

„Að … að sjálfsögðu,“ sagði Harry. Næstum hauslausi Nick ljómaði.

„Dánardagsveisla?“ sagði Hermione áköf þegar Harry var loksins búinn að skipta um föt og kominn til þeirra í setustofuna. „Ég þori að veðja að það eru ekki margir lifandi sem geta sagt að þeir hafi farið í svoleiðis veislu – þetta verður frábært!“

„Af hverju skyldi einhvern langa til að halda upp á daginn sem hann dó?“ sagði Ron sem var bara hálfnaður með töfradrykkjaverkefnið sitt og orðinn frekar geðvondur. „Það hljómar ansi dapurlegt …“

Regnið buldi enn á rúðunum, sem voru orðnar bleksvartar vegna dimmunnar úti fyrir, en innandyra ríkti birta og glaðværð. Arineldurinn sló bjarma á fjölmarga, þéttsetna hægindastóla þar sem fólksat, las, talaði og leysti heimaverkefni sín en Fred og George Weasley reyndu að finna út hvað gerðist ef salamöndru væri gefinn flugeldur að éta. Fred hafði „bjargað“ appelsínurauðri, eldskærri eðlunni út úr kennslustund í umönnun galdraskepna og nú kraumaði hún hægt á borði umkringd hópi af forvitnu fólki.

Harry ætlaði að fara að segja Ron og Hermione frá Filch og hraðgaldranámskeiðinu en þá skaust salamandran allt í einu

upp í loftið með hvissi og neistaflugi og hringsnerist stjórnlaust um herbergið. Þegar hann sá salamöndruna forða sér inn í arineldinn, spúandi litlum stjörnum með tilheyrandi sprengingum, og Percy öskra sig hásan á Fred og George, gleymdi hann öllu um Filch og hraðgaldraumslagið.

Þegar hrekkjavakan rann upp iðraðist Harry þess að hafa í fljótfærni sinni lofað að fara í dánardagsveisluna. Allir hinir í skólanum voru farnir að hlakka til hrekkjavökuveislunnar. Stóri salurinn hafði verið skreyttur eins og venjulega með lifandi leðurblökum, gríðarstór grasker Hagrids höfðu verið skorin út sem ljósker sem voru orðin svo stór að í hverju þeirra hefðu rúmast þrír menn og það gekk orðrómur um að Dumbledore hefði pantað hóp af dansandi beinagrindum til að sjá um skemmtiatriðin.

„Loforð er loforð,“ sagði Hermione áminnandi. „Þú lofaðir að mæta í dánardagsveisluna.“

Klukkan sjö gengu Harry, Ron og Hermione því beint framhjá dyrunum að Stóra salnum, sem var þéttsetinn fólki og ljómaði lokkandi í skini kertaljósa og gulldiska, og héldu í staðinn í áttina að dýflissunum.

Leiðin að veislu Næstum hauslausa Nicks hafði líka verið vörðuð kertum þótt ekki væru þau upplífgandi tilsýndar: Þetta voru löng, mjó, kolsvört kerti sem brunnu með skærum, bláum loga og vörpuðu daufri og draugalegri birtu á andlit þeirra. Hitastigið fór lækkandi við hvert skref sem þau tóku. Harry var farinn að skjálfa og vafði skikkjunni sinni betur að sér. Skyndilega heyrði hann hljóð sem var líkast því að þúsund neglur klóruðu í risastóra skólatöflu.

„Á þetta að heita tónlist?“ hvíslaði Ron. Þau beygðu fyrir horn og sáu Næstum hauslausa Nick standa í dyragætt sem var hulin svörtum flauelstjöldum.

„Kæru vinir,“ sagði hann dapurlega. „Velkomin, velkomin … en ánægjulegt að þið sáuð ykkur fært að mæta …“

Hann þreif af sér fjaðrahattinn og bauð þeim inn fyrir með djúpri hneigingu.

Þetta var ótrúleg sjón. Dýflissan var full af beinhvítum, hálfgegnsæjum verum sem flestar liðu um þéttskipað dansgólfið. Hljómsveitin stóð uppi á háum palli skreyttum svörtum tjöldum og lék á þrjár sagir sem gáfu frá sér hræðileg, skerandi hljóð. Yfir höfðum þeirra var ljósakróna

með þúsund svörtum kertum sem varpaði frá sér miðnæturbláum bjarma. Gufa leið frá vitum þeirra; þetta var eins og að stíga inn í frystiskáp.

„Eigum við að líta í kringum okkur?“ stakk Harry upp á. Hann langaði til að fá yl í fæturna.

„Passaðu þig á því að ganga ekki í gegnum neinn,“ sagði Ron taugaóstyrkur og þau lögðu af stað kringum dansgólfið. Þau fóru framhjá hópi af drungalegum nunnum, tötralegum manni í hlekkjum og feita ábótanum, kátum Hufflepuffdraugi, sem stóð á tali við riddara með ör í gegnum höfuðið. Það kom Harry ekki á óvart að sjá hina draugana halda sig fjarri Blóðuga baróninum sem var grindhoraður og starandi draugur frá Slytherinheimavistinni, allur þakinn silfurslegnum blóðslettum.

„Ó nei,“ sagði Hermione og nam skyndilega staðar. „Snúum við – snúum við. Ég nenni ekki að tala við Völu væluskjóðu …“
„Hverja?“ spurði Harry um leið og þau beygðu í aðra átt.

„Hún gengur aftur á einu af stelpnaklósettunum á fyrstu hæðinni,“ sagði Hermione.

„Gengur hún aftur á klósetti?“

„Já, það er búið að vera bilað allt árið af því að hún er eilíflega að fá brjálæðisköst svo það er allt á floti. Ég fer aldrei þangað ef ég kemst hjá því. Það er hrikalegt að reyna að pissa með hana vælandi yfir sér …“

„Sjáið þið, þarna er matur!“ sagði Ron.

Hinum megin í dýflissunni var búið að koma fyrir borði sem var líka hulið svörtum flauelsdúk. Þau hröðuðu sér að borðinu en snarstönsuðu skelfingu lostin. Lyktin var viðbjóðsleg. Stórum, rotnandi fiskum hafði verið raðað á fallega silfurbakka og brunnum kökum, sem líktust kolamolum, hrúgað á diska. Þarna var úldin blóðpylsa, osta bakki loðinn af grænni myglu og í öndvegi var gríðarstór, grá kaka sem var eins og legsteinn með tjörukenndum kremstöfum sem mynduðu þessi orð:

Herra Nicholas de Mimsy-Porpington
dáinn 31. október 1492

Harry starði forviða á feitlaginn draug nálgast borðið, hnipra sig saman og ganga inn með svo galopinn munn í gegnum það að daunillur lax fór upp í hann í heilu lagi.

„Finnurðu bragðið ef þú ferð í gegnum hann?“ spurði Harry.

„Næstum því,“ svaraði draugurinn dapurlega og leið á brott.

„Þeir láta þetta sennilega rotna til að ná fram sterkara bragði,“ sagði Hermione spekingslega og tók fyrir nefið á sér um leið og hún beygði sig að borðinu til að skoða úldnu blóðpylsuna betur.

„Getum við haldið áfram? Mér er óglatt,“ sagði Ron.

Þau höfðu samt varla snúið sér við þegar lítill náungi kom þjótandi undan borðinu og stöðvaðist í loftinu fyrir framan þau.

„Halló, Peeves,“ sagði Harry varlega.

Ólíkt draugunum í kringum þau var ærsladraugurinn Peeves langt frá því að vera gegnsær og fölur. Hann var með æpandi

appelsínugulan veisluhatt á höfðinu, slaufu sem hringsnerist og á illkvittnu andlitinu var breitt glott.

„Viljið þið snakk?“ sagði hann elskulega og rétti fram skál með mygluðum hnetum.

„Nei takk, “ sagði Hermione.

„Ég heyrði að þið voruð að tala um aumingja Völu,“ sagði Peeves og augnaráðið var glettnislegt. „Þið sögðuð ýmislegt dónalegt um aumingja Völu.“ Hann dró andann djúpt og öskraði: „Hæ! Vala!“

„Ó, nei, Peeves, ekki segja henni hvað ég sagði, hún verður svo leið,“ hvíslaði Hermione örvæntingarfull. „Ég meinti ekkert með því, ég hef ekkert á móti henni … öh, halló, Vala.“

Kubbsleg draugastelpa kom svífandi til þeirra. Harry hafði aldrei séð jafn ólundarlegt andlit, hálfhulið rennisléttu hári og þykkum, perluskreyttum gleraugum.

„Hvað?“ sagði hún fýlulega.

„Hvað segir þú gott, Vala?“ spurði Hermione með falskri gleði í röddinni. „Gaman að sjá að þú ert komin út af klósettinu.“ Vala saug upp í nefið.

„Ungfrú Granger var einmitt að tala um þig …“ sagði Peeves lymskulega í eyrað á henni.

„Ég var bara að tala um … bara að tala um … hvað þú litir vel út í kvöld,“ sagði Hermione og starði reiðilega á Peeves.

Vala horfði tortryggin á Hermione.

„Þú ert að gera grín að mér,“ sagði hún og silfurlit tár spruttu í stríðum straumum úr litlum, gegnsæjum augunum.

„Nei – í alvöru – var ég ekki að tala um hvað Vala liti vel út?“ sagði Hermione og gaf Harry og Ron illyrmisleg olnbogaskot.

„Ó, jú …“

„Hún var að tala um það …“

„Vertu ekki að skrökva að mér.“ Vala tók andköf og tárin láku í taumum niður andlitið; Peeves hló lágt á bak við hana.

„Heldurðu að ég viti ekki hvernig fólk baktalar mig? Vala feita! Vala ljóta! Volandi, veinandi, vælandi Vala!“

„Þú gleymir bólugrafna,“ hvæsti Peeves í eyrað á henni.

Vala væluskjóða flúði með krampakenndum ekkasogum út úr dýflissunni. Peeves skaust á eftir henni og lét rigna yfir hana mygluðum hnetum um leið og hann æpti: „Bóla! Bóla!“

„Æ, æ,“ sagði Hermione döpur í bragði Næstum hauslausi Nick sveif í áttina til þeirra gegnum mann fjöldann. „Skemmtið þið ykkur vel?“ „Já, já,“ skrökvuðu þau.

„Þetta eru ekki slæmar heimtur,“ sagði Næstum hauslausi Nick stoltur. „Kveinandi ekkjan kom alla leið frá Kent … Það er alveg að koma að ræðunni minni, ég ætti að fara og tala við hljómsveitina …“

Í sömu andrá hætti hljómsveitin af einhverjum ástæðum að spila. Þau þögnuðu eins og allir hinir í dýflissunni og litu spennt í kringum sig þegar lúðrablástur kvað við.

„Æ, það gat nú verið,“ sagði Næstum hauslausi Nick biturlega. Höfuðlausir knapar á tólf draugahestum brutust út

úr dýflissu veggnum. Samkomugestir klöppuðu tryllingslega. Harry byrjaði líka að klappa en hætti því strax þegar hann sá svipinn á Nick.

Hestarnir fóru á harðastökki inn á mitt dansgólfið, námu þar staðar og prjónuðu glæsilega. Fremstur í flokki var stórvaxinn draugur, sem hélt skeggjuðu höfði sínu undir handleggnum og blés í veiðihorn. Draugurinn stökk af baki, lyfti höfðinu hátt upp í loftið svo að hann gæti séð yfir mannþröngina (allir hlógu), skálmaði yfir til Næstum hauslausa Nicks og klessti höfði sínu á bolinn.

„Nick!“ þrumaði hann. „Hvernig hefurðu það? Hausinn enn hangandi á þér?“ Hann hló hjartanlega og klappaði Næstum hauslausa Nick á axlirnar.

„Velkominn, Patrick,“ sagði Nick stirðlega.

„Lifendur á meðal vor!“ sagði herra Patrick og stökk upp í loftið af uppgerðarundrun þegar hann kom auga á Harry, Ron og Hermione, svo að höfuðið datt aftur af honum (viðstaddir æptu af hlátri).

„Mjög fyndið,“ sagði Næstum hauslausi Nick dimmum rómi.

„Það er ekkert að marka Nick!“ kallaði höfuð herra Patricks neðan frá gólfinu. „Hann er ennþá fúll yfir því að fá ekki að vera með í veiðunum! En í alvöru talað … lítið bara á manninn …“

„Mér finnst,“ flýtti Harry sér að segja, eftir að Nick hafði sent honum þýðingarmikið augnaráð, „Nick mjög … ógnvekjandi og … hann …“

„Aha!“ æpti höfuð herra Patricks. „Ég þori að veðja að hann hefur beðið þig um að segja þetta!“

„Ef ég mætti biðja um hljóð, þá er komið að ræðunni minni!“ sagði Næstum hauslausi Nick háum rómi, skálmaði í áttina að pallinum og steig inn í blákaldan ljósgeislann á sviðinu.

„Mínir sárt syrgðu sálugu lávarðar, hefðarkonur og heiðursmenn. Mér til mikillar hryggðar …“

En enginn heyrði meira. Herra Patrick og hinir hauslausu veiðimennirnir voru farnir að leika hausaknattleik og fjöldinn var farinn að fylgjast með. Næstum hauslausi Nick reyndi án árangurs að ná aftur athygli áhorfenda, en gafst upp þegar

höfuð herra Patricks sveif framhjá honum við hávær fagnaðarlæti.

Harry var orðinn bæði kaldur og svangur.

„Ég er búinn að fá alveg nóg af þessu,“ muldraði Ron og tennurnar í honum glömruðu af kulda. Hljómsveitin byrjaði að spila á ný og draugarnir svifu aftur út á dansgólfið.

„Við skulum fara,“ samsinnti Harry.

Þau gengu aftur á bak að dyrunum, bugtuðu sig og brostu á báða bóga, hröðuðu sér út og þutu upp ganginn með svörtu kertunum.

„Það er ekki víst að eftirrétturinn sé búinn,“ sagði Ron vongóður og gekk á undan í áttina að stiganum sem lá upp í forsalinn.

Og það var þá sem Harry heyrði eitthvert hljóð.

„… slíta … rífa … drepa …“

Þetta var sama röddin, sama kuldalega, morðóða röddin og hann hafði heyrt inni á skrifstofu Lockharts.

Hann snarstansaði svo að hann var nærri dottinn, greip dauðahaldi í steinvegginn og sperrti eyrun af öllum mætti um leið og hann skimaði í kringum sig í hálfrökkvuðum ganginum.

„Harry, hvað ertu að ...?“

„Ég heyrði þessa rödd aftur ... þegiðu aðeins ...“

„... svo hungruð ... svo lengi ...“

„Hlustið!“ sagði Harry ákafur og Ron og Hermione störðu á hann furðu lostin.

„... drepa ... kominn tími til að drepa ...“

Röddin var orðin veikari. Harry vissi að hún var að fjarlægjast ... upp á við. Hann fylltist skelfingu þegar hann starði upp í dökkt loftið. Hvernig gat hún hreyfst upp á við? Var þetta vofa sem lét hvorki múrveggi né steinloft stöðva sig?

„Í þessa átt," hrópaði hann og hljóp af stað, upp stigana og inn í forsalinn. Þar var vonlaust að heyra neitt fyrir skvaldrinu sem barst frá hrekkjavökuveislunni í Stóra salnum. Harry þaut upp marmarastigann upp á aðra hæð með Ron og Hermione á hælunum.

„Harry, hvað erum við að …"

„Uss!"

Harry lagði við hlustir. Úr fjarlægð, af hæðinni fyrir ofan, heyrði hann röddina sem var orðin enn veikari: „… ég finn lykt af blóði … ég finn lykt af blóði!"

Honum var bumbult.

„Hún ætlar að drepa einhvern!" æpti hann og lét sem hann tæki ekki eftir ráðleysislegum svipnum á Ron og Hermione, hljóp upp á næstu hæð. Hann tók þrjár tröppur í hverju skrefi og reyndi um leið að hlusta eftir röddinni þrátt fyrir þungt fótatak sín sjálfs.

Harry þeyttist um alla þriðju hæðina með Ron og Hermione móð og másandi á eftir sér og nam ekki staðar fyrr en þau

komu fyrir hornið á síðasta ganginum sem var alveg mannlaus.

„Harry, hvað á þetta eiginlega að þýða?“ spurði Ron og þerraði svitann af andlitinu. „Ég heyrði ekkert …“

En allt í einu tók Hermione andköf og benti niður eftir ganginum.

„Sjáið þið!“

Eitthvað ljómaði og skein á veggnum fram undan. Þau nálguðust það hægt og pírðu augun gegnum myrkrið. Á vegginn milli glugganna tveggja var búið að mála orð sem glömpuðu í endurkasti loganna frá kyndlunum.

LEYNIKLEFANUM HEFUR VERIÐ LOKIÐ UPP

FJENDUR ARFTAKANS MEGA VARA SIG

„Hvað er þetta … sem hangir þarna fyrir neðan?“ spurði Ron og röddin skalf lítið eitt.

Þau mjökuðu sér nær og Harry datt næstum um koll … á gólfinu var stór vatnspollur. Ron og Hermione náðu að grípa hann og þau færðu sig hægt í áttina að orðsendingunni á veggnum og einblíndu á dökkan skugga fyrir neðan hana. Skyndilega uppgötvuðu þau öll þrjú hvað þetta var og stukku aftur á bak ofan í pollinn.

Frú Norris, köttur húsvarðarins, hékk á rófunni niður úr kyndilstjakanum. Hún var pinnstíf og augun voru galopin og starandi.

Þau stóðu hreyfingarlaus litla stund. Loks sagði Ron: „Við skulum koma okkur héðan.“

„Ættum við ekki að reyna að hjálpa …“ byrjaði Harry vandræðalega.

„Hlustaðu á mig,“ sagði Ron. „Það væri ekki gaman ef einhver kæmi að okkur hérna.“

En það var um seinan. Þeim varð ljóst af skruðningunum, sem hljómuðu eins og þrumur í fjarska, að veislan var á enda. Við báða enda gangsins, þar sem þau stóðu, heyrðist fótatak hundraða nemenda á leið upp stigana og háværar, glaðlegar

samræður fólks sem hafði fengið mikið af góðum mat að borða. Á næsta andartaki komu nemendur með látum og fyrirgangi úr báðum áttum inn ganginn.

Samræðurnar og hávaðinn dóu skyndilega út þegar þeir sem voru fremstir komu auga á hangandi köttinn. Harry, Ron og Hermione stóðu ein á miðjum ganginum og það sló þögn á nemendurna sem tróðust til að sjá viðbjóðsleg verksummerkin.

Allt í einu var þögnin rofin þegar einhver hrópaði:

„Fjendur arftakans mega vara sig! Þið verðið næst, blóðníðingar!“

Þetta var Draco Malfoy. Hann hafði troðið sér fremst og horfði með breiðu glotti á hreyfingarlausan köttinn. Köld augun blikuðu og það var djúpur roði á annars fölleitu andlitinu.

# Níundi kafli

# Áletrunin á veggnum

„Hvað gengur hér á? Hvað gengur á?“

Hrópin í Malfoy höfðu greinilega vakið athygli því að Argus Filch olnbogaði sig í gegnum þvöguna. Hann kom auga á Frú Norris, datt aftur fyrir sig og greip um andlitið í hryllingi.

„Kötturinn minn! Kötturinn minn! Hvað kom fyrir Frú Norris?“ skrækti hann.

Og augu hans sem stóðu á stilkum beindust að Harry.

„Þú!“ öskraði hann. „Þú! Þú drapst köttinn minn! Þú drapst hana!

Ég drep þig! Ég …“

„Argus!“

Dumbledore var mættur og á hæla hans komu nokkrir kennarar. Hann smeygði sér örsnöggt framhjá Harry, Ron og Hermione og losaði Frú Norris af kyndilstjakanum.

„Komdu með mér, Argus,“ sagði hann við Filch. „Þið líka, herra Harry Potter, herra Ron Weasley og ungfrú Hermione Granger.“

Lockhart steig ákafur fram.

„Það er styst að fara á skrifstofuna mína, herra skólastjóri … beint fyrir ofan … hafðu þína hentisemi …“

„Þakka þér fyrir, Gilderoy,“ sagði Dumbledore.

Þögull hópurinn færði sig til hliðar svo þau kæmust framhjá. Lockhart flýtti sér á eftir Dumbledore drjúgur á svip; það sama gerðu McGonagall prófessor og Snape prófessor.

Þegar þau gengu inn í rökkvaða skrifstofu Lockharts greip skyndilegt óðagot um sig á veggjunum; Harry sá nokkrar af andlitsmyndum Lockharts lauma sér út úr römmunum með rúllur í hárinu. Hinn raunverulegi Lockhart kveikti á kertum á

skrifborðinu sínu og dró sig í hlé. Dumbledore lagði Frú Norris á gljáfægða borðplötuna og byrjaði að skoða hana. Harry, Ron og Hermione litu áhyggjufull hvert á annað, létu lítið fyrir sér fara í hægindastólunum fjarri birtunni af kertaljósunum og fylgdust með.

Langt, bogið nefið á Dumbledore stakkst næstum í feldinn á Frú Norris. Hann skoðaði hana vandlega í gegnum lonníetturnar og potaði í hana með löngum fingrunum. McGonagall prófessor beygði sig líka yfir borðið og pírði augun athugul. Snape vomaði í skugganum fyrir aftan þau með undarlegan svip á andlitinu: Það var eins og hann þyrfti að beita sig hörðu til að brosa ekki. Og Lockhart sniglaðist í kringum þau og kom með ýmsar tillögur.

„Það er enginn vafi á því að bölvun banaði henni – líklega gjörbreytingar-pyndingin – ég hef séð hana notaða margoft, verst að ég var ekki á staðnum, ég þekki gagnbölvunina sem hefði bjargað henni …“

Meðfram athugasemdum Lockharts heyrðust hás og sár ekkasog Filch. Hann hafði hlammað sér í stól við skrifborðið og hulið andlitið í greipum sér, ófær um að líta á Frú Norris. Þó að Harry þyldi hann ekki gat hann ekki annað en vorkennt

honum dálítið en þó ekki nærri því jafn mikið og hann vorkenndi sjálfum sér. Ef Dumbledore tryði Filch yrði hann rekinn án tafar.

Dumbledore var farinn að muldra sérkennileg orð fyrir munni sér og slá Frú Norris létt með sprotanum sínum en ekkert gerðist: Hún hélt áfram að líta út fyrir að hafa verið stoppuð upp.

„… ég man eftir svipuðu atviki í Úagadúgú,“ sagði Lockhart, „nokkrar árásir á borð við þessa – þið getið lesið um það í sjálfsævisögu minni. Mér tókst að útvega þorpsbúunum verndargripi og það reddaði málunum á augabragði …“

Allar ljósmyndirnar af Lockhart á veggjunum kinkuðu kolli til samþykkis. Ein þeirra hafði gleymt að taka af sér hárnetið.

Loksins rétti Dumbledore úr sér.

„Hún er ekki dáin, Argus,“ sagði hann blíðlega.

Lockhart snarþagnaði í miðri upptalningu á öllum drápunum sem hann hafði komið í veg fyrir.

„Ekki dáin?“ spurði Filch hálfkæfðri röddu og kíkti á Frú Norris milli fingra sér. „En af hverju er hún svona – svona stíf og frosin?“

„Hún hefur verið steingerð,“ sagði Dumbledore („Ah, mig grunaði það!“ sagði Lockhart). „En hvernig það gerðist skal ég ekki segja …“

„Spyrðu hann!“ skrækti Filch og sneri flekkóttu og társtokknu andlitinu að Harry.

„Enginn annars árs nemi hefði getað gert þetta,“ sagði Dumbledore ákveðinn. „Þetta krefst yfirburðaþekkingar á myrku öflunum …“

„Hann gerði það! Hann gerði það!“ hreytti Filch út úr sér og bólgið andlitið varð fjólublátt af reiði. „Þú sást hvað hann skrifaði á vegginn! Hann fann – á skrifstofunni minni – hann veit að ég er – að ég er …“ andlit Filch herptist saman. „Hann veit að ég er skvib!“ sagði hann að lokum.

„Ég hef aldrei snert Frú Norris!“ sagði Harry hárri röddu, og fann óþægilega mikið fyrir því að allra augu beindust að

honum, og þar á meðal augu allra Lockhartanna á veggjunum. „Og ég veit ekki einu sinni hvað skvib þýðir.“

„Kjaftæði!“ urraði Filch. „Hann sá hraðgaldrabréfið mitt!“

„Mætti ég skjóta inn orði, skólastjóri,“ sagði Snape sem hélt sig í skugganum og Harry fann á sér að eitthvað illt var í aðsigi; hann var viss um að hvað sem Snape hefði að segja yrði það honum ekki til framdráttar.

„Harry og vinir hans gætu einfaldlega hafa verið á röngum stað á röngum tíma,“ sagði hann en dauft hæðnisglottið sem lék um varir hans benti þó til þess að hann efaðist um það. „Þetta lítur þó óneitanlega grunsamlega út. Hvaða erindi áttu þau uppi á ganginum á annað borð? Af hverju voru þau ekki í hrekkjavökuveislunni?“

Harry, Ron og Hermione byrjuðu strax að tala hvert upp í annað og sögðu óðamála frá dauðadagsveislunni og loforðinu sem Harry hafði gefið. „Það voru mörg hundruð draugar sem munu vitna um að við vorum þar …“

„En af hverju komuð þið ekki í Stóra salinn eftir það?“ spurði Snape og svört augun glömpuðu í skininu frá kertunum. „Af hverju fóruð þið upp á þennan gang?“

Ron og Hermione litu á Harry.

„Af því að … af því að …“ sagði Harry með dynjandi hjartslátt; hann hafði það sterklega á tilfinningunni að það myndi ekki hljóma mjög sannfærandi ef hann segði þeim að rödd án líkama, sem enginn heyrði nema hann, hefði teymt hann þangað, „… við vorum orðin þreytt og vildum komast í rúmið,“ sagði hann.

„Án þess að borða kvöldmat?“ spurði Snape og sigrihrósandi bros færðist yfir horað andlit hans. „Ég vissi ekki að draugar byggju til veislumat sem hentaði lifandi fólki.“

„Við vorum ekki svöng,“ sagði Ron hárri röddu um leið og garnirnar í honum gauluðu ógurlega.

Illkvittnislegt bros Snapes varð enn breiðara.

„Ég hef það á tilfinningunni, skólastjóri, að Harry segi ekki allan sannleikann,“ sagði hann. „Það gæti verið góð hugmynd

að svipta hann ákveðnum forréttindum þar til hann er tilbúinn að segja okkur alla söguna. Persónulega finnst mér að það ætti að taka hann úr Quidditchliði Gryffindor þangað til hann er tilbúinn að vera heiðarlegur.“

„Það er þín skoðun, Severus,“ sagði McGonagall prófessor hvasst.

„Ég sé enga ástæðu til að banna drengnum að spila Quidditch. Þessi köttur var ekki sleginn í höfuðið með galdrakústi. Það er ekkert sem bendir til þess að Harry hafi gert neitt af sér.“

Dumbledore leit rannsakandi á Harry. Skærblátt, starandi augnaráð hans varð til þess að Harry leið eins og verið væri að gegnumlýsa hann.

„Saklaus uns sekt er sönnuð, Severus,“ sagði hann ákveðinn. Snape virtust ævareiður. Sama átti við um Filch.

„Kötturinn minn er orðinn að steini!“ skrækti hann og augun virtust ætla út úr höfðinu á honum. „Ég krefst þess að einhverjum verði refsað!“

„Við munum lækna hana, Argus," sagði Dumbledore þolinmóður.

„Spíru prófessor tókst að útvega nokkrar Alrúnir fyrir skömmu. Um leið og þær eru fullsprottnar mun ég biðja um að lagaður verði töfradrykkur sem getur endurlífgað Frú Norris."

„Ég skal búa hann til," skaut Gilderoy inn. „Ég hef gert það að minnsta kosti hundrað sinnum. Ég gæti blandað Alrúnar-endurlífgunarmeðal í svefni ..."

„Afsakið," sagði Snape ískaldri röddu. „En ég stóð í þeirri trú að ég gegndi stöðu töfradrykkjameistara við þennan skóla." Það varð mjög vandræðaleg þögn.

„Þið megið fara," sagði Dumbledore við þau Harry, Ron og Hermione.

Þau flýttu sér út eins hratt og þau gátu án þess að hlaupa. Þegar þau voru komin upp á hæðina fyrir ofan skrifstofu Lockharts fóru þau inn í auða kennslustofu og lokuðu hurðinni varlega á eftir sér. Harry gaut augunum á þungbúin andlit vina sinna.

„Finnst ykkur að ég hefði átt að segja þeim frá röddinni sem ég heyrði?“

„Nei,“ sagði Ron án þess að hika. „Það er ekki góðs viti að heyra raddir sem enginn annar heyrir, ekki einu sinni í galdraheiminum.“

Það var eitthvað í rödd Rons sem kom Harry til að spyrja: „Þú trúir mér samt, er það ekki?“

„Auðvitað,“ flýtti Ron sér að segja. „En þú verður að viðurkenna að þetta er skrítið …“

„Ég veit að þetta er skrítið,“ sagði Harry. „Þetta er allt stórfurðulegt. Hvað var þetta eiginlega sem stóð skrifað á vegginn? Leyniklefanum hefur verið lokið upp … Hvað ætli það þýði?“

„Satt að segja minnir það mig á dálítið,“ sagði Ron hægt. „Ég held að einhver hafi sagt mér sögu um leyniklefa í Hogwartskóla … kannski var það Bill …“

„En hvað í ósköpunum þýðir skvib?“ spurði Harry. Honum til mikillar undrunar byrjaði Ron að flissa.

„Það er nú eiginlega ekkert fyndið … en af því að þetta er Filch,“ sagði hann. „Skvib er sá sem fæðist inn í galdrafjölskyldu en hefur engan galdramátt. Eiginlega hið gagnstæða við galdramann sem fæðist inn í Muggafjölskyldu, en skvibar eru frekar sjaldgæfir. Ef Filch er að reyna að læra að galdra á hraðgaldranámskeiði þá hlýtur hann að vera skvib. Það myndi líka skýra margt, til dæmis af hverju hann þolir ekki nemendurna.“ Ron brosti ánægjulega. „Hann er bitur.“ Einhvers staðar sló klukka.

„Miðnætti,“ sagði Harry. „Við skulum flýta okkur í rúmið áður en Snape kemur og reynir að klína einhverju á okkur.“

Árásin á Frú Norris var aðalumræðuefnið í skólanum næstu daga. Filch sá til þess að enginn gleymdi því sem gerst hafði með því að stika fram og aftur um staðinn þar sem árásin hafði átt sér stað eins og hann byggist við því að árásarmaðurinn sneri aftur. Harry hafði séð hann skrúbba áletrunina á veggnum með Allrahanda galdrahreinsiefni frú Skúru, en án árangurs; orðin lýstu jafn greinilega og fyrr á veggnum. Þegar Filch var ekki upptekinn við að standa vörð

um árásar staðinn laumaðist hann rauðeygður um gangana, stökk á grunlausa nemendur og reyndi að refsa þeim fyrir hluti eins og að „anda of hátt“ og „vera of glaðir á svipinn“.

Ginny Weasley var mjög brugðið yfir örlögum Frú Norris. Ron sagði þeim að hún væri mikill kattavinur.

„En þú kynntist Frú Norris ekkert að ráði,“ sagði hann uppörvandi við hana. „Við erum miklu betur sett án hennar, í alvöru.“ Neðrivörin á Ginny skalf. „Það er sjaldgæft að svona nokkuð komi fyrir í Hogwart skóla,“ fullvissaði Ron hana um. „Þeir eiga eftir að ná brjálæðingnum sem gerði þetta og fleygja honum út á stundinni. Ég vona bara að hann nái að gera Filch að steini áður en hann verður rekinn. Ég er bara að grínast …“ bætti hann við í flýti þegar Ginny fölnaði.

Árásin hafði líka haft áhrif á Hermione. Það var ekkert óvenjulegt að hún eyddi miklum tíma í lestur, en nú virtist hún ekki gera neitt annað. Hvorki Harry né Ron gátu fengið nein svör upp úr henni þegar þeir spurðu hana hvað vekti fyrir henni og það var ekki fyrr en næsta miðvikudag sem þeir komust að því. Harry hafði verið látinn sitja eftir í töfradrykkjatíma til að skrapa glerorma af skrifborðunum. Þegar hann hafði borðað hádegisverð í flýti fór hann upp á

bókasafnið að hitta Ron. Á leiðinni sá hann Justin FinchFletchley, Hufflepuff strákinn úr jurtafræðitímanum, koma gangandi á móti sér. Harry ætlaði að fara að opna munninn til að heilsa honum þegar Justin kom auga á hann, snerist á hæli og hraðaði sér á brott í gagnstæða átt.

Harry fann Ron á bak við hillu í bókasafninu þar sem hann var að mæla heimaverkefni í galdrasögu. Binns prófessor hafði sagt þeim að skrifa þriggja feta langan stíl um „Miðaldaþing evrópskra galdramanna“.

„Ég trúi þessu ekki, það vantar ennþá átta þumlunga …“ sagði Ron bálreiður og sleppti pergamentinu svo það rúllaðist upp með smelli.

„Og Hermione er búin með rúmlega fjögur fet og hún skrifar smátt.“

„Hvar er hún?“ spurði Harry, greip málbandið og slétti úr verkefninu sínu.

„Þarna einhvers staðar,“ sagði Ron og benti í átt að bókahillunum.

„Að leita að einhverri bók. Ég held að hún ætli að reyna að lesa allt bókasafnið fyrir jól.“

Harry sagði Ron frá því að Justin Finch-Fletchley hefði lagtá flótta þegar þeir mættust á ganginum.

„Ég myndi ekki hafa áhyggjur af því. Mér finnst hann hálfgerður asni,“ sagði Ron og hripaði niður eins stóra bókstafi og hann gat. „Allt þetta bull um að Lockhart væri svo frábær …“

Hermione kom í ljós á milli bókahillanna. Hún var pirruð að sjá og virtist loksins vera tilbúin að tala við Harry og Ron.

„Öll eintökin af Sögu Hogwartskóla eru í útláni,“ sagði hún og settist við hliðina á þeim. „Og það er tveggja vikna bið eftir henni. Ég vildi óska að ég hefði tekið eintakið mitt með mér en það var ekki pláss í koffortinu fyrir öllum bókunum hans Lockharts.“ „Af hverju vantar þig hana?“ spurði Harry.

„Af sömu ástæðu og alla hina,“ sagði Hermione, „til að lesa þjóðsöguna um leyniklefann.“

„Um hvað er hún?“ spurði Harry strax.

„Það er nú málið. Ég man það ekki,“ sagði Hermione og beit á vörina. „Og ég finn söguna hvergi annars staðar …“

„Hermione, leyfðu mér að lesa stílinn þinn,“ sagði Ron örvæntingarfullur og leit á úrið sitt.

„Nei, þú mátt það ekki,“ sagði Hermione alvarleg á svip. „Þú hefur haft tíu daga til að skrifa hann.“

„Mig vantar bara í tvo þumlunga, gerðu það …“

Bjallan hringdi. Ron og Hermione gengu á undan og þráttuðualla leiðina í kennslustofuna.

Saga galdranna var leiðinlegasta námsefnið á stundaskránni. Kennarinn, Binns prófessor, var eini draugakennarinn þeirra og innganga hans í kennslustofuna í gegnum krítartöfluna var það eina sem vakti spennu í tímunum hjá honum. Hann var eldgamall og hrukkóttur og margir héldu því fram að hann hefði ekki tekið eftir því þegar hann dó. Hann hafði bara staðið upp til að kenna einn daginn og skilið líkamann eftir fyrir framan arininn á kennarastofunni; og tímarnir höfðu ekki breyst hið minnsta eftir það, þeir voru alltaf jafn leiðinlegir.

Og þessi var engin undantekning. Binns prófessor tók fram minnis punktana sína og byrjaði að lesa með tilbreytingarlausri röddu sem minnti á gamla ryksugu þar til næstum allir í bekknum sátu í leiðslu en komust öðru hverju til meðvitundar til að glósa niður nafn eða dagsetningu áður en svefninn seig aftur á brárnar. Hann hafði talað í hálftíma þegar nokkuð gerðist sem aldrei hafði gerst áður. Hermione rétti upp hönd.

Binns prófessor, sem varð litið yfir bekkinn í miðjum drepleiðinlegum fyrirlestri um alþjóðlegu seiðkarlaráðstefnuna árið 1289, virtist furðu lostinn.

„Ungfrú – umm …?“

„Prófessor. Ég var að velta því fyrir mér hvort þú gætir sagt okkur eitthvað um leyniklefann,“ sagði Hermione hátt og snjallt.

Dean Thomas, sem hafði setið með opinn munninn og starað tómlega út um gluggann, reif sig nú upp úr leiðslunni; höfuðið á Lavender Brown lyftist upp af handleggjunum; og olnboginn á Neville Longbottom rann út fyrir borðbrúnina.

Binns prófessor drap tittlinga.

„Ég kenni sögu galdranna,“ sagði hann með sinni þurru og andstuttu rödd. „Ég fæst við staðreyndir, ungfrú Hermione Granger, ekki goðsagnir og þjóðsögur.“ Hann ræskti sig með hljóði eins og heyrist þegar krít brotnar og hélt áfram þar sem frá var horfið: „Í september þetta sama ár var undirnefnd sardinískra seiðkarla …“

Hann rak í vörðurnar þegar höndin á Hermione skaust aftur á loft.

„Ungfrú Grant?“

„Fyrirgefðu, prófessor, en eiga goðsagnir sér ekki alltaf einhverja stoð í raunveruleikanum?“

Binns prófessor horfði á hana með slíkri undrun að Harry var viss um að enginn nemandi hafði áður truflað hann, hvorki lifandi né dauðan.

„Ja,“ sagði Binns prófessor með hægð, „jú, ég býst við að það mætti færa rök fyrir því.“ Hann pírði augun á Hermione eins

og hann hefði aldrei séð nemanda almennilega fyrr. „En þjóðsagan sem þú minntist á er svo óraunveruleg og fáránleg …“

En nú gleypti bekkurinn í sig hvert orð sem Binns prófessor sagði. Hann leit dapur í bragði á öll áköfu andlitin í kringum sig. Harry sá að öll þessi athygli sló hann alveg út af laginu.

„Jæja þá,“ sagði hann hægt. „Látum okkur sjá … leyniklefinn … Þið vitið auðvitað öll að Hogwartskóli var stofnaður fyrir meira en þúsund árum – nákvæm dagsetning er óljós – af fjórum mestu galdramönnum og nornum á þeim tíma. Heimavistirnar fjórar eru nefndar eftir þeim: Godric Gryffindor, Helga Hufflepuff, Rowena Ravenclaw og Salazar Slytherin. Þau byggðu þennan kastala í sameiningu, fjarri forvitnum augum Mugganna, af því að þetta var á þeim tímum þegar alþýða manna óttaðist galdra, og galdramenn og nornir urðu fyrir miklum ofsóknum.“

Hann tók sér málhvíld og horfði sljóeygður í kringum sig.

„Í nokkur ár unnu stofnendurnir saman í sátt og samlyndi, leituðu uppi unga nemendur sem sýndu merki um galdramátt og fluttu þá til kastalans til mennta. En fljótlega kom upp

ósætti á milli Slytherins og hinna. Hann vildi herða inntökuskilyrðin í Hogwartskóla. Hann taldi að einungis þeir sem væru af rótgrónum galdraættum ættu að fá inngöngu í skólann. Hann var andvígur því að taka inn nemendur úr Muggafjölskyldum og sagði þá ekki traustsins verða. Eftir nokkurn tíma kom upp alvarlegur ágreiningur vegna þessa milli Slytherins og Gryffindors, og Slytherin yfirgaf skólann.“

Binns prófessor þagnaði aftur og setti stút á munninn svo hann leit út eins og gömul skjaldbaka.

„Þessu greina áreiðanlegar sagnfræðiheimildir frá,“ sagði hann. „En þessar staðreyndir hafa fallið í skuggann af hinni óvenjulegu þjóðsögu um leyniklefann. Sagan segir að Slytherin hafi smíðað leyniklefa í kastalanum sem hinir stofnendurnir vissu ekki af. Samkvæmt þjóðsögunni innsiglaði Slytherin leyniklefann svo að enginn gæti opnað hann nema hinn eini, sanni arftaki hans þegar hann kæmi í skólann. Leyniklefann gæti arftakinn einn opnað og gefið hryllingnum, sem þar dylst, lausan tauminn til að losa skólann við alla þá sem eru þess óverðugir að læra galdra.“

Það varð þögn þegar hann hafði lokið við söguna, en það var ekki þessi venjulega, svefndrukkna þögn. Þvert á móti ríkti

spennuþrungin þögn í kennslustofunni á meðan allir biðu í ofvæni eftir að fá að heyra meira. Binns prófessor virtist örlítið pirraður.

„Þetta er auðvitað allt saman haugadella,“ sagði hann. „Færustu galdramenn og nornir hafa margoft rannsakað skólann hátt og lágt í leit að vísbendingum um þennan klefa. Hann er ekki til. Þessi þjóðsaga er uppspuni frá rótum til að hræða þá trúgjörnu.“ Höndin á Hermione var aftur komin á loft.

„Herra minn – hvað áttu nákvæmlega við með … „hryllingnum sem þar dylst“?“

„Það er álitið að þar sé einhvers konar skrímsli sem einungis arftaki Slytherins geti haft stjórn á,“ svaraði Binns með sinni þurru, skræku rödd.

Nemendurnir litu skelkaðir hver á annan.

„Það er ekkert slíkt til, trúið mér,“ sagði Binns og blaðaði í minnisblöðunum sínum. „Það er enginn klefi og ekkert skrímsli.“

„En herra,“ sagði Seamus Finnigan, „ef hinn sanni arftaki Slytherins er sá eini sem getur opnað klefann, er þá ekki einmitt ómögulegtfyrir aðra að finna klefann og opna hann?“

„Vitleysa, O’Flaherty,“ sagði Binns prófessor ergilegur. „Ef fjöldinn allur af skólastjórum Hogwartskóla hefur ekki getað fundið neitt …“

„En, prófessor,“ gall í Parvati Patil, „það þyrfti þá líklega að nota svartagaldur til að opna hann …“

„Þó að galdramaður noti ekki svartagaldur þýðir það ekki að hann geti það ekki, ungfrú Pennyfeather,“ hreytti Binns út úr sér. „Og ég endurtek, ef Dumbledore og hans forverar …“

„En kannski þarf maður að vera skyldur Slytherin til að geta opnað klefann og þess vegna getur Dumbledore ekki …“ byrjaði Dean Thomas en Binns prófessor hafði fengið nóg.

„Nú er nóg komið,“ sagði hann hvasst. „Þetta er þjóðsaga! Leyniklefinn er ekki til! Það eru engin verksummerki um að Slytherin hafi byggt svo mikið sem leynilegan kústaskáp! Ég sé eftir að hafa sagt ykkur þessa bjánalegu sögu! Nú snúum

við okkur aftur að sögu, að traustum, trúverðugum og sannanlegum staðreyndum!“

Og innan fimm mínútna var bekkurinn fallinn í sitt vanalega mók á ný.

„Mig grunaði alltaf að Salazar Slytherin hefði verið gamall, ruglaður vitleysingur,“ sagði Ron við Harry og Hermione þegar þau tróðust gegnum þvöguna á göngunum eftir tímann til að losa sig við töskurnar fyrir kvöldverðinn. „En ég vissi ekki að hann hefði byrjað á öllu þessu rugli um hreint blóð. Ég myndi ekki vilja vera á heimavistinni hans þó að mér væri borgað fyrir það. Ég meina það, ef flokkunarhatturinn hefði reynt að setja mig í Slytherin hefði ég tekið lestina beinustu leið heim ...“

Hermione kinkaði ákaft kolli en Harry sagði ekkert. Hann var með óþægindatilfinningu í maganum.

Harry hafði aldrei sagt Ron og Hermione frá því að flokkunarhatturinn hafði alvarlega íhugað að setja hann í Slytherin. Hann mundi það eins og það hefði gerst í gær, lágu röddina sem talaði í eyrað á honum þegar hann setti hattinn á höfuðið árið áður.

Þú gætir orðið stórmenni, það er allt til staðar hér í höfðinu á þér og Slytherin gæti hjálpað þér í átt að mikilleik og frama, enginn vafi á því …

En þá hafði Harry þegar heyrt af því orðspori sem fór af Slytherin heimavistinni, að þaðan útskrifuðust nær eingöngu galdramenn myrku aflanna, og hugsaði því örvæntingarfullur: „Ekki Slytherin!“ og hatturinn hafði sagt: „Jæja, fyrst þú ert viss … þá verður það Gryffindor …“

Í mannþrönginni á ganginum mættu þau Colin Creevey.

„Hæ, Harry!“

„Halló, Colin,“ svaraði Harry sjálfkrafa.

„Harry – Harry – strákur í bekknum mínum segir að þú sért …“

En Colin var svo lítill að hann gat ekki staðið á móti straumi fólks sem kom á móti honum svo að hann barst ósjálfbjarga í átt að Stóra salnum; þau heyrðu hann skrækja: „Sé þig seinna, Harry!“ og svo var hann horfinn.

„Hvað ætli strákur í bekknum hans segi um þig?“ velti Hermione fyrir sér.

„Örugglega eitthvað um að ég sé arftaki Slytherins,“ sagði Harry og svitnaði þegar hann minntist þess að Justin Finch-Fletchley hafði flúið frá honum þegar þeir mættust í hádeginu.

„Fólkið hérna er svo auðtrúa,“ sagði Ron með vandlætingu. Hópurinn dreifðist og þau komust upp næsta stiga án vandkvæða.

„Heldurðu í alvöru að það sé til leyniklefi?“ spurði Ron Hermione.

„Ég veit það ekki,“ sagði hún og hnyklaði brýnnar. „Dumbledore gat ekki læknað frú Norris og það gæti bent til að það sem réðst á hann sé kannski ekki – ja – mennskt.“

Í sömu andrá gengu þau fyrir horn og voru allt í einu við endanná ganginum þar sem árásin hafði átt sér stað. Þau námu staðar og litu í kringum sig. Það leit allt út eins og árásarkvöldið með þeirri undantekningu að enginn stífur

köttur hékk niður úr kyndilstjakanum og auður stóll stóð upp við vegginn með áletruninni „Leyniklefanum hefur verið lokið upp“.

„Þarna hefur Filch setið á verði,“ muldraði Ron. Þau litu hvert á annað. Gangurinn var mannlaus.

„Það getur ekki spillt fyrir að líta í kringum sig,“ sagði Harry, lagði frá sér töskuna og fór niður á fjóra fætur, skreið um og leitaði að vísbendingum.

„Merki um bruna!“ sagði hann. „Hér – og hér –“

„Komið og sjáið þetta!“ sagði Hermione. „Þetta er skrítið …“

Harry stóð á fætur og gekk að glugganum til hliðar við áletrunina á veggnum. Hermione benti á efstu gluggarúðuna þar sem um það bil tuttugu kóngulær börðust greinilega um að komast út um litla sprungu á glerinu. Langur, silfurlitur þráður hékk niður frá sprungunni eins og þær hefðu allar klifrað upp eftir honum í ákafa sínum að komast út.

„Hefurðu nokkurn tíma séð kóngulær hegða sér svona?“ spurði Hermione undrandi.

„Nei,“ sagði Harry, „en þú, Ron? Ron?“

Hann leit um öxl. Ron hélt sig í öruggri fjarlægð og virtist reyna að halda aftur af löngun sinni til að hlaupa á brott.

„Hvað er að?“ spurði Harry.

„Ég – þoli – ekki – köngulær,“ sagði Ron órólegur.

„Ég vissi það ekki,“ sagði Hermione og leit undrandi á Ron. „Við höfum oft og mörgum sinnum notað köngulær í töfradrykkjatímunum …“

„Ég hef ekkert á móti þeim þegar þær eru dauðar,“ sagði Ron sem gat ekki einu sinni litið í átt að glugganum. „Mér líkar bara ekki hvernig þær hreyfa sig …“ Hermione flissaði.

„Þetta er ekki fyndið,“ sagði Ron æstur. „Ef þú þarft endilega að vita það, þá breytti Fred bangsanum mínum í stóra og ógeðslega könguló af því ég braut leikfangakústinn hans þegar ég var þriggja ára … Þið væruð heldur ekki hrifin af köngulóm ef þið hefðuð staðið með bangsann ykkar og allt í einu uppgötvað að hann væri með allt of marga fætur og …“

Hann þagnaði og hryllti sig. Hermione átti greinilega enn erfitt með að bæla niður hláturinn. Harry flýtti sér að skipta um umræðuefni: „Munið þið eftir öllu vatninu á gólfinu? Hvaðan kom það? Það hefur einhver þurrkað það upp.“

„Það var einhvers staðar hérna,“ sagði Ron, herti upp hugann og gekk nokkur skref framhjá stólnum hans Filch og benti. „Það var beint fyrir utan þessar dyr.“

Hann teygði sig í koparhúninn en kippti svo að sér hendinni eins og hann hefði brennt sig.

„Hvað er að?“ spurði Harry.

„Ég get ekki farið þarna inn,“ sagði Ron geðvonskulega. „Þetta er stelpnaklósett.“

„Æ, Ron, það er enginn þarna inni,“ sagði Hermione, stóð upp og gekk til hans. „Þetta er staðurinn hennar Völu væluskjóðu. Komið þið, kíkjum inn.“

Skiltið sem á stóð „Bilað“ virti hún að vettugi og opnaði dyrnar.

Þetta var það skuggalegasta og ömurlegasta klósett sem Harry hafði komið inn á. Undir stórum, sprungnum og blettóttum spegli var röð af skörðóttum vöskum. Gólfið var rakt og endurspeglaði daufa birtuna af nokkrum kertastubbum sem voru að brenna upp í stjökunum; tréhurðirnar á klósettbásunum voru flagnaðar og rispaðar og ein þeirra hékk tæpast á hjörunum.

Hermione lagði fingur á varir og gekk í átt að innsta klefanum.

Þegar þangað var komið sagði hún: „Halló, Vala, hvað segirðu?“

Harry og Ron fóru á eftir henni. Vala væluskjóða sveif yfir klósettkassanum og kroppaði í bólu á hökunni á sér.

„Þetta er stelpnaklósett,“ sagði hún og gaut augunum tortryggin á Harry og Ron. „Þeir eru ekki stelpur.“

„Nei,“ samþykkti Hermione. „Mig langaði bara að sýna þeim hvað – uhumm – það er huggulegt hérna.“

Hún benti óljóst í áttina að gamla, skítuga speglinum og röku gólfinu.

„Spyrðu hana hvort hún hafi orðið vör við eitthvað,“ sagði Harry hljóðlaust með vörunum.

„Hvað ertu að hvísla?“ spurði Vala og starði á hann.

„Ekkert,“ sagði Harry óðamála. „Okkur langaði að spyrja …“

„Ég vildi óska að fólk hætti að baktala mig!“ sagði Vala grátklökkri röddu. „Ég hef tilfinningar, bara svo þið vitið það – þó að ég sé dáin …“

„Vala, hér er enginn sem vill koma þér í uppnám,“ sagði Hermione. „Harry langaði bara …“

„Vill enginn koma mér í uppnám! Þessi var góður!“ veinaði Vala.

„Líf mitt hér var ekkert nema eymd og volæði og nú kemur fólk og reynir að eyðileggja fyrir mér dauðann.“

„Okkur langaði að vita hvort þú hefðir séð eitthvað skrítið nýlega,“ sagði Hermione hraðmælt. „Af því að það var ráðist á kött beint fyrir framan dyrnar þínar á hrekkjavökunni.“

„Sástu einhvern á kreiki hérna það kvöld?“ spurði Harry.

„Ég tók ekki eftir neinu,“ sagði Vala dramatísk. „Peeves kom mér í svo mikið uppnám að ég kom hingað til að reyna að drepa mig. En þá mundi ég að ég er – ég er …“

„Nú þegar dáin,“ sagði Ron hjálpsamur.

Vala snökti harmþrungið, hóf sig hærra á loft, sneri sér á hvolf og stakk sér ofan í klósettið svo að gusurnar gengu yfir þau. Í næstu andrá var hún horfin úr augsýn en af kæfðum ekkasogunum að dæma dvaldist hún einhvers staðar í sveigjunni á frárennslisrörinu.

Harry og Ron stóðu og göptu en Hermione yppti öxlum þreytulega og sagði: „Ég segi það satt, þetta er nú ekkert miðað við hvernig hún er venjulega … Komum okkur héðan.“

Harry hafði varla lokað hurðinni á gutlandi ekkasogin í Völu þegar há rödd varð til þess að þau hrukku öll í kút.

„RON!“

Percy Weasley hafði snarstansað uppi á stigaskörinni, umsjónarmannsnælan glampaði sem aldrei fyrr og á andliti hans var svipur sem lýsti mikilli geðshræringu.

„Þetta er stelpnaklósett!“ stundi hann. „Hvað varst þú …“

„Vorum bara að skoða okkur um,“ sagði Ron kæruleysislega. „Leita að vísbendingum …“

Percy þrútnaði af reiði á svipaðan hátt og frú Weasley að því er Harry fannst.

„Komið – ykkur – í – burt – af – þessum – stað –“ sagði Percy, stikaði til þeirra og veifaði handleggjunum til að reka á eftir þeim. „Er ykkur alveg sama hvernig þetta getur skilist? Að koma aftur hingað á meðan allir eru að borða …“

„Af hverju ættum við ekki að vera hérna?“ sagði Ron æstur, sneri sér við og starði á Percy. „Við snertum aldrei þennan kött, bara svo þú vitir það!“

„Það sagði ég Ginny líka,“ sagði Percy ævareiður, „en hún virðist enn halda að þið verðið rekin. Ég hef aldrei séð hana svona miður sín. Hún grætur og grætur. Þú hefðir kannski átt að hugsa aðeins til hennar – allir fyrsta árs nemarnir eru í hrikalegu uppnámi út af þessu …“

„Þér er alveg sama um Ginny,“ sagði Ron og eyrun á honum roðnuðu. „Þú ert bara hræddur um að ég eigi eftir að eyðileggja möguleika þína á að verða nemendaformaður …“

„Ég dreg fimm stig af Gryffindor!“ sagði Percy stuttur í spuna og fitlaði við næluna sína. „Og láttu þér þetta að kenningu verða! Nú hættir þú að leika spæjara, annars skrifa ég mömmu!“

Og svo steðjaði hann á brott og aftanverður hálsinn á honum var jafn rauður og eyrun á Ron.

Harry, Ron og Hermione völdu sér sæti eins fjarri Percy og þau framast gátu í setustofunni þetta kvöld. Ron var enn mjög reiður og var alltaf að setja blekklessur á töfrabragðaverkefnið sitt. Þegar hann teygði sig annars hugar í sprotann sinn til að fjarlægja klessurnar kviknaði í pergamentinu. Ron skellti Almennu álagabókinni (2. stig)

aftur, froðufellandi af vonsku og Harry til mikillar furðu fór Hermione að dæmi hans.

„Hver gæti það verið?“ sagði hún lágri röddu upp úr eins manns hljóði. „Hver gæti viljað losna við alla skviba og Muggafæddu nemana úr skólanum?“

„Látum okkur sjá,“ sagði Ron og þóttist hugsa sig um. „Hvern þekkjum við sem þolir ekki þá sem koma úr Muggafjölskyldum?“

Hann leit á Hermione. Hermione horfði á hann á móti en virtist ekki sannfærð.

„Ef þú ert að tala um Draco …“

„Auðvitað er ég að tala um hann!“ sagði Ron. „Þú heyrðir hvað hann sagði: „Þið verðið næst, blóðníðingar!“ – láttu ekki svona, maður þarf ekki annað en að horfa á andstyggilegt rottuandlitið á honum til að vita að það er hann …“

„Heldurðu að Draco sé arftaki Slytherins?“ sagði Hermione full efasemda.

„Hugsaðu um fjölskylduna hans,“ sagði Harry og lokaði bókinni sinni líka. „Þau hafa öll verið í Slytherin; hann er alltaf að monta sig af því. Þau gætu tvímælalaust verið afkomendur Slytherins. Faðir hans er að minnsta kosti nógu illur til þess.“

„Og kannski hafa þau haft lykilinn að leyniklefanum í margar aldir!“ sagði Ron. „Og látið hann ganga frá föður til sonar …“

„Ja,“ sagði Hermione, „það er líklega möguleiki …“

„En hvernig getum við sannað það?“ spurði Harry þungbúinn.

„Ég veit kannski um ráð,“ sagði Hermione, gaut augunum á Percy og lækkaði röddina enn. „Það væri mjög erfitt. Og hættulegt, mjög hættulegt. Við værum að brjóta um það bil fimmtíu skólareglur, býst ég við …“

„Ef þú heldur að þú getir komið þér að efninu einhvern tíma á næstu mánuðum, láttu okkur þá vita!“ sagði Ron geðvonskulega.

„Allt í lagi,“ sagði Hermione kuldalega. „Það sem við þurfum að gera er að komast inn í setustofuna í Slytherin og spyrja

Draco nokkurra spurninga, án þess að hann uppgötvi að það erum við.“ „En það er ómögulegt,“ sagði Harry og Ron hló.

„Nei, það er það ekki,“ sagði Hermione. „Það eina sem við þurfum er dálítið af ummyndunardrykk.“

„Hvað er það?“ spurðu Ron og Harry í kór.

„Snape minntist á hann í tíma fyrir nokkrum vikum …“

„Heldurðu að við höfum ekkert betra að gera í töfradrykkjatímum en að hlusta á Snape,“ muldraði Ron.

„Þessi drykkur breytir manni í einhvern annan. Pælið í því! Við gætum breytt okkur í þrjá Slytherinnemendur. Enginn myndi átta sig á að við værum þarna. Draco myndi örugglega segja okkur hvað sem er. Hann er örugglega að grobba sig í setustofu Slytherin á þessu augnabliki.“

„Þetta ummyndunardót heyrist mér að sé varasamt,“ sagði Ron og yggldi sig. „Hvað ef við verðum föst sem einhverjir Slytherinnemendur til æviloka?“

„Drykkurinn verkar aðeins í stuttan tíma,“ sagði Hermione og bandaði óþolinmóð frá sér. „En það verður erfitt að komast yfir uppskriftina. Snape sagði að hún væri í bók sem nefnist Máttugustu töfradrykkirnir og hún er örugglega í lokuðu deildinni á bókasafninu.“

Það var aðeins ein leið til þess að verða sér úti um bók úr lokuðu deildinni: Maður varð að hafa skriflegt leyfi frá kennara.

„Það gæti orðið erfitt að útskýra af hverju við viljum fá þessa bók lánaða,“ sagði Ron. „Ef við segjumst ekki ætla að nota hana til að búa til töfradrykki.“

„Ég held,“ sagði Hermione, „að ef við segjumst bara hafa áhuga á fræðunum þá gætum við átt möguleika …“

„O, láttu ekki svona, það á enginn kennari eftir að falla fyrir því,“ sagði Ron. „Það er enginn svo treggáfaður …“

# Tíundi kafli

# Rotarinn ótuktarlegi

Allt frá hinni misheppnuðu uppákomu með smáálfana hafði Lockhart prófessor stillt sig um að nota lifandi skepnur í kennslunni. Þess í stað las hann kafla úr bókum sínum og lék stundum fyrir þau stórbrotnustu augnablikin. Hann bað Harry yfirleitt að hjálpa sér með þessar uppfærslur og fram að þessu hafði Harry verið neyddur til að leika vitgrannan transilvanískan þorpsbúa sem Lockhart hafði læknað af þvaðurbölvuninni, snjómann með nefkvef og vampíru sem gat ekkert borðað nema kál eftir að Lockhart meðhöndlaði hana.

Í næstu kennslustund í vörn gegn myrku öflunum var Harry dreginn fram á gólf til þess að leika varúlf. Ef hann hefði ekki haft gilda ástæðu til að halda Lockhart góðum hefði hann neitað.

„Langt og hátt ýlfur, Harry – einmitt – og svo sló ég hann – svona – skellti honum á gólfið – svona – og tókst að halda honum niðri með annarri hendi – og með hinni lagði ég töfrasprotann að hálsinum á honum – og svo safnaði ég allri þeirri orku sem ég átti eftir, fór með afskaplega flókið ummyndunartöfrabragð – og hann vældi ámátlega – áfram, Harry – miklu hærra – gott – feldurinn hvarf – vígtennurnar skruppu saman – og hann varð aftur að manni. Einfalt og áhrifaríkt – og enn eitt þorpið minnist mín sem frelsishetjunnar sem bjargaði þeim frá mánaðarlegri árás varúlfanna.“ Bjallan hringdi og Lockhart reis á fætur. „Heimavinna: Skrifið ljóð um sigur minn á Vagga-Vagga varúlfinum! Sá sem skrifar besta ljóðið fær að launum áritað eintak af sjálfsævisögu minni Hinn göldrum líki Gilderoy!“

Krakkarnir tóku að tínast út. Harry fór aftur að öftustu röðinni þar sem Hermione og Ron biðu.

„Tilbúin?“ muldraði Harry.

„Bíðum þar til allir eru farnir,“ sagði Hermione taugaóstyrk. „Allt í lagi …“

Hún gekk að kennaraborði Lockharts og ríghélt um blaðsnepil, Harry og Ron fylgdu fast á hæla hennar.

„Uhumm – Lockhart prófessor?“ stamaði Hermione. „Mig vantar … hérna … bók af bókasafninu. Bara svona sem aukalesefni.“ Hún rétti fram miðann skjálfandi hendi. „En hún er í lokuðu deild inni á bókasafninu svo að ég þyrfti skriflegt leyfi frá kennara – ég er viss um að hún veitir mér betri skilning á því sem þú sagðir um hægvirk eiturefni í bókinni þinni Á flakki með forynjum …“

„Ah, Á flakki með forynjum!“ sagði Lockhart, tók miðann af Hermione og ljómaði. „Hún er ein af uppáhaldsbókunum. Fannst þér hún skemmtileg?“

„Ó, já,“ sagði Hermione áköf. „Það var svo sniðugt hvernig þú veiddir síðustu forynjuna í tehettu …“

„Ja, ég er viss um að enginn tekur það óstinnt upp þótt ég veiti besta nemanda skólans örlitla aukaaðstoð,“ sagði Lockhart hlýlega og dró fram gríðarstóran penna, gerðan úr páfuglsfjöður. „Já, hann er fallegur,“ sagði hann og misskildi hryllinginn í svip Rons. „Venjulega nota ég hann bara við áritun bóka minna.“

Hann skrifaði á miðann með risastórum, skrautlegum bókstöfum og rétti Hermione.

„Jæja, Harry,“ sagði Lockhart á meðan Hermione braut skjálfhent saman miðann og stakk honum ofan í töskuna sína, „er svo ekki fyrsti Quidditchleikur tímabilsins á morgun? Gryffindor á móti Slytherin? Ég frétti að þú værir þokkalegur leikmaður. Ég var líka leitari. Ég var meira að segja valinn í landsliðið en ákvað að helga líf mitt frekar baráttunni við myrku öflin. En ef þig skyldi vanta dálitla einkaþjálfun skaltu ekki hika við að leita til mín. Ég er alltaf fús að veita af reynslu brunni mínum til byrjenda …“

Harry umlaði eitthvað og flýtti sér á eftir Ron og Hermione.

„Ég trúi þessu ekki,“ sagði hann þegar þau skoðuðu undirskriftina á miðanum. „Hann athugaði ekki einu sinni hvaða bók okkur vantaði.“

„Það er af því að hann er heilalaus bjáni,“ sagði Ron. „En skítt með það, við fengum það sem við þurftum …“

„Hann er ekki heilalaus bjáni,“ sagði Hermione skrækróma um leið og þau hröðuðu sér að bókasafninu.

„Bara af því að hann sagði að þú værir besti nemandinn hans …“

Þau lækkuðu róminn þegar þau gengu inn í þrúgandi þögnina á bókasafninu. Bókavörðurinn, fröken Pince, var mjó, skapstygg kona sem minnti dálítið á vannærðan hrægamm.

„Máttugustu töfradrykkirnir?“ endurtók hún tortryggin og reyndi að ná miðanum af Hermione; en Hermione sleppti ekki.

„Ég vil endilega fá að halda honum,“ sagði hún andstutt.

„O, láttu ekki svona,“ sagði Ron, reif hann af henni og afhenti fröken Pince. „Við fáum aðra eiginhandaráritun handa þér. Lockhart áritar allt, bara ef það er nægilega lengi á sama stað.“

Fröken Pince bar miðann upp að ljósinu, eins og hún væri ákveðin í að standa þau að fölsun, en miðinn virtist í lagi. Hún rigsaði af stað á milli hárra bókahillanna og kom stuttu síðar

með stóra, mölétna bók í fanginu. Hermione lagði bókina varfærnislega ofan í töskuna, svo hröðuðu þau sér af stað og reyndu að láta ekki bera á því hvað þau voru flóttaleg.

Fimm mínútum síðar voru þau búin að loka sig inni á bilaða klósettinu hennar Völu væluskjóðu. Hermione tók ekkert tillit til mótmæla Rons og benti á að þetta væri sá staður sem ólíklegast væri að einhver með réttu ráði færi inn á. Hérna fengju þau algert næði. Vala væluskjóða grét hástöfum í klefanum sínum en þau létu hana afskiptalausa og hún þau.

Hermione opnaði varlega Máttugustu töfradrykkina og þau grúfðu sig yfir blettóttar blaðsíðurnar. Það varð fljótt augljóst hvers vegna bókin var höfð í lokuðu deildinni á bókasafninu. Sumir töfradrykkirnir höfðu svo skelfilega verkun og sumar myndanna voru svo óhugnanlegar, þarna var meðal annars mynd af manni á röngunni og af norn sem hafði látið handleggi vaxa út úr höfðinu á sér.

„Hérna er þetta," sagði Hermione áköf þegar þau komu að blaðsíðu sem bar fyrirsögnina Ummyndunardrykkurinn. Hún var skreytt teikningum af fólki sem var að umbreytast í aðrar manneskjur. Harry vonaði heitt og innilega að teiknarinn hefði ímyndað sér hræðilegan sársaukasvipinn á andlitum fólksins.

„Þetta er flóknasta eiturblanda sem ég hef séð,“ sagði Hermione þegar þau lásu uppskriftina. „Huluvængjur, iglur, flóðhálmur og blóðarfi,“ muldraði hún um leið og hún renndi fingri niður eftir síðunni.

„Það er auðvelt að útvega hráefnið, við náum í það sjálf í geymsluskáp nemendanna … Ó, sjáið þið, mulið tvíhyrningshorn – ég veit ekki hvernig við fáum það – rifið skinn af letidýri – það verður líka erfitt – og svo auðvitað smávegis af manneskjunni sem við ætlum að breyta okkur í.“

„Afsakið?“ sagði Ron hvasst. „Hvað áttu við með smávegis af manneskjunni sem við ætlum að breyta okkur í? Ég drekk ekki neitt sem inniheldur táneglurnar af Crabbe …“

Hermione hélt áfram eins og hún hefði ekki heyrt til hans.

„Við þurfum ekki að hafa áhyggjur af því strax því þær fara ekki út í fyrr en síðast …“

Ron sneri sér orðlaus að Harry en það var annað sem hvíldi á honum.

„Gerirðu þér grein fyrir því hvað við þurfum að stela miklu, Hermione? Rifið skinn af letidýri, það er alveg örugglega ekki í geymsluskáp nemendanna. Hvað eigum við að gera, brjótast inn á geymsluna hans Snapes? Ég er ekki viss um að mér lítist á það.“ Hermione skellti aftur bókinni.

„Ætlið þið að guggna á þessu, allt í lagi,“ sagði hún. Í kinnunum voru rauðir dílar og augun voru skærari en vanalega. „Mig langar heldur ekki að brjóta reglurnar. Mér finnst miklu alvarlegra mál að hóta Muggafæddum nemendum en að brugga flókinn töfradrykk. En ef þið viljið ekki komast að því hvort þetta er Draco get ég alveg farið beinustu leið til fröken Pince og skilað bókinni …“

„Ekki bjóst ég við að lifa þann dag sem þú teldir okkur á að brjóta reglurnar,“ sagði Ron. „Allt í lagi, við gerum þetta. En engar táneglur.“

„Hvað tekur eiginlega langan tíma að búa þetta til?“ spurði Harry um leið og Hermione opnaði bókina aftur mun sælli á svip.

„Ja, flóðhálminn verður að tína á fullu tungli og huluvængjurnar eiga að malla í tuttugu og einn dag … ég

giska á að þetta verði tilbúið eftir svona mánuð, ef okkur tekst að útvega allt efnið.“

„Mánuð?“ sagði Ron. „Malfoy gæti náð að ráðast á alla Muggafæddu krakkana í skólanum á þeim tíma!“ En augu Hermione kipruðust aftur ógnandi svo að hann flýtti sér að bæta við: „En þetta er besta hugmyndin hingað til svo nú er það bara áfram með smjörið, ekki rétt?“

En þegar Hermione fór að athuga hvort það væri óhætt fyrir þá að yfirgefa klósettið hvíslaði Ron að Harry: „Þetta yrði miklu minna mál ef þú gætir bara hrint Draco af kústinum á morgun.“

Harry vaknaði snemma á laugardagsmorguninn en lá nokkra stund og hugsaði um Quidditchleikinn sem var í vændum. Hann var kvíðinn, aðallega vegna viðbragða Olivers ef þeir töpuðu en það var líka tilhugsunin um að mæta liði á þeim skjótustu keppniskústum sem hægt var að kaupa. Hann hafði aldrei langað jafn mikið til að sigra Slytherin. Þegar hann hafði legið í hálftíma í rúminu með magapínu stóð hann á fætur, klæddi sig og fór snemma niður í morgunmat. Þar sat Gryffindorliðið í hnapp við autt langborðið. Allir voru tauga spenntir að sjá og sögðu fátt.

Þegar klukkan var að verða ellefu fór allur skólinn að tínast niður á Quidditchvöllinn. Þrumurnar lágu í loftinu á þessum grámyglulega degi. Ron og Hermione flýttu sér til Harrys að óska honum góðs gengis áður en hann færi inn í búningsklefann. Liðið klæddi sig í skarlatsrauðu Gryffindorskikkjurnar og settist svo niður til að hlusta á hina vanalegu hvatningarræðu Olivers.

„Slytherin hefur betri kústa en við," byrjaði hann. „Það þýðir ekki að neita því. En við erum með betri leikmenn á kústunum. Við höfum æft betur en þeir og flogið í öllum veðrum –" („Svo sannarlega," muldraði George Weasley. „Ég hef ekki þornað síðan í ágúst") „– og við skulum sjá til þess að þeir iðrist dagsins sem þeir leyfðu litlu pöddunni honum Draco að kaupa sig inn í liðið."

Oliver sneri sér að Harry, miður sín af tilfinningahita.

„Svo veltur það á þér, Harry, að sýna þeim að leitari verður að hafa meira til að bera en ríkan föður. Náðu gullnu eldingunni á undan honum, Harry, fórnaðu lífi þínu til að ná henni. Af því að við verðum að vinna í dag, við bara verðum."

„Engin pressa, Harry,“ sagði Fred og blikkaði hann.

Þegar þau gengu út á völlinn glumdi við mikill hávaði af áhorfendapöllunum; aðallega fagnaðarlæti af því að bæði Ravenclaw og Hufflepuff vildu sjá Slytherin tapa, en Slytherinnemendurnir létu líka heyra í sér og bauluðu og púuðu. Fröken Hooch, Quidditchkennarinn, skipaði Flint og Oliver að takast í hendur, sem þeir gerðu og kreistu fastar en nauðsyn krafði um leið og þeir sendu hvor öðrum illilegt augnaráð.

„Af stað þegar ég flauta,“ sagði fröken Hooch. „Þrír … tveir … einn …“

Hrópin á áhorfendapöllunum fylgdu leikmönnunum fjórtán þegar þeir þutu upp á móti þungbúnum himninum. Harry flaug hærra en allir hinir og skimaði í kringum sig eftir gullnu eldingunni.

„Er í lagi með þig, örfés?“ kallaði Draco og skaust áfram fyrir neðan hann eins og til að sýna hvað kústurinn hans væri hraðfleygur.

Harry gafst ekki tími til að svara, því að í sömu andrá kom stór, svartur rotari æðandi á móti honum; hann slapp svo naumlega að hann fann hárið bærast þegar hann straukst við það.

„Þarna munaði litlu, Harry!“ sagði George og þaut framhjá honum með kylfuna á lofti, tilbúinn að slá rotarann yfir á vallarhelm ing Slytherin. Harry sá að George sló fast í áttina að Adrian Pucey en rot arinn tók skyndilega nýja stefnu og sentist beint í áttina að Harry á ný.

Harry lækkaði sig í skyndi til að forðast hann og George tókst enn að slá hann þéttingsfast í áttina að Draco. Enn hegðaði rotarinn sér eins og búmerang og skaust beint að Harry.

Harry setti á fulla ferð og þaut yfir á hinn helming vallarins. Hann heyrði hvína í rotaranum að baki sér. Hvað var að gerast? Rotarar einbeittu sér aldrei svona að einum leikmanni; þeirra hlutverk var að slá eins marga leikmenn af kústinum og þeir gátu …

Fred Weasley beið eftir rotaranum á hinum vallarhelmingnum. Harry beygði sig um leið og Fred sveiflaði kylfunni og sló af öllum mætti og rotarinn fór í aðra átt.

„Þarna náði ég þér!“ hrópaði Fred glaður í bragði, en þar hafði hann rangt fyrir sér. Rotarinn dróst að Harry eins og segulstál og þaut á eftir honum svo að Harry neyddist til að flýja á ofsahraða.

Það fór að rigna; Harry fann þunga dropana falla á andlitið og á gleraugun. Hann hafði ekki hugmynd um hvað var að gerast í leiknum fyrr en hann heyrði að Lee Jordan, sem lýsti keppninni, sagði:

„Slytherin er í forystu með sextíu stig gegn núll …“

Glæsikústar Slytherinliðsins höfðu greinilega sitt að segja og brjálaði rotarinn gerði allt sem hann gat til að slá Harry af kústinum. Fred og George flugu nú svo þétt að Harry að hann gat alls ekki komið auga á gullnu eldinguna, hvað þá gripið hana.

„Einhver – hefur – fiktað – við – þennan – rotara –“ stundi Fred og sveiflaði kylfunni af öllu afli í átt að rotaranum þegar hann réðst enn að Harry.

„Við þurfum að fá leikhlé,“ sagði George og reyndi allt í senn, að gefa Oliver merki og hindra rotarann í að nefbrjóta Harry.

Oliver skildi greinilega hvað gekk á. Fröken Hooch blés til leikhlés og Harry, Fred og George stungu sér í átt til jarðar um leið og þeir reyndu að forðast þennan brjálaða rotara.

„Hvað gengur á?“ spurði Oliver þegar Gryffindorliðið hafði hnapp ast saman. Áhangendur Slytherin fögnuðu. „Þeir eru að mala okkur. Fred og George, hvar voruð þið þegar rotarinn kom í veg fyrir að Angelina skoraði?“

„Við vorum langt fyrir ofan hana að reyna að koma í veg fyrir að hinn rotarinn dræpi Harry, Oliver,“ sagði George reiðilega. „Það hefur einhver fiktað við hann – hann lætur Harry ekki í friði. Hann lætur alla aðra í friði. Slytherinliðið hlýtur að hafa gert eitthvað við hann.“

„En rotararnir hafa verið læstir inni á skrifstofu fröken Hooch frá því á síðustu æfingu og þá var allt í lagi …“ sagði Oliver áhyggju fullur.

Fröken Hooch kom til þeirra. Harry sá yfir öxlina á henni að Slytherinliðið fagnaði og benti á hann.

„Heyriði,“ sagði Harry þegar hún nálgaðist, „ef þið tveir haldið áfram að fljúga svona nálægt mér þá gríp ég eldinguna aldrei nema hún fljúgi beint upp í ermina á mér. Verið þið annars staðar og ég sé sjálfur um rotarann.“

„Láttu ekki eins og fífl,“ sagði Fred. „Hann slær af þér hausinn.“ Oliver leit af Harry á Weasleybræðurna.

„Oliver, þetta gengur ekki,“ sagði Alicia Spinnet reiðilega. „Harry ræður ekki við hann upp á eigin spýtur. Biðjum um að láta rannsaka málið …“

„Ef við hættum núna verðum við að gefa leikinn!“ sagði Harry. „Og við töpum ekki fyrir Slytherin út af einum rotara! Gerðu það,

Oliver, segðu þeim að láta mig í friði!“

„Þetta er allt þér að kenna,“ sagði George reiðilega við Oliver. „Hvað á það að þýða að segja honum að fórna lífi sínu til að ná eldingunni …“

Fröken Hooch var komin til þeirra.

„Eruð þið tilbúin að halda leiknum áfram?“ spurði hún Oliver. Oliver leit ákveðinn á Harry.

„Segjum það,“ sagði hann. „Fred, George, þið heyrðuð hvað Harry sagði – látið hann í friði svo hann geti sjálfur séð um rotarann.“

Nú var farið að hellirigna. Þegar flauta fröken Hooch hljómaði spyrnti Harry sér frá jörðu og það leið ekki á löngu áður en hann heyrði hvininn í rotaranum fyrir aftan sig. Harry kleif hærra og hærra; hann snerist, sveigði, beygði, sikksakkaði og velti sér. Þótt hann svimaði dálítið hélt hann samt augunum galopnum. Regnið buldi á gleraugunum og rann upp í nasirnar á honum þar sem hann flaug á hvolfi til að verjast rotaranum. Hann heyrði hlátrasköll frá áhorfenda skaranum og gerði sér grein fyrir að hann hlyti að líta mjög kjánalega út en honum var sama því ótuktarlegi rotarinn var þungur og gat því ekki breytt jafn skyndilega um stefnu og Harry. Hann tók til þess bragðs að fljúga í kröppum dýfum og sveigjum meðfram vellinum, hann pírði augun í gegnum silfurtjöld rigningarinnar á Gryffindor markstangirnar þar sem Adrian Pucey var að reyna að komast framhjá Oliver …

Hvinur við eyra Harrys gaf til kynna að hann hefði sloppið undan enn einni árásinni frá rotaranum; hann snarsneri við og skaust í gagnstæða átt.

„Ertu að æfa ballet, Harry?“ kallaði Draco þegar Harry varð að gera asnalegan hring í loftinu til að víkja undan rotaranum. Enn á flótta með rotarann á hælunum – en – þegar hann gaut hatursaugum á Draco kom hann auga á hana – gullnu eldinguna. Hún sveif rétt fyrir ofan vinstra eyrað á Draco – og Draco var svo niðursokkinn í að skopast að Harry að hann hafði ekki séð hana.

Eitt spennuþrungið andartak hékk Harry kyrr í loftinu án þess að þora að taka dýfu niður að Draco ef ske kynni að hann liti upp og sæi eldinguna.

SMASS.

Hann hafði verið kyrr einni sekúndu of lengi. Rotarinn hæfði hann loks beint í olnbogann og hann fann handlegginn brotna. Illa vankaður af nístandi sársaukanum rann hann út af rennblautum kústinum, tókst að krækja öðru hnénu utan um hann en hægri handleggurinn hékk máttlaus niður með síðunni – rotarinn kom æðandi til að gera aðra árás, í þetta

sinn var miðað á andlitið á honum – Harry sveigði undan með eina skýra hugsun í þokuþungu höfðinu: Komast til Draco.

Í gegnum móðu regns og sársauka steypti hann sér að glansandi og hæðnislegu andlitinu fyrir neðan sig og sá augun galopnast af ótta: Draco hélt að Harry ætlaði að ráðast á sig.

„Hvað í …“ stundi hann og sveigði burt frá Harry.

Harry sleppti kústinum með heilbrigðu hendinni og hrifsaði út í loftið; hann fann fingur sína lokast um kalda eldinguna en hékk nú bara á kústinum með fótunum. Það heyrðust óp frá áhorfendum fyrir neðan hann þegar hann stakk sér niður á við og barðist við að líða ekki út af.

Hann lenti í drullusvaðinu með miklum skvettum og valt af kústinum. Handleggurinn á honum lá undarlega beygður út frá líkamanum; hann heyrði óljóst að það var blístrað og öskrað. Hann leit á eldinguna í heilbrigðu hendinni.

„Aha,“ sagði hann veikt. „Við unnum.“ Og svo leið yfir hann.

Hann komst til meðvitundar og fann regndropana detta á andlitið á sér. Hann lá enn á vellinum og með einhvern bograndi yfir sér. Hann sá glampa á tennur.

„Ó, nei, ekki þú,“ stundi hann.

„Hann er með óráði,“ sagði Lockhart hárri röddu við áhyggjufullan Gryffindorhópinn sem stóð í hnapp í kringum þá. „Engar áhyggjur, Harry. Ég ætla að laga á þér handlegginn.“

„Nei!“ sagði Harry. „Ég ætla að hafa hann svona, takk …“

Hann reyndi að setjast upp en sársaukinn var óbærilegur. Hann heyrði kunnuglega smelli út undan sér.

„Ég vil ekki að þú takir myndir af þessu, Colin,“ sagði hann hátt.

„Leggstu niður, Harry,“ sagði Lockhart róandi röddu. „Þetta er einfalt töfrabragð sem ég hef framkvæmt óteljandi sinnum …“

„Af hverju má ég ekki bara fara upp á sjúkrahúsálmuna?“ sagði Harry í gegnum samanbitnar tennur.

„Hann ætti að fara þangað, prófessor,“ sagði Oliver forugur upp yfir haus. Hann gat ekki annað en brosað þó að leitarinn hans lægi særður á jörðinni. „Vel gripið, Harry, alveg ótrúlegt. Besti leikur þinn hingað til …“

Í gegnum kraðak af fótum kom Harry auga á Fred og George þar sem þeir stríddu við að koma óþægum rotaranum ofan í kassa. Hann barðist enn ofsalega um.

„Færið ykkur,“ sagði Lockhart og bretti upp ermarnar á sægrænni skikkjunni.

„Nei – ekki –“ sagði Harry veiklulega en Lockhart sveiflaði sprotanum og beindi honum augnabliki síðar að handleggnum á Harry.

Furðuleg og óþægileg tilfinning breiddist út frá öxl Harrys og niður í fingurgóma. Honum fannst sem lofti hefði verið hleypt úr handleggnum. Hann þorði ekki að líta á hann. Hann lokaði augunum og sneri sér undan en illar grunsemdir hans reyndust á rökum reistar, fólkið í kring tók andköf og Colin

Creevey hóf að smella af í gríð og erg. Hann fann ekki lengur fyrir sársauka í handleggnum – honum fannst hann ekki lengur hafa handlegg.

„Ah,“ sagði Lockhart. „Já. Þetta getur stundum gerst. En það sem er fyrir mestu er að beinið er ekki lengur brotið. Maður ætti að hafa það í huga. Jæja, Harry, röltu nú upp á sjúkrahúsálmu – já, Ron og Hermione, fylgið þið honum ekki? Fröken Pomfrey getur – humm – lagað þig aðeins til.“

Þegar Harry stóð á fætur fannst honum hann hafa töluverða hægri slagsíðu. Hann dró djúpt að sér andann og leit á handlegginn. Honum lá við yfirliði.

Út úr skikkjuerminni gægðist eitthvað sem líktist þykkum, húðlitum gúmmíhanska. Hann reyndi að hreyfa fingurna. Ekkert gerðist. Lockhart hafði ekki grætt bein Harrys, hann hafði fjarlægt þau.

Fröken Pomfrey var hreint ekki ánægð.

„Þú hefðir átt að koma beint til mín!“ sagði hún æf af reiði og lyfti máttlausum leifunum af því sem hafði fyrir hálfri stundu

verið fullkominn handleggur. „Ég get grætt bein á örskotsstund – en að láta þau vaxa á ný …“

„En þú getur það, er það ekki?“ spurði Harry örvæntingarfullur.

„Auðvitað get ég það, en það verður sárt,“ sagði fröken Pomfrey vægðarlaus og rétti Harry náttföt. „Þú verður að sofa hérna í nótt …“

Hermione beið fyrir utan hengið í kringum rúm Harrys á meðan Ron hjálpaði honum í náttfötin. Það tók sinn tíma að stinga beinlausum og gúmmíkenndum handleggnum inn í ermina.

„Hvernig ætlarðu að bera í bætifláka fyrir Lockhart núna, ha, Hermione?“ kallaði Ron í gegnum hengið um leið og hann dró máttlausa fingurna á Harry í gegnum ermina. „Ef Harry hefði viljað láta úrbeina sig hefði hann beðið um það.“

„Það geta allir gert mistök,“ sagði Hermione. „Og þú finnur ekki lengur til, Harry, er það nokkuð?“

„Nei,“ sagði Harry og fór upp í rúm. „Ég finn heldur ekki fyrir neinu.“

Hann hoppaði upp í rúm og gagnslaus handleggurinn sveiflaðist með.

Hermione og fröken Pomfrey komu inn fyrir hengið. Fröken Pomfrey hélt á stórri flösku af einhverju sem nefndist Beina-gró.

„Þú átt erfiða nótt í vændum,“ sagði hún og hellti rjúkandi vökva í bikar og rétti honum. „Það er ekkert grín að endurgræða bein.“

Það var heldur ekkert grín að drekka Beina-gró. Það brenndi munn og háls Harrys þegar það rann niður. Hann hóstaði og frussaði á meðan fröken Pomfrey lét dæluna ganga um hættulegar íþróttir og vanhæfa kennara og lét Ron og Hermione eftir að hjálpa Harry að skola drykknum niður með vatni.

„Við unnum samt,“ sagði Ron og bros breiddist út um andlitið.

„Þetta var rosalega vel gripið, Harry. Svipurinn á Draco … hann var í drápsham …“

„Mikið langar mig að vita hvað hann gerði við þennan rotara,“ sagði Hermione þungbúin.

„Við getum bætt því við spurningalistann sem við leggjum fyrir hann þegar við höfum drukkið ummyndunardrykkinn,“ sagði Harry og hneig aftur niður á koddana. „Ég vona bara að hann sé betri á bragðið en þetta ógeð …“

„Þegar búið er að bæta ögn af Slytherinnemanda út í? Þú hlýtur að vera að grínast,“ sagði Ron.

Nú var hurðinni á sjúkrahúsálmunni hrundið upp. Inn komu drullugir og rennblautir Gryffindorleikmenn til að heilsa upp á Harry.

„Ótrúlegt flug, Harry,“ sagði George. „Við vorum að fylgjast með Marcusi Flint húðskamma Draco. Hann æpti eitthvað um að gullna eldingin hefði svifið rétt yfir höfðinu á honum án þess að hann tæki eftir því. Draco var ekki beinlínis ánægður á svipinn.“

Þau höfðu tekið með sér kökur, sælgæti og flöskur af graskerjasafa og nú söfnuðust þau saman í kringum rúmið hans Harrys og í uppsiglingu var fínasta veisla þegar fröken Pomfrey stormaði inn og hrópaði: „Þessi drengur þarf á hvíld að halda! Það vantar þrjátíu og þrjú bein í handlegginn og þau þurfa að fá næði til að vaxa aftur! Út! ÚT!“

Og Harry var skilinn einn eftir – án nokkurs sem gat dregið athyglina frá nístandi sársaukanum í máttlausum handleggnum.

Mörgum tímum síðar vaknaði Harry allt í einu í kolniðamyrkri og gaf frá sér lága sársaukastunu: Honum leið eins og handleggurinn á honum væri fullur af stórum flísum. Fyrst hélt hann að þetta hefði vakið hann. En svo fann hann sér til mikillar skelfingar að einhver strauk honum um ennið með svampi í myrkrinu.

„Láttu mig vera!“ sagði hann hárri röddu, og svo, „Dobby!“

Útstæð, kringlulaga augu húsálfsins góndu á hann í gegnum myrkrið. Eitt tár rann niður eftir löngu, hvössu nefinu.

„Harry Potter sneri aftur í skólann,“ hvíslaði hann vesældarlega.

„Dobby aðvaraði og aðvaraði Harry Potter. Ó, herra minn, af hverju sinntir þú ekki orðum Dobbys? Af hverju fór Harry Potter ekki heim þegar hann missti af lestinni?“

Harry vó sig lengra upp á koddann og ýtti svampinum hans Dobbys frá sér.

„Hvað ertu að gera hérna?“ spurði hann. „Og hvernig vissir þú að ég missti af lestinni?“

Neðri vör Dobbys skalf og Harry var skyndilega gripinn grunsemdum.

„Það varst þá þú!“ sagði hann hægt. „Þú komst í veg fyrir að ég kæmist í gegnum vegginn!“

„Svo sannarlega, herra minn,“ sagði Dobby og kinkaði kolli svo ákaft að eyrun slógust til. „Dobby faldi sig og beið eftir að Harry Potter kæmi á lestarstöðina. Dobby læsti skilveggnum og varð að strauja á sér hendurnar eftir á“ – hann sýndi Harry tíu langa fingur sem voru vafðir inn í sáraumbúðir – „en

Dobby var alveg sama, herra minn, af því að hann hélt að Harry Potter væri hólpinn. Og Dobby grunaði ekki að Harry Potter kæmist í skólann eftir öðrum leiðum!“ Hann reri fram í gráðið og hristi ófrýnilegt höfuðið.

„Dobby var svo brugðið þegar hann heyrði að Harry Potter hefði snúið aftur til Hogwartskóla að hann brenndi kvöldmat húsbónda síns! Aðra eins hýðingu hefur Dobby aldrei hlotið, herra minn …“ Harry seig aftur niður á koddann.

„Við Ron vorum næstum reknir þín vegna,“ sagði hann ævareiður.

„Þú ættir að láta þig hverfa áður en beinin í mér vaxa aftur, Dobby. Annars gæti ég kyrkt þig!“

Dobby brosti dauflega.

„Dobby er vanur líflátshótunum, herra minn. Dobby fær þær fimm sinnum á dag heima hjá sér.“

Hann snýtti sér á einu horninu á skítuga koddaverinu sem hann klæddist og var svo vesældarlegur að Harry fann hvernig honum rann reiðin.

„Af hverju ertu í þessu, Dobby?“ spurði hann forvitinn.

„Þessu, herra minn?“ sagði Dobby og togaði í koddaverið. „Það er til marks um stöðu húsálfsins, herra minn. Dobby getur bara orðið frjáls ef húsbændur hans gefa honum föt. Fjölskyldan gætir þess vandlega að gefa Dobby ekki svo mikið sem sokk, herra minn, því þá væri Dobby frjálst að yfirgefa heimilið og snúa aldrei aftur.“

Dobby þerraði útstæð augun og sagði skyndilega: „Harry Potter verður að snúa heim! Dobby hélt að rotarinn hans myndi nægja til að …“

„Rotarinn þinn?“ sagði Harry og fann hvernig reiðin blossaði upp í honum að nýju. „Hvað áttu við með rotaranum þínum? Fékkst þú þennan rotara til að reyna að drepa mig?“

„Ekki drepa þig, herra minn, það dytti Dobby aldrei í hug!“ sagði Dobby fullur geðshræringar. „Dobby er að reyna að bjarga lífi Harrys Potter! Það er betra að vera sendur heim alvarlega slasaður en að vera áfram hér, herra minn! Dobby vildi bara að Harry Potter slasaðist nægilega mikið til að vera sendur heim aftur!“

„Nú, er það allt og sumt?“ sagði Harry reiðilega. „Og viltu kannski vera svo vænn að segja mér af hverju þú vilt láta senda mig heim í molum?“

„Ó, ef Harry Potter bara vissi!“ andvarpaði Dobby og fleiri tár féllu niður á tötralegt koddaverið. „Ef hann bara vissi hvaða þýðingu hann hefur fyrir okkur lágt settu og undirokuðu úrhrök galdraheimsins! Dobby man þá tíð þegar Hann-sem-ekki-má-nefna var sem máttugastur, herra minn! Það var farið með okkur húsálfana eins og skít, herra minn! Dobby fær auðvitað ennþá slíka meðferð, herra minn,“ játaði hann og þurrkaði andlitið á koddaverinu. „En fyrir flest okkar hefur lífið öðlast gildi eftir að þú sigraðir Hann-sem-ekki-má-nefna. Harry Potter lifði af og myrkrahöfðinginn varð vanmáttugur. Og þá runnu upp nýir tímar og Harry Potter lýsti eins og kyndill vonarinnar fyrir alla sem héldu að hinum myrku dögum myndi aldrei ljúka, herra minn … Og nú munu hræðilegir atburðir gerast í Hogwartskóla og kannski eru þeir farnir að gerast. Dobby getur ekki leyft Harry Potter að vera áfram í skólanum þegar sagan er í þann veginn að endurtaka sig, nú þegar leyniklefinn hefur verið opnaður enn á ný …“

Dobby fraus af skelfingu, greip vatnskrúsina hans Harrys af náttborðinu, hvolfdi henni yfir höfuðið á sér og féll á gólfið. Andartaki síðar klifraði hann aftur upp í rúmið, rangeygður og muldraði: „Vondi Dobby. Vondi, vondi Dobby …“

„Svo að leyniklefinn er þá til?“ hvíslaði Harry. „Og þú sagðir að hann hefði verið opnaður áður? Segðu mér frá því, Dobby!“

Hann greip um úlnliðinn á álfinum þegar höndin á honum nálgaðist vatnskrúsina. „En ég er ekki af Muggaættum – hvernig get ég þá verið í hættu?“

„Ó, herra minn, spyrðu einskis, spyrðu aumingja Dobby ekki fleiri spurninga,“ stamaði álfurinn og augun voru gríðarstór í myrkrinu.

„Hér er verið að skipuleggja myrkraverk, en Harry Potter má ekki vera hér þegar þau verða unnin – farðu heim, Harry Potter, farðu heim. Harry Potter má ekki blanda sér í þetta, herra minn, það er of hættulegt …“

„Hver er það, Dobby?“ spurði Harry og hélt enn þéttingsfast um úlnliðinn á Dobby svo hann lemdi sig ekki í höfuðið með

vatnskrúsinni. „Hver opnaði klefann núna? Og hver opnaði hann síðast?“

„Dobby getur ekki, herra minn, Dobby getur ekki. Dobby má ekki segja!“ veinaði álfurinn. „Farðu heim, Harry Potter, farðu heim!“ „Ég fer ekki fet!“ sagði Harry bálreiður. „Ein af bestu vinum mínum er af ætt Mugga; hún verður fyrst í röðinni ef leyniklefinn hefur í rauninni verið opnaður …“

„Harry Potter hættir eigin lífi fyrir vini sína!“ grét Dobby í skelfilegu uppnámi. „Svo göfugur! Svo hugdjarfur! En hann verður að bjarga sjálfum sér, hann verður, Harry Potter má ekki …“

Skyndilega stirðnaði Dobby; leðurblökueyrun skulfu. Harry lagði líka við hlustir. Þeir heyrðu fótatak nálgast á ganginum.

„Dobby verður að fara!“ stundi álfurinn í dauðans angist. Það kvað við hár hvellur og allt í einu greip Harry í tómt. Hann hneig aftur ofan í rúmið og hafði ekki augun af myrkum inngangi sjúkraálmunnar og hlustaði á fótatakið sem nálgaðist stöðugt.

Andartaki síðar gekk Dumbledore aftur á bak inn í herbergið klæddur síðum ullarslopp með nátthúfu. Hann hélt undir endann á einhverju sem líktist styttu. McGonagall prófessor birtist í næstu andrá og hélt um fætur styttunnar. Í sameiningu lyftu þau henni upp í eitt rúmið.

„Náðu í fröken Pomfrey," hvíslaði Dumbledore og McGonagall prófessor hraðaði sér framhjá fótagafli Harrys og úr augsýn. Harry lá grafkyrr og þóttist sofa. Hann heyrði ákafar raddir og svo birtist McGonagall prófessor aftur í fylgd fröken Pomfrey sem brá golftreyju yfir náttkjólinn. Hann heyrði einhvern grípa andann á lofti.

„Hvað gerðist?" hvíslaði fröken Pomfrey að Dumbledore um leið og hún laut yfir styttuna í rúminu.

„Önnur árás," sagði Dumbledore. „Minerva fann hann á tröppunum."

„Það lá vínberjaklasi við hliðina á honum," sagði McGonagall prófessor. „Við höldum að hann hafi ætlað að læðast upp að heimsækja Harry."

Harry fann óttann læsast um sig. Hann reisti sig varlega upp til að sjá styttuna á rúminu. Tunglsgeisli skein á starandi andlitið.

Þetta var Colin Creevey. Augu hans voru galopin og hendurnar héldu krampakenndu taki um myndavélina.

„Steingerður?“ hvíslaði fröken Pomfrey.

„Já,“ svaraði McGonagall prófessor. „En mig hryllir við tilhugsuninni … hvað hefði gerst ef Albus hefði ekki verið á leiðinni niður til að fá sér heitt súkkulaði – hver veit hvað hefði þá gerst …“

Þau störðu öll þrjú á Colin. Þá teygði Dumbledore sig fram og þreif myndavélina úr stirðnaðri greip Colins.

„Heldurðu að hann hafi náð mynd af árásarmanninum?“ spurði McGonagall áköf.

Dumbledore svaraði ekki. Hann opnaði myndavélina.

„Hamingjan sanna!“ sagði fröken Pomfrey.

Gufumökkur steig upp úr myndavélinni. Þó að Harry lægi þremur rúmum fjær fann hann samt ramma lyktina af bráðnu plasti. „Bráðnuð,“ sagði fröken Pomfrey furðu lostin. „Öll bráðnuð …“ „Hvað þýðir þetta, Albus?“ sagði McGonagall kvíðin.

„Þetta þýðir,“ sagði Dumbledore, „að leyniklefinn hefur svo sannarlega verið opnaður.“

Fröken Pomfrey greip fyrir munninn. McGonagall starði á Dumble dore.

„En, Albus … hver … í ósköpunum?“

„Spurningin er ekki hver,“ sagði Dumbledore og hafði ekki augun af Colin. „Spurningin er hvernig …“

Harry gat ekki betur séð en að hún væri jafn forviða og hann sjálfur.

# Ellefti kafli

# Hólmgöngufélagið

Á sunnudagsmorgninum vaknaði Harry við að vetrarsólin lýsti upp sjúkrastofuna og handleggurinn var orðinn heilbrigður þótt hann væri enn dálítið stirður. Hann settist upp í skyndi og leit yfir að rúminu hans Colins en það var falið á bak við hengið sem Harry hafði notað við fataskiptin daginn áður. Þegar fröken Pomfrey sá að hann var vaknaður færði hún honum morgunverðarbakka með miklum fyrirgangi og byrjaði að beygja og rétta á honum hægri handlegginn og fingurna.

„Allir í lagi,“ sagði hún á meðan hann reyndi að borða hafragrautinn sinn með vinstri hendi. „Þegar þú ert búinn máttu fara.“

Harry klæddi sig eins hratt og hann gat og flýtti sér upp í Gryffindorturn; honum lá á að segja Ron og Hermione frá Colin og Dobby. En þegar hann kom þangað var þau hvergi að finna. Harry fór út til að leita að þeim og furðaði sig á því hvar

þau gætu verið. Hann var dálítið sár yfir því að þau skyldu ekki hafa áhuga á því að vita hvort beinin hefðu vaxið aftur.

Þegar Harry gekk framhjá bókasafninu rölti Percy Weasley út; hann virtist í mun betra skapi en þegar þeir hittust síðast.

„Ó, halló, Harry," sagði hann. „Glæsilega flogið í gær, alveg glæsilega. Gryffindorliðið er komið í forystu í bikarkeppninni – þið eruð komin með fimmtíu stig!"

„Hefurðu nokkuð séð Ron og Hermione?" spurði Harry.

„Nei, ekki í dag," sagði Percy og brosið dofnaði á vörum hans. „Ég vona að hann sé ekki inni á enn einu stelpnaklósettinu …"

Harry þvingaði fram hlátur og beið þar til Percy var kominn úr augsýn áður en hann tók stefnuna á klósettið hennar Völu væluskjóðu. Hann fékk ekki skilið af hverju Ron og Hermione ættu að hafa farið þangað, en þegar hann hafði gengið úr skugga um að hvorki Filch né nokkur umsjónarmannanna væru í grenndinni opnaði hann dyrnar á klósettinu og heyrði raddir þeirra berast frá læstum bás.

„Þetta er ég,“ sagði hann um leið og hann lokaði dyrunum á eftir sér. Það heyrðust andköf og gutl innan úr básnum og Harry sá augað á Hermione gægjast út um skráargatið.

„Harry!“ sagði hún. „Þú hræddir úr okkur líftóruna – komdu inn – hvernig ertu í handleggnum?“

„Fínn,“ sagði Harry og tróð sér inn í básinn. Gömlum seiðpotti hafði verið stillt upp á klósettið og snarkið sem barst undan setunni gaf til kynna að þau hefðu kveikt eld undir honum. Færanlegur og vatnsheldur eldur var ein af sérgreinum Hermione.

„Okkur langaði að koma að heimsækja þig, en ákváðum að byrja sem fyrst á ummyndunardrykknum,“ útskýrði Ron. Harry tókst að læsa básnum aftur með erfiðismunum. „Við héldum að þetta væri öruggasti felustaðurinn.“

Harry byrjaði að segja þeim frá Colin en Hermione greip fram í fyrir honum.

„Við vitum – við heyrðum McGonagall prófessor segja Flitwick frá þessu í morgun. Við ákváðum því að byrja sem fyrst …“

„Því fyrr sem við náum játningu út úr Draco því betra," urraði Ron.

„Vitið þið hvað ég held? Ég held að hann hafi verið í svo vondu skapi eftir að þeir töpuðu Quidditchkeppninni að hann lét það bitna á Colin."

„Og það er fleira," sagði Harry og fylgdist með Hermione rífa niður blóðarfa og fleygja honum ofan í pottinn. „Dobby kom til mín í nótt." Ron og Hermione litu forviða upp. Harry sagði þeim frá öllu sem Dobby hafði ljóstrað upp – eða réttara sagt, ekki ljóstrað upp.

Hermione og Ron hlustuðu með andakt.

„Hefur leyniklefinn þá verið opnaður áður?" spurði Hermione.

„Þá er þetta komið á hreint," sagði Ron sigri hrósandi. „Lucius Malfoy hlýtur að hafa opnað klefann þegar hann gekk í skólann og nú hefur hann sagt gamla, góða Draco hvernig á að gera það. Þetta er augljóst mál. Ég vildi samt að Dobby hefði sagt þér hvers konar skrímsli er falið í leyniklefanum. Mig langar að vita hvernig því hefur tekist að læðast um skólann án þess að nokkur tæki eftir því."

„Kannski getur það gert sig ósýnilegt,“ sagði Hermione og ýtti iglum niður að botninum á seiðpottinum. „Eða kannski getur það dulbúið sig – þóst vera herklæði eða eitthvað – ég hef lesið um kameljóns-ófreskjur …“

„Þú lest of mikið, Hermione,“ sagði Ron, sáldraði dauðum huluvængjum ofan á iglurnar og leit á Harry.

„Svo að Dobby kom í veg fyrir að við næðum lestinni og það er líka honum að kenna að rotarinn handleggsbraut þig …“ Hann hristi hausinn. „Veistu, ef hann hættir ekki að reyna að bjarga lífi þínu endar það með því að hann drepur þig.“

Fréttin um að Colin Creevey hefði orðið fyrir árás og lægi nú sem dauður væri í sjúkraálmunni barst hratt um allan skólann og á mánudagsmorgninum vissu það allir. Sögusagnir og tortryggni breiddust út eins og eldur í sinu. Fyrsta árs nemarnir ferðuðust um kastalann í hópum eins og þeir óttuðust að á þá yrði ráðist ef þeir hættu sér um skólann einir síns liðs.

Ginny Weasley, sem sat við hliðina á Colin Creevey í töfrabragðatímum, var í uppnámi. Harry fannst Fred og

George ekki nota réttu aðferðina við að hressa hana við. Þeir skiptust á að fela sig á bak við styttur klæddir pelsum eða þaktir graftarkýlum og stukku svo á hana þegar hún átti leið hjá. Þeir hættu ekki fyrr en Percy hótaði þeim, blár í framan af reiði, að skrifa frú Weasley og segja henni að Ginny væri farin að fá martraðir.

Á meðan gengu verndargripir og alls konar töfratæki kaupum og sölum í skólanum án vitundar kennaranna. Neville keypti stóran, illa lyktandi lauk, oddmjóan fjólubláan kristal og rotinn salamöndruhala, en það var áður en hinir Gryffindorstrákarnir bentu honum á að hann væri ekki í neinni hættu þar sem hann kæmi úr hreinræktaðri galdra fjölskyldu.

„Filch var sá fyrsti sem lenti í þessu,“ sagði Neville með óttasvip á kringluleitu andlitinu. „Og það vita allir að ég er næstum því skvib.“

Í annarri viku desembermánaðar gekk McGonagall um að venju og safnaði saman nöfnum þeirra sem yrðu í skólanum yfir jólin. Harry, Ron og Hermione skrifuðu sig á listann; þau höfðu heyrt að Draco yrði í skólanum og þeim fannst það afar grunsamlegt. Jólafríið yrði fullkominn tími til að gera

tilraunina með ummyndunardrykkinn til að lokka út úr honum játningu.

En til allrar óhamingju var töfradrykkurinn ekki alveg tilbúinn. Þau vantaði enn tvíhyrningshornið og skinnið af letidýrinu og það var aðeins fáanlegt í einkabirgðageymslum Snapes. Harry hugsaði með sjálfum sér að hann myndi frekar vilja horfast í augu við þjóðsagnaskrímsli Slytherins en að láta Snape grípa sig glóðvolgan við að stela úr hirslum hans.

„Við þurfum bara að draga athygli hans að einhverju öðru," sagði Hermione röggsöm þegar fimmtudagstíminn í töfradrykkjum nálgaðist. „Þá getur eitt okkar laumast inn á skrifstofu Snapes og tekið það sem okkur vantar."

Harry og Ron litu taugaóstyrkir á hana.

„Ég held að það sé best að ég sjái um sjálfan stuldinn," hélt Hermione áfram þurrlegri röddu. „Þið verðið reknir ef þið lendið í frekari vandræðum en ég hef aftur á móti hreinan skjöld. Það eina sem þið þurfið að gera er að valda nógu miklum usla til að halda Snape uppteknum í svona fimm mínútur."

Harry brosti dauflega. Það var álíka hættulítið að valda usla í kennslustund hjá Snape og að pota í augað á sofandi dreka.

Töfradrykkjatímarnir fóru fram í einni af stóru dýflissunum. Fimmtudagstíminn hófst eins og allir aðrir. Það rauk úr tuttugu seiðpottum á milli tréborðanna sem á stóðu látúnsvogir og krukkur með ýmsum efnum. Snape sveimaði um í gufunum frá pottunum og kom með eitraðar athugasemdir um töfradrykki Gryffindornemend anna svo að nemarnir frá Slytherin flissuðu ánægjulega. Draco Malfoy, uppáhaldsnemandi Snapes, gretti sig í sífellu framan í Harry og Ron sem vissu að ef þeir svöruðu í sömu mynt yrði þeim refsað áður en þeir gætu opnað munninn.

Þrútnunar-mixtúra Harrys var alltof þunn en hann var líka með hugann við mikilvægari hluti. Hann var að bíða eftir merki frá Hermione og heyrði ekki orð af því sem Snape sagði þegar hann staldraði við hjá pottinum hans til að hæðast að vatnskenndu mixtúrunni hans. Þegar Snape sneri sér við og fór að borði Nevilles til að níðast á honum náði Hermione athygli Harrys og kinkaði kolli.

Harry beygði sig snöggt niður á bak við seiðpottinn sinn, náði í einn af Filibusterflugeldum Freds úr vasanum og sló létt á

hann með sprotanum sínum. Það byrjaði strax að snarka og hvissa í flugeldinum. Harry vissi að hann hafði bara nokkrar sekúndur, rétti úr sér, miðaði og kastaði honum upp í loftið; hann lenti beint ofan í rjúkandi seiðpotti Goyles.

Töfradrykkurinn hans Goyles sprakk og gusaðist yfir allan bekkinn. Það urðu öskur og læti þegar slettur af þrútnunar-mixtúrunni lentu á nemendunum. Draco fékk gusu framan í sig og nefið á honum byrjaði að þrútna eins og blaðra; Goyle ráfaði um og hélt um augun sem voru á stærð við matardiska. – Snape reyndi að róa bekkinn og komast að því hvað hefði gerst. Þrátt fyrir alla ringulreiðina sá Harry að Hermione laumaðist inn á skrifstofu Snapes.

„Þögn! Þögn!“ öskraði Snape. „Þeir sem fengu yfir sig mixtúru skulu koma hingað að fá hjöðnunardrykk – þegar ég kemst að því hver stendur á bak við þetta …“

Harry reyndi að halda niðri í sér hlátrinum þegar hann fylgdist með Draco flýta sér til Snapes. Nefið á honum varð jafnstórt og lítil melóna svo að hann hélt ekki höfði. Næstum helmingur bekkjarins drattaðist upp að kennaraborðinu, sumir drógu á eftir sér handleggi á stærð við kylfur á meðan aðrir áttu í erfiðleikum með að tala í gegnum gríðarlegar

uppblásnar varir. Harry leit í kringum sig eftir Hermione og sá hana læðast aftur inn í dýflissuna og skikkjan hennar bungaði út.

Þegar allir höfðu fengið sopa af móteitrinu og bólgurnar höfðu hjaðnað, strunsaði Snape að pottinum hans Goyles og veiddi upp úr honum svartar leifarnar af flugeldinum. Skyndilega hljóðnaði allt.

„Ef ég kemst einhvern tímann að því hver stóð fyrir þessu," hvíslaði Snape, „skal ég sjá til þess að sá hinn sami verði rekinn á stundinni."

Harry kom andlitinu á sér í þær skorður sem hann vonaði að lýstu undrun. Snape horfði beint á hann og hann varð alls hugar feginn þegar bjallan hringdi tíu mínútum síðar.

„Hann vissi að ég var sökudólgurinn," sagði Harry við Ron og Hermione á leiðinni inn á klósettið hennar Völu væluskjóðu. „Ég sá það á honum."

Hermione fleygði nýju efnunum ofan í pottinn og byrjaði að hræra, yfir sig spennt.

„Þetta verður tilbúið eftir tvær vikur,“ sagði hún ánægjulega.

„Snape getur ekki sannað að þú hafir gert það,“ sagði Ron róandi við Harry. „Hvað getur hann svo sem gert?“

„Eitthvað andstyggilegt, ef ég þekki hann rétt,“ sagði Harry á meðan drykkurinn freyddi og sauð.

Viku seinna þegar Harry, Ron og Hermione voru á gangi í gegnum forsalinn sáu þau lítinn hóp af nemendum sem stóð fyrir framan auglýsingatöfluna og las á lítinn pergamentsnepil sem hafði nýlega verið hengdur upp. Seamus Finnigan og Dean Thomas gáfu þeim bendingu um að koma, spenntir á svip.

„Það á að stofna hólmgöngufélag!“ sagði Seamus. „Fyrsti fundur inn er í kvöld! Ég væri sko til í að læra hólmgöngu; það gæti komið sér vel núna …“

„Þú heldur kannski að Slytherinskrímslið kunni reglurnar í galdra einvígi?“ sagði Ron en las þó tilkynninguna með áhuga.

„Gæti komið sér vel,“ sagði hann við Harry og Hermione á leiðinni í kvöldmat. „Ættum við að fara?“

Harry og Hermione fannst þetta góð hugmynd og þegar klukkan sló átta þetta sama kvöld flýttu þau sér niður í Stóra salinn. Löngu matarborðin voru horfin en í staðinn var nú gyllt svið meðfram einum veggnum upplýst af þúsundum kerta sem svifu fyrir ofan það. Loftið var flauelssvart og það leit út fyrir að allur skólinn hefði safnast saman undir því með sprotana sína og tilhlökkunarsvip á andlitunum.

„Hver ætli kenni okkur?“ sagði Hermione um leið og þau smeygðu sér inn í skvaldrandi þvöguna. „Það sagði einhver að Flitwick hefði verið hólmgöngumeistari þegar hann var ungur – kannski er það hann.“

„Svo lengi sem það er ekki …“ byrjaði Harry en setningin endaði í stunu: Gilderoy Lockhart gekk inn á sviðið klæddur glæsilegri plómu litri skikkju og á hæla hans kom enginn annar en Snape í sinni venjulegu svörtu skikkju.

Lockhart veifaði handleggnum til að fá þögn í salinn og kallaði:

„Viljið þið vinsamlegast safnast saman í kringum sviðið! Geta allir séð mig? Heyra allir í mér? Stórkostlegt!

Dumbledore prófessor veitti mér leyfi til að stofna þetta litla hólmgöngufélag ef til þess kæmi að þið þyrftuð að verja ykkur eins og ég hef þurft að gera óteljandi sinnum – eins og ég hef útlistað í smáatriðum í verkum mínum.

Leyfið mér að kynna aðstoðarmann minn, Snape prófessor,“ sagði Lockhart með geislandi brosi. „Hann segist vita örlítið um galdraeinvígi og hefur í anda hins sanna íþróttamanns samþykkt að taka þátt í lítilli sýnikennslu áður en við byrjum. En hafið engar áhyggjur, kæru nemendur – þið munuð enn hafa töfradrykkjakennarann ykkar þegar ég verð búinn að taka hann í karphúsið, óttist því ei!“

„Væri ekki frábært ef þeir gengju hvor frá öðrum?“ muldraði Ron í eyrað á Harry.

Snape þvingaði fram brosgeiflu. Harry skildi ekki hvernig Lockhart gat brosað svona áhyggjulaus; ef Snape hefði horft svona á hann hefði hann hlaupið í burt eins og fætur toguðu.

Lockhart og Snape sneru sér að hvor öðrum og hneigðu sig; það var að minnsta kosti það sem Lockhart gerði með miklum handasveiflum en Snape lét sér nægja að kinka geðvonskulega kolli. Svo hófu þeir töfrasprotana eins og sverð á loft.

„Eins og þið sjáið höldum við sprotunum nú í viðurkenndri bardagastöðu,“ sagði Lockhart við þögulan hópinn. „Þegar ég hef talið upp að þremur munum við beita hvor annan galdrabrögðum. Hér verða að sjálfsögðu ekki notaðar banvænar formælingar.“

„Ég myndi ekki vera of viss um það,“ muldraði Harry þegar hann sá Snape bera tennurnar.

„Einn – tveir – þrír …“

Þeir veifuðu sprotunum yfir höfðum sér og beindu þeim hvor að öðrum; Snape æpti: „Expelliarmus!“ Og blindandi, rautt leiftur þeytti Lockhart út af sviðinu svo hann skall í vegginn og lak niður á gólf þar sem hann lá og baðaði út öllum öngum.

Draco og nokkrir hinna úr Slytherin fögnuðu ákaft. Hermione var á nálum. Hún greip um munninn og kveinaði: „Haldið þið að það sé í lagi með hann?“

„Eins og okkur sé ekki sama?“ sögðu Harry og Ron í kór.

Lockhart riðaði þegar hann stóð á fætur. Hatturinn hafði dottið af og liðað hárið stóð í allar áttir.

„Jæja, þarna fenguð þið að líta afvopnunarbragðið!“ sagði hann og staulaðist aftur upp á sviðið. „Eins og þið sjáið, er ég búinn að týna sprotanum mínum – ó, takk fröken Brown – já, það var frábær hugmynd að sýna þeim hvernig það er framkvæmt, Snape prófessor, en með fullri virðingu var alveg augljóst hvað þú hugðist fyrir. Það hefði verið leikur einn fyrir mig að stöðva þig ef ég hefði viljað það – hvað sem því líður, þá taldi ég það hafa ákveðið lærdómsgildi að leyfa þeim að sjá …“

Snape var með drápsglampa í augum. Lockhart hafði líklega tekið eftir því vegna þess að hann sagði: „Nóg komið af sýnikennslu! Ég ætla nú að ganga á milli ykkar og para ykkur saman. Snape prófessor, þú gætir kannski aðstoðað mig …“

Þeir gengu á milli nemendanna og byrjuðu að velja þá saman. Lockhart stillti Neville upp fyrir framan Justin Finch-Fletchley, en Snape gekk rakleiðis til Harrys og Rons.

„Það er kominn tími til að aðskilja draumaliðið," sagði hann hæðnislega. „Ron, þú verður með Finnigan. Harry Potter …" Harry færði sig ósjálfrátt nær Hermione.

„Ég held nú ekki," sagði Snape og brosti kuldalega. „Komdu hingað, Draco Malfoy. Við skulum sjá hvort þú sérð við hinum fræga Harry Potter. Og þú, ungfrú Hermione Granger, verður með ungfrú Bulstrode."

Draco strunsaði til þeirra með glott á vör. Álengdar var stelpa sem minnti Harry á mynd sem hann hafði séð í Á flakki með forynjum. Hún var stórvaxin og þrekin með sterklega kjálka sem sköguðu ógnvekjandi fram. Hermione sendi henni dauflegt bros sem hún endurgalt ekki.

„Standið andspænis mótherjum ykkar!" kallaði Lockhart sem var kominn aftur upp á svið. „Og hneigið ykkur!"

Harry og Malfoy létu sér nægja að kinka kolli án þess að hafa augun hvor af öðrum.

„Sprotar í rétta stöðu!“ hrópaði Lockhart. „Þegar ég hef talið upp að þremur notið þá afvopnunarbragðið á andstæðinginn – einungis til að afvopna hann – við viljum koma í veg fyrir slys í kvöld – einn – tveir – og þrír …“

Harry sveiflaði sprotanum hátt en Draco hafði þjófstartað á „tveir“: Galdur hans hæfði Harry svo harkalega að það var eins og hann hefði verið laminn í hausinn með steikarpönnu. Hann riðaði en virtist að öðru leyti í lagi svo að hann ákvað að láta engan tíma fara til spillis. Hann beindi sprotanum beint að Draco og hrópaði: „Rictusempra!“

Silfrað leiftur lenti á maga Dracos svo að hann fór í keng með miklum stunum.

„Ég sagði að þið ættuð einungis að afvopna!“ hrópaði Lockhart skelfdur yfir þvöguna þegar Draco féll á kné; Harry hafði hæft hann með kitlbragðinu svo hann gat sig hvergi hrært fyrir hlátri. Harry hikaði, því að honum fannst dálítið óheiðarlegt að beita Draco töfrum á meðan hann lá á gólfinu, en það voru mistök; Draco beindi, andstuttur, sprotanum að hnjánum á Harry og stundi: „Tarantallegra!“ og á næsta

andartaki fóru fæturnir á Harry að hreyfast í stjórnlausum steppdansi.

„Stopp! Stopp!“ öskraði Lockhart en nú tók Snape málin í sínar hendur.

„Finite Incantatem!“ hrópaði hann; fæturnir á Harry hættu að dansa og Draco hætti að hlæja og þeir urðu þess umkomnir að líta upp.

Grænleit þokuslæða lá yfir Stóra salnum. Neville og Justin lágu lafmóðir á gólfinu; Ron studdi Seamus, sem var öskugrár í framan, og baðst í sífellu afsökunar á því sem sprotinn hans hafði gert. En Hermione og Millicent Bulstrode hættu ekki; Millicent hafði tekið Hermione haustaki og Hermione kveinkaði sér af sársauka; báðir sprotarnir lágu gleymdir á gólfinu. Harry stökk á Millicent og reyndi að draga hana af Hermione. Það var erfitt: Hún var miklu stærri en hann og smám saman tók hópurinn að róast.

„Svei mér þá,“ sagði Lockhart og trítlaði um mannþröngina til að athuga afleiðingar einvígisins. „Á fætur með þig, Macmillan … Varlega, fröken Fawcett … Klemmdu fast, það hættir að blæða eftir smástund, Boot … Það er eins gott að

ég kenni ykkur hvernig á að hindra álög frá óvinum ykkar,“ sagði Lockhart sem stóð nú ringlaður í miðjum salnum. Hann gaut augunum á Snape sem var með glampa í svörtum augunum en leit undan í skyndi. „Fáum sjálfboðaliða – Neville Longbottom og Justin Finch-Fletchley, hvað með ykkur …“

„Slæm hugmynd, Lockhart prófessor,“ sagði Snape og sveif til þeirra eins og stór og meinfýsin leðurblaka. „Longbottom veldur eyðileggi ngu með einföldustu töfrabrögðum. Við myndum þurfa að senda leifarnar af Finch-Fletchley í eldspýtustokk upp í sjúkraálmu.“ Kringluleitt, bleikt andlitið á Neville varð enn bleikara. „Hvað með Draco og Harry?“ sagði Snape og brosti skakkt.

„Frábær hugmynd!“ sagði Lockhart og beindi Harry og Draco inn í miðjuna á salnum en hin færðu sig aftar til að rýma til fyrir þeim.

„Jæja, Harry,“ sagði Lockhart. „Þegar Draco beinir sprotanum sínum að þér, þá gerir þú þetta.“ Hann hóf sprotann sinn á loft og reyndi að framkvæma flókna snúninga og sveiflur en missti sprotann á gólfið. Snape glotti þegar Lockhart beygði sig í flýti eftir honum og sagði:

„Úps … sprotinn minn er orðinn aðeins of æstur …“

Snape gekk til Dracos og hvíslaði einhverju í eyra hans. Draco glotti. Harry leit taugaóstyrkur á Lockhart og sagði: „Gætirðu sýnt mér þetta hindrunarbragð aftur?“

„Hræddur?“ hvíslaði Draco, svo lágt að Lockhart heyrði ekki í honum.

„Iss,“ muldraði Harry.

Lockhart sló Harry kumpánlega á öxlina. „Gerðu bara það sama og ég, Harry!“

„Hvað, missa sprotann minn?“

Lockhart lét sem hann heyrði ekki til hans.

„Þrír – tveir – einn – byrja!“ hrópaði hann.

Draco hóf sprota sinn á loft í skyndi og þrumaði: „Serpensortia!“

Endinn á sprotanum sprakk og Harry fylgdist skelfingu lostinn með þegar langur, svartur snákur skaust út úr honum og féll með miklum þunga á gólfið á milli þeirra þar sem hann hóf sig upp, tilbúinn að höggva. Þvagan hörfaði undan, æpandi og öskrandi.

„Stattu kyrr, Harry," sagði Snape letilega, hann naut þess greinilega að horfa á Harry standa hreyfingarlausan augliti til auglitis við reiðan snák. „Ég skal fjarlægja hann ..."

„Leyfðu mér!" hrópaði Lockhart. Hann brá sprotanum á loft og beindi að snáknum, en í stað þess að hverfa flaug snákurinn þrjá metra í loft upp og lenti aftur á gólfinu með miklum dynk. Snákurinn hvæsti hamslaus af bræði og renndi sér í áttina að Justin Finch-Fletchley, reisti sig og beraði vígtennurnar, tilbúinn að höggva.

Harry gat ekki skilið hvað gerðist. Hann mundi ekki einu sinni eftir að hafa ákveðið að gera þetta. Það eina sem hann gerði sér grein fyrir var að hann þaut eins og elding til þeirra og kallaði heimskulega til snáksins: „Láttu hann vera!" og á einhvern óútskýranlegan hátt lyppaðist snákurinn niður á gólfið og varð meðfærilegur að sjá eins og digur, svört garðslanga. Hann horfði hlýðinn á Harry sem fann óttann líða

úr sér. Hann vissi að snákurinn myndi ekki ráðast á neinn núna, þótt hann gæti ekki útskýrt þessa vissu sína.

Hann leit brosandi á Justin og átti von á undrun, feginleika eða jafnvel þakklæti í svip hans – en hann bjóst svo sannarlega ekki við því að hann væri reiður og hræddur.

„Hvað heldurðu að þú sért að gera?“ hrópaði hann og áður en Harry gat stunið upp orði hafði Justin snúist á hæli og strunsað út úr salnum.

Snape steig fram, sveiflaði sprotanum og snákurinn hvarf í litlu, svörtu reykjarskýi. Snape horfði líka á Harry á óvæntan hátt; það var lævís og útsmoginn svipur á andliti hans sem Harry kunni alls ekki við. Hann gerði sér líka óljósa grein fyrir ógnvænlegu hvískri allt í kringum sig. Þá fann hann að einhver togaði í skikkjuna hans.

„Komdu,“ sagði rödd Rons í eyrað á honum. „Áfram með þig – komdu …“

Ron beindi honum út úr salnum með Hermione á hælunum. Þegar þau gengu út viku nemendurnir til beggja hliða eins og þeir væru hræddir um að smitast af einhverju. Harry hafði

ekki hugmynd um hvað gekk á, og hvorki Ron né Hermione sagði orð fyrr en þau höfðu dregið hann inn á setustofu Gryffindor. Ron ýtti honum ofan í hægindastól og sagði: „Þú ert slönguhvíslari. Af hverju sagðirðu okkur ekki frá því?“

„Er ég hvað?“

„Slönguhvíslari!“ sagði Ron. „Þú getur talað við slöngur!“

„Ég veit,“ sagði Harry. „Ég meina, þetta er bara í annað skiptið sem það gerist. Einu sinni sigaði ég óvart slöngu á Dudley frænda minn í dýragarðinum – löng saga – en hún sagði mér að hún hefði aldrei komið til heimkynna sinna í Brasilíu og ég frelsaði hana óviljandi – þetta var áður en ég komst að því að ég væri galdramaður …“

„Sagði slanga þér að hún hefði aldrei komið til Brasilíu?“ endurtók Ron lamaður.

„Hvað með það?“ sagði Harry. „Ég er viss um að það er fullt af nem endum í skólanum sem geta talað við slöngur.“

„Ó, nei, það er ekki rétt,“ sagði Ron. „Þetta er ekki algengur hæfileiki, Harry. Þetta er mjög slæmt.“

„Hvað er slæmt?“ sagði Harry og var farinn að reiðast. „Hvað er að öllum? Ef ég hefði ekki sagt snáknum að láta Justin í friði …“

„Nú, sagðirðu það við hann?“

„Hvað áttu við? Þú varst þarna – þú heyrðir í mér …“

„Ég heyrði þig tala á slöngutungu,“ sagði Ron. „Slöngumál. Þú hefðir getað sagt hvað sem var – það var engin furða að Justin yrði skíthræddur, þetta hljómaði eins og þú værir að hvetja snákinn áfram eða eitthvað – þetta var óhugnanlegt …“ Harry gapti.

„Talaði ég annað tungumál? En … ég hafði ekki hugmynd um það – hvernig get ég talað tungumál án þess að vita að ég geti það?“

Ron hristi hausinn. Bæði hann og Hermione voru á svipinn eins og einhver hefði dáið. Harry skildi ekki hvað var svona hræðilegt.

„Hvað er eiginlega að því að koma í veg fyrir að risastór snákur bíti hausinn af Justin?“ sagði hann. „Hvaða máli skiptir það hvernig ég fór að því svo lengi sem Justin þarf ekki að taka þátt í veiðum hinna hauslausu?“

„Það skiptir máli,“ sagði Hermione loks lágróma, „af því að Salazar Slytherin var frægur fyrir að geta talað við slöngur. Þess vegna er einkennismerki Slytherinvistarinnar mynd af slöngu.“ Harry varð furðu lostinn.

„Einmitt,“ sagði Ron. „Og nú heldur allur skólinn að þú sért barna-barna-barna-barnabarnið hans, eða eitthvað …“

„En ég er það ekki,“ sagði Harry og var skyndilega gripinn óútskýranlegri skelfingu.

„Það verður erfitt fyrir þig að sanna það,“ sagði Hermione. „Hann var uppi fyrir þúsund árum; þú gætir allt eins verið skyldur honum.“

Harry lá andvaka klukkustundum saman þessa nótt. Í gegnum rifu á tjöldunum á himinsænginni sá hann að fyrir utan turngluggann snjóaði. Hann var niðursokkinn í hugsanir sínar.

Gat það verið að hann væri afkomandi Salazars Slytherin? Þegar allt kom til alls vissi hann ekkert um föðurfjölskyldu sína. Dursleyhjónin höfðu alltaf bannað honum að spyrja spurninga sem snertu föðurfólkið hans.

Harry prófaði í lágum hljóðum að segja eitthvað á slöngutungu en orðin vildu ekki koma. Svo virtist sem hann þyrfti að standa augliti til auglitis við slöngu til að hann gæti sagt eitthvað.

En ég er á Gryffindorheimavistinni, hugsaði Harry. Flokkunarhatturinn hefði ekki sent mig hingað ef ég hefði Slytherinblóð í æðum …

Já, en, sagði lítil, kvikindisleg rödd í höfðinu á honum, hatturinn ætlaði að senda þig í Slytherin, manstu?

Harry sneri sér á hina hliðina. Hann ætlaði að tala við Justin næsta dag í jurtafræði og útskýra fyrir honum að hann hefði hrópað á slönguna til að reka hana á brott en ekki til að espa hana upp eins og hvaða bjáni sem var hefði getað sagt sér sjálfur, hugsaði hann reiðilega og lamdi koddann sinn.

En þegar dagaði var snjókoman orðin að blindbyl og síðasta jurtafræðitíma annarinnar var aflýst: Spíra prófessor ætlaði að nota daginn til að máta vettlinga og hálsklúta á Alrúnirnar, erfitt verkefni sem hún treysti engum öðrum fyrir, því nú var mjög mikilvægt að þær yxu hratt svo að hægt væri að búa til drykk sem fyrst til að endurlífga Frú Norris og Colin Creevey.

Harry lét í ljós mikla óánægju með þetta þegar þau sátu við arineldinn í Gryffindorsetustofunni en Ron og Hermione gripu tækifærið til að tefla galdraskák.

„Í guðanna bænum, Harry,“ sagði Hermione ergileg um leið og annar biskup Rons sneri riddarann hennar niður af hestinum og dró hann af taflborðinu. „Farðu og finndu Justin ef það skiptir þig svona miklu.“

Fyrir þessi orð stóð Harry upp og klifraði út í gegnum gatið á veggnum og velti því fyrir sér hvar Justin gæti verið.

Það var óvenju skuggsýnt í kastalanum vegna þess að þykkt lag af gráleitum snjó hafði safnast fyrir á rúðunum. Harry gekk skjálfandi eftir göngunum og framhjá kennslustofunum þar sem verið var að kenna. Hann sá brot af því sem fram fór í sumum kennslustundunum: McGonagall prófessor var að

æpa á einhvern sem hafði, af hljóðinu að dæma, breytt vini sínum í greifingja. Harry stóðst freistinguna að kíkja og hélt áfram. Honum hafði dottið í hug að Justin vildi nýta frítímann til að vinna heimaverkefnin sín og ákvað að leita fyrst á bókasafninu.

Hópur Hufflepuffnema, sem átti að vera í jurtafræði, sat innst á bókasafninu en virtist ekki vera að læra. Handan við langa röð af bókahillum sá Harry að þeir sátu þétt saman og voru í djúpum samræðum. Harry sá ekki hvort Justin var meðal þeirra. Hann var á leið til þeirra þegar hann heyrði orð og orð á stangli. Hann snarstansaði til að hlera á bak við hillurnar í huliðsdeildinni.

„Og til öryggis,“ sagði digur strákur, „sagði ég Justin að fela sig uppi í svefnsalnum okkar. Ég meina, ef Potter hefur hann í sigtinu sem næsta fórnarlamb er eins gott að hann hafi hægt um sig í nokkra daga. En Justin hefur nú bara verið að bíða eftir að eitthvað þessu líkt gerðist síðan hann missti það út úr sér við Harry Potter að hann væri kominn af Muggum. Justin sagði honum meira að segja frá því að hann hefði átt að fara í Etonskólann. Það er nú ekki beinlínis það sem maður talar um við arftaka Slytherins!“

„Þú ert þá viss um að það er Harry, Ernie?“ sagði stelpa með ljósa tíkarspena kvíðin.

„Hanna,“ sagði digri drengurinn alvörugefinn. „Hann er slönguhvíslari. Það vita allir að það er merki um tengsl við myrku öflin. Hefurðu einhvern tíma heyrt um ærlegan galdramann sem gat talað við slöngur? Slytherin sjálfur var kallaður slönguhvíslari.“

Hinir muldruðu órólegir og Ernie hélt áfram: „Munið þið hvað stóð á veggnum? Fjendur arftakans mega vara sig. Harry og Filch lentu víst í rifrildi og sama kvöld var ráðist á köttinn hans Filch. Fyrsta árs nem inn Colin Creevey var eitthvað að ergja Harry á Quidditchleiknum með því að taka myndir af honum liggjandi í forinni. Og sá næsti sem varð fyrir árás – Colin Creevey.“

„Hann virðist svo fínn strákur,“ sagði Hanna óörugg. „Og hann varð til þess að Þú-veist-hver hvarf á braut. Hann getur þá ekki verið alslæmur, er það nokkuð?“

Ernie lækkaði róminn leyndardómsfullur og hinir Hufflepuffnemarnir hölluðu sér í átt að honum. Harry færði sig nær til að missa ekki af einu orði.

„Það skilur enginn hvernig hann lifði af árás Þið-vitið-hvers. Ég meina, hann var bara barn þegar þetta gerðist. Hann hefði átt að springa í tætlur. Það hefði enginn lifað formælingar hans af nema mjög máttugur galdramaður frá myrku öflunum.“ Rödd hans varð nú að lágu hvísli og hann sagði: „Það er örugglega ástæðan fyrir því að Þið-vitið-hver vildi drepa hann. Hann vildi ekki að keppinautur hans næði að vaxa úr grasi. Mér þætti gaman að vita hvort Harry býr yfir fleiri hæfileikum sem við vitum ekki af.“

Nú hafði Harry fengið nóg. Hann ræskti sig hátt og steig fram úr felustað sínum á bak við bókahillurnar. Ef hann hefði ekki verið svona reiður hefði honum eflaust orðið skemmt við sjónina sem mætti honum: Hver einasti Hufflepuffnemandi sat eins og steini lostinn og allur litur var horfinn úr andliti Ernies.

„Halló,“ sagði Harry. „Ég er að leita að Justin Finch-Fletchley.“

Grunur Hufflepuffkrakkanna hafði greinilega verið staðfestur. Þau litu öll óttaslegin á Ernie.

„Hvað viltu honum?“ spurði Ernie skjálfandi röddu.

„Mig langaði að segja honum hvað gerðist raunverulega í gærkvöld þegar hólmgöngufélagið var stofnað,“ sagði Harry.

Ernie beit á vörina, dró djúpt andann og sagði: „Við vorum þarna öll. Við sáum hvað gerðist.“

„Þá hljótið þið að hafa tekið eftir því að snákurinn hætti við að ráðast á hann eftir að ég talaði við hann?“ sagði Harry.

„Það eina sem ég sá,“ sagði Ernie þrjóskulega þó að hann titraði af hræðslu, „var að þú talaðir slöngutungu og rakst snákinn í áttina að Justin.“

„Það gerði ég ekki!“ sagði Harry skjálfraddaður af reiði. „Snákur inn snerti hann ekki einu sinni!“

„Það munaði litlu,“ sagði Ernie. „Og bara svo að þú fáir engar hugmyndir,“ bætti hann fljótmæltur við, „þá er hægt að rekja ættina mína aftur um níu ættliði af galdramönnum og nornum svo að ég kem úr hreinræktaðri galdraætt þannig að …“

„Mér er alveg sama hverrar ættar þú ert!“ sagði Harry æfur af reiði.

„Af hverju ætti ég svo sem að vilja ráðast á þá sem eru af Muggaættum?“

„Ég hef heyrt að þú hatir Muggana sem þú býrð hjá,“ svaraði Ernie að bragði.

„Það er ómögulegt að búa hjá Dursleyfjölskyldunni án þess að hata hana,“ sagði Harry. „Mér þætti gaman að sjá þig reyna það.“

Hann snerist á hæli og stormaði út af bókasafninu. Fröken Pince, sem var að fægja gyllta kápu á stórri galdrabók, leit ávítandi á hann.

Harry þaut stefnulaust eftir göngunum. Hann var viti sínu fjær af reiði sem varð til þess að hann hljóp beint á eitthvað stórt og sterk byggt og hentist aftur fyrir sig á gólfið.

„Ó, halló, Hagrid,“ sagði Harry og leit upp.

Andlitið á Hagrid var alveg hulið á bak við stóra ullarlambhúshettu sem var þakin snjó, en þetta gat ekki verið neinn annar því hann fyllti út í ganginn í gærufrakkanum

sínum. Önnur risavaxin, hanskaklædd höndin hélt á dauðum hana.

„Er ekki allt í lagi, Harry?“ sagði hann og dró af sér lambhúshettuna svo hann gæti talað. „Af hverju ertu ekki í tíma?“

„Aflýst,“ sagði Harry og reis á fætur. „Hvað ertu að gera hérna?“ Hagrid lyfti máttlausum hananum.

„Þetta er annar haninn sem er drepinn á þessari önn,“ útskýrði hann.

„Það eru annaðhvort refir eða blóðsuguóvættir á ferðinni og ég þarf að fá leyfi skólastjórans til að leggja álög í kringum hænsnastíuna.“

Hann pírði augun á Harry undan þykkum, snjóugum augabrúnunum.

„Er örugglega allt í lagi, Harry? Þú ert svo rjóður og sveittur …“ Harry gat ekki fengið sig til að segja Hagrid hvað Ernie og hinir í Hufflepuff hefðu sagt um hann.

„Það er ekkert sérstakt,“ sagði hann. „Ég verð að drífa mig, Hagrid, það er ummyndun í næsta tíma og ég verð að ná í bækurnar mínar.“

Hann gekk á brott og hugsanirnar snerust enn um það sem Ernie hafði sagt um hann.

„En Justin hefur nú bara verið að bíða eftir að eitthvað þessu líkt gerðist síðan hann missti það út úr sér við Harry að hann væri af Muggaættum …“

Harry þrammaði upp stigana og beygði inn enn einn ganginn sem var óvenju dimmur; hvass, ískaldur dragsúgur sem barst frá óþéttum glugga hafði slökkt á öllum kyndlunum. Hann var kominn hálfa leið eftir ganginum þegar hann féll kylliflatur um eitthvað sem lá á gólfinu.

Hann sneri höfðinu og rýndi í gegnum myrkrið til að gá um hvað hann hefði dottið. Á næsta andartaki munaði minnstu að hann kastaði upp af skelfingu.

Justin Finch-Fletchley lá á gólfinu, kaldur og stífur með frosinn skelfingarsvip á andlitinu. Augun störðu tómlega upp í loftið.

En þetta var ekki allt. Við hliðina á honum var annar líkami og það var sérkennilegasta sjón sem Harry hafði séð.

Þetta var Næstum hauslausi Nick, ekki lengur perluhvítur og gegnsær heldur eins og svartur reykur og flaut hreyfingarlaus og láréttur sex þumlunga ofan við jörðu. Höfuðið var hálft af bolnum og á andliti hans var sami hræðslusvipurinn og á andliti Justins.

Harry stóð andstuttur á fætur og hjartað barðist í brjóstinu á honum. Hann leit tryllingslega í kringum sig á auðum ganginum og sá röð af kóngulóm skjótast eins hratt og þær komust frá líkömunum. Ekkert heyrðist nema ógreinilegt tal kennaranna innan úr kennslustofunum.

Hann gæti hlaupið í burt og enginn kæmist nokkurn tíma að því að hann hefði verið þarna. En hann gat ekki skilið þá eftir bjargarlausa … Hann varð að ná í hjálp … Myndi einhver trúa því að hann ætti enga sök á þessu?

Harry var að því kominn að missa stjórn á sér af hræðslu þegar hurðinni við hliðina á honum var svipt upp. Ærsladraugurinn Peeves þeystist út.

„Er þetta ekki hann litli, skrítni Harry Potter!“ sagði hann hneggjandi röddu og skekkti gleraugun á Harry þegar hann þaut framhjá honum. „Hvað er að gerast hjá Potter? Af hverju er Potter að laumast um …“

Peeves snarstansaði í miðjum kollhnís í loftinu. Á hvolfi hafði hann komið auga á Justin og Næstum hauslausa Nick. Hann sneri sér snögglega við, fyllti lungun af lofti og öskraði áður en Harry náði að stöðva hann: „Árás! Árás! Enn ein árás! Engir dauðlegir menn eða draugar eru öruggir! Forðið ykkur! Árááááás!“

Slamm – slamm – slamm – hurð eftir hurð var þeytt upp á endilöngum ganginum og fólk streymdi út. Í nokkrar mínútur ríkti þvílík ringulreið að Justin átti á hættu að verða kraminn og það var stöðugt verið að stíga í gegnum Næstum hauslausa Nick. Harry var skorðaður upp við vegginn og kennararnir hrópuðu á þögn. McGonagall prófessor kom hlaupandi með bekkinn sinn á hælunum – einn nemandinn var enn með svartar og hvítar rendur í hárinu. Hún galdraði fram mikla sprengingu með töfrasprotanum sem varð til þess að nokkur ró komst á og skipaði öllum að snúa aftur í skólastofur sínar. Gangurinn var ekki fyrr orðinn svo til

mannlaus en Ernie úr Hufflepuff mætti móður og másandi á staðinn.

„Gripinn glóðvolgur!“ hrópaði hann náfölur og benti æstur á Harry.

„Þetta nægir, Macmillan!“ sagði McGonagall hvöss á svip.

Peeves sveif fyrir ofan þau með illkvittið bros á vör og fylgdist með því sem fram fór; Peeves fannst fátt skemmtilegra en að koma öllu í uppnám. Þegar kennararnir beygðu sig yfir Justin og Næstum hauslausa Nick til að rannsaka þá hóf Peeves upp raust sína:

„Ó, Potter, ekki gott er, allt sem þú hefur gert,
þú nemana drepur, því þú morðóður ert.“

„Þetta nægir, Peeves!“ hrópaði McGonagall og Peeves þaut aftur á bak og rak út úr sér tunguna framan í Harry.

Flitwick prófessor og Sinistra prófessor úr stjörnufræðideildinni báru Justin upp í sjúkrahúsálmuna en enginn virtist vita hvað ætti að gera við Næstum hauslausa Nick. Að lokum galdraði McGonagall fram risastóra viftu sem

hún lét Ernie fá með fyrirmælum um að láta Næstum hauslausa Nick reka upp stigann. Þetta gerði Ernie og lét viftuna feykja Nick áfram eins og stórum, hljóðlausum svifnökkva. Nú stóðu Harry og McGonagall tvö eftir.

„Þessa leið, Harry,“ sagði hún.

„Prófessor,“ sagði Harry samstundis, „ég sver að það var ekki …“

„Þetta er ekki á mínu valdi, Harry,“ sagði McGonagall prófessor stutt í spuna.

Þau örkuðu þögul af stað og gengu fyrir horn þar sem hún nam staðar fyrir framan ótrúlega ljóta steinstyttu.

„Sítrónubrjóstsykur!“ sagði hún. Þetta var greinilega leyniorð vegna þess að styttan lifnaði skyndilega við og stökk til hliðar um leið og veggurinn fyrir aftan hana klofnaði í tvennt. Þó að Harry óttaðist framhaldið gat hann ekki annað en dáðst að þessu. Fyrir innan vegginn var snúningsstigi sem snerist mjúklega upp í móti eins og lyfta. Um leið og Harry og McGonagall stigu upp í hann heyrði Harry að veggurinn að baki þeirra lokaðist með lágum dynk. Þau snerust hring eftir

hring, hærra og hærra þar til Harry, sem var orðinn dálítið ringlaður, kom auga á skínandi eikarhurð fram undan, með látúnsdyrahamri sem var í laginu eins og flugskrímsli.

Nú rann það upp fyrir honum hvert var verið að fara með hann. Þetta hlutu að vera heimkynni Dumbledores.

# Tólfti kafli

# Ummyndunardrykkurinn

Þau yfirgáfu snúningsstigann og McGonagall prófessor barði að dyrum. Þær opnuðust hljóðlega og þau gengu inn. McGonagall sagði Harry að bíða og skildi hann svo einan eftir.

Harry leit í kringum sig. Eitt var öruggt: Af öllum þeim kennaraskrifstofum sem Harry hafði heimsótt þetta árið var skrifstofa Dumbledores langmest spennandi. Ef hann hefði ekki verið logandi hræddur um að nú ætti líkast til að reka hann úr Hogwartskóla hefði hann með ánægju skoðað sig um.

Þetta var stórt og fallegt hringlaga herbergi og furðuleg lítil hljóð fylltu hvern krók og kima. Mörg forvitnileg silfurtæki, sem stóðu á fínlegum borðum, suðuðu og sendu frá sér lítil reykský. Veggirnir voru þaktir myndum af fyrri skólastýrum og skólastjórum sem öll blunduðu í mestu friðsemd í römmunum sínum. Þarna var líka risastórt skrifborð á ljónsfótum og á bak

við borðið var hilla sem á lá skítugur, gatslitinn galdrahattur – flokkunarhatturinn.

Harry hikaði. Hann leit hikandi á sofandi galdramennina og nornirnar upp á veggjunum. Það gæti varla skaðað að taka hattinn niður og máta hann aftur. Bara til öryggis … bara til að vera viss um að hattur inn hefði sent hann í rétta heimavist …

Hann gekk hljóðlega aftur fyrir borðið, lyfti hattinum af hillunni og setti hann gætilega ofan á höfuðið á sér. Hann var alltof stór og rann niður fyrir augu hans eins og síðast þegar hann setti hann upp. Hann starði á svart fóðrið á innanverðum hattinum og beið átekta. Skyndilega hljómaði lítil rödd í eyra hans: „Er eitthvað að, Harry Potter?“

„Ö, já,“ muldraði Harry. „Uh – mér þykir leitt að trufla þig – mig langaði að spyrja …“

„Þú hefur verið að velta því fyrir þér hvort ég hafi sett þig á rétta heimavist,“ sagði hatturinn klókindalega. „Já … það var óvenju erfitt að staðsetja þig. En ég stend við það sem ég sagði áður,“ – hjartað í Harry tók kipp – „þú hefðir spjarað þig vel sem Slytherinnemandi …“

Hjartað sökk ofan í maga. Hann greip um hattinn og reif hann af sér. Hann lá slyttislegur í höndum hans, sjúskaður og upplitaður. Hann ýtti honum aftur upp í hillu með ónotatilfinningu í maganum.

„Þú hefur rangt fyrir þér,“ sagði hann upphátt við þögulan hattinn. Hann hreyfðist ekki. Harry hörfaði án þess að hafa af honum augun. Þá heyrðist skrítið, hálfkæft hljóð á bak við hann. Hann snarsnerist á hæli. Hann var þá ekki einn í herberginu. Á gylltu fuglapriki fyrir aftan dyrnar stóð ellihrumur fugl sem líktist hálfreyttum kalkún. Harry starði á hann og fuglinn glápti illilega á móti um leið og hann sendi frá sér annað hálfkæft garg. Harry fannst hann líta mjög veikindalega út. Augun voru sljó og á meðan Harry horfði á hann féllu nokkrar fjaðrir til viðbótar úr stélinu.

Harry hafði einmitt verið að hugsa um að nú vantaði bara að fuglinn hans Dumbledores gæfi upp öndina á meðan þeir væru einir inni á skrifstofunni þegar fuglinn stóð skyndilega í ljósum logum.

Harry æpti upp yfir sig af skelfingu og hörfaði aftur á bak beint á skrifborðið. Hann leit örvæntingarfullur í kringum sig

eftir vatnsglasi eða einhverju en kom ekki auga á neitt; á meðan var fuglinn orðinn að eldhnetti; hann gaf frá sér hátt væl og á næsta andartaki var ekkert eftir nema rjúkandi öskuhrúga á gólfinu.

Skrifstofudyrnar lukust upp og Dumbledore gekk inn mjög þungbúinn á svip.

„Prófessor,“ stundi Harry. „Fuglinn þinn – ég gat ekkert gert – það kviknaði í honum …“

Harry til mikillar furðu brosti Dumbledore.

„Það var kominn tími til,“ sagði hann. „Hann hefur litið hræðilega út undanfarna daga. Ég hef verið að biðja hann um að gera eitthvað í þessu.“

Hann hló góðlátlega að undrunarsvipnum á Harry.

„Fawkes er fönix, Harry. Fönixar brenna upp þegar það er kominn tími til að deyja og endurfæðast á ný úr öskunni. Sjáðu hann …“

Harry leit niður og sá lítinn, krumpaðan fuglsunga stinga höfðinu upp úr öskunni. Hann var alveg jafn ljótur og sá gamli.

„Það var leitt að þú skyldir sjá hann einmitt í dag," sagði Dumbledore og fékk sér sæti við skrifborðið sitt. „Hann er yfirleitt mjög fallegur, með rautt og gyllt fjaðraskraut. Fönixarnir eru stórmerkilegar skepnur. Þeir geta borið níðþungar byrðar, tár þeirra hafa græðandi mátt og þeir eru afskaplega trygglynd gæludýr."

Í geðshræringunni vegna bruna fuglsins hafði Harry gleymt því hvers vegna hann var þarna en það rifjaðist allt upp fyrir honum þegar Dumbledore hallaði sér upp að háu bakinu á stólnum við skrifborðið og festi ljósblá augu sín á Harry.

En áður en Dumbledore gat komið upp orði var hurðinni svipt upp með miklum látum og Hagrid snaraðist inn með æðisgengið blik í augunum og lambhúshettuna ofan á úfnum, svörtum hausnum. Hann hélt enn á dauða hananum í hendinni.

„Harry gerði þetta ekki, Dumbledore prófessor!“ sagði Hagrid ákafur. „Ég var að tala við hann nokkrum sekúndum áður en strákurinn fannst, hann hefði aldrei haft tíma, herra …“

Dumbledore reyndi að segja eitthvað en Hagrid hélt óðamála áfram og sveiflaði hananum í kringum sig í fátinu svo að fjaðrirnar flugu í allar áttir.

„… þetta getur ekki verið hann, ég skal sverja það frammi fyrir galdramálaráðuneytinu ef ég þarf …“

„Hagrid, ég …“

„… þetta er ekki sökudólgurinn, herra, ég veit að Harry myndi aldrei …“

„Hagrid!“ sagði Dumbledore hárri röddu. „Ég hef heldur enga trú á því að Harry standi á bak við þessar árásir.“

„Ó,“ sagði Hagrid og máttlaus haninn féll niður með síðunni á honum. „Gott og vel. Ég bíð þá frammi, skólastjóri.“ Og hann þrammaði út skömmustulegur á svip.

„Þú heldur þá ekki að ég hafi gert þetta, prófessor?“ endurtók Harry vongóður og horfði á Dumbledore dusta hanafjaðrir af skrifborðinu.

„Nei, Harry, það geri ég ekki,“ sagði Dumbledore og samt hafði þungbúni svipurinn aftur færst yfir andlit hans. „En mig langar samt að tala við þig.“

Harry beið taugaóstyrkur á meðan Dumbledore horfði rannsakandi á hann og lét góma sinna löngu fingra standast á.

„Ég verð að spyrja þig, Harry, hvort það er eitthvað sem þig langar að segja mér,“ sagði hann vingjarnlega. „Hvað sem er.“

Harry vissi ekki hvað hann átti að segja. Honum varð hugsað til Dracos sem hafði æpt: „Þið verðið næst, blóðníðingar!“ og ummyndunardrykkjarins sem sauð inni á klósettinu hennar Völu væluskjóðu. Svo hugsaði hann um röddina sem hann hafði heyrt tvisvar sinnum og minntist orða Rons: „Það er ekki góðs viti að heyra raddir sem enginn annar heyrir, ekki einu sinni í galdraheiminum.“ Hann hugsaði líka um það, sem allir

sögðu um hann, og sívaxandi ótta sinn um að hann væri á einhvern hátt tengdur Salazar Slytherin …

„Nei,“ sagði Harry. „Það er ekkert, prófessor …“

Árásin á Justin og Næstum hauslausa Nick sneri því sem hingað til hafði verið taugaspenna upp í ósvikna skelfingu. Þótt undarlegt mætti virðast var það árásin á Næstum hauslausa Nick sem virtist valda fólki mestum áhyggjum. Hver gat mögulega farið svona með draug, spurðu þau hvert annað; hvaða hrikalegu öfl gátu farið svona með einhvern sem var þegar dauður? Nemendur flykktust í miðasölu Hogwart lestarinnar til að komast heim um jólin.

„Það stefnir allt í að við verðum hérna ein eftir,“ sagði Ron við Harry og Hermione. „Við, Draco, Crabbe og Goyle. En hvað þetta verða hátíðleg jól.“

Crabbe og Goyle öpuðu allt upp eftir Draco og höfðu líka skráð sig á listann yfir þá sem ætluðu að vera í skólanum yfir jólin. En Harry var því feginn að flestir voru á förum. Hann var orðinn þreyttur á fólki sem tók sveig framhjá honum á göngunum eins og það byggist við að hann breyttist

skyndilega í eitraða nöðru; allt þetta slúður, hvískur og muldur þegar hann gekk hjá var farið að taka á taugarnar.

Fred og George fannst þetta aftur á móti mjög fyndið. Þeir gerðu sér far um að stika á undan Harry eftir göngunum og hrópa: „Víkið fyrir arftaka Slytherins; illviljaður galdramaður óskar eftir að komast framhjá …“

Percy var afar ósáttur við þessa hegðun.

„Þetta mál á ekki að hafa í flimtingum,“ sagði hann kuldalega.

„Æ, færðu þig, Percy,“ sagði Fred. „Harry er að flýta sér.“

„Já, hann er á leiðinni í leyniklefann í tesopa hjá höggtennta þjóninum sínum,“ sagði George og hneggjaði af hlátri.

Ginny fannst þetta heldur ekkert fyndið.

„Æi, hættið þessu,“ veinaði hún í hvert skipti sem Fred spurði Harry hárri röddu hvern hann ætlaði að ráðast á næst, eða þegar George lét sem hann væri að bægja Harry burt með stóru hvítlauksrifi þegar þeir hittust.

Harry stóð alveg á sama; honum leið meira að segja betur að Fred og George skyldi þykja það svona fáránleg hugmynd að hann væri arftaki Slytherins. Þessi skrípalæti virtust þó ergja Draco, hann varð sífellt fýldari eftir því sem hann varð oftar vitni að þessu gríni þeirra.

„Það er af því að hann brennur í skinninu að segja frá því að hann sé arftakinn," sagði Ron íbygginn. „Þú veist hvað honum mislíkar að láta í minni pokann fyrir einhverjum og þú færð allt hrósið fyrir myrkra verkin hans."

„En ekki öllu lengur," sagði Hermione ánægjulega. „Ummyndunardrykkurinn er næstum tilbúinn. Hvað úr hverju fáum við að heyra sannleikann frá honum."

Loks var önnin á enda og þögn sem var djúp eins og snjórinn lagðist yfir kastalann. Harry fannst það dásamlega friðsælt og ekki vitundarögn niðurdrepandi. Tilhugsunin um að þau Hermione og Weasley systkinin hefðu Gryffindorturninn út af fyrir sig fyllti hann tilhlökkun. Þau gætu farið í sprengieltingarleik án þess að trufla nokkurn og hólmgöngur án þess að nokkur skipti sér af. Fred, George og Ginny höfðu ákveðið að vera í skólanum yfir jólin í stað þess að heimsækja Bill til Egyptalands ásamt Weasleyhjónunum. Percy mislíkaði

barna leg hegðun þeirra, eins og hann orðaði það, og hélt sig því að mestu fjarri setustofu Gryffindor. Hann hafði þegar tilkynnt þeim hátíðlega að eina ástæðan fyrir því að hann eyddi jólunum í skólanum væri sú að hann teldi það skyldu sína sem umsjónarmanns að veita kennurunum stuðning á þessum erfiðu tímum.

Jóladagsmorgunn rann upp, kaldur og hvítur. Harry og Ron, sem voru þeir einu sem eftir voru í svefnsal sínum, vöknuðu eldsnemma við að Hermione ruddist inn alklædd, með fangið fullt af jólagjöfum handa þeim.

„Á fætur,“ sagði hún hátt og snjallt og dró gluggatjöldin frá glugganum.

„Hermione – þú mátt eiginlega ekki vera hérna …“ sagði Ron og hlífði augunum við birtunni sem streymdi inn.

„Ég óska þér líka gleðilegra jóla,“ sagði Hermione og kastaði til hans pakka. „Ég er búin að vera á fótum í næstum klukkutíma og bætti fleiri huluvængjum við ummyndardrykkinn. Hann er tilbúinn.“

Harry settist upp. Hann var skyndilega glaðvaknaður.

„Ertu viss?“

„Handviss,“ sagði Hermione og færði rottuna Scabber svo hún gæti sest á kantinn á himinsænginni hans Rons. „Ef við ætlum að fram kvæma þetta verður það að gerast í kvöld.“

Á sama augnabliki flögraði Hedwig inn með mjög lítinn pakka í gogginum.

„Halló,“ sagði Harry glaður þegar hún lenti á rúminu hans. „Ertu ekki reið út í mig lengur?“

Hún nartaði ástúðlega í eyrað á honum sem var miklu betri gjöf en sú sem hún hafði fært með sér; hún reyndist vera frá Dursleyfjölskyldunni. Þau sendu Harry tannstöngul og bréfmiða þar sem þau spurðu hvort hann gæti dvalist í Hogwartskóla í sumarfríinu líka.

Hinar jólagjafirnar hans Harrys voru mun ánægjulegri. Hagrid sendi honum stórt box af sírópskökum. Harry ákvað að hita þær upp yfir eldinum áður en hann borðaði þær. Ron gaf honum bók sem nefndist Á flugi með Rakettunum, sem fjallaði um uppáhalds Quidditchliðið hans, og frá Hermione

fékk hann fjaðurstaf úr arnarfjöður. Harry opnaði síðasta pakkann og í ljós kom ný, handprjónuð peysa frá frú Weasley og stór plómukaka. Hann las kortið og sektarkenndin steyptist yfir hann á ný þegar hann minntist bíls herra Weasleys (sem hafði ekki sést síðan þeir brotlentu á eikinni armalöngu) og hugsaði um allar reglurnar sem þau voru í þann mund að brjóta.

Enginn, ekki einu sinni sá sem kveið fyrir því að drekka ummyndunardrykkinn seinna meir, komst hjá því að njóta jólaveislunnar í Hogwartskóla.

Stóri salurinn var mikilfenglegur. Tólf jólatré þakin snjó stóðu víðsvegar um salinn og þykkir sveigar úr kristþyrni og mistilteini héngu yfir salnum þverum og endilöngum og niður úr loftinu féll þurr og hlýr snjór. Dumbledore söng með þeim nokkra af sínum uppáhalds jólasálmum og rödd Hagrids hljómaði sífellt hærra eftir því sem hann drakk meira eggjapúns. Percy hafði ekki tekið eftir því að Fred hafði komið álögum yfir umsjónarmannsnæluna hans svo að nú stóð á henni „Kennarasleikja“ og var alltaf að spyrja að hverju þau væru að flissa. Harry stóð meira að segja á sama þó að Draco kæmi með háværar og andstyggilegar athugasemdir um nýju

peysuna hans. Ef heppnin væri með þeim fengi Draco það sem hann átti skilið eftir nokkrar klukku stundir.

Harry og Ron höfðu varla lokið við þriðja skammtinn afjólabúðingnum þegar Hermione dró þá frá borðinu. Það var kominn tími til að fullgera áætlunina fyrir kvöldið.

„Okkur vantar ennþá örlítinn hluta af þeim sem við ætlum að breyta okkur í,“ sagði Hermione kæruleysislega eins og hún væri að senda þá út í búð eftir þvottaefni. „Og það væri auðvitað best ef við gætum nælt í eitthvað af Crabbe og Goyle; þeir eru bestu vinir Malfoys, hann trúir þeim fyrir öllu. Og við þurfum líka að sjá til þess að hinir raunverulegu Crabbe og Goyle birtist ekki á meðan við erum að yfirheyra hann.

Ég er búin að leysa það,“ hélt hún mjúklega áfram og þóttist ekki sjá furðu lostin andlit þeirra. Hún sýndi þeim tvær stórar súkkulaðikökur. „Ég fyllti þær af vægu svefnmeðali. Þið þurfið bara að sjá til þess að Crabbe og Goyle finni þær. Þið vitið hvað þeir eru gráðugir, þeir hljóta að borða þær. Þegar þeir eru sofnaðir, reytið þá nokkur hár af þeim og berið þá svo inn í kústaskáp.“

Harry og Ron litu vantrúaðir hvor á annan. „Hermione, ég veit ekki …“

„Það gæti hrikalega margt farið úrskeiðis …“

En í augum Hermione var stálharður glampi; ekki ósvipaður glampanum sem stundum mátti sjá hjá McGonagall prófessor.

„Drykkurinn er gagnslaus án hársins frá Crabbe og Goyle,“ sagði hún hörkulega. „Viljið þið yfirheyra Draco eða ekki?“

„Allt í lagi, allt í lagi,“ sagði Harry. „En hvað með þig? Frá hverjum ætlar þú að fá lánað hár?“

„Ég er komin með mitt!“ sagði hún glaðlega, dró pínulitla flösku upp úr vasanum og sýndi þeim eitt einasta hár sem þar var geymt.

„Munið þið þegar ég keppti við Millicent Bulstrode í hólmgöngufélaginu? Hún missti þetta hár á skikkjuna mína þegar hún reyndi að kyrkja mig! Og hún fór heim yfir jólin – ég verð bara að segja Slytherinkrökkunum að ég hafi ákveðið að koma aftur.“

Þegar Hermione var rokin af stað til að líta eftir ummyndunardrykknum sneri Ron sér bjargarlaus að Harry.

„Hefurðu nokkurn tíma heyrt um áætlun þar sem svona margt gæti farið úrskeiðis?“

En Harry og Ron til mikillar furðu gekk fyrsti hluti áætlunarinnar eins snurðulaust fyrir sig og Hermione hafði spáð. Þeir læddust inn í mannlausan forsalinn eftir jólakaffið og biðu eftir Crabbe og Goyle sem sátu einir eftir við Slytherinborðið og skófluðu í sig fjórða skammtinum af svampköku. Harry hafði stillt súkkulaðikökunum upp á stigahandriðið. Þegar þeir sáu Crabbe og Goyle koma út úr Stóra salnum flýttu Harry og Ron sér í felur á bak við herklæði við útidyr kastalans.

„Hversu heimskur getur einn maður verið?“ hvíslaði Ron frá sér numinn þegar Crabbe benti Goyle glaður á kökurnar og hrifsaði þær til sín. Með heimskulegu brosi tróðu þeir kökunum upp í sig í einum bita. Eitt andartak tuggðu þeir græðgislega með sigurbros á vör en á því næsta ultu þeir aftur fyrir sig án þess að bregða svip.

Langerfiðasti hlutinn var að fela þá inni í skápnum í hinum enda forsalarins. En þegar þeim hafði verið komið fyrir innan um föturnar og skrúbbana kippti Harry nokkrum hárum af enninu á Goyle og Ron sleit upp nokkur hár af höfðinu á Crabbe. Þeir stálu líka skónum þeirra því að þeirra eigin skór voru allt of litlir fyrir fótastærð Crabbe og Goyle. Svo þutu þeir upp á klósettið hennar Völu væluskjóðu, enn furðu lostnir yfir því sem þeir höfðu gert.

Þeir sáu varla út úr augum þegar þeir komu inn, því að þykkur, svartur reykur liðaðist út úr básnum þar sem Hermione stóð og hrærði í seiðpottinum. Þeir drógu skikkjurnar yfir nef og munn og bönkuðu varlega á báshurðina.

„Hermione?“

Þeir heyrðu lásinn dreginn til og andlit Hermione birtist, glansandi og áhyggjufullt. Á bak við hana sauð seigfljótandi drykkurinn – glúbb glúbb. Á klósettsetunni stóðu þrjú glös tilbúin.

„Náðuð þið í þetta?“ spurði hún andstutt. Harry sýndi henni hárið úr Goyle.

„Gott. Og ég laumaðist til að taka þessar aukaskikkjur úr þvottinum,“ sagði Hermione og sýndi þeim lítinn fatapoka. „Þið þurfið stærri skikkjur þegar þið verðið Crabbe og Goyle.“

Þau störðu öll þrjú ofan í seiðpottinn. Í nálægð líktist drykkurinn þykkri, svartri drullu með slímkenndum loftbólum.

„Ég er viss um að ég hef gert allt eftir bókinni,“ sagði Hermione taugaóstyrk og las aftur yfir blettótta blaðsíðuna úr Máttugustu töfradrykkirnir. „Þetta lítur líka út eins og það á að gera … Þegar við höfum drukkið þetta líður nákvæmlega klukkustund þar til við breytumst aftur í okkur sjálf.“

„Hvað gerum við nú?“ hvíslaði Ron.

„Við skiptum þessu niður í þrjú glös og bætum hárunum út í.“

Hermione jós stórum skömmtum af drykknum í glösin. Því næst hristi hún með skjálfandi höndum hárið af Millicent Bulstrode úr flöskunni ofan í fyrsta glasið.

Það kraumaði í töfradrykknum eins og sjóðandi katli og freyddi óðslega. Andartaki síðar hafði drykkurinn tekið á sig viðbjóðslegan, gulan lit.

„Oj – bragðið af Millicent Bulstrode," sagði Ron og gaut augunum á glasið með andstyggð í svipnum. „Ég er viss um að þetta er ógeðslegt á bragðið."

„Bætið nú ykkar hárum út í," sagði Hermione.

Harry lét hár úr Goyle detta ofan í glasið í miðið og Ron setti hárið úr Crabbe í það síðasta. Það bullaði og freyddi í báðum glösunum: Drykkur Goyles varð ljósleitur eins og hor og Crabbes tók á sig gruggugan, dökkbrúnan lit.

„Bíðið aðeins," sagði Harry um leið og Hermione og Ron teygðu sig eftir glösunum sínum. „Við ættum ekki að drekka þetta öll hérna inni … Þegar við breytumst í Crabbe og Goyle eigum við ekki eftir að komast hérna fyrir. Og Millicent Bulstrode er enginn smáálfur."

„Það er satt," sagði Ron og tók lásinn af. „Við förum hvert inn í sinn básinn."

Harry smeygði sér varlega inn í miðjubásinn til að hella ekki niður einum dropa.

„Tilbúin?“ kallaði hann.

„Við erum tilbúin,“ svöruðu raddir Rons og Hermione.

„Einn – tveir – þrír …“

Harry tók fyrir nefið og svolgraði drykkinn í sig í tveimur gúlsopum. Hann bragðaðist eins og ofsoðið kál.

Innyflin byrjuðu samstundis að engjast eins og hann hefði gleypt lifandi snáka – hann velti því fyrir sér þar sem hann stóð í keng hvort hann þyrfti að kasta upp – en skyndilega breiddist brennandi tilfinning frá maganum út í tær og fingurgóma. Hann féll stynjandi niður á fjóra fætur og sú hræðilega tilfinning greip hann að líkaminn væri að bráðna þegar húðin byrjaði að krauma eins og sjóðandi heitt vax – og þegar hann leit á hendurnar sá hann að þær voru byrjaðar að stækka, fingurnir þykknuðu og neglurnar breikkuðu, hnúarnir bólgnuðu út eins og skrúfboltar – það teygðist á öxlunum og sársaukastingir í enninu gáfu til kynna að hárið væri farið að vaxa niður að augabrúnunum. Skikkjan hans rifnaði þegar

bringan þandist út eins og tunna að sprengja utan af sér gjarðirnar og hann var helaumur í fótunum í skóm sem voru fjórum númerum of litlir …

Þetta hætti allt jafn skyndilega og það hafði byrjað. Harry lá á grúfu á köldu steingólfinu og hlustaði á fýluleg hljóðin sem gutluðust upp úr Völu í innsta básnum. Hann sparkaði af sér skónum með miklum erfiðismunum og stóð á fætur. Svona var þá að vera Goyle. Hann klæddi sig skjálfhentur úr gömlu skikkjunni, sem náði honum nú niður að hnjám, og klæddi sig í aukaskikkjuna. Hann stakk fótunum ofan í skóna hans Goyles sem voru eins og flutningaprammar á stærð og reimaði þá vandlega. Hann lyfti hendinni til að strjúka hárið úr augunum en rak hana í stutta vírbrodda sem uxu langt niður á ennið. Svo uppgötvaði hann að gleraugun byrgðu honum sýn; Goyle þurfti greinilega ekki á þeim að halda – hann tók þau af sér og kallaði: „Er í lagi með ykkur?“ Urgandi rödd Goyles barst út um munninn á honum.

„Já,“ rumdi djúp rödd Crabbes úr básnum hægra megin við hann. Harry opnaði dyrnar og tók sér stöðu fyrir framan sprunginn spegilinn. Goyle starði á móti, sljóum, djúplægum augum. Harry klóraði sér í eyranu. Það sama gerði Goyle.

Dyrnar hjá Ron opnuðust. Þeir störðu hvor á annan. Fyrir utan fölt, óttaslegið andlitið var Ron nú nákvæm eftirmynd Crabbes – allt frá skálarklippingunni til langra górilluhandleggjanna.

„Þetta er ótrúlegt,“ sagði Ron. Hann færði sig nær speglinum og potaði í flatt nef Crabbes. „Ótrúlegt.“

„Við ættum að fara af stað,“ sagði Harry og losaði um úrið sem skarst inn í feitan úlnlið Goyles. „Við þurfum að komast að því hvar setustofa Slytherin er. Ég vona að við finnum einhvern sem við getum elt …“

Ron hafði starað á Harry og sagði loks: „Þú veist ekki hvað það er fáránlegt að sjá Goyle hugsa.“ Hann lamdi á dyrnar hjá Hermione.

„Komdu, við þurfum að drífa okkur …“ Mjög há og skerandi rödd svaraði honum.

„Nei, ég held að ég komi ekki með. Farið þið bara.“

„Hermione, við vitum að Millicent Bulstrode er ljót. Það á enginn eftir að komast að því að þetta ert þú.“

„Nei – í alvöru – ég kem ekki með. Drífið ykkur nú af stað. Þið eruð að eyða dýrmætum tíma …“

Harry leit ráðþrota á Ron.

„Núna ertu farinn að líkjast Goyle,“ sagði Ron. „Svona lítur hann út í hvert skipti sem kennari spyr hann spurningar.“

„Hermione, er allt í lagi með þig?“ spurði Harry í gegnum hurðina. „Já – það er allt í fína – farið nú …“

Harry leit á úrið sitt. Fimm mínútur af dýrmætu klukkustundinni þeirra voru þegar liðnar.

„Við komum aftur um leið og við erum búnir,“ sagði hann.

Harry og Ron opnuðu dyrnar á klósettinu varlega og litu í kringum sig áður en þeir laumuðust út.

„Ekki sveifla höndunum svona,“ muldraði Harry.

„Ha?“

„Crabbe heldur þeim svona dálítið stífum niður með hliðunum …“

„Svona?“

„Já, þetta er betra …“

Þeir gengu niður marmaratröppurnar. Núna þurftu þeir bara að finna einhvern úr Slytherin sem þeir gætu elt í Slytherinsetustofuna, en það var engan að sjá.

„Dettur þér eitthvað í hug?“ muldraði Harry.

„Slytherinkrakkarnir koma alltaf í morgunmat úr þessari átt,“ sagði Ron og kinkaði kolli í átt að innganginum að dýflissunum. Hann hafði varla sleppt orðinu þegar stelpa með sítt, liðað hár birtist í gætt inni.

„Afsakaðu,“ sagði Ron og hraðaði sér til hennar. „Við erum búnir að gleyma hvar setustofan okkar er.“

„Ha, hvað segirðu?“ sagði stelpan stirðlega. „Setustofan okkar? Ég er í Ravenclaw.“

Hún gekk á brott en leit tortryggin um öxl.

Harry og Ron flýttu sér niður steinþrepin í myrkrið í kjallaranum. Fótatakið bergmálaði um kjallarann þegar risavaxnir fætur Crabbes og Goyles stigu til jarðar. Þetta virtist ekki ætla að reynast jafn auðvelt og þeir höfðu vonað.

Gangarnir minntu þá á völundarhús og voru alveg mannlausir. Þeir gengu dýpra og dýpra undir kastalann og litu í sífellu á úrin. Eftir fimmtán mínútur voru þeir orðnir úrkula vonar en komu þá skyndilega auga á hreyfingu fram undan.

„Ha!“ sagði Ron eftirvæntingarfullur. „Þarna fundum við loksins einn þeirra!“

Veran birtist út úr litlum hliðargangi. Þegar þeir flýttu sér nær urðu þeir fyrir miklum vonbrigðum. Þetta var ekki nemandi úr Slytherin, þetta var Percy.

„Hvað ert þú að gera hér?“ spurði Ron undrandi.

Percy virtist misboðið.

„Það,“ sagði hann stífur á svip, „kemur þér ekki við. Þú heitir Crabbe, er það ekki?“ „Hv- ó, jú,“ sagði Ron.

„Jæja, komið ykkur í svefnsalinn ykkar,“ sagði Percy strangur á svip.

„Það er ekki öruggt að þvælast um dimma gangana þessa dagana.“ „Þú ert að því,“ benti Ron honum á.

„Ég,“ sagði Percy og þandi brjóstið, „er umsjónarmaður. Það ræðst enginn á mig.“

Skyndilega hljómaði rödd að baki Harrys og Rons. Draco Malfoy stikaði í áttina til þeirra og í fyrsta sinn á ævinni varð Harry glaður að sjá hann.

„Þarna eruð þið,“ drafaði í honum þegar hann leit á þá. „Hafið þið verið að troða í ykkur í Stóra salnum allan þennan tíma? Ég var að leita að ykkur; ég ætlaði að sýna ykkur dálítið sniðugt.“ Draco sendi Percy lítillækkandi augnaráð.

„Og hvað ert þú að gera hér, Percy Weasley?“ sagði hann háðslega. Percy virtist ævareiður.

„Þú ættir að sýna umsjónarmanni örlítið meiri virðingu!“ sagði hann. „Mér líkar ekki þessi framkoma!“

Draco glotti hæðnislega og gaf Harry og Ron bendingu um að fylgja sér. Það munaði engu að Harry bæði Percy afsökunar en áttaði sig í tíma. Hann og Ron hröðuðu sér á eftir Draco Þegar þeir beygðu fyrir horn sagði hann: „Þessi Peter Weasley …“ „Percy,“ leiðrétti Ron ósjálfrátt.

„Eða hvað sem hann heitir,“ sagði Draco. „Ég hef tekið eftir því að hann hefur verið að læðupokast hérna um upp á síðkastið. Og ég veit alveg hvað vakir fyrir honum. Hann ætlar að handsama arftaka Slytherins upp á eigin spýtur.“

Hann hló stuttum hæðnishlátri. Harry og Ron litu spenntir hvor á annan.

Draco nam staðar við auðan, rakan steinvegg við endann á ganginum.

„Hvað er aftur nýja leyniorðið?“ spurði hann Harry.

„Öh …“ sagði Harry.

„Alveg rétt … hreint blóð!“ sagði Draco án þess að hlusta og steindyr sem leyndust í veggnum opnuðust. Draco þrammaði inn og Harry og Ron fylgdu á eftir.

Setustofa Slytherin var aflangt herbergi með grófum steinveggjum. Þar var lágt til lofts og niður úr loftinu héngu grænir lampar í keðjum. Andspænis þeim logaði eldur undir útskorinni arinhillu. Þeir greindu útlínur nokkurra Slytherinnemenda sem sátu við eldinn í útskornum stólum.

„Bíðið hérna,“ sagði Draco og benti Harry og Ron á tvo stóla nálægt eldinum. „Ég ætla að ná í það – faðir minn var að senda mér það …“

Harry velti fyrir sér hvað Draco ætlaði að sýna þeim um leið og þeir fengu sér sæti og gerðu sitt besta til að láta eins og heima hjá sér.

Andartaki síðar birtist Draco aftur og hélt á einhverju sem líktist blaðaúrklippu. Hann rak hana framan í Ron.

„Þetta ætti að gleðja ykkur,“ sagði hann.

Harry sá augu Rons þenjast út af skelfingu. Hann las úrklippuna í skyndi, rak upp þvingaðan hlátur og rétti Harry hana.

Þetta var úrklippa úr Spámannstíðindum og þar stóð:

Rannsókn í Galdramálaráðuneytinu

Arthur Weasley, yfirmaður embættis til varnar misnotkun á Mugga eigum, var í dag dæmdur til að greiða fimmtíu galleon fyrir að hafa sett Muggabíl í álög.

Herra Lucius Malfoy, stjórnarmeðlimur Hogwartskóla galdra og seiða þar sem álagabíllinn brotlenti fyrr á árinu, hefur krafist afsagnar Arthurs Weasley.

„Weasley hefur komið óorði á ráðuneytið,“ sagði herra Malfoy í viðtali við blaðið. „Hann er greinilega ófær um að setja okkur lög og þessum fáránlegu lögum til varnar Muggunum ætti að fleygja umsvifalaust.“ Herra Weasley vildi ekki tjá sig um málið, en kona hans sagði blaðam önnum að hypja sig áður en hún sigaði ættarófreskjunni á þá.

„Jæja, hvað finnst ykkur?“ sagði Draco þegar Harry rétti honum úrklippuna. „Finnst ykkur þetta ekki fyndið?“

„Ha, ha,“ hló Harry gleðisnautt.

„Arthur Weasley er svo hrifinn af Muggunum að hann ætti að brjóta sprotann sinn í tvennt og ganga til liðs við þá,“ sagði Draco fullur fyrirlitningar. „Af hegðun Weasleyfjölskyldunnar að dæma hefði maður aldrei trúað því að þau væru af hreinræktaðri galdraætt.“

Andlit Rons – eða réttara sagt, Crabbes – var afmyndað af reiði.

„Hvað er að þér, Crabbe?“ hreytti Draco út úr sér.

„Magaveiki,“ rumdi Ron.

„Nú, farðu þá upp í sjúkrahúsálmu og sparkaðu í alla blóðníðinga frá mér,“ sagði Draco og flissaði hæðnislega. „Mér þykir skrítið að Spámannstíðindi skuli ekki hafa sagt frá öllum þessum árásum ennþá,“ hélt hann íhugull áfram. „Ætli Dumbledore sé ekki að reyna að þagga þetta niður. Hann

verður rekinn ef þetta hættir ekki fljótlega. Faðir minn hefur alltaf sagt að Dumbledore gamli sé það versta sem gat komið fyrir þennan skóla. Hann elskar þá sem eru af Muggaættum. Almennilegur skólastjóri hefði aldrei hleypt svona viðrini eins og Colin Creevey inn í skólann.“

Draco þóttist taka mynd á þykjustumyndavél og hermdi nákvæmlega eftir Colin: „Harry, má ég taka af þér mynd? Get ég fengið eiginhandaráritun? Má ég ekki sleikja skóna þína, Harry?“

Hann lét hendurnar síga og leit á Harry og Ron.

„Hvað er að ykkur tveimur?“

Þeir voru alltof seinir að kreista upp úr sér uppgerðarhlátur en Draco virtist ánægður; kannski voru Crabbe og Goyle alltaf svona lengi að átta sig.

„Heilagur Potter, vinur blóðníðinga,“ sagði Draco hægt. „Hann skortir líka alla sjálfsvirðingu heiðarlegs galdramanns, annars væri hann ekki að þvælast um með henni þarna Hermione blóðníðingi. Og svo halda allir að hann sé arftaki Slytherins!“

Harry og Ron héldu niðri í sér andanum: Draco var að því kominn að segja þeim að hann væri arftakinn – þegar –

„Ég vildi óska að ég vissi hver það væri,“ sagði Draco önugur. „Ég gæti hjálpað honum.“

Ron gapti svo að Crabbe virtist enn heimskari en venjulega. Til allrar hamingju tók Draco ekki eftir neinu svo að Harry hugsaði hratt og flýtti sér að segja: „Þú hlýtur að hafa einhverja hugmynd um hver stendur á bak við þetta …“

„Nei, Goyle, það hef ég ekki, hvað þarf ég að segja þér það oft?“ hreytti Draco út úr sér. „Og faðir minn vill ekki segja mér neitt um það þegar klefinn var opnaður síðast. Það eru náttúrulega fimmtíu ár síðan, svo það var löngu fyrir hans tíð, en hann veit allt um það og segir að málið hafi verið þaggað niður og þess vegna liti það grunsamlega út ef ég fengi að vita of mikið. En ég veit eitt – þegar leyniklefinn var opnaður síðast dó blóðníðingur. Svo það er örugglega bara tímaspursmál hvenær annar blóðníðingur verður drepinn … Ég vona að það verði Hermione Granger,“ sagði hann með velþóknun.

Ron kreppti gríðarstóra hnefana á Crabbe. Harry fannst ekki ólík legt að það kæmi upp um þá ef Ron gæfi Malfoy kjaftshögg svo hann sendi honum viðvörunaraugnaráð og sagði: „Veistu hvort þeir handsömuðu þann sem opnaði leyniklefann síðast?“

„Já … sá sem gerði það var rekinn,“ sagði Draco. „Hann er sennilega enn í Azkaban.“

„Azkaban?“ sagði Harry forviða.

„Azkaban – galdramannafangelsið, Goyle,“ sagði Draco og leit vantrúaður á hann. „Ég meina það, ef þú værir aðeins tregari þá værirðu farinn að hugsa aftur á bak.“

Hann ók sér eirðarlaus í stólnum og sagði: „Faðir minn sagði að ég ætti að hafa hægt um mig og láta arftaka Slytherins um málin. Hann segir að skólinn verði að losna við alla þessa blóðníðingsóþverra en að við skulum ekki skipta okkur af því. Hann hefur líka í nógu að snúast þessa dagana. Vissuð þið að galdramálaráðuneytið gerði rassíu á herragarðinum okkar í síðustu viku?“

Harry reyndi að setja áhyggjusvip á dauflegt andlit Goyles.

„Já …“ sagði Draco. „Sem betur fer fundu þeir ekkert merkilegt. Faðir minn á safn af mjög verðmætum hlutum sem tengjast myrku öflunum. En sem betur fór hafði faðir minn falið það í leyniherberginu okkar undir gólfinu í stássstofunni …“ „Ha!“ sagði Ron.

Draco leit á hann. Það sama gerði Harry. Ron roðnaði. Meira að segja hárið á honum var að verða rautt. Nefið á honum var líka farið að lengjast – klukkustundin var liðin, Ron var að breytast aftur í sjálfan sig og af hræðslusvipnum á honum að dæma átti það líka við um Harry.

Þeir stukku báðir á fætur.

„Ég verð að fá meðal við magaverknum,“ rumdi Ron og svo stukku þeir umsvifalaust á fætur, hentust eftir setustofunni, köstuðu sér á steinvegginn og þutu upp eftir ganginum. Þeir vonuðu af öllu hjarta að Draco hefði ekki tekið eftir neinu óvenjulegu. Harry fann hvernig hann rann til í risastórum skónum hans Goyles og hann varð að hífa upp um sig skikkjuna um leið og hann skrapp saman á hlaupunum; þeir komu móðir og másandi upp í dimman forsalinn þar sem niðurbæld högg og óp bárust frá Crabbe og Goyle innan úr

skápnum. Þeir skildu skóna eftir fyrir utan skápinn og þutu upp marmaratröppurnar á sokkaleistunum. Þeir komust loks óséðir að klósettinu hennar Völu væluskjóðu.

„Nú, þetta var að minnsta kosti ekki algjör tímasóun," stundi Ron og lokaði klósettdyrunum að baki þeim. „Ég veit að við komumst ekki að því hver stendur á bak við árásirnar en ég ætla að skrifa pabba á morgun og segja honum að leita undir stássstofu Malfoyfjölskyldunnar."

Harry skoðaði á sér andlitið í brotna speglinum. Hann var aftur orðinn eðlilegur. Hann setti á sig gleraugun á meðan Ron bankaði á dyrnar á básnum hennar Hermione.

„Hermione, komdu fram, við höfum fréttir handa þér …"

„Farið þið!" skrækti Hermione. Harry og Ron litu hvor á annan.

„Hvað er að?" spurði Ron. „Þú hlýtur að vera orðin þú sjálf aftur, við erum það …"

En skyndilega leið Vala væluskjóða í gegnum dyrnar á básnum. Harry hafði aldrei séð hana svona ánægða á svipinn.

„Óóóóóhóóó, bíðið bara þar til þið sjáið hvað gerðist,“ sagði hún.

„Það er hræðilegt …“

Þeir heyrðu að lásinn var tekinn af og Hermione birtist, snöktandi, með skikkjuna dregna upp yfir höfuð.

„Hvað er að?“ sagði Ron óöruggur. „Ertu ennþá með nefið hennar Millicent Bulstrode eða eitthvað svoleiðis?“

Hermione lét skikkjuna falla og Ron hörfaði að vaskinum.

Andlitið var þakið svörtum feldi. Augun voru orðin gul og út úr hárinu stungust löng, oddmjó eyru.

„Þetta var kattarhár!“ veinaði hún. „M-Millicent Bulstrode hlýtur að eiga kött! Og t-töfradrykkurinn er ekki ætlaður til dýraummyndunar!“

„Ó, nei,“ sagði Ron.

„Þér verður strítt alveg hræðilega,“ sagði Vala hamingjusöm.

„Þetta verður allt í lagi, Hermione,“ flýtti Harry sér að segja. „Við förum bara upp í sjúkrahúsálmu. Fröken Pomfrey spyr aldrei of margra spurninga …“

Það tók nokkra stund að fá Hermione til að yfirgefa klósettið. Vala væluskjóða rak á eftir þeim með hrossahlátri.

„Bíddu bara þangað til allir komast að því að þú ert með rófu!“

# Þrettándi kafli

# Dularfulla dagbókin

Hermione þurfti að dvelja í sjúkrahúsálmunni í nokkrar vikur. Þegar hinir nemendurnir komu aftur í skólann eftir jólafríið fóru sögusagnir á kreik um hvarf hennar, því auðvitað héldu allir að það hefði verið ráðist á hana. Fröken Pomfrey varð að taka fram hengið og tjalda í kringum rúmið hennar, svo hún þyrfti ekki að skammast sín fyrir loðið andlitið, því að nemendur flykktust framhjá sjúkrahúsálmunni til að reyna að koma auga á hana.

Harry og Ron fóru að heimsækja hana á hverju kvöldi. Þegar næsta önn hófst komu þeir daglega með heimaverkefnin hennar.

„Ef ég væri kominn með veiðihár myndi ég taka mér frí frá lærdóminum,“ sagði Ron eitt kvöldið og hvolfdi bunka af bókum á náttborðið hennar.

„Láttu ekki svona, Ron, ég verð að fylgjast með,“ sagði Hermione hressilega. Henni leið miklu betur eftir að hárið var horfið úr andlitinu og augun voru smátt og smátt að fá aftur sinn brúna lit. „Hafið þið orðið nokkurs vísari?“ bætti hún við og hvíslaði svo að fröken Pomfrey heyrði ekki til hennar.

„Einskis,“ sagði Harry dapurlega.

„Ég var svo viss um að þetta væri Draco,“ sagði Ron, í um það bil hundraðasta skiptið.

„Hvað er þetta?“ spurði Harry og benti á eitthvað gyllt sem gægðist út undan kodda Hermione.

„Bara kort með óskum um góðan bata,“ sagði Hermione fljótmælt og reyndi að stinga því undan, en Ron var fljótari til. Hann dró það til sín, opnaði það og las upphátt:

„Kæra ungfrú Granger. Ég óska þess að þér batni fljótt. Þinn áhyggjufulli kennari, Gilderoy Lockhart prófessor, í reglu Merlins, heiðursmeðlimur í félaginu Vörn gegn myrku öflunum og fimmfaldur vinningshafi Nýs Norna lífs í samkeppninni um fallegasta brosið.“

Ron leit á Hermione með hryllingi.

„Sefurðu með þetta undir koddanum þínum?“

En Hermione komst hjá því að svara þegar fröken Pomfrey geystist inn með lyfin hennar fyrir kvöldið.

„Lockhart er nú ferlega lúmskur, finnst þér það ekki?“ sagði Ron við Harry þegar þeir yfirgáfu sjúkradeildina og héldu af stað upp stigana í áttina að Gryffindorturni. Snape hafði sett þeim svo mikið fyrir að Harry fannst líklegast að hann yrði kominn á sjötta ár þegar hann kláraði loks heimaverkefnin. Ron var að tala um að hann hefði átt að spyrja Hermione hve marga rottuhala ætti að nota til að búa til töfradrykk sem fengi hárin til að rísa þegar þeir heyrðu reiðióp frá hæðinni fyrir ofan.

„Þetta er Filch,“ muldraði Harry þegar þeir hröðuðu sér áfram upp stigann og námu staðar, þar sem ekki sást til þeirra, til að hlusta betur.

„Heldurðu að það hafi verið ráðist á einhvern annan?“ sagði Ron taugaóstyrkur.

Þeir stóðu grafkyrrir og hölluðu sér fram til að heyra betur í Filch sem virtist vera gjörsamlega móðursjúkur.

„… enn meiri vinna fyrir mig! Búinn að þrífa í allt kvöld, eins og ég hafi ekki nóg á minni könnu! Nei, nú er mælirinn fullur, ég fer og tala við Dumbledore.“

Þeir heyrðu fótatak hans fjarlægjast og hurðaskell í fjarska.

Þeir kíktu varlega fyrir hornið. Filch hafði greinilega verið á vaktinni á sínum venjulega stað. Eina ferðina enn voru þeir komnir á staðinn þar sem ráðist hafði verið á Frú Norris. Þeir sáu um leið hvers vegna Filch hafði misst stjórn á sér. Heilt syndaflóð af vatni náði yfir hálfan ganginn og það virtist enn seytla undan dyrunum sem lá að klósetti Völu væluskjóðu. Nú, þegar Filch var hættur að hrópa, heyrðu þeir veinin í Völu sem bergmáluðu inni á klósettinu.

„Hvað ætli sé að henni núna?“ sagði Ron.

„Við skulum athuga málið,“ sagði Harry og þeir lyftu skikkjunum sínum upp fyrir ökkla, óðu vatnselginn að hurðinni og virtu sem endranær að vettugi skiltið sem á stóð: Bilað.

Vala væluskjóða hágrét, hærra og meira en nokkru sinni fyrr. Hún virtist vera í felum niðri í sínu vanalega klósetti. Það var dimmt þarna inni á klósettinu því slokknað hafði á kertunum í vatnsflóðinu og veggir og gólf voru rennblaut.

„Hvað kom fyrir, Vala?“ spurði Harry.

„Hver er þar?“ heyrðist vesældarlega í Völu. „Eruð þið komnir til að henda einhverju fleiru í mig?“

Harry óð að básnum hennar og sagði: „Af hverju ætti ég að henda einhverju í þig?“

„Spyrðu mig ekki að því,“ æpti Vala þegar hún birtist í nýrri flóðbylgju af vatni, sem sullaðist yfir rennblautt gólfið. „Ekki er ég að skipta mér af neinum og svo kemur einhver og finnst voða fyndið að henda í mig bók …“

„En þú getur ekki fundið neitt til þó að einhverju sé hent í þig,“ sagði Harry skynsamlega. „Ég meina, það fer bara beint í gegnum þig, er það ekki?“

Þetta hefði hann ekki átt að segja. Vala þandist út og skrækti: „Við skulum öll henda bókum í Völu, af því að hún finnur ekkert fyrir því! Þú færð tíu stig ef þú hittir í magann á henni! Fimmtíu stig ef þær fara í gegnum hausinn á henni! Ha, ha, ha, ha! Þetta er frábær leikur – eða hitt þó heldur!“

„Hver henti eiginlega í þig?“ spurði Harry.

„Ég veit það ekki … ég sat bara í frárennslisrörinu og var að hugsa um dauðann og hún datt beint í gegnum hvirfilinn á mér,“ sagði Vala og horfði reiðilega á þá. „Hún er þarna, hún skolaðist burt.“

Harry og Ron kíktu undir vaskinn sem Vala benti á. Þar lá lítil, þunn bók. Utan um hana var sóðaleg, svört kápa, rennblaut eins og allt annað á klósettinu. Harry ætlaði að taka hana upp, en Ron rétti allt í einu fram handlegginn til að stöðva hann.

„Hvað?“ sagði Harry.

„Ertu brjálaður?“ sagði Ron. „Hún gæti verið hættuleg.“

„Hættuleg?“ sagði Harry hlæjandi. „Láttu ekki svona, hvernig gæti hún verið hættuleg?“

„Þú myndir aldrei trúa því,“ sagði Ron og horfði áhyggjufullur á bókina. „Sumar af bókunum sem ráðuneytið hefur gert upptækar … pabbi sagði mér þetta … það var ein sem brenndi úr manni augun. Og þeir sem lásu Sonnettur seiðkarlsins töluðu í ljóðum það sem eftir var ævinnar. Og einhver gömul galdranorn í Bath átti bók sem var ekki hægt að hætta að lesa. Maður varð að ganga um með nefið ofan í bókinni, og reyna að gera allt með annarri hendinni. Og …“

„Allt í lagi, ég skil,“ sagði Harry.

Litla bókin lá á gólfinu, gegnblaut og umkomulítil.

„Jæja, við komumst ekki að því nema við skoðum hana,“ sagði hann, teygði sig framhjá Ron og tók hana upp af gólfinu.

Harry sá strax að þetta var dagbók og af máðu ártalinu á kápunni áttaði hann sig á að hún var fimmtíu ára gömul. Hann opnaði hana ákafur. Á fremstu síðunni gat hann með

naumindum greint nafnið Trevor Delgome sem stóð skrifað með kámugu bleki.

„Bíddu aðeins," sagði Ron sem hafði nálgast hann varlega og lasyfir öxl hans. „Ég þekki þetta nafn … Trevor Delgome fékk viðurkenningarskjöld fyrir framúrskarandi störf í þágu skólans fyrir fimmtíu árum."

„Hvernig í ósköpunum veist þú það?" spurði Harry undrandi.

„Þegar ég tók út refsinguna lét Filch mig örugglega bóna skjöldinn hans fimmtíu sinnum," sagði Ron gramur. „Það var sá sem ég ældi sniglum á. Ef þú hefðir þurft að þrífa slím af nafni í klukkutíma myndir þú líka muna eftir því."

Harry fletti blautum síðunum í sundur. Þær voru algerlega auðar. Það voru ekki minnstu ummerki um skrift á þeim, ekki einu sinni afmæli hjá Mabel frænku eða tannlæknir kl. hálffjögur.

„Hann hefur aldrei skrifað neitt í hana," sagði Harry vonsvikinn.

„Af hverju skyldi einhver vilja sturta henni niður?“ sagði Ron forvitinn.

Harry leit á baksíðuna og sá að á hana var prentað nafn á blaðsölu í London.

„Hann hlýtur að hafa verið af Muggaættum,“ sagði Harry hugsandi.

„Ef hann hefur keypt dagbók í London …“

„Jæja, þú græðir ekki mikið á því,“ sagði Ron. Hann lækkaði róminn. „Þú færð fimmtíu stig ef þú getur dregið hana í gegnum nefið á Völu.“

Af einhverjum ástæðum stakk Harry henni á sig.

Hermione yfirgaf sjúkradeildina, veiðiháralaus og skottlaus, í byrjun febrúar. Harry sýndi henni dagbók Trevors Delgome fyrsta kvöldið hennar í Gryffindorturni og sagði henni söguna af því hvernig þeir hefðu fundið hana.

„Ó, hún gæti búið yfir duldum kröftum,“ sagði Hermione spennt, tók bókina og skoðaði hana vandlega.

„Ef hún gerir það, þá felur hún það vel,“ sagði Ron. „Kannski er hún feimin. Ég skil ekki af hverju þú fleygir henni ekki, Harry.“

„Ég vildi að ég vissi af hverju einhver reyndi að fleygja henni. Mér þætti líka gaman að vita fyrir hvaða framúrskarandi störf Trevor fékk viðurkenningu.“

„Gæti verið hvað sem er,“ sagði Ron. „Kannski fékk hann þrjátíu U.G.L.ur eða bjargaði einhverjum kennara frá risasmokkfiskinum. Ef til vill myrti hann Völu. Þar hefði hann gert öllum greiða …“

En Harry sá af íhugulum svip Hermione að hún var að hugsa það sama og hann.

„Hvað?“ spurði Ron og leit á þau til skiptis.

„Bara það að leyniklefinn var opnaður fyrir fimmtíu árum, er það ekki?“ sagði hann. „Að minnsta kosti sagði Draco það.“
„Já …“ sagði Ron með hægð.

„Og þessi dagbók er fimmtíu ára gömul,“ sagði Hermione og klappaði á hana.

„Hvað með það?“

„Æ, Ron, vaknaðu,“ hreytti Hermoine út úr sér. „Við vitum að sá sem opnaði leyniklefann síðast var rekinn fyrir fimmtíu árum. Við vitum líka að Trevor Delgome fékk viðurkenningu fyrir framúrskarandi störf í þágu skólans fyrir fimmtíu árum. Jæja, hvað nú ef Trevor fékk þessa sérstöku viðurkenningu fyrir að handsama arftaka Slytherins? Það stæði sennilega allt um það í dagbókinni … Hvar leyniklefinn er, hvernig á að opna hann og hvers konar skepna leynist þar. Sá sem stendur að baki þessum árásum myndi ekki vilja að hún lægi á glámbekk … eða hvað?“

„Þetta er frábær kenning, Hermione,“ sagði Ron, „það er bara einn pínulítill galli á henni. Það er ekkert skrifað í dagbókina hans.“ En Hermione var að draga töfrasprotann upp úr töskunni sinni.

„Þetta gæti verið ósýnilegt blek!“ hvíslaði hún.

Hún klappaði þrisvar sinnum létt á dagbókina og sagði:

„Aparecium!“

Ekkert gerðist. Hermione stakk ótrauð hendinni ofan í töskuna sína og dró upp eitthvað sem líktist skærrauðu strokleðri.

„Þetta er afhjúpari, ég keypti hann í Skástræti,“ sagði hún. Hún nuddaði 1. janúar fast með afhjúparanum. Ekkert gerðist.

„Ég var að segja ykkur, að það er ekkert að finna í þessari bók,“ sagði Ron. „Trevor hefur fengið þessa dagbók í jólagjöf og ekki nennt að skrifa í hana.“

Harry gat ekki útskýrt, ekki einu sinni fyrir sjálfum sér, af hverju hann henti ekki dagbók Trevors. Og þrátt fyrir að hann vissi að síðurnar væru auðar hélt hann áfram að taka hana upp annars hugar og fletta blaðsíðunum eins og þetta væri saga sem hann vildi ljúka við að lesa. Og þó að hann væri viss um að hann hefði aldrei heyrt minnst á Trevor Delgome áður fannst honum nafnið segja sér eitthvað, næstum eins og Trevor væri vinur sem hann hefði átt þegar hann var lítill og hefði næstum gleymt. En það var út í hött. Hann hafði aldrei

átt vini áður en hann kom í Hogwartskóla. Dudley hafði séð til þess.

Engu að síður var Harry ákveðinn í því að komast að fleiru um Trevor. Í frímínútunum næsta dag lagði hann leið sína í verðlaunagripastofuna til að skoða viðurkenningarskjöld Trevors nánar. Hermione og Ron fóru með honum. Hermione var mjög áhugasöm en Ron tölti vantrúaður á eftir þeim og taldi sig hafa tekið út dvöl í verðlauna gripaherberginu sem myndi duga honum ævilangt.

Gljáfægðum gullskildi Trevors hafði verið komið fyrir á afviknum stað í hornskáp. Á honum voru engar nánari skýringar á því af hverju hann hefði hlotið hann. („Það er líka eins gott, þá hefði hann verið ennþá stærri og ég væri enn að pússa hann," sagði Ron.) Engu að síður fundu þau nafn Trevors á gamalli orðu sem veitt var fyrir óvenjulega galdrahæfileika og sömuleiðis á lista yfir fyrri nemendaformenn.

„Hann er eins og Percy," sagði Ron og fitjaði upp á nefið í andstyggð. „Umsjónarmaður, formaður … örugglega hæstur í öllum fögum …"

„Eins og það sé eitthvað slæmt,“ sagði Hermione dálítið særð. Sólin var aftur farin að skína af veikum mætti á Hogwartskóla. Innan kastalans voru kennarar og nemendur smátt og smátt að taka gleði sína á ný. Eftir að ráðist hafði verið á Justin og Næstum hauslausa Nick höfðu ekki fleiri árásir átt sér stað og fröken Pomfrey tilkynnti með ánægju að Alrúnirnar væru orðnar skapvondar og leyndardómsfullar sem var til marks um að þær yxu nú óðum úr grasi.

„Um leið og bólurnar hverfa verður hægt að umpotta þeim,“ heyrði Harry hana segja vingjarnlega við Filch einn daginn. „Og þess verður ekki langt að bíða að hægt verði að skera þær niður og sjóða. „Frú Norris verður komin aftur til þín áður en þú veist af.“

Ef til vill hafði arftaki Slytherins misst kjarkinn, hugsaði Harry. Það hlaut að vera áhættusamt að opna leyniklefann þegar allur skólinn var svona vel á verði. Ef til vill var ófreskjan, hver sem hún var, að búa um sig í híði sínu til að leggjast í dvala næstu fimmtíu árin …

Ernie Macmillan úr Hufflepuffvistinni var ekki jafn jákvæður. Hann var enn sannfærður um að Harry væri sá seki og taldi hann hafa „komið upp um sig“ í hólmgöngufélaginu. Peeves

hjálpaði ekki uppá sakirnar. Hann hélt áfram að birtast á fjölmennum göngum og söng Að heita Potter, það ekki gott er og nú með tilheyrandi danssporum.

Gilderoy Lockhart virtist standa í þeirri trú að hann hefði sjálfur stöðvað árásirnar. Harry heyrði hann segja það við McGonagall prófessor þegar Gryffindornemendur voru á leið í tíma í ummyndun.

„Ég á ekki von á því að það verði fleiri árásir, Mínerva,“ sagði hann og setti fingur á nefbrodd sér eins og til marks um að hann vissi sínu viti. „Ég held að leyniklefanum hafi verið lokað fyrir fullt og allt í þetta sinn. Sökudólgurinn hlýtur að hafa gert sér grein fyrir því að það var bara tímaspursmál hvenær ég næði honum. Það var snjallt hjá honum að hætta núna, áður en ég náði að taka hann rækilega í gegn. En veistu hvað þennan skóla vantar núna? Rækilega upplyftingu og gleði. Þurrka burt minningar frá síðustu önn! Ég ætla ekki að segja meira núna, en ég held að ég viti hvað til þarf …“ Hann setti fingurinn á ný á nef sér og skálmaði á brott.

Hugmyndir Lockharts um gleði og upplyftingu urðu öllum ljósar við morgunverðarborðið fjórtánda febrúar. Harry hafði komið seint inn af Quidditchæfingu kvöldið áður og ekki

fengið mikinn svefn. Hann var dálítið seinn og flýtti sér niður í Stóra salinn. Eitt augnablik hélt hann að hann hefði gengið inn um rangar dyr.

Veggirnir voru allir þaktir stórum, glannalegum bleikum blómum og til að bæta gráu ofan á svart svifu hjartalöguð pappírssnifsi ofan úr fölbláu loftinu. Harry gekk að Gryffindorborðinu, þar sem Ron sat fölur og fár og Hermione virtist vera að springa úr hlátri.

„Hvað er um að vera?“ spurði Harry. Hann settist niður og sópaði pappírssnifsi af beikoninu sínu.

Ron benti á háborðið, orðlaus af hryllingi. Lockhart gaf merki um að hann óskaði eftir þögn, klæddur skærbleikri skikkju í stíl við skreytingarnar. Honum til beggja handa sátu kennararnir með steinrunnin andlit. Harry sá úr sæti sínu að McGonagall prófessor gnísti tönnum. Snape leit út eins og einhver hefði gefið honum stóran bikar af Beina-gró.

„Gleðilegan Valentínusardag!“ hrópaði Lockhart. „Og ég vil þakka þessum fjörutíu og sex sem þegar hafa sent mér kort í tilefni dagsins! Já, ég hef tekið mér það bessaleyfi að

skipuleggja þessa litlu uppákomu og það er ekki allt búið enn!“

Lockhart klappaði saman lófunum og inn um dyrnar þrömmuðu tólf fýlulegir dvergar. Og ekki bara venjulegir dvergar. Lockhart hafði klætt þá upp, sett á þá gyllta vængi og fengið þeim líka hörpur í hendur.

„Hinir vinalegu boðberar ástarinnar,“ sagði Lockhart og ljómaði.

„Þeir verða á ferðinni í skólanum í dag og afhenda ykkur Valentínusar kortin ykkar! Og ekki nóg með það! Ég er þess fullviss að samstarfs menn mínir vilja taka þátt í þessari hátíðlegu stemmningu! Eigum við ekki að biðja Snape prófessor að brugga ástarseið? Og úr því að við erum byrjuð ættum við að biðja Flitwick prófessor að fræða okkur örlítið um ástargaldra, hann veit meira um þá en nokkur annar galdramaður sem ég þekki, sá gamli refur!“

Flitwick prófessor grúfði andlitið í höndum sér. Snape leit helst út fyrir að vilja neyða þann fyrsta sem bæði um ástarseið til að taka inn eitur.

„Ekki segja mér að þú hafir verið ein af þessum fjörutíu og sex, Hermione,“ sagði Ron þegar þau voru á leiðinni út úr Stóra salnum í fyrstu kennslustundina. Hermione varð allt í einu mjög upptekin af því að leita að stundaskránni í töskunni sinni og svaraði ekki.

Kennurunum til mikillar gremju ruddust dvergarnir inn í stofurnar í tíma og ótíma til að afhenda Valentínusarkort. Einum þeirra tókst að hitta á Harry um eftirmiðdaginn þegar Gryffindorhópurinn var á leið í töfrabragðatíma.

„Heyrðu, þú! Heitirðu ekki Harry Potter,“ hrópaði sérstaklega ófríður dvergur og olnbogaði sig gegnum þvöguna í átt til Harrys. Harry svitnaði við tilhugsunina um að fá kort fyrir framan Ginny Weasley og röð af nemum á fyrsta ári, svo hann lagði á flótta. En dvergurinn ruddi sér braut með spörkum í sköflunga fólks og náði honum áður en hann komst úr sporunum.

„Ég er með lítið lag sem ég á að afhenda Harry Potter persónulega,“ sagði hann og hristi hörpuna ógnandi.

„Ekki hér,“ hvæsti Harry og reyndi að komast undan.

„Stattu kyrr!“ rumdi dvergurinn, reif í tösku Harrys og dró hann aftur á bak.

„Láttu mig vera!“ urraði Harry og kippti töskunni til sín.

Taskan rifnaði í tvennt með háu hljóði. Bækurnar hans, töfrasprotinn, pergamentið og fjaðurstafurinn dreifðust yfir gólfið og blekbyttan fór í þúsund mola yfir allt saman. Harry reyndi að safna öllu saman með fálmandi höndum áður en dvergurinn byrjaði að syngja, og fyrir vikið átti fólk ekki gott með að komast leiðar sinnar.

„Hvað gengur á?“ heyrðist Draco Malfoy segja kaldri, drafandi röddu. Harry byrjaði í fáti að troða dótinu sínu í rifna töskuna sína. Hann varð að komast í burt áður en Malfoy heyrði Valentínusarlagið hans.

„Hvaða læti eru þetta?“ sagði önnur kunnugleg rödd. Percy Weasley var mættur.

Harry reyndi í örvæntingu að leggja á flótta en dvergurinn greip um hnén á honum og skellti honum á gólfið.

„Jæja,“ sagði hann og settist á fætur hans. „Hér kemur lagið þitt:

Ég yngissvein fann
með augu græn eins og karta.
Ég vild’ ég ætti hann, Harry sómamann.
Hann sigraði lávarðinn svarta.“

Harry hefði viljað gefa allt gull Gringottbanka til að fá að hverfa niður úr gólfinu. Hann reyndi hetjulega að hlæja hinum til samlætis á meðan hann staulaðist á fætur, tilfinningalaus í fótunum eftir þunga dvergsins. Percy Weasley gerði sitt besta til að dreifa mannfjöldanum sem grét af hlátri.

„Drífið ykkur af stað, það var hringt inn fyrir fimm mínútum, drífið ykkur í tíma,“ sagði hann og stuggaði yngri nemendum á undan sér.

„Og þú líka, Draco …“

Harry leit við og sá Draco stansa og grípa eitthvað upp af gólfinu. Hann sýndi Crabbe og Goyle það glottandi, og Harry sá að hann hélt á dagbók Trevors.

„Komdu með hana," sagði Harry rólega.

„Hvað skyldi Harry hafa skrifað í þessa?" sagði Draco sem hafði greinilega ekki tekið eftir ártalinu á bókarkápunni og hélt að hann væri með dagbók Harrys. Það sló þögn á alla nærstadda.

Ginny starði á dagbókina og Harry til skiptis, skelfingu lostin.

„Komdu með þetta, Draco," sagði Percy stranglega.

„Þegar ég er búinn að skoða hana," sagði Draco og veifaði bókinni stríðnislega framan í Harry.

„Sem umsjónarmaður …" byrjaði Percy en Harry missti stjórn á sér. Hann þreif töfrasprotann sinn og hrópaði: „Expelliarmus" og rétt eins og Snape hafði afvopnað Lockhart, þeyttist bókin úr höndum Dracos og upp í loftið. Ron greip hana skælbrosandi.

„Harry!“ sagði Percy háum rómi. „Það er bannað að galdra á göngunum. Þú veist að ég verð að láta vita af þessu!“

En Harry kærði sig kollóttan. Hann hafði náð sér niðri á Malfoy og það var alveg þess virði að tapa fimm stigum fyrir Gryffindorvistina.

Draco virtist öskureiður og þegar Ginny gekk framhjá honum inn í kennslustofuna sína hrópaði hann illkvittnislega á eftir henni: „Ég held að Harry hafi ekki verið neitt sérstaklega hrifinn af kveðjunni frá þér!“

Ginny greip höndunum um andlitið og hljóp inn í stofuna. Ron urraði og dró líka fram töfrasprotann sinn, en Harry dró hann í burtu. Það var ástæðulaust að Ron ældi upp sniglum allan töfrabragðatímann.

Það var ekki fyrr en þau voru komin í tíma hjá Flitwick prófessor að Harry tók eftir dálitlu einkennilegu við dagbók Trevors. Allar bækurnar hans voru ataðar purpurarauðu bleki nema dagbókin sem var alveg jafn hrein og hún hafði verið áður en hellst hafði úr blekbyttunni yfir skóladótið hans. Hann reyndi að benda Ron á þetta, en hann átti aftur í vandræðum

með sprotann sinn. Stórar purpurarauðar blöðrur sprungu út úr enda hans svo að hann hafði allan hugann við það.

Þetta kvöld fór Harry í rúmið á undan öllum í svefnsalnum. Það var að nokkru leyti vegna þess að hann þoldi ekki að heyra Fred og George syngja einu sinni enn, Ég yngissvein fann og líka vegna þess að hann langaði til að rannsaka dagbók Trevors betur. Hann vissi að Ron þætti það hrein tímasóun.

Harry sat á himinsænginni sinni og fletti auðum síðunum. Það var ekki dropi af bleki á neinni þeirra. Svo dró hann fram nýja blekbyttu úr náttborðinu sínu, dýfði fjaðurstafnum ofan í hana, og lét einn dropa drjúpa á fyrstu blaðsíðuna í dagbókinni.

Blekið ljómaði skært eitt augnablik á blaðsíðunni og hvarf svo eins og það hefði sogast inn í hana. Harry dýfði fjaðurstafnum ákafur aftur í blekið og skrifaði: „Ég heiti Harry Potter.“

Orðin skinu augnablik á pappírnum og hurfu síðan án nokkurra ummerkja. Þá gerðist loks eitthvað.

Orð sem Harry hafði aldrei skrifað vætluðu fram á pappírinn.

„Halló, Harry Potter. Ég heiti Trevor Delgome. Hvernig komst þú yfir dagbókina mína?“

Þessi orð hurfu líka, en ekki fyrr en Harry byrjaði að skrifa svarið.

„Einhver reyndi að sturta henni niður.“ Hann beið spenntur eftir svari Trevors.

„Það var heppilegt að ég skyldi skrá minningar mínar á endingarbetri hátt en með bleki. En ég vissi alltaf að það yrðu einhverjir sem ekki kærðu sig um að hún yrði lesin.“

„Hvað meinarðu?“ krotaði Harry og sullaði bleki á blaðið í æsingi.

„Ég á við að þessi dagbók býr yfir hræðilegum leyndardómum. Atburðum sem var haldið leyndum. Atburðum sem gerðust í Hogwart – skóla galdra og seiða.“

„Ég er þar núna,“ flýtti Harry sér að skrifa. „Ég er í Hogwartskóla og hræðilegir atburðir hafa átt sér stað. Veist þú eitthvað um leyniklefann?“

Hjartað barðist í brjósti hans. Trevor svaraði um hæl og skriftin varð hroðvirknislegri eins og hann væri að flýta sér að skrifa allt sem hann vissi.

„Auðvitað veit ég um leyniklefann. Þegar ég gekk í skólann var okkur sagt að þetta væri þjóðsaga og að leyniklefinn væri ekki til. En það var lygi. Þegar ég var á fimmta ári var leyniklefanum lokið upp og skrímslið réðst á nokkra nemendur og drap að lokum einn þeirra. Ég handsamaði þann sem hafði opnað klefann og hann var rekinn. En skólastjórinn, Dippet prófessor, blygðaðist sín svo fyrir að slíkt skyldi eiga sér stað í Hogwartskóla að hann fyrirbauð mér að segja sannleikann. Sú saga var látin berast að stúlkan hefði dáið af slysförum. Mér var færður fallegur, gljáandi verðlaunaskjöldur fyrir vikið og harðbannað að segja frá því sem hafði gerst. En ég vissi að þetta gæti gerst aftur. Skrímslið var enn á lífi og sá sem gat leyst það úr viðjum var ekki bak við lás og slá.“

Harry flýtti sér svo við að svara að það munaði engu að hann velti blekbyttunni um koll.

„Það er að gerast aftur núna. Það hafa verið gerðar þrjár árásir og enginn virðist vita hver stendur á bak við þær. Hver var það síðast?“

„Ég get sýnt þér það ef þú vilt,“ var svar Trevors. „Þú getur séð það með eigin augum. Ég get tekið þig inn í minningar mínar um nóttina sem ég náði honum.“

Harry hikaði með fjöðurstafinn á lofti. Hvað átti Trevor við? Hvernig gat hann komist inn í minningar einhvers annars? Hann leit taugaóstyrkur í áttina að dyrum svefnsalarins sem urðu æ ógreinilegri í rökkrinu. Þegar hann leit aftur á dagbókina sá hann ný orð myndast.

„Leyfðu mér að sýna þér hvað gerðist.“

Harry hikaði brot úr sekúndu og skrifaði síðan þrjú orð.

„Allt í lagi.“

Blaðsíðurnar í dagbókinni byrjuðu að feykjast til eins og fyrir miklum vindi og stöðvuðust við miðjan júní. Harry gapti þegar hann sá að blaðið fyrir 13. júní virtist hafa breyst í agnarlítinn sjónvarpsskjá. Hendur hans skulfu lítið eitt þegar hann lyfti

bókinni og bar augað upp að litla glugganum. Áður en hann vissi af hallaðist hann fram á við, skjárinn stækkaði, hann fann að líkami hans lyftist upp af rúminu og honum var varpað með höfuðið á undan inn í opið á blaðsíðunni; inn í hringiðu lita og skugga.

Hann fann að hann lenti traustum fótum á jörðinni og stóð skjálfandi á beinunum þar til óljósar skuggamyndirnar í kringum hann urðu allt í einu skýrar.

Hann vissi samstundis hvar hann var staddur. Hringlaga herbergið með sofandi málverkunum var skrifstofa Dumbledores … en það var ekki Dumbledore sem sat fyrir aftan skrifborðið. Skorpinn, veik byggður galdramaður sat og las bréf við kertaljós. Hann var sköllóttur fyrir utan nokkrar hvítar hárlýjur. Harry hafði aldrei séð þennan mann áður.

„Afsakaðu,“ sagði hann skjálfraddaður. „Ég ætlaði ekki að ryðjast svona inn …“

En galdramaðurinn leit ekki upp. Hann hélt áfram að lesa og hnyklaði brýnnar dálítið. Harry færði sig nær borðinu og stamaði: „É– ég fer bara, er það ekki?“

Galdramaðurinn gaf honum engan gaum. Hann virtist ekki einu sinni heyra til hans. Harry hélt að galdramaðurinn gæti verið heyrnardaufur svo hann brýndi raustina.

„Fyrirgefðu að ég truflaði. Ég fer núna," hálfhrópaði hann. Galdramaðurinn braut bréfið saman og andvarpaði. Hann stóð upp, gekk framhjá Harry án þess að virða hann viðlits og dró tjöldin fyrir gluggann.

Himinninn fyrir utan var blóðrauður. Sólin virtist vera að setjast. Galdramaðurinn gekk aftur að skrifborðinu, settist niður, fléttaði fingur og fylgdist með dyrunum.

Harry leit í kringum sig á skrifstofunni. Fönixinn var hvergi sjáanlegur … engin klingjandi silfurtæki. Þetta var Hogwartskóli á tímum Trevors. Og það þýddi að þessi ókunnugi galdramaður var skólastjórinn, en ekki Dumbledore. Og Harry sjálfur var bara eins og hver önnur vofa, algjörlega ósýnilegur þessu fólki sem hafði verið uppi fyrir fimmtíu árum.

Það var barið að dyrum.

„Kom inn," sagði gamli galdramaðurinn veikri röddu.

Um það bil sextán ára gamall strákur kom inn og tók ofan oddmjóan hatt. Það glampaði á silfurmerki umsjónarmanns í barminum. Hann var miklu hærri en Harry en með kolsvart hár eins og hann.

„Sæll, Trevor,“ sagði skólameistarinn.

„Þú vildir hitta mig, Dippet prófessor?“ sagði Trevor. Hann virtist taugaóstyrkur.

„Sestu niður,“ sagði Dippet. „Ég var að lesa bréfið sem þú sendir mér.“

„Ó,“ sagði Trevor. Hann settist niður og spennti greipar svo að hnúarnir hvítnuðu.

„Drengur minn,“ sagði Dippet vingjarnlega, „ég get ómögulega leyft þér að dvelja í skólanum yfir sumartímann. Þú hlýtur að vilja fara heim í fríinu, er það ekki?“

„Nei,“ sagði Trevor snöggt. „Ég vil miklu frekar vera í Hogwartskóla, en að fara aftur á þetta … á þetta …“

„Þú býrð á Muggamunaðarleysingjahæli í fríum, skilst mér?“ sagði Dippet forvitinn.

„Já, herra,“ sagði Trevor og roðnaði lítillega.

„Ertu af Muggaættum?“

„Að hálfu leyti, herra,“ sagði Trevor. „Ég á Muggaföður en móðir mín var galdranorn.“

„Og eru báðir foreldrar þínir …?“

„Móðir mín dó rétt eftir að ég fæddist, herra. Mér var sagt á munað arleysingjahælinu að hún hefði gefið mér nafn áður en hún dó … Trevor í höfuðið á föður mínum, Delgome í höfuðið á afa mínum.“

Dippet skellti vorkunnsamur í góm.

„Þannig er mál með vexti, Trevor,“ sagði hann og andvarpaði, „að við hefðum getað gert undantekningu í þínu tilviki, en við núverandi aðstæður …“

„Þú átt við allar þessar árásir, herra?“ sagði Trevor. Hjarta Harrys tók kipp og hann færði sig nær; hræddur um að missa af einhverju. „Einmitt,“ sagði skólastjórinn. „Drengur minn, þú hlýtur að skilja hve heimskulegt það væri af mér að leyfa þér að dvelja í kastalanum eftir að önninni lýkur. Sérstaklega í ljósi nýliðins atburðar … dauða vesalings litlu stúlkunnar … Þú verður miklu öruggari á munaðarleysingjahælinu. Raunar er galdramálaráðuneytið jafnvel að íhuga að loka skólanum. Okkur hefur ekki tekist að finna … hm … orsök þessara óþæginda …“

Augu Trevors þöndust út.

„Herra … ef hann næðist … ef þetta hætti …“

„Hvað áttu við?“ sagði Dippet skrækróma og hann rétti sig upp í stólnum. „Trevor, veistu eitthvað um þessar árásir?“
„Nei, herra,“ sagði Trevor strax.

En Harry var viss um að þetta var svipað „nei“ og hann hafði sjálfur sagt við Dumbledore.

Dippet lét fallast aftur á bak í stólinn og virtist dálítið vonsvikinn. „Þú mátt fara, Trevor …“

Trevor renndi sér niður af stólnum og hengslaðist út úr herberginu. Harry fylgdi honum eftir.

Þeir fóru niður snúningsstigann og komu út við steinstyttuna í rökkvuðum ganginum. Trevor nam staðar; Harry líka og fylgdist með honum. Harry varð ljóst að Trevor var í þungum þönkum. Hann beit á vörina og setti í brýnnar.

Svo var eins og hann tæki skyndilega ákvörðun. Hann flýtti sér af stað og Harry leið hljóðlega á eftir honum. Þeir mættu engum fyrr en þeir komu í forsalinn og stór galdramaður með sítt, flaksandi rauðbrúnt hár og skegg kallaði á Trevor úr marmaratröppunum.

„Hvaða ferðalag er á þér svona seint, Trevor?“

Harry glápti á galdramanninn. Þetta var enginn annar en Dumbledore fyrir fimmtíu árum.

„Ég þurfti að ræða við skólastjórann, herra,“ sagði Trevor.

„Jæja, flýttu þér í rúmið,“ sagði Dumbledore og sendi Trevor sama stingandi augnaráðið og Harry þekkti svo vel. „Það er

eins gott að vera ekki að flækjast um gangana þessa dagana. Ekki eftir að …“

Hann stundi þungan, bauð Trevor góða nótt og skálmaði í burt. Trevor fylgdist með honum hverfa úr augsýn og hraðaði sér síðan niður steinþrepin í áttina að dýflissunum með Harry á hælunum.

En Harry til mikilla vonbrigða leiddi Trevor hann ekki inn í falinn gang eða leynileg jarðgöng heldur inn í dýflissuna þar sem töfrad rykkjakennslan hjá Snape fór fram. Það hafði ekki verið kveikt á kyndlunum og þegar Trevor hallaði hurðinni næstum því að stöfum gat Harry með naumindum greint hann, þar sem hann stóð hreyfingarlaus og fylgdist með ganginum fyrir utan.

Harry fannst þeir standa þarna í að minnsta kosti klukkustund. Það eina sem hann sá var skuggamyndin af dyrunum. Þegar Harry var hættur að bíða eftir að eitthvað gerðist og var farinn að óska þess að hann gæti snúið aftur til nútíðarinnar heyrði hann að eitthvað var á hreyfingu handan við dyrnar.

Einhver læddist eftir ganginum. Hann heyrði að sá sem var þar á ferð fór framhjá dýflissunni þar sem hann og Trevor voru í felum. Trevor smeygði sér þögull eins og skuggi út um dyrnar og fylgdi á eftir. Harry læddist á tánum á eftir honum. Hann hafði steingleymt að enginn heyrði til hans.

Þeir fylgdu fótatakinu í um það bil fimm mínútur, þar til Trevor nam skyndilega staðar og leit í þá átt sem ný hljóð bárust úr. Harry heyrði marr í hurð sem opnaðist og einhver hvíslaði hásum rómi:

„Komdu, ég verð að koma þér héðan. Komdu nú ofan í kassann …“ Það var eitthvað kunnuglegt við þessa rödd.

Allt í einu stökk Trevor fyrir hornið. Harry elti. Hann greindi út línur risavaxins drengs sem beygði sig niður við opnar dyr og til hliðar stóð gríðarstór kassi.

„Góða kvöldið, Rubeus,“ sagði Trevor hvassri röddu. Drengurinn skellti aftur hurðinni og stóð upp.

„Hvað ertu að gera hérna niðri, Trevor?“ Trevor gekk nær.

„Þessu er lokið,“ sagði hann. „Ég verð að segja til þín, Rubeus. Það er verið að tala um að loka Hogwartskóla ef árásunum fer ekki að linna.“

„Hvað veist þú …“

„Ég er viss um að það var ekki ætlun þín að drepa neinn. En ófreskjur eru ekki góð gæludýr. Ég geri ráð fyrir að þú hafir sleppt henni út til að teygja úr sér og …“

„Hún hefur ekki drepið neinn,“ sagði hávaxni drengurinn og hörfaði aftur á bak að lokuðum dyrunum. Að baki sér heyrði Harry einkenni legt skrjáf og smelli.

„Svona nú, Rubeus,“ sagði Trevor og færði sig enn nær. „Foreldrar dánu stúlkunnar koma hingað á morgun. Það minnsta sem Hogwart skóli getur gert er að sjá um að skrímslið sem varð dóttur þeirra að bana verði drepið.“

„Það var ekki hann,“ öskraði drengurinn og röddin bergmálaði í dimmum ganginum. „Hann myndi aldrei …! Aldrei!“

„Farðu frá,“ sagði Trevor og dró fram töfrasprotann sinn.

Galdurinn hans lýsti ganginn skyndilega. Dyrnar fyrir aftan hávaxna strákinn skullu upp af svo miklu afli að hann þeyttist upp að veggnum. Út um dyrnar kom eitthvað sem fékk Harry til að reka upp langt skerandi vein sem enginn heyrði …

Hann sá gríðarstóran, stuttfættan, loðinn líkama, flækju af svörtum fótum; glampa úr ótal augum og hárbeittar griptangir – Trevor hóf töfrasprotann aftur á loft en hann var of seinn. Ófreskjan felldi hann um koll um leið og hún tók til fótanna eftir ganginum og hvarf úr augsýn. Trevor brölti á fætur. Hann horfði á eftir henni og lyfti upp töfra sprotanum en stórvaxni drengurinn stökk á hann, greip töfrasprotann, sló Trevor niður á ný og hrópaði: „Neeeiiiiiiiii!“

Umhverfið byrjaði að hringsnúast og það varð niðdimmt; Harry fann hvernig hann hrapaði og lenti með brauki og bramli á himinsænginni sinni í svefnsalnum með dagbók Trevors opna á maganum.

Áður en hann náði aftur andanum opnuðust dyrnar að svefnsalnum og Ron kom inn.

„Þarna ertu,“ sagði hann.

Harry settist upp. Hann skalf og var rennsveittur.

„Hvað er að?“ sagði Ron umhyggjusamur.

„Það var Hagrid, Ron. Hagrid opnaði leyniklefann fyrir fimmtíu árum.“

# Fjórtándi kafli

# Cornelius Fudge

Harry, Ron og Hermione vissu vel að Hagrid hafði alltaf haft óheppilegt dálæti á stórum og ferlegum skepnum. Fyrsta árið þeirra í skólanum hafði hann reynt að ala upp dreka í litla timburkofanum sínum og þess yrði langt að bíða að þau gleymdu ógurlega þríhöfða hundinum sem hann hafði skírt „Hnoðra“. Og ef Hagrid hafði sem drengur heyrt að einhvers staðar í kastalanum væri falið skrímsli var Harry viss um að hann hefði látið einskis ófreistað til að finna það. Honum hafði eflaust þótt skömm að því að loka skrímslið svona lengi inni og fundist það eiga skilið að komast út og teygja úr öllum fótunum. Harry sá Hagrid ljóslifandi fyrir sér, þrettán ára að reyna að setja hálsband og ól á dýrið. En um leið var hann handviss um að Hagrid hafði aldrei ætlað að vinna neinum mein.

Harry óskaði þess næstum að hann hefði aldrei komist að því hvernig hægt var að hafa samskipti við Trevor í gegnum

dagbókina hans. Ron og Hermione báðu hann aftur og aftur að segja sér hvað hafði gerst þar til hann var orðinn hræðilega leiður á sögunni og tilgangslausum samræðunum sem fylgdu í kjölfarið.

„Kannski handsamaði Trevor ekki rétta manninn," sagði Hermione.

„Kannski var eitthvert annað skrímsli að ráðast á nemendurna …" „Hvað heldurðu að kastalinn rúmi mörg skrímsli?" sagði Ron dauflega.

„Við höfum alltaf vitað að Hagrid var rekinn," sagði Harry vesældarlega. „Og árásirnar hljóta að hafa hætt eftir að Hagrid var rekinn, annars hefði Trevor ekki fengið verðlaunin." Ron tók annan pól í hæðina.

„Finnst ykkur Trevor ekki hljóma eins og Percy – og hver bað hann svo sem um að koma upp um Hagrid?"

„En skrímslið drap nemanda, Ron," sagði Hermione.

„Og Trevor hefði þurft að fara aftur á Muggamunaðarleysingjahælið ef þeir hefðu lokað

Hogwartskóla,“ sagði Harry. „Það er ekki nema von að hann hafi frekar viljað vera hér …“

„Þú hittir Hagrid í Hlykkjasundi, var það ekki, Harry?“

„Hann var að kaupa fælu fyrir kjötætusnigla,“ sagði Harry fljótmæltur.

Þau setti hljóð. Eftir langa þögn orðaði Hermione hikandi spurningu sem brann á þeim öllum.

„Finnst ykkur að við ættum að fara og spyrja Hagrid um þetta allt?“

„Það yrði skemmtileg heimsókn,“ sagði Ron. „Halló, Hagrid. Hefur þú sleppt einhverju brjáluðu, loðnu dýri lausu í kastalanum nýlega?“

Að lokum ákváðu þau að segja ekkert við Hagrid nema önnur árás yrði gerð í skólanum. Eftir því sem dagarnir liðu án þess að dularfulla röddin hvíslaði urðu þau vonbetri um að þurfa aldrei að minnast á brottreksturinn úr skólanum við hann. Það voru liðnir næstum fjórir mánuðir frá árásinni á Justin og Næstum hauslausa Nick, og allir virtust halda að

ofsækjandinn væri horfinn fyrir fullt og allt. Peeves varð á endanum leiður á að söngla: Að heita Potter, það ekki gott er. Dag nokkurn bað Ernie Macmillan Harry kurteislega að rétta sér fötu með stökkvandi hattsveppum í jurtafræði. Dag einn í mars héldu nokkrar Alrúnanna villt og hávaðasamt partí í gróðurhúsi þrjú. Það gladdi Spíru prófessor ósegjanlega.

„Við vitum að þær eru orðnar fullþroskaðar þegar þær fara að reyna að komast ofan í pottana hver hjá annarri," sagði hún Harry. „Þá ættum við að geta endurlífgað vesalings fórnarlömbin í sjúkrahúsálmunni."

Annars árs nemarnir fengu um nóg annað að hugsa í páskafríinu. Það var kominn tími til að velja námsgreinar fyrir þriðja árið. Það var nokkuð sem Hermione tók mjög alvarlega.

„Þetta gæti haft áhrif á alla framtíð okkar," sagði hún við Harry og Ron þar sem þau sökktu sér niður í listann með nýju námsgreinunum og merktu við sumar með krossi.

„Mig langar mest að hætta í töfradrykkjum," sagði Harry.

„Við getum það ekki,“ sagði Ron niðurdreginn. „Við verðum að halda áfram í þeim greinum sem við erum í, annars hefði ég losað mig við varnir gegn myrku öflunum.“

„En þær eru með því mikilvægasta,“ sagði Hermione hneyksluð.

„Ekki þegar Lockhart kennir,“ sagði Ron. „Ég hef ekki lært neitt nema að maður á aldrei að sleppa smáálfum lausum.“

Neville Longbottom hafði fengið bréf frá öllum galdramönnunum og nornunum í ættinni. Öll vildu þau ráðleggja honum um hvaða námsg reinar væri skynsamlegast að velja. Neville las listann ringlaður og áhyggjufullur með tunguna í munnvikinu og spurði hin hvort þau héldu að talnagaldrar væru erfiðari en fornar rúnir. Dean Thomas, sem hafði eins og Harry alist upp hjá Muggum, gafst upp. Hann lokaði augunum og lét sprotann sinn reika um blaðið og valdi þær greinar sem hann lenti á. Hermione þáði engin ráð heldur skráði sig í allar námsgreinarnar.

Harry brosti biturlega með sjálfum sér við tilhugsunina um hvað Vernon frændi og Petunia frænka segðu ef hann kæmi til þeirra að ræða við þau um starfsframa sinn sem

galdramaður. Þó fór það aldrei svo að hann fengi ekki leiðsögn: Percy Weasley vildi gjarnan deila reynslu sinni með honum.

„Þetta fer allt eftir því hvert þú stefnir, Harry," sagði hann. „Það er aldrei of snemmt að huga að framtíðinni, þess vegna myndi ég stinga upp á spádómum. Sumir segja að Muggafræði séu mjög auðveld náms grein, en persónulega finnst mér að galdrafólk eigi að reyna að öðlast skilning á galdralausa samfélaginu, sérstaklega ef það er að hugsa um að vinna í nánu samneyti við Muggana – sjáðu bara föður minn, hann þarf stöðugt að taka á alls konar Muggamálum. Bróðir minn, Charlie, hann hefur alltaf verið meiri útivistartýpa, þess vegna valdi hann að læra umönnun galdraskepna. Þetta fer allt eftir því hverjar þínar sterku hliðar eru, Harry."

En það eina sem Harry fannst hann ráða almennilega við var Quidditch. Að lokum valdi hann sömu greinar og Ron og hugsaði sem svo að ef hann væri lélegur í þeim þá hefði hann í það minnsta vin sinn sér til stuðnings.

Næsti Quidditchleikur Gryffindor var á móti Hufflepuff. Oliver krafðist þess að æft væri á hverju kvöldi eftir kvöldmat sem

þýddi að Harry hafði ekki tíma fyrir annað en Quidditch og heimaverkefni. En æfingarnar gengu sífellt betur, eða í það minnsta stytti upp og þegar hann fór upp í svefnsalinn með kústinn sinn kvöldið fyrir leikinn hafði hann á tilfinningunni að líkurnar á að Gryffindor ynni Quidditch bikarinn hefðu aldrei verið jafn miklar.

En góða skapið entist ekki lengi. Uppi á stigaskörinni mætti hann Neville Longbottom sem var viti sínu fjær.

„Harry – ég veit ekki hver gerði þetta – ég var bara að koma –“ Hann fylgdist óttasleginn með Harry og opnaði dyrnar á svefnsalnum upp á gátt.

Eigur Harry höfðu verið rifnar upp úr koffortinu og þeim fleygt út um allt. Skikkjan hans lá rifin á gólfinu. Rúmfötin höfðu verið tætt af rúminu, skúffan á náttborðinu hans var dregin út og innihaldinu hafði verið dreift yfir dýnuna.

Harry gekk opinmynntur að rúminu og steig ofan á nokkrar lausar blaðsíður úr Trítlað með tröllum. Á meðan hann og Neville voru að búa um rúmið á ný komu Ron, Dean og Seamus inn. Dean sótbölvaði.

„Hvað gerðist, Harry?“

„Hef ekki hugmynd,“ sagði Harry. En Ron skoðaði skikkjuna hans Harrys nánar. Öllum vösunum hafði verið snúið við.

„Sá sem gerði þetta hefur verið að leita að einhverju,“ sagði Ron.

„Vantar eitthvað?“

Harry fór að tína hlutina saman og setja þá í koffortið sitt. Það var ekki fyrr en hann fleygði síðustu Lockhartbókinni ofan í koffortið að hann áttaði sig á því hvað vantaði.

„Dagbókin hans Trevors er horfin,“ sagði hann í lágum hljóðum við Ron.

„Ha?“

Harry kinkaði kolli í átt að dyrunum og Ron elti hann út. Þeir flýttu sér niður í næstum mannlausa setustofuna þar sem þeir fundu Hermione sem sat ein og las bók sem nefndist Fornar rúnir fyrir byrjendur.

Hermione virtist skelfingu lostin þegar þeir sögðu henni hvað hafði gerst.

„En – það hefði enginn getað stolið henni annar en Gryffindornemi – engir aðrir vita leyniorðið okkar –“ „Einmitt,“ sagði Harry.

Þau vöknuðu næsta morgun við glaðasólskin og hressandi golu.

„Þetta eru fullkomin Quidditchskilyrði,“ sagði Oliver fullur eldmóðs við Gryffindorborðið og skóflaði hrærðum eggjum á diska allra liðsmannanna. „Harry, hresstu þig nú við. Þú þarft á almennilegum morgunverði að halda.“

Harry hafði setið og starað niður eftir þéttsetnu Gryffindorborðinu og velt því fyrir sér hvort hann sæti til borðs með nýjum eiganda dagbókarinnar hans Trevors. Hermione hafði hvatt hann til að tilkynna stuldinn en Harry var ekki hrifinn af þeirri hugmynd. Hann þyrfti þá að segja einhverjum kennaranum frá öllu í sambandi við dagbókina. Og hve margir vissu af hverju Hagrid hafði verið rekinn fimmtíu árum áður? Hann vildi ekki verða til þess að sú saga kæmist aftur í hámæli.

Þegar hann yfirgaf Stóra salinn ásamt Ron og Hermione til að ná í Quidditchdótið bættist enn eitt áhyggjuefnið á mæðulista Harrys sem lengdist jafnt og þétt. Hann hafði aðeins stigið fæti á neðsta þrepið í marmaratröppunum þegar hann heyrði röddina …

„Drepa í þetta skiptið … láttu mig rífa … slíta …“

Hann hrópaði upp yfir sig og Ron og Hermione stukku frá honum af einskærri skelfingu.

„Röddin!“ sagði Harry og leit um öxl. „Ég heyrði hana aftur … heyrðuð þið ekkert?“

Ron hristi hausinn, stóreygður. En Hermione sló allt í einu hendi á enni sér.

„Harry – ég held að ég hafi uppgötvað dálítið! Ég verð að fara á bókasafnið!“

Og svo stökk hún af stað upp tröppurnar.

„Hvað ætli hún hafi uppgötvað?“ sagði Harry ringlaður og leit í allar áttir til að reyna að átta sig á því hvaðan röddin hefði komið.

„Að minnsta kosti meira en ég,“ sagði Ron og hristi hausinn.

„En af hverju þarf hún að fara á bókasafnið?“

„Þannig er Hermione,“ sagði Ron og yppti öxlum. „Þegar hún er í vafa fer hún og flettir upp í einhverri bók.“

Harry dokaði við og reyndi að hlusta eftir röddinni en nú streymdu nemendurnir skvaldrandi út úr Stóra salnum á leiðinni út á Quidditchvöllinn.

„Þú ættir að fara að koma þér af stað,“ sagði Ron. „Klukkan er að verða ellefu – leikurinn –“

Harry þaut upp í Gryffindorturn, náði í Nimbus 2000-kústinn sinn og slóst svo í hóp með fjölmenninu sem flykktist yfir skólalóðirnar. En hugurinn hvarflaði í sífellu heim til kastalans og líkamslausu raddarinnar og þegar hann stóð í búningsherberginu og klæddi sig í skarlatsrauðu keppnisskikkjuna var það eina huggun hans að allir

nemendurnir voru samankomnir á vellinum til að horfa á leikinn.

Ærandi fagnaðarlæti brutust út þegar liðin gengu út á völlinn. Oliver Wood hóf sig á loft og tók upphitunarhring í kringum markstangirnar; fröken Hooch sleppti boltunum lausum. Hufflepuffliðið, sem spilaði í ljósgulum búningi, stóð í hnapp og ræddi leikaðferðir.

Harry var að setjast á kústinn þegar McGonagall prófessor kom hálfhlaupandi inn á völlinn með risastórt, fjólublátt gjallarhorn í hendinni.

Harry varð ekki um sel.

„Leiknum hefur verið aflýst," kallaði McGonagall prófessor í gjallar hornið yfir þéttsetinn leikvanginn. Það var baulað og púað. Oliver Wood virtist alveg eyðilagður. Hann lenti og hljóp í áttina að McGonagall með kústinn á milli fótanna.

„En, prófessor," hrópaði hann. „Við verðum að spila … bikarinn … Gryffindor … "

McGonagall prófessor lést ekki sjá hann og hélt áfram að hrópa í gjallarhornið:

„Allir nemendur skulu fara beinustu leið í setustofur heimavistar sinnar þar sem yfirmaður heimavistarinnar mun gefa frekari upplýsingar. Hraðið ykkur af stað!“

Hún lét gjallarhornið síga og benti Harry að koma til sín.

„Ég held að það sé best að þú komir með mér, Harry …“

Harry furðaði sig á því hvernig hún gæti mögulega grunað hann í þetta skiptið og sá Ron koma hlaupandi út úr óánægðum áhorfendaskaranum. Hann slóst í hóp með þeim á leiðinni í kastalann. Harry til mikillar undrunar mótmælti McGonagall prófessor ekki. „Já, það er líklega best að þú komir líka, Ron …“

Nokkrir nemendanna, sem höfðu þyrpst að, kvörtuðu gremjulega yfir því að leiknum hafði verið aflýst en aðrir voru áhyggjufullir á svip. Harry og Ron eltu McGonagall prófessor inn í skólann og upp marmaratröppurnar. En í þetta sinn var þeim ekki vísað inn á eina af kennara skrifstofunum.

„Þetta verður eflaust dálítið áfall,“ sagði McGonagall óvenju blíðlega þegar þau nálguðust sjúkrahúsálmuna. „Það hefur átt sér stað önnur árás … önnur árás á tvo í einu.“

Harry varð flökurt af skelfingu. McGonagall opnaði dyrnar og Harry og Ron gengu inn.

Fröken Pomfrey stóð bogin yfir fimmta árs nema, stelpu með sítt, liðað hár. Harry þekkti hana aftur; þetta var Ravenclawnemandinn sem þeir höfðu óvart beðið að vísa sér leiðina til setustofu Slytherin. Og á rúminu við hliðina á henni lá – „Hermione!“ stundi Ron.

Hermione lá grafkyrr, augun opin og frosin.

„Þær fundust nálægt bókasafninu,“ sagði McGonagall prófessor. „Þið getið víst ekki sagt mér hvað þetta er? Hann lá á gólfinu við hliðina á þeim …“

Hún sýndi þeim lítinn, hringlaga spegil.

Harry og Ron hristu báðir höfuðið og störðu á Hermione.

„Ég fylgi ykkur aftur í Gryffindorturninn,“ sagði McGonagall þunglega. „Ég þarf hvort eð er að ávarpa nemendurna.“

„Allir nemendur skulu hér eftir vera komnir í setustofu heimavistar sinnar klukkan sex á kvöldin. Enginn nemandi hefur leyfi til að yfirgefa heimavistina eftir það. Þið munuð sækja kennslustundir í fylgd kennara. Enginn nemandi má fara á klósettið nema í fylgd kennara.

Öllum frekari Quidditchæfingum og leikjum er frestað um óákveð inn tíma. Engar uppákomur eru leyfðar á kvöldin.“

Gryffindornemendurnir sátu þétt saman og hlustuðu þögulir á McGonagall prófessor. Hún rúllaði upp pergamentinu sem hún hafði lesið af og sagði hálfkæfðri röddu: „Ég þarf víst ekki að bæta því við að ég hef varla nokkurn tíma verið svona miður mín. Það er ekki ólíklegt að skólanum verði lokað, finnist sökudólgurinn ekki fljótlega. Ég vil hvetja hvern þann sem telur sig vita eitthvað um málið til að gefa sig fram.“

Hún klifraði með dálitlum erfiðismunum út um gatið á bak við málverkið. Hún var ekki fyrr farin en allir byrjuðu að tala hver í kapp við annan.

„Þá eru tveir Gryffindornemendur fallnir fyrir utan Gryffindordrauginn, einn frá Ravenclaw og einn Hufflepuffnemandi,“ sagði Lee Jordan, vinur Weasleybræðranna, og taldi á fingrum sér. „Hefur enginn kennaranna tekið eftir því að Slytherinkrakkarnir hafa alveg sloppið? Er ekki augljóst að þetta er allt komið frá Slytherin? Arftaki Slytherins, Slytherinskrímslið – af hverju reka þau ekki bara alla Slytherink rakkana úr skólanum?“ öskraði hann og uppskar klapp og blístur nokkurra viðstaddra.

Percy Weasley sat á stól fyrir aftan Lee en í þetta skiptið virtist hann ekki áfjáður í að koma skoðunum sínum á framfæri. Hann var fölur og virtist furðu lostinn.

„Percy fékk áfall,“ sagði George lágum rómi við Harry. „Ravenclawstelpan – Penelope Clearwater – er umsjónarmaður. Hann hefur áreiðanlega haldið að skrímslið myndi ekki voga sér að ráðast á umsjónarmann.“

En Harry heyrði varla til hans. Myndin af Hermione stóð honum enn ljóslifandi fyrir hugskotssjónum, þar sem hún lá í sjúkrarúminu eins og líflaus stytta. Og ef sökudólgurinn næðist ekki fljótlega átti hann í vændum lífstíðarvist hjá Dursleyfjölskyldunni. Trevor Delgome hafði sagt til Hagrids af

því hann sá fram á að fara aftur á Mugga munaðarleysingjahæli ef skólanum yrði lokað. Harry skildi núna hvernig honum hafði verið innanbrjósts.

„Hvað eigum við að gera?“ hvíslaði Ron í eyrað á Harry. „Heldur þú að þau gruni Hagrid?“

„Við verðum að fara og tala við hann,“ sagði Harry ákveðinn. „Ég trúi ekki að hann standi á bak við þetta núna, en ef hann sleppti skrímslinu lausu síðast, þá veit hann hvernig á að komast inn í leyniklefann, og það er byrjunin.“

„En McGonagall sagði að við yrðum að vera inni á heimavistinni nema þegar við þurfum að sækja tíma …“

„Ég held,“ sagði Harry svo lágróma að varla heyrðist til hans, „að það sé kominn tími til að taka fram gömlu skikkjuna hans pabba.“

Harry hafði aðeins erft einn hlut eftir föður sinn: Síða og silfurlita huliðsskikkju. Hún ein gat gert þeim kleift að læðast út úr skólanum til að heimsækja Hagrid án þess að nokkur kæmist að því. Þeir fóru í rúmið á venjulegum tíma og biðu þar til Neville, Dean og Seamus voru hættir að ræða

leyniklefann og sofnaðir. Þá læddust þeir fram úr, klæddu sig aftur og köstuðu huliðsskikkjunni yfir sig.

Það var ekki mikil skemmtun að læðast um myrkvaðan og eyðilegan kastalann. Harry hafði áður ráfað um kastalann að nóttu til en aldrei séð svona marga á ferli eftir sólsetur. Kennarar, umsjónarmenn og draugar stóðu á verði á göngunum, tveir og tveir saman, og skimuðu í kringum sig eftir einhverju óvenjulegu. Huliðsskikkjan kom ekki í veg fyrir að í þeim heyrðist; eitt spennuþrungið andartak héldu þeir að heyrst hefði til þeirra þegar Ron rak tána í eitthvað, aðeins nokkra metra frá staðnum þar sem Snape stóð vörð. Til allrar hamingju hnerraði Snape í sömu andrá og Ron bölvaði óláni sínu. Þeim létti því mikið þegar þeir komu að þungu eikarhurðinni og opnuðu hana varlega.

Þetta var stjörnubjart kvöld. Þeir hröðuðu sér í átt að upplýstum gluggunum á kofa Hagrids og drógu ekki af sér skikkjuna fyrr en þeir stóðu fyrir utan útidyrnar hjá honum.

Andartaki eftir að þeir höfðu bankað var hurðinni svipt upp á gátt og þeir stóðu augliti til auglitis við uppspenntan lásboga Hagrids. Veiðihundurinn, Tryggur, gelti hátt fyrir aftan hann.

„Ó,“ sagði Hagrid, lét bogann síga og starði á þá. „Hvað eruð þið að gera hér?“

„Hvað á þetta að þýða?“ sagði Harry og benti á lásbogann um leið og þeir gengu inn.

„Ekkert … ekkert …“ muldraði Hagrid. „Ég átti von á … skiptir engu … Setjist þið … Ég skal hita te …“

Hann virtist alls ekki hafa hugann við það sem hann var að gera. Það munaði engu að hann slökkti í arninum þegar hann hellti vatninu úr katlinum yfir eldinn og síðan mölbraut hann tekönnuna þegar gríðarstórar hendurnar kipptust til af taugaveiklun.

„Er allt í lagi með þig, Hagrid?“ spurði Harry. „Fréttirðu hvað kom fyrir Hermione?“

„Ó, já, ég frétti það,“ sagði Hagrid og röddin brast örlítið.

Hann gaut augunum í sífellu taugaspenntur í áttina að gluggunum. Hann rétti þeim stórar könnur fullar af sjóðandi vatni (hann hafði gleymt að setja tepoka út í) og var að setja

þykka sneið af ávaxtaköku á disk þegar barið var harkalega að dyrum.

Hagrid missti ávaxtakökuna. Harry og Ron litu skelfingu lostnir hvor á annan, fleygðu yfir sig huliðsskikkjunni og læddust út í horn. Hagrid fullvissaði sig um að þeir sæjust ekki áður en hann greip lásbogann sinn og svipti hurðinni upp á nýjan leik.

„Gott kvöld, Hagrid.“

Þetta var Dumbledore. Hann gekk inn, grafalvarlegur á svip, og á hæla hans kom annar mjög sérkennilega útlítandi maður.

Sá ókunnugi var með úfið, grátt hár og kvíðasvip á andlitinu. Hann var klæddur í undarlegasta samtíning af fötum: röndótt jakkaföt, fjólublátt bindi, síða, svarta skikkju og támjó, fjólublá stígvél. Undir handleggnum hélt hann á ljósgrænum kúluhatti.

„Þetta er yfirmaður pabba!“ hvíslaði Ron. „Cornelius Fudge, galdra málaráðherra!“

Harry gaf Ron olnbogaskot til að fá hann til að þegja.

Hagrid var orðinn náfölur og sveittur. Hann lét fallast ofan í einn af stólunum sínum og leit af Dumbledore á Cornelius Fudge.

„Slæmt, Hagrid,“ sagði Fudge sem talaði í mjög stuttum setningum. „Mjög slæmt. Varð að koma. Fjórar árásir á nemendur sem komnir eru af Muggum. Þetta hefur gengið of langt. Ráðuneytið verður að grípa inn í.“

„Ég myndi aldrei,“ sagði Hagrid og leit bænaraugum á Dumbledore. „Þú veist að ég myndi aldrei, herra Dumbledore prófessor …“

„Ég vona að það sé ljóst, Cornelius, að ég treysti Hagrid fullkomlega,“ sagði Dumbledore og yggldi sig framan í Fudge.

„Sjáðu til, Albus,“ sagði Fudge sem leið greinilega óþægilega.

„Hagrid hefur áður brotið af sér. Ráðuneytið verður að aðhafast eitthvað … yfirstjórn skólans hafði samband …“

„Ég endurtek, Cornelius, það mun ekki breyta neinu að vísa Hagrid á brott,“ sagði Dumbledore. Í augum hans logaði eldur sem Harry hafði aldrei séð áður.

„Reyndu að sjá þetta frá mínu sjónarhorni,“ sagði Fudge og fitlaði við kúluhattinn. „Ég er undir miklu álagi. Ég verð að láta sjást að ég sé að gera eitthvað í málinu. Ef það kemur í ljós að Hagrid er saklaus getur hann komið aftur, laus allra mála. En ég verð að fara með hann. Verð. Það er skylda mín …“

„Fara með mig?“ sagði Hagrid og skalf ákaflega. „Hvert?“

„Bara í stuttan tíma,“ sagði Fudge og forðaðist að líta á Hagrid.

„Þetta er ekki refsing, Hagrid, líttu frekar á það sem varúðarráðstöfun. Ef við gómum einhvern annan verður þér að sjálfsögðu sleppt úr haldi og þú beðinn afsökunar …“ „Ekki Azkaban?“ stundi Hagrid.

Áður en Fudge náði að svara var enn barið harkalega að dyrum. Dumbledore opnaði. Nú var komið að Harry að fá olnbogaskot; hann tók andköf.

Herra Lucius Malfoy stikaði inn í kofann hans Hagrids, sveipaður síðri, svartri ferðaskikkju, með kuldalegt ánægjubros á vör. Tryggur urraði.

„Þú ert bara kominn, Fudge,“ sagði hann ánægjulega. „Stórfínt, stórfínt …“

„Hvað ert þú að gera hér?“ sagði Hagrid æfur af reiði. „Komdu þér út úr mínum húsum!“

„Góði maður, trúðu mér, ég hef enga ánægju af því að vera hér í þínu – öh – var það hús sem þú kallaðir þetta?“ sagði Lucius Malfoy með hæðnissvip þegar hann leit í kringum sig í litla kofanum. „Ég kom við í skólanum og var sagt að skólastjórinn væri hér.“

„Og hvaða erindi átt þú við mig, Lucius?“ sagði Dumbledore. Hann var kurteis en það logaði enn eldur í bláum augunum.

„Það er alveg hræðilegt mál, Dumbledore,“ sagði herra Malfoy letilega og dró fram langa pergamentrúllu, „en yfirstjórn skólans telur að það sé tími til kominn að þú segir af þér tímabundið. Þetta er brott rekstrartilskipun – og þú sérð

hérna undirskrift allra stjórnarmeðlimanna tólf. Okkur finnst þú vera að missa tökin á hlutunum. Hversu margar árásir hafa átt sér stað? Og tvær í viðbót síðdegis í dag, ekki satt? Með þessu áframhaldi verða engir nemendur komnir af Muggum eftir í skólanum – og við vitum allir hve hræðilegur missir það væri fyrir skólann.“

„Heyrðu nú mig, Lucius,“ sagði Fudge skelkaður á svip, „á að reka Dumbledore … nei, nei … við megum síst af öllu við því núna …“

„Ráðning – eða brottvikning – skólastjóra er í höndum yfirstjórnar skólans, Fudge,“ sagði herra Malfoy mjúklega. „Og þar sem Dumbledore hefur ekki tekist að koma í veg fyrir þessar árásir …“

„Sjáðu nú til, Malfoy, ef Dumbledore getur ekki stöðvað þær,“ sagði Fudge sem var farinn að svitna á efri vörinni, „hver getur það þá?“

„Það kemur í ljós,“ sagði Malfoy með andstyggilegu brosi. „En þar sem stjórnin hefur samþykkt einróma …“

Hagrid stökk á fætur með slíku offorsi að svart villimannshöfuðið straukst við loftið.

„Og hversu mörgum þurftir þú að hóta eða múta til að fá þetta samþykkt, ha, Malfoy?“ öskraði hann.

„Hamingjan sanna, skapsmunir þínir eiga eftir að koma þér í klandur fyrr en síðar, Hagrid,“ sagði herra Malfoy. „Ég ráðlegg þér að æpa ekki svona á fangaverðina í Azkaban. Þeim mun ekki líka það.“

„Ef þið takið Dumbledore,“ þrumaði Hagrid svo hátt að veiðihundurinn Tryggur hnipraði sig ýlfrandi saman í körfunni, „takið þið líka einu von þeirra sem eru af Muggaættum! Næst verður einhver þeirra drepinn!“

„Stilltu þig, Hagrid,“ sagði Dumbledore hvassyrtur. Hann leit á Lucius Malfoy.

„Ef skólastjórnin vill að ég segi af mér tímabundið, þá geri ég það að sjálfsögðu …“ „En …“ stamaði Fudge.

„Nei!“ öskraði Hagrid.

Björt, blá augu Dumbledores beindust eftir sem áður staðfastlega að gráum og kuldalegum augum Luciusar Malfoy.

„En eitt máttu vita," sagði Dumbledore afar hægt og skýrt til að ekkert færi framhjá þeim. „Ég fer ekki frá þessum stað fyrir fullt og allt fyrr en enginn við skólann sýnir mér lengur hollustu. Þú munt líka komast að því að í Hogwartskóla er þeim alltaf veitt hjálp sem um hana biðja."

Eitt sekúndubrot var Harry viss um að augu Dumbledores hefðu hvarflað út í horn þar sem hann og Ron stóðu í felum.

„Umhyggja þín er aðdáunarverð," sagði Malfoy og hneigði sig. „Við munum sakna þinna – öh – sérstæðu stjórnunarhátta, Albus. Ég vona að eftirmanni þínum muni takast að koma í veg fyrir öll morð."

Hann skálmaði að kofadyrunum og fylgdi Dumbledore út. Fudge fitlaði við kúluhattinn sinn og beið eftir að Hagrid færi út en Hagrid stóð sem fastast, dró djúpt að sér andann og sagði varfærnislega: „Ef einhvern langaði að komast að einhverju þyrfti hann bara að elta kóngulærnar. Það ætti að koma honum á sporið! Svo mikið veit ég." Fudge starði furðu lostinn á hann.

„Já, já, ég er að koma,“ sagði Hagrid og klæddi sig í gærufrakkann sinn. En áður en hann elti Fudge út um dyrnar nam hann skyndilega staðar og sagði háum rómi: „Og einhver þarf að gefa Tryggi að borða á meðan ég er í burtu.“

Dyrnar lokuðust með skelli og Ron dró af þeim huliðsskikkjuna.

„Nú liggjum við í því,“ sagði hann hásri röddu. „Enginn Dumbledore. Það er allt eins hægt að loka skólanum í kvöld. Það verður ein árás á dag þegar hann er farinn.“

Tryggur spangólaði ámátlega og krafsaði í hurðina.

# Fimmtándi kafli

# Aragog

Sumarið þokaðist yfir flatirnar umhverfis kastalann. Himinninn og stöðuvatnið tóku á sig gleym-mér-ei-bláan lit og blóm á stærð við kálhöfuð sprungu út í gróðurhúsunum. En það kom Harry spánskt fyrir sjónir að sjá Hagrid ekki lengur stika um flatirnar með Trygg á hælunum. Raunar var ekkert eins og það átti að vera inni í skólanum heldur.

Harry og Ron höfðu reynt að heimsækja Hermione en öllum gestum var varnaður aðgangur að sjúkrahúsálmunni.

„Við tökum enga áhættu,“ sagði fröken Pomfrey alvörugefin í gegnum rifu á dyrunum. „Mér þykir það leitt, en það getur alveg átt sér stað að árásarmaðurinn snúi aftur og gangi endanlega frá þessum nemendum ...“

Eftir brottför Dumbledores greip óttinn um sig meðal nemendanna sem aldrei fyrr. Það var eins og sólin næði ekki

að skína inn í kastalann og reka á brott hið kuldalega andrúmsloft sem þar ríkti. Í hverju andliti mátti greina kvíða og spennu og sérhver tilraun til hláturs hljómaði skerandi og tilgerðarlega og var í skyndi þögguð niður.

Harry endurtók lokaorð Dumbledores í sífellu með sjálfum sér: „Ég fer ekki frá þessum stað fyrir fullt og allt fyrr en enginn við skólann sýnir mér lengur hollustu … í Hogwartskóla er þeim alltaf veitt hjálp sem um hana biðja.“ Hvaða gagn gerðu þessi orð? Hvern gat hann eiginlega beðið um hjálp þegar allir voru jafn ringlaðir og hræddir og hann?

Það var mun auðveldara að skilja vísbendingu Hagrids um kóngulærnar – vandamálið var bara að það virtist ekki vera ein einasta kónguló eftir í kastalanum sem hægt væri að elta. Harry leitaði í hverjum krók og kima með dræmri hjálp Rons. Það hamlaði þó leitinni að þeim var ekki leyft að fara frjálsir ferða sinna um skólann heldur urðu þeir að ferðast um í hópi með hinum Gryffindornemendunum. Flestir nem endurnir voru fegnir því að fara í fylgd kennara á milli kennslustunda en það fór ákaflega í taugarnar á Harry.

Einn nemandi virtist þó njóta spennunnar og hræðslunnar sem hafði gripið um sig. Draco Malfoy spígsporaði um skólann

eins og hann hefði nýlega verið kosinn nemendaformaður. Harry áttaði sig ekki á því hvað gladdi hann svona fyrr en í töfradrykkjatíma tveimur vikum síðar, þegar hann heyrði á tal þeirra Malfoys, Crabbes og Goyles.

„Ég vissi alltaf að faðir minn myndi sjá til þess að Dumbledore yrði rekinn,“ sagði hann án þess að gera nokkra tilraun til að lækka róminn. „Ég sagði ykkur að honum þætti Dumbledore versti skólastjóri sem nokkurn tíma hefði ráðið Hogwartskóla. Vonandi fáum við almennilegan skólastjóra næst. Einhvern sem óskar þess ekki helst af öllu að leyniklefinn sé lokaður. McGonagall prófessor endist ekki lengi – hún er bara að hlaupa í skarðið …“

Snape geystist framhjá Harry án þess að minnast einu orði á fjarveru Hermione.

„Herra prófessor,“ sagði Malfoy hárri röddu. „Herra prófessor, af hverju sækir þú ekki um skólastjórastöðuna?“

„Svona, svona, Malfoy,“ sagði Snape en gat ekki bælt niður ánægju brosið. „Dumbledore prófessor var vikið tímabundið úr starfi. Ég þykist vita að hann verði kominn aftur til okkar fyrr en varir.“ „Já, örugglega,“ sagði Malfoy með tilgerðarlegt

bros á vör. „En ég er viss um að þú myndir hljóta atkvæði föður míns ef þú sæktir um stöðuna – ég skal segja föður mínum að þú sért besti kennarinn í skólanum, herra …“

Snape glotti þegar hann geystist um dýflissuna en sneri sem betur fer baki í Seamus Finnigan sem þóttist vera að kasta upp ofan í seið pottinn sinn.

„Ég er alveg hissa á því að þeir sem eru af Muggaættum skuli ekki vera búnir að pakka ofan í koffortin sín,“ hélt Malfoy áfram. „Ég þori að veðja fimm galleonum upp á að sá næsti deyr. Verst að það skyldi ekki koma fyrir Hermione Granger …“

Malfoy hafði varla sleppt orðinu þegar Ron stökk upp af stólnum. Til allrar hamingju hringdi bjallan út í sömu andrá svo að enginn veitti tilraun hans til að ráðast á Malfoy athygli í öllum látunum þegar nemendurnir fóru að pakka saman og koma sér út.

„Sleppið mér,“ urraði Ron á Harry og Dean sem héngu í handleggjunum á honum. „Mér er alveg sama, ég þarf ekki sprotann minn, ég ætla að drepa hann með berum höndum …“

„Flýtið ykkur nú. Ég þarf að fylgja ykkur í jurtafræðitíma,“ hrópaði Snape yfir bekkinn. Svo þrömmuðu þau af stað og Harry, Ron og Dean ráku lestina. Ron var enn að reyna að slíta sig lausan en þeir slepptu ekki af honum takinu fyrr en Snape hafði leitt þau út úr kastalanum og þau voru á leiðinni yfir matjurtagarðinn að gróðurhúsunum.

Jurtafræðihópurinn var niðurlútur í dag. Það vantaði tvo nemendur; Justin og Hermione.

Spíra prófessor lét þau snyrta fíkjutrén frá Abyssiníu. Harry var á leiðinni að safnhaugnum með fangið fullt af afskornum greinum og kvistum þegar hann stóð skyndilega augliti til auglitis við Ernie Macmillan. Ernie dró djúpt að sér andann og sagði mjög formlega:

„Mig langaði bara að segja þér að mér þykir mjög leitt að hafa nokkurn tíma grunað þig. Ég veit að þú myndir aldrei ráðast á Hermione Granger og ég biðst afsökunar á öllu sem ég sagði. Núna erum við öll á sama báti, svo ...“

Hann rétti fram pattaralega höndina og þeir tókust í hendur.

Ernie og Hanna, vinkona hans, komu til Harrys og Rons að hjálpa þeim að snyrta fíkjutréð.

„Þessi Draco Malfoy,“ sagði Ernie um leið og hann braut dauðar greinar af trénu, „hann virðist hæstánægður með þetta, sýnist ykkur það ekki? Haldið þið að hann gæti verið arftaki Slytherins?“

„Þú ert aldeilis snjall,“ sagði Ron. Hann virtist ekki jafn tilbúinn að fyrirgefa og Harry.

„Heldurðu að það sé Draco, Harry?“ spurði Ernie.

„Nei,“ sagði Harry svo ákveðinni röddu að Ernie og Hanna störðu á hann.

Andartaki síðar kom Harry auga á nokkuð.

Nokkrar stórar köngulær trítluðu í óeðlilega beinni röð utan á gleri gróðurhússins eins og þær væru að hraða sér á fyrirfram ákveðinn stað. Harry sló klippunum í höndina á Ron.

„Ái! Hvað ertu að …“

Harry benti á kóngulærnar án þess að hafa af þeim augun sem hann varð að píra á móti sólinni.

„Ó, jaá,“ sagði Ron og gerði heiðarlega tilraun til að setja upp ánægjusvip en mistókst. „En við getum ekki elt þær núna …“ Ernie og Hanna sperrtu eyrun af forvitni.

Harry fylgdist náið með kóngulónum. Ef þær héldu þessari stefnu var enginn vafi á því hvar þær myndu enda.

„Það lítur út fyrir að þær séu á leið inn í forboðna skóginn …“ Og það varð ekki til að gleðja Ron.

Eftir tímann fylgdi Spíra prófessor hópnum í kennslustund í vörnum gegn myrku öflunum. Harry og Ron drógust aftur úr til að geta talað saman í friði.

„Við verðum að nota huliðsskikkjuna aftur,“ sagði Harry við Ron. Við getum tekið Trygg með okkur. Hann er vanur því að vera í skóginum með Hagrid. Hann getur kannski hjálpað okkur.“

„Einmitt,“ sagði Ron og fitlaði taugaóstyrkur við sprotann sinn. „En – öh – er ekki sagt að – er ekki sagt að það séu

varúlfar í skóginum?“ bætti hann við um leið og þeir settust í sætin sín aftast í kennslustofu Lockharts.

Þetta var spurning sem Harry vildi helst ekki svara og sagði því aðeins: „Það eru líka margar góðar verur í skóginum. Kentárarnir eru mjög fínir og einhyrningarnir líka …“

Ron hafði aldrei komið inn í forboðna skóginn. Harry hafði aðeins komið þangað einu sinni og hafði vonað að hann þyrfti aldrei að fara þangað aftur.

Lockhart kom skokkandi inn og allur bekkurinn starði á hann. Flestir kennararnir í skólanum voru óvenju þungbúnir þessa dagana en Lockhart ljómaði blátt áfram af gleði.

„Svona nú,“ hrópaði hann skælbrosandi. „Hvað á þessi fýlusvipur að þýða?“

Nemendurnir gutu augunum í uppgjöf hver á annan, en enginn svaraði.

„Gerið þið ykkur ekki grein fyrir því,“ sagði Lockhart hægt og skýrt eins og þau væru öll dálítið treg, „að hættan er liðin hjá! Það er búið að fjarlægja sökudólginn …“

„Segir hver?“ sagði Dean Thomas háum rómi.

„Minn kæri, ungi maður. Ráðherrann hefði aldrei rekið Hagrid ef hann væri ekki alveg viss um að hann væri sá seki,“ sagði Lockhart eins og hann væri að útskýra að einn plús einn væri tveir.

„Ó, jú, það myndi hann gera,“ sagði Ron jafnvel hærra en Dean.

„Ég hef nú grun um að ég viti örlítið meira um handtöku Hagrids en þú, herra Ron Weasley,“ sagði Lockhart sjálfumglaður.

Ron ætlaði að segja honum að hann efaðist um það, en þagnaði skyndilega þegar Harry sparkaði fast í hann undir borðinu.

„Mundu að við vorum ekki á staðnum!“ muldraði Harry.

En andstyggileg glaðværð Lockharts, aðdróttanir hans í þá veru að hann hefði alltaf grunað að Hagrid hefði eitthvað óhreint í pokahorninu og fullvissa hans um að málinu væri nú

lokið, allt þetta pirraði Harry svo mjög að hann langaði mest að fleygja Á flakki með forynjum beint í heimskulegt andlitið á honum. Þess í stað lét hann sér nægja að hripa niður orðsendingu til Rons: Við förum í skóginn í kvöld.

Ron las skilaboðin, tók andköf og gaut augunum á autt sætið hennar Hermione. Sú sjón virtist styrkja ákvörðun hans og hann kinkaði kolli.

Setustofa Gryffindor var alltaf mjög þéttsetin þessa dagana þar sem enginn nemandi mátti yfirgefa turninn eftir klukkan sex á kvöldin. En það var svo margt um að tala að setustofan tæmdist yfirleitt ekki fyrr en eftir miðnætti.

Harry náði í huliðsskikkjuna úr koffortinu sínu eftir kvöldmat og sat á henni allt kvöldið á meðan hann beið þess að setustofan tæmdist. Fred og George skoruðu á Harry og Ron í sprengi-eltingaleik og Ginny sat niðurlút og fylgdist með þeim úr stólnum hennar Hermione. Harry og Ron töpuðu öllum leikjunum viljandi til að ljúka þessu af sem fyrst en klukkan var samt orðin rúmlega tólf þegar Fred, George og Ginny fóru loks í rúmið.

Harry og Ron biðu þar til þeir heyrðu dyrnar á svefnsölunum falla að stöfum áður en þeir köstuðu yfir sig skikkjunni og klifruðu út um gatið á veggnum.

Þetta varð enn ein taugastrekkjandi ferðin í gegnum kastalann þar sem þeir þurftu stöðugt að vera á varðbergi gagnvart kennurum sem stóðu á verði á göngunum. Loks komu þeir í forsalinn, renndu slag brandinum fyrir útihurðinni frá og reyndu að smeygja sér út án þess að það ískraði í hurðinni. Svo hröðuðu þeir sér yfir grasflatirnar í tungl skinsbjartri nóttinni.

„Það getur auðvitað verið," sagði Ron skyndilega á leiðinni yfir döggvott grasið, „að við finnum ekkert grunsamlegt í skóginum. Kannski voru þessar kóngulær ekkert á leiðinni út í skóg. Ég veit að þær virtust vera á leiðinni þangað, en ..." Rödd hans fjaraði út.

Þeir komu að húsinu hans Hagrids, sem virtist svo dapurlegt og yfirgefið með myrkvuðum gluggunum. Þegar Harry opnaði dyrnar stökk Tryggur ólmur af gleði á móti þeim. Þeir óttuðust að hann næði að vekja alla í kastalanum með háværu geltinu svo að þeir flýttu sér að gefa honum sírópsköku úr boxinu á arinhillunni og þá límdist saman á honum skolturinn.

Harry skildi huliðsskikkjuna eftir á borðinu. Þeir hefðu enga þörf fyrir hana inni í niðdimmum skóginum.

„Komdu Tryggur, við ætlum í göngutúr,“ sagði Harry og sló á lærið á sér og Tryggur stökk kátur af stað á undan þeim. Hann rauk að útjaðri skógarins og lyfti löppinni upp að stórum hlyni.

Harry dró fram sprotann sinn og muldraði: „Lumos!“ og lítið ljós birtist á broddinum á sprotanum, rétt nægilega bjart til að þeir gætu greint stíginn framundan.

„Sniðugt hjá þér,“ sagði Ron. „Ég gæti reynt að kveikja á mínum, en – þú veist – ég myndi örugglega sprengja eitthvað …“

Harry pikkaði í öxlina á Ron og benti niður í grasið. Tvær köngulær flýttu sér út úr ljósgeislanum og inn í skugga trjánna.

„Allt í lagi,“ stundi Ron eins og hann væri tilbúinn að mæta örlögum sínum. „Ég er tilbúinn. Drífum okkur.“

Og svo gengu þeir inn í skóginn. Tryggur hoppaði og skoppaði áhyggjulaus í kringum þá, þefandi af trjárótum og laufblöðum. Dauf ljóstíran af sprotanum hans Harrys lýsti upp endalausa röð af kóngulóm sem trítluðu eftir stígnum. Þeir gengu á eftir þeim í tuttugu mínútur án þess að segja orð og sperrtu eyrun eftir öðrum hljóðum en þeim sem komu frá greinum undir fótum þeirra eða skrjáfi í lauf blöðum. Þegar trén stóðu orðið svo þétt að ekki sást lengur í stjörnu bjartan næturhimininn og litla tíran á sprotanum hans Harrys var eina birtan í glórulausu myrkrinu sáu þeir kóngulærnar trítla út af stígnum. Harry nam staðar til að sjá hvert kóngulærnar stefndu en litla tíran lýsti ekki nógu langt. Hann hafði aldrei komið svona langt inn í skóginn áður. Hann mundi greinilega eftir því að Hagrid hafði ráðlagt honum að yfirgefa aldrei stíginn síðast þegar þeir voru þarna. En Hagrid var óravegu í burtu, líklega lokaður inni í fangaklefa í Azkaban, og hann hafði líka sagt þeim að elta kóngulærnar.

Eitthvað blautt snerti hönd Harrys, svo hann hrökklaðist aftur á bak og steig ofan á fótinn á Ron en uppgötvaði þá að þetta var bara trýnið á Tryggi.

„Hvað finnst þér?“ sagði Harry við Ron. Hann rétt greindi andlit hans í skímunni frá ljósinu.

„Ja, við erum komnir alla þessa leið,“ sagði Ron.

Þeir héldu áfram á eftir kóngulónum sem skutust áfram inn á milli trjánna. Þeim miðaði mjög hægt; brotnar rætur og trjástubbar, sem sáust varla í myrkrinu, heftu för þeirra. Harry fann heitan andardrátt Tryggs á handarbakinu. Öðru hverju þurftu þeir að nema staðar til að Harry gæti beygt sig niður og fundið kóngulærnar með sprotaljósinu. Þeir gengu áfram í að minnsta kosti hálfa klukkustund; skikkjurnar þeirra flæktust í sífellu í trjágreinum og þyrnóttum runnum. Eftir nokkra stund tóku þeir eftir því að þeir voru farnir að ganga niður í móti þó að trén stæðu jafn þétt og áður.

Skyndilega gelti Tryggur hátt og það bergmálaði í myrkrinu svo að Harry og Ron krossbrá.

„Hvað?“ sagði Ron hátt og rýndi út í myrkrið um leið og hann greip þéttingsfast um olnbogann á Harry.

„Þarna er eitthvað á hreyfingu,“ hvíslaði Harry. „Hlustaðu … það er eins og eitthvað stórt …“

Þeir lögðu við hlustir. Einhvers staðar hægra megin við sig heyrðu þeir að eitthvað stórt braut sér leið í gegnum skógarþykknið. „Ó, nei,“ sagði Ron. „Ó, nei, ó, nei, ó …“

„Þegiðu nú,“ sagði Harry örvæntingarfullur. „Það heyrir í þér.“

„Heyrir í mér?“ sagði Ron óeðlilega hárri röddu. „Það er nú þegar búið að heyra í Tryggi!“

Myrkrið virtist þrýsta á augu þeirra þar sem þeir stóðu í dauðans angist og biðu átekta. Þeir heyrðu furðulegt drynjandi hljóð og svo varð aftur þögn.

„Hvað heldurðu að það sé að gera?“ spurði Harry.

„Örugglega að búa sig undir að ráðast á okkur,“ sagði Ron. Þeir biðu skjálfandi á beinunum án þess að hreyfa legg eða lið.

„Heldurðu að það sé farið?“ hvíslaði Harry.

„Veit ekki …“

Í sömu andrá skall svo bjartur ljósgeisli á þeim að þeir gripu fyrir augun. Tryggur ýlfraði og reyndi að flýja en festist í þyrniflækju og ýlfraði enn hærra.

„Harry!“ hrópaði Ron, röddin brast af gleði. „Harry, þetta er bíllinn okkar!“

„Hvað þá?“

„Komdu!“

Harry skjögraði á eftir Ron í áttina að ljósinu og andartaki síðar komu þeir inn í rjóður.

Bíll herra Weasleys stóð mannlaus undir þéttri laufþekju í rjóðri milli stórra trjáa. Bílljósin loguðu skært. Þegar Ron gekk í áttina að honum, opinmynntur af undrun, rann bíllinn hægt á móti honum, nák væmlega eins og stór, túrkísblár hundur að fagna eiganda sínum.

„Hann hefur verið hérna allan tímann!“ sagði Ron hrifinn og gekk í kringum bílinn. „Sjáðu hann. Dvölin í skóginum hefur gert hann villtan …“

Bílhliðarnar voru rispaðar og forugar. Það leit út fyrir að hann hefði ekið um skóginn upp á eigin spýtur. Tryggur virtist ekki of hrifinn; hann hélt sig í námunda við Harry og hríðskalf. Harry varpaði öndinni léttar og stakk sprotanum sínum undir skikkjuna. „Og við sem héldum að hann ætlaði að ráðast á okkur!“ sagði Ron, hallaði sér upp að bílnum og klappaði honum vingjarnlega. „Ég var búinn að velta því svo mikið fyrir mér hvert hann hefði farið!“

Harry skimaði í kringum sig á upplýstu svæðinu eftir fleiri kóngulóm en þær höfðu allar forðað sér úr blindandi ljóskeilunni.

„Við erum búnir að missa af kóngulónum,“ sagði hann. „Komdu. Við verðum að finna þær.“

Ron sagði ekki orð. Hann hreyfði sig ekki. Hann einblíndi á eitthvað í hér um bil þriggja metra hæð, beint fyrir aftan Harry. Andlitið var steinrunnið af skelfingu.

Harry hafði ekki einu sinni tíma til að snúa sér við. Hann heyrði háan smell og skyndilega fann hann að eitthvað langt og loðið greip um mittið á honum og hóf hann á loft og hafði endaskipti á honum um leið. Hann barðist skelfingu lostinn

um. Hann heyrði fleiri smelli og sá fæturna á Ron lyftast upp af jörðinni, hann heyrði Trygg ýlfra og spangóla – og í næstu andrá var hann borinn burt inn í myrkrið á milli trjánna.

Þaðan sem Harry hékk á hvolfi sá hann að skepnan sem hafði náð honum þrammaði á sex, gríðarlöngum loðnum fótum og tveir loðnir fætur héldu honum þétt undir tveimur skínandi svörtum griptöngum. Að baki sér heyrði hann í annarri skepnu sem eflaust hélt á Ron. Þeir stefndu beint inn í myrkviði skógarins. Harry heyrði að Tryggur barðist við að losna frá þriðja skrímslinu og ýlfraði hástöfum. Harry hefði ekki getað æpt þó að hann hefði feginn viljað; það var eins og hann hefði gleymt röddinni í rjóðrinu hjá bílnum.

Hann gerði sér enga grein fyrir því hvað hann var lengi í klóm skepnunnar; það eina sem hann vissi var að skyndilega birti örlítið og þá sá hann að laufi þakin jörðin var krökk af kóngulóm. Hann sneri höfðinu til hliðar og sá að þeir voru komnir að brúninni á gríðarstórri holu. Öll tré í kringum holuna höfðu verið fjarlægð svo að stjörnurnar vörpuðu skærri birtu niður á þá hrikalegustu sjón sem hann hafði augum litið.

Kóngulær. Ekki litlar kóngulær eins og streymdu yfir laufin fyrir neðan hann. Þetta voru kóngulær á stærð við vagnhesta, með átta augu og átta fætur, loðnar og risastórar. Stór og mikil kóngulóin sem hélt á Harry þrammaði niður brattann að þokukenndum, hvelfdum vef í miðri holunni. Á leiðinni hópuðust félagar hennar að henni og smelltu griptöngunum spenntir þegar þeir sáu bráðina sem hún flutti með sér.

Harry féll niður á fjóra fætur þegar kóngulóin sleppti af honum takinu. Ron og Tryggur hrundu niður við hliðina á honum. Tryggur var hættur að spangóla en hnipraði sig saman þar sem hann hafði lent. Svipurinn á Ron lýsti nákvæmlega líðan Harrys. Munnurinn á honum hafði opnast í þöglu ópi og augun stóðu á stilkum.

Harry gerði sér skyndilega grein fyrir því að kóngulóin, sem hafði sleppt honum, var að segja eitthvað. Það var erfitt að skilja hana því hún smellti saman griptöngunum í hverju orði.

„Aragog!“ kallaði hún. „Aragog!“

Og upp úr hvelfingum vefsins birtist kóngulóarkarl á stærð við lítinn fíl. Það voru gráar yrjur á búknum og fótum hans og öll

augun á ljótum hausnum voru mjólkurhvít á lit. Hann var blindur.

„Hvað vantar þig?“ sagði hann og smellti griptöngunum hratt.

„Ég er með manneskjur,“ gall í köngulónni sem hafði náð Harry.

„Er þetta Hagrid?“ sagði Aragog og færði sig nær, mjólkurhvítu augun átta flöktu örlítið.

„Aðkomumenn,“ gall í köngulónni sem hafði borið Ron.

„Drepið þá,“ sagði Aragog önugur. „Ég var sofandi …“

„Við erum vinir Hagrids,“ hrópaði Harry. Hjartað í honum barðist svo í brjóstinu að það var eins og það hefði hoppað upp í háls.

Klikk, klikk, klikk heyrðist í griptöngum köngulónna allt í kringum holuna.

Aragog hikaði.

„Hagrid hefur aldrei sent manneskjur niður í holuna okkar áður," sagði hann hægt.

„Hagrid er í vandræðum," sagði Harry andstuttur. „Þess vegna komum við hingað."

„Í vandræðum?" sagði gamli kóngulóarkarlinn og Harry fannst votta fyrir áhyggjutóni undir smellunum. „En af hverju sendi hann ykkur?"

Harry íhugaði að standa á fætur en lét það ógert; hann var ekki viss um að fæturnir gætu borið hann. Þess vegna sat hann áfram og talaði eins rólega og hann gat.

„Uppi í skóla halda allir að Hagrid hafi verið að senda – öh – eitt hvað á nemendur. Hann var fluttur til Azkaban."

Aragog smellti griptöngunum ofsafengið og allt í kringum holuna bergmáluðu smellir í griptöngum; þetta minnti á fagnaðarlæti, að öðru leyti en því að þau fylltu Harry skelfingu.

„En það er óratími síðan," sagði Aragog ergilegur. „Mörg, mörg ár. Ég man það eins og það hefði gerst í gær. Það var

ástæðan fyrir því að hann var rekinn úr skólanum. Þeir héldu að ég væri skrímslið sem byggi í þessum svokallaða leyniklefa. Þeir héldu að Hagrid hefði opnað klefann og sleppt mér lausum.“

„Svo … svo þú kemur þá ekki úr leyniklefanum?“ sagði Harry og fann kaldan svita spretta fram á ennið.

„Ég!“ sagði Aragog og smellti töngunum reiðilega. „Ég fæddist ekki í kastalanum. Ég kem frá fjarlægu landi. Ferðamaður færði Hagrid mig að gjöf þegar ég var bara egg. Hagrid var bara ungur drengur en hann annaðist mig. Hann faldi mig inni í skáp í kastalanum og gaf mér matarafganga. Hagrid er góður vinur minn og góður maður. Þegar þeir fundu mig og ásökuðu fyrir dauða ungrar stúlku þá varði hann mig. Síðan þá hef ég búið hérna í skóginum og hingað kemur Hagrid oft í heimsókn. Hann fann meira að segja fyrir mig eiginkonu, Mosag, og þú sérð hvað fjölskyldan hefur vaxið og svo er góðmennsku Hagrids fyrir að þakka …“ Harry safnaði í sig kjarki.

„Þú hefur þá aldrei – aldrei ráðist á neinn?“

„Aldrei!“ skrækti gamla kóngulóin. „Af virðingu við Hagrid hef ég aldrei skaðað manneskju þótt eðlishvöt mín ætti að bjóða mér það. Lík stúlkunnar, sem var drepin, fannst inni á klósetti en ég fór aldrei út úr skápnum þar sem ég ólst upp. Mínir líkar sækja í dimma og hljóðláta staði …“

„En … veistu þá hvað drap stúlkuna?“ spurði Harry. „Vegna þess að það sem drap hana hefur snúið til baka og er aftur farið að ráðast á fólk …“

Orð hans drukknuðu í háværum smellum og reiðilegu tifi langra fóta; stórir, svartir svipirnir þrengdu enn hringinn í kringum þá.

„Veran sem býr í kastalanum,“ sagði Aragog, „er ævaforn og við kóngulærnar hræðumst hana umfram allt annað. Ég man mætavel eftir öllum þeim skiptum sem ég sárbændi Hagrid um að sleppa mér þegar ég varð þess áskynja að skepnan var á kreiki um skólann.“ „Hvers konar vera er þetta!“ spurði Harry ákafur.

Aftur heyrðust smellir frá kóngulónum í kring; hringurinn umhverfis þá virtist enn vera að þrengjast.

„Það tölum við ekki um!“ þrumaði Aragog. „Við nefnum hana ekki á nafn! Ég sagði Hagrid ekki einu sinni nafnið á þessari hræðilegu skepnu; þó spurði hann mig margoft.“

Harry vildi ekki leggja of hart að honum, sérstaklega ekki meðan kóngulærnar nálguðust þá frá öllum hliðum. Aragog virtist orðinn þreyttur á að tala. Hann gekk hægum skrefum aftur á bak inn í hvelfdan vefinn, en hinar kóngulærnar héldu áfram að nálgast Harry og Ron hægt og sígandi.

„Við förum þá bara,“ kallaði Harry örvæntingarfullur til Aragogs þegar hann heyrði skrjáfið í laufunum undan kóngulóarfótunum rétt fyrir aftan sig.

„Fara?“ sagði Aragog hægt. „Það held ég ekki …“ „En – en –“

„Ég hef skipað svo fyrir að synir mínir og dætur geri Hagrid ekki mein. En ég get ekki neitað þeim um ferskt kjöt þegar það kemur svona sjálfviljugt til okkar. Vertu sæll, vinur Hagrids.“

Harry snarsnerist á hæli. Aðeins einn metra frá honum gnæfðu kóngulærnar yfir hann eins og þykkur veggur og

smelltu griptöngunum í gríð og erg; augun glömpuðu í ógeðslegum, svörtum hausunum.

Harry dró sprotann sinn fram enda þótt hann væri þess fullviss að það væri ekki til nokkurs gagns, þær voru alltof margar. En hann reyndi að brölta á fætur. Hann ætlaði að minnsta kosti að deyja með reisn. Þá hljómaði langdregið, hávært flaut og ljósgeisli lýsti upp holuna.

Bíll herra Weasleys kom brunandi niður brattann með framljósin logandi og bílflautuna gargandi og ruddi fjölmörgum kóngulóm úr vegi; nokkrar köstuðust á bakið þar sem þær lágu og sprikluðu bjargarlausar. Bíllinn snarstansaði með miklu ískri fyrir framan Harry og Ron og bílhurðirnar þeyttust upp.

„Taktu Trygg!“ æpti Harry og kastaði sér í framsætið; Ron greip utan um veiðihundinn miðjan og fleygði honum ýlfrandi í aftursætið – hurðirnar skullu aftur – Ron kom ekki við bensíngjöfina en bíllinn þurfti engrar hjálpar við. Það drundi í vélinni og þeir óku af stað yfir enn fleiri kóngulær. Þeir brunuðu upp brattann og út úr holunni. Bíllinn ruddi sér leið í gegnum skóginn svo að greinar slógust í gluggana en hann

virtist þekkja leiðina vel og ók af skynsemi eftir breiðustu stígunum.

Harry leit á Ron. Munnurinn á honum var enn opinn í þöglu ópi en augun stóðu ekki lengur á stilkum.

„Er allt í lagi með þig?“

Ron starði beint fram fyrir sig án þess að svara.

Þeir þutu í gegnum lággróðurinn. Tryggur gólaði hástöfum í aftursætinu og Harry sá hliðarspegilinn brotna af þegar þeir þrengdu sér framhjá gömlu eikartré. Eftir tíu mínútur af hávaða og hristingi strjáluðust trén og Harry kom aftur auga á himininn á milli trjákrónanna.

Bíllinn snarstansaði svo skyndilega að þeir köstuðust næstum út um framrúðuna. Þeir voru komnir að skógarjaðrinum. Tryggur henti sér á rúðuna í æsingnum við að komast út úr bílnum og þegar Harry opnaði skaust hann af stað á milli trjánna að kofanum hans Hagrids með skottið á milli lappanna. Harry steig út og þegar Ron virtist kominn með nægilega tilfinningu í útlimina klöngraðist hann líka út úr bílnum, stífur eins og drumbur og með starandi augnaráð.

Harry klappaði bílnum þakklátur áður en hann bakkaði inn í skóginn og hvarf sjónum þeirra.

Harry fór aftur inn í kofann hans Hagrids til að ná í huliðsskikkjuna. Tryggur lá skjálfandi undir teppi í körfunni sinni. Þegar Harry kom út aftur stóð Ron í matjurtagarðinum og kastaði upp.

„Elta kóngulærnar," sagði Ron veiklulega og þurrkaði sér um munn inn á erminni. „Ég fyrirgef Hagrid aldrei. Við erum heppnir að vera á lífi."

„Ég er viss um að hann hefur haldið að Aragog myndi ekki skaða vini hans," sagði Harry.

„Það er einmitt það sem gengur að Hagrid!" sagðiRon og barði í kofann. „Hann heldur alltaf að þessi óargadýr séu ekki jafn slæm og þau líta út fyrir að vera og sjáðu bara hvert það hefur skilað honum! Í klefa í Azkaban!" Hann skalf óstjórnlega. „Hvað átti það að þýða að senda okkur inn í skóg? Komumst við svo sem að einhverju gagnlegu?"

„Við vitum að minnsta kosti að Hagrid opnaði ekki leyniklefann," sagði Harry, fleygði skikkjunni yfir Ron og ýtti honum úr sporunum.

„Hann var saklaus."

Ron hló hæðnislega. Honum fannst greinilega ekki mikið til um það sakleysi að unga Aragog út inni í skáp í skólanum.

Þeir nálguðust kastalann og Harry lagaði skikkjuna til að fullvissa sig um að fæturnir á þeim sæjust ekki niður undan henni. Þegar þeir komu að útidyrunum ýtti hann upp þungri eikarhurðinni. Þeir gengu hljóðlega í gegnum forsalinn, upp marmaratröppurnar og héldu niðri í sér andanum þegar þeir gengu eftir göngunum þar sem kennarar stóðu enn á verði. Loks komust þeir upp í öryggi Gryffindorturnsins þar sem eldurinn í arninum var orðinn að glóandi ösku. Þeir tóku af sér skikkjuna og fóru hringstigann upp í svefnsalinn. Ron henti sér í rúmið án þess að hafa fyrir því að hátta sig. En Harry var ekkert sérstaklega syfjaður. Hann settist á himinsængina sína og braut heilann um það sem Aragog hafði sagt.

Skepnan sem leyndist í kastalanum virtist vera nokkurs konar Voldemortskrímsli – önnur skrímsli þorðu jafnvel ekki að

nefna hana á nafn. En þeir Ron voru engu nær um hvers konar skepna þetta var eða hvernig hún fór að því að gera fórnarlömb sín að steini. Jafnvel Hagrid hafði aldrei vitað hvað bjó í leyniklefanum.

Harry sveiflaði fótunum upp í rúmið sitt og hallaði sér upp að koddunum. Hann horfði á tunglskinið út um turngluggann.

Hann vissi ekki hvað þeir gætu núna tekið til bragðs. Þeir höfðu hvarvetna gripið í tómt. Trevor hafði gripið rangan mann, arftaki Slytherins hafði komist undan og enginn gat sagt til um hvort það var sama manneskjan eða einhver önnur sem hafði opnað leyniklefann í þetta skiptið. Þeir höfðu engan að leita til. Harry lagðist niður og var enn með hugann við það sem Aragog hafði sagt.

Hann var farinn að dotta þegar hugmynd skaut skyndilega niður í kollinn á honum. Þetta gæti verið síðasta hálmstráið. Hann settist beinstífur upp í rúminu.

„Ron,“ hvíslaði hann út í myrkrið, „Ron …“

Ron vaknaði með góli sem minnti mest á Trygg og leit tryllingslega í kringum sig þar til hann kom auga á Harry.

„Ron – stelpan sem dó. Aragog sagði að hún hefði fundist inni á klósetti,“ sagði Harry og lét sem hann heyrði ekki snörlið og hroturnar í Neville. „Hvað nú ef hún yfirgaf aldrei klósettið? Hvað ef hún er þarna ennþá?“

Ron nuddaði augun og hnyklaði brýnnar í tunglsljósinu. En svo rann upp fyrir honum ljós.

„Þú heldur þó ekki að – að það geti verið Vala væluskjóða?“

# Sextándi kafli

# Leyniklefinn

„Öll þau skipti sem við vorum inni á klósettinu og hún var bara í næsta bás,“ sagði Ron beisklega við morgunverðarborðið næsta dag, „og við hefðum bara getað spurt hana …“

Það hafði verið nógu erfitt að leita að kóngulónum eins og ástandið var í kastalanum. En að laumast óséðir inn á stelpnaklósett átti eftir að reynast næstum ómögulegt, sérstaklega þegar það var stelpnaklósettið við hliðina á staðnum þar sem fyrsta árásin hafði átt sér stað.

En þá gerðist nokkuð í ummyndunartíma sem varð til þess að þeir gleymdu leyniklefanum í fyrsta skipti í margar vikur. Þegar tíu mínútur voru liðnar af kennslustundinni tilkynnti McGonagall þeim að prófin hæfust fyrsta júní – eftir eina viku.

„Próf?“ hrópaði Seamus Finnigan. „Tökum við próf þrátt fyrir allt sem hefur gerst?“

Það heyrðust háir brestir fyrir aftan Harry; Neville Longbottom hafði verið að fikta eitthvað við sprotann sinn með þeim afleiðingum að einn borðfóturinn á skrifborðinu hans hvarf. McGonagall prófessor setti hann aftur á sinn stað með einni sveiflu töfrasprotans og sneri sér brúnaþung að Seamus.

„Eini tilgangurinn með því að halda skólanum opnum þessa dagana er að sjá til þess að þið hljótið ykkar menntun,“ sagði hún ströng á svip. „Prófin fara því fram eins og venjulega og ég ætla rétt að vona að þið hafið verið dugleg að læra.“

Dugleg að læra! Það hafði aldrei hvarflað að Harry að það yrðu próf eins og ástandið var í kastalanum. Úr öllum hornum bárust óánægjuhljóð og McGonagall varð enn reiðilegri á svip.

„Dumbledore prófessor gaf mér þau fyrirmæli að halda starfinu í hefðbundnu horfi,“ sagði hún. „Og það felur auðvitað í sér að komast að raun um hversu mikið þið hafið lært þetta árið.“

Harry leit niður á hvítu kanínurnar tvær sem hann átti að breyta í inniskó. Hvað hafði hann lært fram að þessu? Honum kom ekkert í hug sem gæti komið honum að gagni í prófunum.

Svipurinn á Ron var eins og einhver hefði sagt honum að hann þyrfti að fara og búa í forboðna skóginum.

„Geturðu ímyndað þér hvernig ég á að fara að því að taka próf með þessum?“ sagði hann við Harry og benti á sprotann sinn sem var farinn að flauta hástöfum.

Þremur dögum fyrir fyrsta prófið bar McGonagall fram aðra tilkynningu við morgunverðarborðið.

„Ég hef góðar fréttir að færa ykkur,“ sagði hún og í stað þagnar brutust út fagnaðarlæti í Stóra salnum.

„Dumbledore kemur aftur!“ æptu nokkrir glaðlega.

„Þið hafið handsamað arftaka Slytherins!“ skrækti stelpa við Raven clawborðið.

„Við megum aftur spila Quidditch!“ hrópaði Oliver spenntur.

Þegar uppnámið fjaraði út sagði McGonagall prófessor: „Spíra prófessor hefur tilkynnt mér að Alrúnirnar séu loks tilbúnar til tínslu. Í kvöld munum við endurlífga steingerðu fórnarlömbin. Ég þarf líklega ekki að segja ykkur að eitthvert þeirra kynni að geta sagt okkur hver eða hvað réðst á þau. Ég vona að þetta hræðilega ár endi með því að við náum sökudólgnum.“

Fagnaðarlætin ætluðu allt um koll að keyra. Harry leit yfir á Slytherinborðið og undraðist ekki þegar hann sá að Draco tók ekki þátt í gleðinni. Ron var aftur á móti glaðlegri en hann hafði verið dögum saman.

„Það skiptir þá engu máli að við náðum ekki að spyrja Völu!“ sagði hann við Harry. „Hermione getur örugglega sagt þeim allt þegar hún vaknar! En hún verður brjáluð þegar hún fréttir að við erum að byrja í prófum eftir þrjá daga. Hún hefur ekkert lært. Það væri kannski fallega gert að bíða með að endurlífga hana.“

Nú kom Ginny Weasley að borðinu og settist við hliðina á Ron. Hún var kvíðin og taugaóstyrk að sjá og Harry tók eftir því að hendurnar skulfu í kjöltu hennar.

„Hvað er að?“ sagði Ron og fékk sér annan skammt af hafragraut. Ginny svaraði ekki en gaut augunum á alla umhverfis Gryffindorborðið með hræðslusvip á andlitinu sem minnti Harry á einhvern sem hann þekkti, þótt hann kæmi ekki fyrir sig hver það væri.

„Út með það!“ sagði Ron og horfði á hana.

Skyndilega rann það upp fyrir Harry hverjum Ginny líktist. Hún ruggaði sér fram og aftur í stólnum alveg eins og Dobby gerði þegar hann var að því kominn að afhjúpa leyndarmál.

„Ég verð að segja ykkur dálítið,“ muldraði Ginny og varaðist að líta á Harry.

„Hvað er það?“ sagði Harry.

Ginny virtist vera að leita að réttu orðunum.

„Hvað?“ sagði Ron.

Ginny opnaði munninn en kom ekki upp einu orði. Harry beygði sig fram og talaði lágt svo að einungis Ron og Ginny gætu heyrt í honum.

„Tengist þetta leyniklefanum á einhvern hátt? Sástu eitthvað? Hefur einhver hegðað sér undarlega?“

Ginny dró djúpt að sér andann en á sama augnabliki birtist Percy Weasley. Hann var fölur og þreytulegur að sjá.

„Leyfðu mér að setjast hérna ef þú ert búin að borða, Ginny. Ég er glorhungraður eftir þessa löngu vakt.“

Ginny stökk á fætur eins og hún hefði fengið raflost, gaut augunum hræðslulega á Percy og þaut í burt. Percy settist niður og náði sér í drykkjarkönnu af miðju borðinu.

„Percy!“ sagði Ron reiðilega. „Hún var að því komin að segja okkur eitthvað merkilegt!“

Percy svelgdist á í miðjum tesopa.

„Um hvað?“ sagði hann hóstandi.

„Ég spurði hana hvort hún hefði séð eitthvað óvenjulegt og hún var að því komin ...“

„Ó – það – það tengist leyniklefanum ekkert,“ sagði Percy undireins.

„Hvernig veist þú það?“ sagði Ron og hleypti brúnum.

„Ja – þó að það komi ykkur ekki við, þá … öh, kom Ginny að mér um daginn þegar ég var – æ, það skiptir ekki máli – aðalatriðið er að hún sá mig gera dálítið, og ég, uhumm, bað hana um að þegja yfir því. Ég hélt satt að segja að hún myndi standa við loforðið. En þetta er ekkert merkilegt, ég vil bara ekki …“

Harry hafði aldrei séð Percy svona skömmustulegan.

„Hvað varstu að gera, Percy?“ sagði Ron brosandi. „Svona, segðu okkur það, við lofum að hlæja ekki.“ Percy endurgalt ekki brosið.

„Réttu mér rúnstykkin, Harry, ég er að deyja úr hungri.“

Harry vissi að líklega yrði ráðgátan leyst daginn eftir án aðstoðar þeirra. En ef hann fengi tækifæri til að tala við Völu

ætlaði hann ekki að láta það ganga sér úr greipum – og honum til mikillar ánægju kom tækifærið upp í hendurnar á honum um miðjan morguninn þegar þau voru á leið í kennslustund í sögu galdranna í fylgd Lockharts.

Lockhart var þess svo fullviss að engin hætta væri lengur á ferðum að honum fannst það hinn mesti óþarfi að sjá til þess að þau kæmust heil á húfi á milli kennslustunda. Hárið á honum var ekki jafn glansandi og venjulega; hann hafði greinilega staðið langa næturvakt á skóla göngunum.

„Verið viss,“ sagði hann um leið og hann fylgdi þeim fyrir horn.

„Fyrstu orðin, sem aumingja steingerðu fórnarlömbin munu stynja upp, verða: Það var Hagrid. Ég er alveg steinhissa á að McGonagall prófessor skuli finnast allar þessar öryggisráðstafanir nauðsynlegar.“

„Ég er alveg sammála, herra,“ sagði Harry og Ron missti bækurnar sínar í gólfið af undrun.

„Þakka þér fyrir, Harry,“ sagði Lockhart á meðan þau biðu eftir að hópur af Hufflepuffnemendum færi framhjá. „Mér

finnst bara að við kennararnir höfum nóg á okkar könnu þó að ekki bætist við að fylgja nemendum í kennslustundir og standa á verði allar nætur …“

„Það er rétt,“ sagði Ron sem var nú með á nótunum. „Skildu okkur bara eftir hérna, herra, kennslustofan er bara hérna á næsta gangi …“

„Svei, mér þá, Ron, ég held ég geri það bara,“ sagði Lockhart. „Ég á eftir að undirbúa mig fyrir næsta tíma …“ Og svo hraðaði hann sér á brott.

„Undirbúa næsta tíma,“ sagði Ron hæðnislega. „Ætli hann sé ekki frekar á leiðinni að krulla á sér hárið.“

Þeir drógust viljandi aftur úr hinum nemendunum og þutu niður lítinn gang sem lá að klósettinu hennar Völu væluskjóðu. En þegar þeir voru að hrósa hvor öðrum fyrir snarræðið …

„Harry Potter! Ron Weasley! Á hvaða ferðalagi eruð þið?“

Þetta var McGonagall prófessor. Munnurinn var örmjótt strik í andlitinu.

„Við vorum … við vorum …“ stamaði Ron. „Við vorum á leiðinni – á leiðinni til …“

„Hermione,“ sagði Harry. Ron og McGonagall prófessor litu bæði á hann.

„Við höfum ekki séð hana í óratíma, prófessor,“ sagði Harry óðamála og steig ofan á fótinn á Ron, „og við ætluðum að laumast inn í sjúkrahúsálmuna og segja henni að Alrúnirnar væru tilbúnar og – öh – að hún þyrfti ekki að hafa áhyggjur …“

McGonagall starði enn á hann og eitt augnablik bjóst Harry við að hún myndi springa af reiði. En þegar hún loks mælti orð af vörum var málrómur hennar einkennilega hrjúfur.

„Auðvitað,“ sagði hún og Harry varð alveg forviða þegar hann sá glitra tár í svörtum augunum. „Ég geri mér grein fyrir að þessi harm leikur er þungbærastur fyrir vini þeirra sem urðu fyrir … Ég skil það mjög vel. Já, Harry, auðvitað megið þið heimsækja ungfrú Hermione Granger. Ég mun láta Binns prófessor vita hvert þið fóruð. Segið fröken Pomfrey að ég hafi gefið ykkur leyfi.“

Harry og Ron gengu á brott. Þeir trúðu því varla að þeir hefðu sloppið við áminningu. Þegar þeir gengu fyrir næsta horn heyrðu þeir greinilega að McGonagall snýtti sér.

„Þetta er besta saga sem þú hefur fundið upp," sagði Ron ákafur.

Það var ekki um annað að ræða en að fara upp í sjúkrahúsálmu og segja fröken Pomfrey að þeir hefðu leyfi McGonagall prófessors til að heimsækja Hermione.

Fröken Pomfrey hleypti þeim treglega inn.

„Það gerir bara ekkert gagn að reyna að tala við steingerða manneskju," sagði hún, og þeir urðu að viðurkenna að hún hafði nokkuð til síns máls þegar þeir settust við rúmið hennar Hermione. Það var augljóst að Hermione hafði ekki minnsta grun um að hún hefði fengið gesti og þeir gætu allt eins sagt náttborðinu hennar að hafa ekki áhyggjur, hvaða gagn sem væri svo sem að því.

„Ætli hún hafi séð þann sem réðst á hana?“ sagði Ron og horfði niðurdreginn á stjarft andlit Hermione. „Ef hann læddist að þeim öllum kemur aldrei í ljós hver gerði þetta …“

En Harry horfði ekki á andlitið á Hermione. Hann hafði meiri áhuga á hægri hendi hennar. Hún lá kreppt ofan á teppinu og þegar Harry beygði sig nær sá hann að hún hélt fast utan um krumpaðan bréfmiða.

Þegar hann hafði fullvissað sig um að fröken Pomfrey væri hvergi nálægt benti hann Ron á þetta.

„Reyndu að ná honum,“ hvíslaði Ron og flutti stólinn til svo að fröken Pomfrey sæi ekki til þeirra.

Þetta var ekki auðvelt verk. Höndin á Hermione var kreppt svo fast utan um blaðið að Harry var viss um að hann myndi rífa það. Hann sneri og togaði á meðan Ron stóð vakt og eftir nokkrar spennuþrungnar mínútur tókst honum loks að losa það.

Þetta var blaðsíða úr gamalli bókasafnsbók. Harry slétti ákafur úr henni og Ron hallaði sér að honum til að geta lesið líka.

Af öllum þeim skelfilegu skepnum og skrímslum sem reika um landið okkar er basilíuslangan þeirra forvitnilegust og banvænust. Hún gengur einnig undir nafninu konungur slangnanna. Þessi snákur getur náð gríðarlegri stærð og lifað í mörg hundruð ár. Basilíuslangan er klakin af nöðru úr hanaeggi. Drápsaðferðir hennar eru mjög furðulegar: Auk eitraðra höggtannanna hefur hún banvænt augnaráð. Hver sá sem verður fyrir tilliti hennar mun samstundis bíða bana. Köngulær flýja undan basilíuslöngunni því hún er svarnasti óvinur þeirra og basilíuslangan sjálf flýr eingöngu undan gali hanans því það eitt getur fargað henni.

Og fyrir neðan stóð eitt orð með rithendi Hermione: Pípur.

Skyndilega kveikti Harry á perunni.

„Ron,“ hvíslaði hann. „Hérna er svarið. Skrímslið í leyniklefanum er basilíuslangan – risastór slanga! Það er ástæðan fyrir því að ég hef heyrt þessa rödd alls staðar en enginn annar. Það er vegna þess að ég skil slöngutungu ...“

Harry leit á rúmin í kringum sig.

„Basilíuslangan drepur fólk með augnaráðinu. En enginn hér er dáinn – af því að enginn leit beint í augun á henni. Colin sá hana í gegnum myndavélina sína. Basilíuslangan bræddi filmuna hans en Colin varð bara að steini. Justin … Justin hlýtur að hafa séð basilíuslönguna í gegnum Næstum hauslausa Nick! Augnaráðið hlýtur að hafa lent beint á Nick en hann gat náttúrulega ekki dáið aftur … og Hermione og umsjónarmaðurinn í Ravenclaw fundust með spegil við hliðina á sér. Hermione hefur örugglega reiknað út að skrímslið væri basilíuslanga. Ég þori að veðja að hún hefur ráðlagt fyrstu manneskjunni sem hún mætti að líta fyrir öll horn með spegli! Og þá dró þessi stelpa fram spegilinn sinn – og –“ Ron gapti.

„En hvað með Frú Norris?“ hvíslaði hann ákafur.

Harry hugsaði sig um og reyndi að ímynda sér aðstæðurnar um kvöldið á hrekkjavökunni.

„Vatnið …“ sagði hann hægt. „Vatnsflaumurinn frá klósettinu hennar Völu væluskjóðu. Ég þori að veðja að Frú Norris sá basilíuslönguna endurspeglast í vatninu …“

Hann renndi augunum yfir blaðið í hendi sér. Því oftar sem hann las það sem þar stóð því augljósara varð þetta.

„… gal hanans … er það eina sem getur ógnað henni,“ las hann upphátt.

„Hanarnir hans Hagrids voru drepnir! Arftaki Slytherins vildi ekki hafa þá í grennd við kastalann eftir að klefinn var opnaður! Köngulær flýja undan henni! Þetta passar allt!“

„En hvernig kemst basilíuslangan um kastalann?“ spurði Ron.

„Svona stórt dýr … einhver hlyti að hafa séð …“

En Harry benti á orðið sem Hermione hafði hripað neðst á blaðið.

„Pípur,“ sagði hann. „Pípur … Ron, hún hefur notað pípulagnirnar til þess. Ég heyrði röddina innan úr veggjunum …“ Ron greip í handlegginn á Harry.

„Inngangurinn að leyniklefanum!“ stundi hann hásri röddu. „Setjum svo að inngangurinn sé klósett! Hvað nú, ef hann er á …“ „Klósettinu hennar Völu væluskjóðu,“ sagði Harry.

Þeir sátu þarna orðlausir og fundu spennuna streyma um líkamann.

„Þetta þýðir," sagði Harry, „að ég er ekki eini slönguhvíslarinn í skólanum. Arftaki Slytherins skilur líka slöngutungu. Þannig hefur hann haft stjórn á basilíuslöngunni."

„Hvað eigum við að gera?" sagði Ron, augun í honum leiftruðu. „Eigum við að fara beint til McGonagall prófessors?"

„Við skulum fara upp á kennarastofu," sagði Harry og stökk á fætur.

„Hún kemur þangað í frímínútunum eftir tíu mínútur."

Þeir hlupu niður. Þeir vildu ekki láta góma sig á rölti um gangana og fóru því beint inn á mannlausa kennarastofuna. Þetta var stórt, viðarklætt herbergi með þungum, dökkum tréstólum. Harry og Ron stikuðu um herbergið, alltof spenntir til að setjast niður.

En bjallan hringdi aldrei út í frímínútur.

Í stað þess bergmálaði rödd McGonagall prófessors á margföldum styrk um gangana.

„Allir nemendur skulu snúa til heimavistar sinnar á stundinni. Allir kennarar mæti á kennarastofuna. Þegar í stað, þökk fyrir.“ Harry snarsnerist á hæli og starði á Ron.

„Ekki enn ein árás? Ekki núna?“

„Hvað eigum við að gera?“ sagði Ron skelfingu lostinn. „Fara upp í Gryffindorturn?“

„Nei,“ sagði Harry og leit í kringum sig. Honum til vinstri handar stóð óhrjálegur fataskápur fullur af kennaraskikkjum. „Við felum okkur hér. Við verðum að heyra hvað er að gerast. Svo getum við sagt þeim að hverju við höfum komist.“

Þeir földu sig inni í skápnum og hlustuðu á fótatak hundraða nemenda yfir höfðum sér. Hurðinni á kennarastofunni var þeytt upp. Út úr fellingum á mölétnum skikkjunum sáu þeir kennarana streyma inn. Sumir þeirra voru undrandi, aðrir beinlínis skelfingu lostnir. Svo gekk McGonagall inn.

„Nú hefur það gerst,“ sagði hún við hljóðan kennarahópinn.

„Ófreskjan hefur numið einn nemanda á brott og tekið hann með sér inn í sjálfan leyniklefann.“

Flitwick prófessor æpti upp yfir sig. Spíra prófessor greip fyrir munninn. Snape tók fast um stólbak og sagði: „Hvernig geturðu verið viss um það?“

„Arftaki Slytherins skildi eftir önnur skilaboð á veggnum,“ sagði McGonagall prófessor náföl, „beint fyrir neðan þau fyrri. Beinagrind hennar mun hvíla í klefanum um ókomna tíð.“ Flitwick prófessor brast í grát.

„Hver er það?“ sagði fröken Hooch sem hafði látið fallast máttvana niður í stól. „Hvaða nemandi?“

„Ginny Weasley,“ sagði McGonagall prófessor.

Harry fann hvernig Ron rann hljóðlaust niður á skápbotninn við hlið hans.

„Við verðum að senda alla nemendurna heim á morgun,“ sagði McGonagall. „Þetta markar endalok Hogwartskóla. Dumbledore sagði alltaf …“

Aftur var hurðinni svipt upp. Eitt augnablik var Harry viss um að þetta væri Dumbledore. En þetta var Lockhart. Skælbrosandi.

„Þið verðið að afsaka mig – ég blundaði – missti ég af einhverju?“

Hann virtist ekki taka eftir því að hinir kennararnir horfðu á hann með svip sem var eiginlega hatursfullur. Snape steig fram.

„Alveg rétti maðurinn,“ sagði hann. „Maðurinn sem við vorum að bíða eftir. Skrímslið rændi stúlku, Lockhart. Fór með hana inn í sjálfan leyniklefann. Og nú færð þú tækifæri til að sýna hvað í þér býr.“

Lockhart fölnaði.

„Einmitt, Gilderoy,“ skaut McGonagall inn. „Varst það ekki þú sem sagðir síðast í gær að þú hefðir alltaf vitað hvar inngangurinn að leyniklefanum væri?“

„Ég … ja, ég …“ stamaði Lockhart.

„Já, þú sagðir mér líka að þú vissir hvað væri að finna inni í klefanum!“ gall í Flitwick prófessor.

„Ge-gerði ég það? Ég man ekki …“

„Ég man greinilega eftir því að þú sagðir að þér þætti verst að hafa ekki fengið að eiga við skrímslið upp á eigin spýtur. Það var löngu áður en Hagrid var handtekinn,“ sagði Snape. „Sagðirðu ekki að allt málið væri klúður frá upphafi til enda og þú hefðir átt að hafa frjálsar hendur við að hafa uppi á skrímslinu?“

Lockhart leit í kringum sig á samstarfsfélaga sína sem voru strangir á svip.

„En ég hef aldrei … þið hljótið að hafa misskilið …“

„Við látum þig um málið, Gilderoy,“ sagði McGonagall prófessor. „Í kvöld er rétta augnablikið til að láta til skarar skríða. Við skulum sjá til þess að enginn ónáði þig. Þú færð að eiga við skrímslið upp á eigin spýtur. Þú færð loksins frjálsar hendur.“

Lockhart leit örvæntingarfullur í kringum sig en enginn kom honum til hjálpar. Hann hafði tapað öllum persónutöfrum sínum. Neðri vörin skalf og þegar breiða brosið var horfið virtist hann sviplaus og veikburða.

„Þ-þá segjum við það,“ sagði hann. „Ég – ég verð á skrifstofunni minni að – að undirbúa mig.“

Og svo yfirgaf hann herbergið.

„Jæja,“ sagði McGonagall prófessor og þandi nasavængina, „þá erum við laus við hann. Yfirmenn heimavistanna skulu fara á sínar vistir og upplýsa nemendur um hvað hefur gerst. Segið þeim að Hogwarthraðlestin muni keyra þau heim í fyrramálið. Við skulum líka ganga úr skugga um að engir nemendur séu á vergangi utan heimavistanna.“ Kennararnir stóðu á fætur og gengu út, einn af öðrum.

Þetta var áreiðanlega versti dagurinn sem Harry hafði lifað. Hann, Ron, Fred og George sátu afsíðis í setustofu Gryffindor án þess að mæla orð af vörum. Percy var ekki þarna. Hann

hafði farið að senda uglu til Weasleyhjónanna og síðan lokað sig af inni í svefnsalnum sínum.

Þetta síðdegi virtist aldrei ætla að líða. Setustofan í Gryffindor hafði aldrei verið svona þéttsetin nemendum og aldrei hafði þar verið svona hljótt. Við sólsetur fóru Fred og George upp að sofa; þeim var um megn að sitja þarna lengur.

„Hún vissi eitthvað, Harry,“ sagði Ron. Þetta voru fyrstu orðin sem hann mælti síðan þeir stigu inn í fataskápinn á kennarastofunni. „Þess vegna var hún tekin. Hún ætlaði ekkert að segja okkur eitthvað um Percy. Hún hafði komist að einhverju um leyniklefann. Það hlýtur að vera þess vegna sem hún –“ sagði Ron og nuddaði augun æstur. „Ég meina, hún kemur úr hreinræktaðri galdrafjölskyldu. Það hlýtur að vera ástæðan.“

Harry horfði á blóðrauða sólina setjast við sjóndeildarhringinn. Honum hafði aldrei liðið jafn illa. Ef aðeins það væri eitthvað sem þeir gætu gert. Hvað sem væri.

„Harry,“ sagði Ron. „Heldurðu að það sé einhver möguleiki á að hún sé ekki … þú veist …“

Harry vissi ekki hvað hann átti að segja. Honum fannst ótrúlegt að Ginny væri enn á lífi.

„Veistu hvað?“ sagði Ron. „Ég held að við ættum að fara til Lockharts og segja honum að hverju við komumst. Hann ætlar að reyna að finna innganginn að leyniklefanum. Við getum sagt honum hvar við höldum að hann sé og að hann verði að vara sig á basilíuslöngunni.“

Harry féllst á uppástungu Rons þar sem honum kom ekkert annað í hug sem þeir gætu aðhafst. Gryffindorkrakkarnir voru svo niðurdregnir og vorkenndu Weasleybræðrunum svo mikið að enginn sagði orð þegar þeir stóðu á fætur, gengu gegnum herbergið og fóru út um gatið á veggnum.

Það var tekið að rökkva þegar þeir nálguðust skrifstofu Lockharts. Af hljóðunum að dæma gekk þar mikið á. Þeir heyrðu húsgögn dregin til, dynki og hratt fótatak.

Harry barði að dyrum og allt í einu varð grafarþögn hinum megin við hurðina. Svo opnaðist pínulítil rifa og þeir sáu annað augað á Lockhart gægjast út.

„Ó … Harry … og Ron …“ sagði hann og opnaði dyrnar örlítið betur.

„Ég á dálítið annríkt eins og er … ef þið gætuð verið fljótir …“

„Prófessor, við höfum mikilvægar upplýsingar,“ sagði Harry. „Við höldum að þær gætu komið þér að gagni.“

„Ja … öh … það skiptir nú …“ Þeirri hlið sem þeir sáu af andliti Lockharts virtist líða mjög óþægilega. „Ég á við … jæja … þá það …“ Hann opnaði dyrnar og þeir gengu inn.

Skrifstofan hans var næstum alveg tóm. Tvö stór koffort stóðu opin á gólfinu. Ljósgrænar, lillabláar og miðnæturbláar skikkjur, sem höfðu verið brotnar saman í flýti, lágu efst í öðru þeirra; í hinu var mikill fjöldi bóka í óreiðu. Ljósmyndunum, sem höfðu þakið veggina, var búið að troða ofan í kassa á borðinu.

„Ertu á leiðinni eitthvað?“ spurði Harry.

„Öh, ja, já,“ sagði Lockhart um leið og hann reif niður mynd af sjálfum sér í fullri stærð af hurðinni og fór að vefja hana

saman. „Ég var kallaður annað … afar mikilvægt … verð að fara …“ „Hvað með systur mína?“ sagði Ron og skipti litum.

„Ja … það er því miður … afar óheppilegt …“ sagði Lockhart og forðaðist augnaráð þeirra um leið og hann reif út skúffu og tæmdi innihald hennar ofan í poka. „Mér þykir það reglulega leitt …“

„Þú ert kennari í vörnum gegn myrku öflunum!“ sagði Harry. „Þú getur ekki farið núna! Ekki þegar verið er að fremja öll þessi myrkra verk hérna í skólanum!“

„Ja … ég verð að viðurkenna … þegar ég tók við þessari stöðu …“ muldraði Lockhart sem var í óðaönn að raða sokkum ofan á skikkjurnar. „… það var ekkert í starfslýsingunni … bjóst ekki við …“

„Ætlarðu þá að flýja á brott!“ sagði Harry vantrúaður. „Eftir allt sem við höfum lesið í bókunum þínum …“

„Bækur geta verið villandi,“ sagði Lockhart varlega.

„Þú skrifaðir þær!“ æpti Harry.

„Minn kæri,“ sagði Lockhart brúnaþungur og rétti úr sér. „Notaðu skynsemina. Bækurnar mínar hefðu ekki selst nándar nærri eins vel ef fólk hefði ekki haldið að ég hefði framkvæmt alla þessa hluti. Það nennir enginn að lesa um einhvern gamlan, ljótan seiðkarl frá Armeníu, ekki einu sinni þótt hann hafi bjargað heilu þorpi undan varúlfum. Hann myndi líta hræðilega út á bókarkápunni. Hann hefur engan stíl. Og nornin sem rak Hvítu vofuna á brott var með skarð í vör. Ég meina, látið ekki svona ...“

„Svo að þú hefur eignað þér heiðurinn af því sem annað fólk hefur gert?“ sagði Harry fullur vantrúar.

„Harry, Harry,“ sagði Lockhart og hristi höfuðið óþolinmóður, „það er ekki svo einfalt. Það er mikil vinna fólgin í þessu. Ég varð að hafa uppi á fólkinu. Fá nákvæmar útlistanir á því hvernig það hafði borið sig að. Svo lagði ég á það gleymskuálög svo það myndi ekki eftir neinu. Ef það er eitthvað sem ég er stoltur af, þá eru það gleymsku álögin mín. Nei, þetta hefur verið mikil vinna, Harry. Þetta snýst ekki bara um eiginhandaráritanir og blaðaljósmyndir. Ef þú vilt verða frægur skaltu búa þig undir hörkupúl.“

Hann lokaði koffortunum með skellum og læsti þeim.

„Látum okkur sjá,“ sagði hann. „Þá held ég að allt sé komið. Já. Aðeins eitt eftir.“

Hann dró fram sprotann sinn og sneri sér að þeim.

„Mér þykir það leitt, drengir, en ég verð að leggja á ykkur gleymskuálög. Ég get ekki leyft ykkur að kjafta leyndarmálunum mínum út um allt. Mér tækist aldrei að selja fleiri bækur …“

Harry náði að draga fram sprotann sinn í tæka tíð. Lockhart hafði varla náð að lyfta sprotanum þegar Harry þrumaði: „Expelliarmus!“

Lockhart þeyttist aftur á bak og hrasaði um koffortið sitt; hann missti sprotann en Ron greip hann og fleygði honum út um opinn gluggann.

„Þú hefðir ekki átt að láta Snape kenna okkur þetta bragð,“ sagði Harry bálreiður og sparkaði koffortinu til hliðar. Lockhart horfði veikburða upp til hans. Harry beindi sprotanum sínum enn að honum.

„Hvað viljið þið að ég geri?“ sagði Lockhart máttvana. „Ég veit ekki hvar leyniklefinn er. Það er ekkert sem ég get gert.“

„Þá er heppnin með þér,“ sagði Harry og otaði töfrasprotanum að Lockhart svo að hann neyddist til að brölta á fætur. „Við höldum nefnilega að við vitum hvar klefinn er. Og hvað leynist í honum. Förum af stað.“

Þeir fóru með Lockhart út úr skrifstofunni, niður næsta stiga og eftir langa, dimma ganginum með skilaboðunum á veggnum þar til þeir komu að hurðinni á klósettinu hennar Völu væluskjóðu.

Þeir sendu Lockhart fyrstan inn. Það gladdi Harry að sjá að hann skalf eins og hrísla.

Vala væluskjóða sat ofan á klósettkassanum í innsta básnum.

„Ó, ert þetta þú?“ sagði hún þegar hún sá Harry. „Hvað viltu í þetta skiptið?“

„Spyrja þig hvernig þú dóst,“ sagði Harry.

Svipurinn á Völu breyttist samstundis. Hún leit út eins og henni hefði aldrei verið sýndur annar eins áhugi.

„Ooooooh, það var hræðilegt,“ sagði hún ánægjulega. „Það gerðist nákvæmlega á þessu klósetti. Ég dó einmitt í þessum bás. Ég man þetta eins og það hefði gerst í gær. Ég faldi mig hérna inni af því að Olive Hornby hafði verið að stríða mér á gleraugunum mínum. Dyrnar voru læstar og ég var grátandi en þá heyrði ég að einhver kom inn. Ég heyrði skringilegt mál. Ég held að það hafi verið útlenska. Ég furðaði mig á því að það var strákur sem talaði. Þess vegna opnaði ég báshurðina til að segja honum að fara og nota strákaklósettið og þá …“ Vala þrútnaði af stolti og andlitið ljómaði. „Þá dó ég.“ „Hvernig?“ spurði Harry.

„Hef ekki hugmynd,“ sagði Vala og lækkaði róminn. „Ég man að ég sá stór, gul augu. Líkaminn stífnaði og svo leið ég á brott …“ Hún horfði dreymin á Harry. „En svo kom ég aftur. Sjáðu til, ég var staðráðin í að ásækja Olive Hornby. Hún sá sko eftir því að hafa nokkurn tíma hlegið að gleraugunum mínum.“

„Nákvæmlega hvar sástu þessi augu?“ spurði Harry.

„Einhvers staðar þarna,“ sagði Vala og benti í áttina að vaskinum fyrir framan básinn hennar.

Harry og Ron flýttu sér að honum. Lockhart hélt sig í hæfilegri fjarlægð með ægilegan skelfingarsvip á andlitinu.

Vaskurinn virtist í engu frábrugðinn öðrum vöskum. Þeir rannsökuðu hvern þumlung nákvæmlega að meðtöldum pípulögnunum undir honum. Og þá sá Harry það: Á öðrum koparkrananum var lítil mynd af snák.

„Þessi vaskur er alltaf bilaður,“ sagði Vala glaðlega þegar hann reyndi að skrúfa frá honum.

„Harry,“ sagði Ron. „Segðu eitthvað. Eitthvað á slöngutungu.“

„En …“ Harry braut heilann. Einu skiptin sem hann hafði talað slöngutungu voru þegar hann hafði staðið frammi fyrir alvöru slöngum. Hann einblíndi á litlu myndina og reyndi að ímynda sér að hún væri raunveruleg.

„Opnastu,“ sagði hann.

Hann leit á Ron sem hristi hausinn.

„Þetta skildi ég,“ sagði hann.

Harry leit aftur á snákinn og reyndi að neyða sjálfan sig til að trúa því að hann væri lifandi. Þegar hann hreyfði höfuðið gerði bjarminn frá kertunum það að verkum að snákurinn virtist hreyfast.

„Opnastu,“ sagði hann.

En það var ekki orðið sem hann heyrði; sérkennilegt hvæs skrapp út úr honum og á sömu stundu varð kraninn hvítglóandi og snarsnerist í hringi. Á næsta andartaki hreyfðist vaskurinn; hann sökk raunar úr augsýn svo að við þeim blasti risastórt rör sem opnaðist ofan í gólfið, nægilega stórt til að fullvaxinn maður gæti skriðið ofan í það.

Harry heyrði að Ron tók andköf og leit aftur upp. Hann hafði gert upp hug sinn.

„Ég ætla þarna niður,“ sagði hann.

Hann gat ekki gengið í burt núna, ekki þegar þeir voru loks búnir að finna innganginn að leyniklefanum. Og ekki ef það var minnsti möguleiki á að Ginny væri enn á lífi.

„Ég líka," sagði Ron. Það varð þögn.

„Þið virðist ekki þurfa á mér að halda," sagði Lockhart og það vottaði fyrir gamla brosinu. „Ég fer bara ..."

Hann lagði höndina á hurðarhúninn en Harry og Ron beindu báðir að honum sprotunum sínum.

„Þú ferð fyrstur niður," urraði Ron.

Lockhart nálgaðist opið náfölur og sprotalaus.

„Drengir mínir," sagði hann veikri röddu. „Drengir mínir, hvaða gagn er að því?"

Harry potaði sprotanum í bakið á honum. Lockhart renndi fótunum ofan í rörið.

„Ég held satt að segja ekki …“ hóf hann máls en Ron ýtti við honum og hann rann úr augsýn. Harry flýtti sér á eftir honum. Hann lét sig síga ofan í rörið og sleppti takinu.

Þetta var eins og að þjóta niður endalausa, slímuga, myrka rennibraut. Hann sá fleiri pípur greinast í allar áttir en engin var jafn stór og sú sem hann var í. Hún lá í sveigjum og beygjum og hallaðist bratt niður á við. Honum varð ljóst að hann stefndi miklu dýpra undir skólann en dýflissurnar lágu. Fyrir aftan sig heyrði hann Ron koma á fullri ferð.

Og einmitt þegar hann var farinn að velta því fyrir sér hvað myndi gerast þegar hann lenti réttist úr pípunni og hann flaug út og lenti með dynk á röku gólfinu í steinlögðum göngum sem auðveldlega var hægt að standa uppréttur í. Lockhart var að rísa á fætur skammt undan, alþakinn slími og hvítur eins og lak. Harry færði sig til hliðar þegar Ron kom á fljúgandi ferð út úr rörinu.

„Við hljótum að vera mörg hundruð metra undir skólanum,“ sagði Harry og röddin bergmálaði í dimmum göngunum.

„Við erum líklega undir stöðuvatninu,“ sagði Ron og leit í kringum sig á raka og slímuga veggina.

Allir þrír sneru sér við og störðu inn í myrkrið sem var fram undan.

„Lumos!“ muldraði Harry og endinn á sprotanum hans lýsti upp.

„Komið þið,“ sagði hann við Ron og Lockhart og af stað héldu þeir. Það small undan skónum þeirra á blautu gólfinu.

Göngin voru svo dimm að þeir sáu aðeins stutt frá sér. Á blautum veggjunum dönsuðu gríðarlegir skuggarnir þeirra í ljósinu frá sprota Harrys.

„Munið,“ sagði Harry lágróma þegar þeir fikruðu sig varlega áfram, „ef þið verðið varir við minnstu hreyfingu, lokið þá strax augunum …“

En í göngunum var grafarþögn og fyrsta óvænta hljóðið sem þeir heyrðu var hávært marr þegar Ron steig ofan á eitthvað sem kom í ljós að var rottuhauskúpa. Harry lét sprotann síga til að líta á gólfið og sá að það var þakið litlum dýrabeinum. Um leið og þeir gengu fyrir drungalegt horn í göngunum með

Harry í fararbroddi reyndi hann af alefli að hugsa ekki um hvernig Ginny kynni að líta út ef þeim tækist að finna hana.

„Harry – það er eitthvað þarna fram undan –“ sagði Ron hásri röddu og greip í öxlina á Harry.

Þeir frusu í sporunum og störðu fram fyrir sig. Harry sá óljóst útlínurnar á einhverju ferlíki sem lá í bugðum þvert yfir göngin. Það hreyfðist ekki.

„Kannski sefur hún,“ hvíslaði hann og gaut augunum á hina tvo. Lockhart hélt höndunum fyrir augun. Harry sneri sér aftur að skepnunni, hjartað barðist svo ákaft að hann verkjaði í brjóstið.

Hann pírði augun svo hann rétt sá milli augnlokanna og fikraði sig áfram með sprotann hátt á lofti.

Ljósið lýsti upp gríðarstórt, eiturgrænt snákaskinn. Þetta var bara hamurinn sem lá þarna samanskroppinn og tómur. Skepnan sem hafði hleypt hömum var að minnsta kosti sjö metrar að lengd.

„Ja, hérna,“ sagði Ron veikri röddu.

Þeir urðu varir við skyndilega hreyfingu á bak við sig. Hné Lockharts höfðu gefið sig.

„Stattu upp,“ sagði Ron hvassri röddu og beindi sprotanum að Lockhart.

Lockhart stóð á fætur – í næstu andrá kastaði hann sér á Ron og felldi hann.

Harry stökk að honum, en of seint – Lockhart rétti móður úr sér með sprotann hans Rons í hendinni og leiftrandi bros á vör.

„Úti er ævintýri, drengir!“ sagði hann. „Ég mun taka með mér dálítið af þessum slönguham aftur í skólann og segja þeim að ég hafi því miður komið of seint til að bjarga stúlkunni og sá harmleikur hafi átt sér stað að þið tveir misstuð vitið þegar þið sáuð limlestan líkama hennar – kveðjið nú minningar ykkar!“

Hann hóf samanlímdan sprotann yfir höfuð sér og hrópaði: „Obliviate!“

Sprotinn sprakk af sama krafti og lítil sprengja. Harry greip um höfuðið og hljóp hrasandi yfir slönguhaminn til að forða sér undan stórum hnullungum sem hrundu niður úr loftinu með miklum gný. Á næsta andartaki var hann aleinn handan við grjóthrúgu sem hafði myndast og fyllti út í göngin.

„Ron!“ kallaði hann. „Er í lagi með þig? Ron!“

„Ég er hérna!“ hljómaði hálfkæfð rödd Rons hinum megin við hrúguna. „Það er allt í lagi með mig – en bjáninn er eitthvað slappur – hann fékk högg frá sprotanum –“

Það heyrðist lágur dynkur og hávært „Ái!“ Það var helst að heyra að Ron hefði sparkað í sköflunginn á Lockhart.

„Hvað gerum við nú?“ sagði Ron örvæntingarfullur. „Við komumst ekki í gegn … það tekur óratíma …“

Harry leit upp í loft. Stórar sprungur höfðu myndast. Hann hafði aldrei reynt að brjóta í sundur neitt svona stórt með hjálp galdra – og hvað ef göngin hryndu yfir þá?

Það heyrðist annar dynkur og annað „Ái“ handan við grjótið. Þeir voru að sóa dýrmætum tíma til einskis. Ginny hafði verið

inni í leyniklefanum í margar klukkustundir … Harry vissi að það var aðeins um eitt að ræða.

„Bíddu þarna!“ kallaði hann til Rons. „Bíddu með Lockhart. Ég held áfram … Ef ég verð ekki kominn aftur eftir klukkutíma …“ Það varð mjög spennuþrungin þögn.

„Ég ætla að reyna að færa þessa steina,“ sagði Ron og reyndi að láta orð sín hljóma eðlilega. „Svo þú komist – komist aftur í gegn. Heyrðu, Harry …“

„Sé þig eftir smástund,“ sagði Harry og reyndi að láta sem hann væri hvergi smeykur.

Og svo hélt hann einn af stað framhjá gríðarstórum slönguhamnum.

Stuttu síðar var hann hættur að heyra í Ron strita við grjóthnull ungana. Göngin hlykkjuðust í endalausum beygjum. Hver taug í líkama Harrys var spennt til hins ýtrasta. Hann óskaði þess að göngin tækju brátt enda en á hinn bóginn kveið hann því sem biði hans þar. Þegar hann læddist fyrir enn eina beygjuna kom hann loks auga á sterk

byggðan vegg fram undan sem í voru grafnir tveir samanfléttaðir snákar með skínandi smaragða í augna stað.

Harry nálgaðist þá og var þurr í hálsinum. Hann þurfti ekki að hafa mikið fyrir því að ímynda sér að þessir snákar væru raunverulegir; augun voru sérkennilega lifandi.

Hann gat getið sér þess til hvað hann þyrfti að gera næst. Hann ræskti sig og smaragðsaugun glömpuðu.

„Opnastu,“ sagði Harry með lágværu hvæsi.

Slöngurnar aðskildust þegar veggurinn opnaðist; helmingarnir tveir runnu hljóðlega til hliðar og Harry gekk inn í gapið skjálfandi á beinunum.

# Sautjándi kafli

# Arftaki Slytherins

Hann stóð við endann á mjög löngum, rökkvuðum klefa. Háar steinsúlur, sem í voru grafnir fleiri samanfléttaðir snákar, teygðu sig upp og studdu við loft sem ekki var sjáanlegt í myrkrinu. Súlurnar vörpuðu löngum, svörtum skuggum á sérkennilegt, grænleitt húmið sem fyllti þennan stað.

Hjartað barðist ótt í brjósti Harrys þar sem hann stóð og hlustaði á ískalda þögnina. Gæti basilíuslangan legið í leyni úti í skuggsælu horni eða ef til vill á bak við eina súluna? Og hvar var Ginny?

Hann dró sprotann fram og færði sig varlega meðfram snákasúlunum. Hvert fótatak endurómaði frá myrkvuðum veggjunum. Hann pírði augun, tilbúinn að klemma þau aftur ef hann yrði var við minnstu hreyfingu. Tómar augntóftir snákanna virtust fylgja honum við hvert fótmál. Oftar en einu

sinni hrökk hann í kút af því að honum fannst einhver þeirra hreyfa sig.

Þegar hann nálgaðist innstu súlurnar kom stytta í ljós við endavegginn. Hún var jafnhá klefanum sjálfum.

Harry varð að halla höfðinu aftur til að koma auga á gríðarstórt steinandlitið: Það var eldgamalt og apalegt, með langt, þunnt skegg sem náði næstum niður að skikkjufaldinum. Undan honum stungust tveir risastórir, gráir fætur sem stóðu á sléttu klefagólfinu. Á milli fótanna lá lítil, svartklædd vera með mikið eldrautt hár á grúfu. „Ginny!“ muldraði Harry. Hann þaut til hennar og féll niður á hnén.

„Ginny – ekki vera dáin – gerðu það, ekki vera dáin –“ Hann fleygði sprotanum frá sér, greip um axlirnar á Ginny og sneri henni við. Andlit hennar var marmarahvítt og ískalt en augu hennar voru lokuð sem þýddi að hún var ekki steingerð. En þá hlaut hún að vera …

„Ginny, vaknaðu nú, gerðu það,“ tautaði Harry örvæntingarfullur og hristi hana. Höfuðið á Ginny valt máttlaust til hliðanna.

„Hún vaknar ekki,“ sagði mjúk rödd. Harry brá og sneri sér við á hnjánum.

Hávaxinn, svarthærður strákur hallaði sér upp að nálægri steinsúlu og fylgdist með. Útlínur hans voru einkennilega óskýrar eins og Harry væri að horfa á hann í gegnum móðu. En Harry þekkti hann þrátt fyrir það …

„Trevor – Trevor Delgome?“

Trevor kinkaði kolli og hafði ekki augun af andliti Harrys.

„Hvað áttu við með að hún vakni ekki?“ sagði Harry örvæntingarfullur. „Er hún … hún er ekki …?“

„Hún er enn á lífi,“ sagði Trevor. „Rétt tórir.“

Harry starði á hann. Trevor Delgome hafði gengið í Hogwartskóla fyrir fimmtíu árum en þó stóð hann hér, umvafinn furðulegri, móðukenndri birtu, ekki deginum eldri en sextán ára.

„Ertu draugur?“ spurði Harry óöruggur.

„Ég er minning,“ sagði Trevor hljóðlega. „Geymd í dagbók í fimmtíu ár.“

Hann benti í átt að gríðarstórum tám styttunnar. Þar lá hún opin, litla, svarta dagbókin sem Harry hafði fundið inni á klósettinu hennar Völu væluskjóðu. Eitt andartak velti Harry því fyrir sér hvernig hún hefði endað þarna – en það voru brýnni mál sem þurfti að leysa.

„Þú verður að hjálpa mér, Trevor,“ sagði Harry og reisti höfuðið á Ginny. „Við verðum að koma henni héðan. Það er basilíuslanga … ég veit ekki hvar hún er, en hún gæti birst hvenær sem er … Værirðu ekki til í að hjálpa mér …“

Trevor hreyfði sig ekki. Harry tókst með erfiðismunum að lyfta Ginny hálfvegis. Hann beygði sig niður til að ná í sprotann sinn.

En hann var horfinn.

„Sástu …?“

Hann leit upp. Trevor horfði enn á hann – og sneri sprotanum hans Harrys á milli langra fingranna.

„Takk,“ sagði Harry og rétti út höndina eftir honum.

Það örlaði á brosviprum við munnvik Trevors. Hann hélt áfram að stara á Harry og snúa sprotanum letilega á milli fingranna.

„Hlustaðu á mig,“ sagði Harry stressaður, hnén voru að gefa sig undan máttlausum líkama Ginnyar. „Við verðum að fara! Ef slangan kemur …“

„Hún kemur ekki nema á hana sé kallað,“ sagði Trevor rólega.

Harry lét Ginny síga niður á gólf. Það var honum um megn að halda á henni lengur.

„Hvað áttu við?“ sagði hann. „Heyrðu, láttu mig fá sprotann minn, ég gæti þurft að nota hann …“

Bros Trevors varð enn breiðara.

„Þú munt ekki þurfa á honum að halda,“ sagði hann. Harry starði á hann.

„Hvað áttu við með því?“

„Ég hef beðið lengi eftir þessu, Harry Potter,“ sagði Trevor. „Eftir tækifæri til að sjá þig. Tala við þig.“

„Sjáðu til,“ sagði Harry sem var að missa þolinmæðina, „ég held að þú skiljir þetta ekki alveg. Við erum inni í leyniklefanum. Við getum talað saman seinna ...“

„Við tölum saman núna,“ sagði Trevor með breiðu brosi og stakk sprotanum hans Harrys í vasann.

Harry starði á hann. Það var eitthvað skrítið á seyði hérna … „Hvað kom fyrir Ginny?“ spurði hann hægt.

„Það er áhugaverð spurning,“ sagði Trevor vingjarnlega. „Og löng saga að segja frá því. Ég hugsa að hin raunverulega ástæða fyrir því að Ginny Weasley er í þessu ástandi sé sú að hún opnaði hjarta sitt og kjaftaði öllum leyndarmálum sínum í ósýnilegan mann sem hún þekkti ekki.“

„Hvað ertu að tala um?“ spurði Harry.

„Dagbókina,“ sagði Trevor. „Dagbókina mína. Ginny litla hefur verið að skrifa í hana mánuðum saman. Hún hefur trúað mér

fyrir öllum sínum vorkunnarverðu áhyggjum og sorgum. Hún skrifaði um bræður sína sem stríða henni, um það þegar hún kom í skólann með notaðar bækur og skikkjur, og“ – augu Trevors glömpuðu – „hvað hún óttaðist að hinum fræga, góða Harry Potter myndi aldrei líka við hana …“

Augu Trevors hvíldu stöðugt á andliti Harrys. Það vottaði nærri því fyrir hungri í augnaráðinu.

„Það var afskaplega leiðinlegt að þurfa að hlusta á kjánaleg vandamál ellefu ára gamallar stúlku,“ hélt hann áfram. „En ég var þolinmóður. Ég svaraði henni. Ég var skilningsríkur og góður. Ginny var farin að elska mig. Enginn hefur nokkurn tíma sýnt mér jafn mikinn skilning og þú, Trevor … ég er svo fegin að hafa þessa dagbók sem ég get trúað fyrir leyndar málum mínum … Þetta er eins og að eiga vin sem maður getur farið með út um allt …“

Trevor hló háum, köldum hlátri sem fór honum illa. Hárin risu í hnakkanum á Harry.

„Þó að ég segi sjálfur frá, Harry, þá hefur mér alltaf tekist að heilla þær manneskjur sem ég hef þarfnast. Þannig úthellti Ginny sál sinni yfir mig og sál hennar reyndist einmitt vera

það sem ég þarfnaðist … Ég nærðist á dýpstu leyndarmálum hennar og verstu áhyggjum og styrktist og efldist með hverjum deginum. Ég varð kraftmikill, mun kraftmeiri en Ginny litla Weasley. Ég varð nægilega sterkur til að innvígja hana í leyndarmálin mín … til að úthella dálitlu af minni sál yfir hana …“

„Hvað áttu við?“ sagði Harry. Hann var orðinn skraufþurr í munninum.

„Ertu ekki búinn að átta þig á því ennþá, Harry Potter?“ sagði Trevor mjúklega. „Ginny Weasley opnaði leyniklefann. Hún kyrkti hanana í skólanum og málaði ógnandi skilaboð á veggina. Hún sigaði Slytherinslöngunni á fjóra blóðníðinga og kött skvibsins.“ „Nei,“ hvíslaði Harry.

„Jú,“ sagði Trevor rólega. „Í fyrstu vissi hún auðvitað ekki hvað hún var að gera. Það var mjög fyndið. Ég vildi að þú gætir séð dagbókarf ærslurnar eftir það … þær voru mun áhugaverðari … Kæri Trevor,“ þuldi hann og horfði á skelfingu lostið andlit Harrys, „ég held ég sé að missa minnið. Það eru hanafjaðrir á skikkjunni minni og ég veit ekki hvernig þær komust þangað. Kæri Trevor, ég man ekki hvað gerðist um kvöldið á hrekkjavökunni en það var ráðist á kött og skikkjan

mín er ötuð í málningu. Kæri Trevor, Percy er alltaf að segja mér hvað ég sé föl og ólík sjálfri mér. Ég held að hann gruni mig … Í dag átti sér stað önnur árás og ég veit ekki hvar ég var. Trevor, hvað á ég að gera? Ég held að ég sé að missa vitið … Ég held að það sé ég sem er að ráðast á alla, Trevor!“

Harry kreppti hnefana svo ákaft að neglurnar skárust djúpt inn í lófana.

„Það leið langur tími áður en heimska, litla Ginny hætti að treysta dagbókinni sinni,“ sagði Trevor. „En loks fylltist hún grunsemdum og reyndi að losa sig við hana. Og þá komst þú til sögunnar, Harry. Þú fannst hana og ekkert gæti hafa glatt mig meira. Af öllu því fólki sem hefði getað fundið hana varst það þú, maðurinn sem mig langaði mest að hitta …“

„Og af hverju langaði þig að hitta mig?“ spurði Harry. Reiðin kraumaði í honum og hann átti erfitt með að láta röddina hljóma eðlilega.

„Jú, sjáðu til, Ginny sagði mér allt um þig, Harry,“ sagði Trevor.

„Þessa hrífandi sögu.“ Augu hans hvörfluðu að örinu á enni Harrys og blikið varð enn græðgislegra. „Ég vissi að ég varð að komast að fleiru um þig, tala við þig, hitta þig ef ég gæti. Til að öðlast traust þitt ákvað ég að sýna þér þegar ég handsamaði bjálfann hann Hagrid …“

„Hagrid er vinur minn,“ sagði Harry og gat ekki lengur dulið skjálftann í röddinni. „Og þú komst honum í klípuna, er það ekki? Ég hélt að þú hefðir gert mistök, en …“

Trevor hló háværum hlátri.

„Það voru mín orð gegn Hagrids, Harry. Þú getur ímyndað þér hvernig þetta kom Armando Dippet gamla fyrir sjónir. Annars vegar var Trevor Delgome, fátækur en bráðgáfaður, munaðarlaus en afar hug rakkur umsjónarmaður, fyrirmyndarnemandi … en hins vegar var það stóri, klaufalegi Hagrid sem lenti í vandræðum í annarri hverri viku – reyndi að ala varúlfa undir rúminu sínu og laumaðist út í skóg til að glíma við tröll … en ég verð að viðurkenna að meira að segja ég varð undrandi á því hversu vel áætlunin gekk. Ég var viss um að einhver hlyti að gera sér grein fyrir að Hagrid gæti ekki með nokkru móti verið arftaki Slytherin. Það hafði tekið mig fimm ár að viða að mér upplýsingum um leyniklefann og

uppgötva leynilega innganginn … eins og Hagrid hefði gáfurnar í það, hvað þá kraftinn!

Það var bara ummyndunarkennarinn, Dumbledore, sem virtist viss um að Hagrid væri saklaus. Hann fékk Dippet til að leyfa Hagrid að vera áfram í Hogwartskóla og þjálfa hann sem skógarvörð. Já, ég held að Dumbledore hafi grunað eitthvað … honum virtist aldrei líka jafn vel við mig og hinum kennurunum …“

„Ég þori að veðja að Dumbledore hefur séð beint í gegnum þig,“ sagði Harry og gnísti tönnum.

„Ja, hann fylgdist svo sannarlega náið með mér eftir að Hagrid var rekinn,“ sagði Trevor kæruleysislega. „Ég gerði mér grein fyrir að það væri ekki óhætt að opna leyniklefann aftur á meðan ég var ennþá í skólanum. En ég ætlaði ekki að láta öll þessi ár sem ég hafði leitað hans fara til spillis. Ég ákvað að skilja dagbókina mína eftir í skólanum og varðveita hinn sextán ára gamla Trevor á síðunum í þeirri von að einhver fyndi hana seinna meir og hjálpaði mér við að ljúka því göfuga starfi sem Salazar Slytherin hafði byrjað á.“

„En þú hefur ekki lokið því,“ sagði Harry sigri hrósandi. „Enginn dó í þetta skiptið, ekki einu sinni kötturinn. Eftir nokkrar klukkustundir verður Alrúnadrykkurinn tilbúinn og allir sem liggja steingerðir munu vakna upp …“

„Var ég ekki búinn að segja þér að það skiptir mig engu máli lengur að drepa blóðníðinga?“ sagði Trevor rólega. „Í marga mánuði hefur eina markmiðið mitt verið – þú.“ Harry starði á hann.

„Þú getur rétt ímyndað þér hvað ég varð reiður þegar dagbókin mín var opnuð aftur … og það var Ginny sem skrifaði í hana en ekki þú. Hún sá að dagbókin var komin í þína vörslu og varð skelfingu lostin. Hvað nú, ef þú kæmist að því hverrar náttúru bókin væri og ég segði þér öll leyndarmálin hennar? Og það sem verra var, hvað ef ég segði þér hver hefði verið að kyrkja hanana? Litli óþekktarormurinn læddist því inn í svefnsalinn þinn og beið þar til allir voru farnir svo hún gæti stolið henni aftur. En ég vissi hvað þurfti að gera. Þú varst greinilega kominn á slóð arftaka Slytherins. Af því sem Ginny sagði mér um þig gat ég ráðið að þú myndir leggja þig allan fram við að afhjúpa þennan leyndardóm – sérstaklega ef einn af bestu vinum þínum yrði fyrir árás. Og

Ginny sagði mér að allur skólinn væri að pískra um að þú værir slönguhvíslari …

Þess vegna lét ég Ginny skrifa sinn eigin dauðadóm á vegginn og neyddi hana til að koma hingað niður að bíða. Hún barðist um og grét og var orðin mjög þreytandi. En nú er ekki mikið líf eftir í henni … Hún lagði of mikið af sál sinni í dagbókina; í mig. Nægilega mikið til að ég gæti loks yfirgefið blaðsíðurnar … Ég hef verið að bíða eftir þér síðan við komum hingað. Ég vissi að þú kæmir. Það er margt sem ég vil spyrja þig um, Harry Potter.“

„Eins og hvað?“ hreytti Harry út úr sér og kreppti hnefana.

„Ja,“ sagði Trevor og brosti vinsamlega, „hvernig stendur á því að horuðum strák, án nokkurra sérstakra galdrahæfileika, tókst að sigra mesta galdramann allra tíma? Hvernig komst þú undan með eitt ör á enninu en hinn mikli Voldemort missti allan mátt sinn?“ Það var undarlegur, gráðugur, rauður glampi í augum hans.

„Af hverju hefur þú áhuga á því hvernig ég komst undan?“ spurði Harry hægt. „Voldemort var uppi eftir þinn dag …“

„Voldemort,“ sagði Trevor mjúklega, „er fortíð mín, nútíð og framtíð, Harry Potter …“

Hann tók sprota Harrys upp úr vasanum og skrifaði með honum tvö skínandi orð í loftið:

TREVOR DELGOME

Og með einni sveiflu sprotans fóru stafirnir að umraða sér sjálfir:

ÉG ER VOLDEMORT

„Skilurðu nú?“ hvíslaði hann. „Ég var þegar farinn að nota þetta nafn í Hogwartskóla en að sjálfsögðu bara í nánum vinahópi. Ég ætlaði mér ekki að bera viðurstyggilegt Mugganafn föður míns til æviloka! Ég, sem hef blóð sjálfs Salazars Slytherin í æðum úr ætt móður minnar. Af hverju ætti ég að bera andstyggilegt Mugganafn einhvers sem yfirgaf mig áður en ég fæddist af því hann komst að því að móðir mín var norn? Nei, Harry – ég skapaði mér nýtt nafn. Nafn sem ég vissi að ætti eftir að vekja ótta dag einn, þegar ég væri orðinn mesti galdramaður heims!“

Heilinn í Harry virtist hættur að starfa. Hann starði dofinn á munaðarlausa drenginn sem seinna varð samviskulaus morðingi og drap foreldra Harrys og svo marga aðra … Hann þurfti að beita sig hörðu til að geta talað.

„Þú ert það ekki,“ sagði hann rólegri röddu sem var full af hatri.

„Ekki hvað?“ hreytti Trevor út úr sér.

„Mesti galdramaður í heiminum,“ sagði Harry og andaði þungt.

„Mér þykir leitt að valda þér vonbrigðum og allt það, en mesti galdramaðurinn í heiminum er Albus Dumbledore. Það eru allir sammála því. Meira að segja þegar þú varst sem máttugastur þorðirðu ekki að ráðast inn í Hogwartskóla. Dumbledore sá í gegnum þig þegar þú gekkst í skólann og hann hræðir þig enn, hvar sem þú felur þig þessa dagana …“

Brosið hafði dofnað á vörum Trevors og í stað þess breiddist andstyggilegur svipur yfir andlit hans.

„Dumbledore var flæmdur úr kastalanum út af einni saman minningunni um mig!“ hvæsti hann.

„Hann er ekki jafn fjarri og þú heldur!“ svaraði Harry um hæl. Hann slengdi þessu fram einungis til að hræða Trevor. Þetta var miklu fremur óskhyggja en að hann tryði því að það væri satt … Trevor opnaði munninn en stirðnaði.

Sérkennileg tónlist barst þeim til eyrna. Trevor snarsnerist á hæli og litaðist einbeittur um í mannlausum klefanum. Tónlistin varð háværari. Tónarnir voru óhugnanlegir, kitlandi og ójarðneskir; hárin risu á höfðinu á Harry og það var sem hjarta hans þendist út. Og þegar tónlistin hafði náð slíkri hæð að Harry fann hana titra inni í líkama sínum brutust út logar efst uppi á næstu súlu. Blóðrauður fugl á stærð við svan kom í ljós, syngjandi þennan undarlega söng til móts við hvelft loftið. Hann hafði glitrandi, gyllt páfuglsstél og skínandi gylltar klær sem héldu um tötralegan böggul.

Á næsta andartaki flaug hann beinustu leið til Harrys. Hann lét böggulinn falla að fótum hans og lenti sjálfur með miklum þunga á öxl hans. Þegar hann lagði saman vængina leit Harry upp og sá að hann var með hvassan, gylltan gogg og svört perluaugu.

Fuglinn hætti að syngja. Hann sat kyrr og hlýr við vanga Harrys og hafði ekki augun af Trevor.

„Þetta er fönix …“ sagði Trevor og starði á móti á fuglinn með lævísu augnaráði.

„Fawkes?“ hvíslaði Harry og hann fann gylltar klær fuglsins kreista öxl sína varlega.

„Og þetta –“ sagði Trevor og horfði nú á tötralega böggulinn sem Fawkes hafði sleppt við fætur Harrys, „þetta er gamli flokkunarhatturinn …“

Og þetta var hann. Hann lá hreyfingarlaus, bættur, slitinn og skítugur við fætur Harrys.

Trevor fór aftur að hlæja. Hann hló svo hátt og skerandi að hláturinn endurómaði um myrkan klefann eins og tíu af hans tagi væru að hlæja í einu …

„Er þetta það sem Dumbledore sendir hjálparmanni sínum! Söngfugl og gamlan hatt! Finnst þér þú öruggur og hugrakkur núna, Harry Potter?“

Harry svaraði ekki. Í augnablikinu sá hann ekki hvaða gagn var að flokkunarhattinum og Fawkes, en hann var ekki lengur einn. Hann beið rólegur eftir að Trevor hætti að hlæja og fann hvernig kjarkur hans óx.

„Jæja, snúum okkur að efninu, Harry,“ sagði Trevor sem brosti enn út að eyrum. „Við höfum hist tvisvar sinnum – í fortíð þinni og framtíð minni. Og í bæði skiptin hefur mér mistekist að drepa þig. Hvernig lifðir þú af? Segðu mér allt. Því lengur sem þú talar,“ bætti hann mjúklega við, „því lengur helurðu lífi.“

Hugsanirnar sveimuðu um huga Harrys þegar hann íhugaði möguleika sína. Trevor var með töfrasprotann. Hann sjálfur hafði Fawkes og flokkunarhattinn, en hvorugur þeirra kom sér sérstaklega vel í einvígi. Útlitið var ekki gott … en því lengur sem hann stæði þarna því minni yrðu lífslíkur Ginnyar. Og á meðan urðu útlínur Trevors sífellt skýrari … Ef þetta varð að enda með átökum á milli hans og Trevors, þá var betra að það gerðist fyrr en síðar.

„Það veit enginn hvers vegna þú misstir máttinn þegar þú réðst á mig,“ sagði Harry skyndilega. „Ég skil það ekki sjálfur.

En ég veit hvers vegna þér tókst ekki að drepa mig. Vegna þess að móðir mín lét lífið við að bjarga mér. Mín ómerkilega Muggaættaða móðir,“ bætti hann við, nötrandi af innibyrgðri reiði. „Hún kom í veg fyrir að þú dræpir mig. Og ég hef séð hvernig þú ert í raun og veru. Ég sá þig á síðasta ári. Þú ert búinn að vera. Þú ert varla á lífi. Þú náðir ekki lengra með allan þinn mátt! Þú ert í felum. Þú ert ljótur, þú ert andstyggilegur ...“

Andlit Trevors afmyndaðist. Svo þvingaði hann fram brosgrettu.

„Jæja. Svo að móðir þín lét lífið við að bjarga þér. Já, það eru öflugir gagntöfrar. Ég sé það núna ... þegar öllu er á botninn hvolft er ekkert merkilegt við þig. Ég hef nefnilega velt því mikið fyrir mér. Það er reyndar margt líkt með okkur. Meira að segja þú hlýtur að hafa tekið eftir því. Báðir með blandað blóð í æðum, munaðarleysingjar, aldir upp hjá Muggum. Líklega einu slönguhvíslararnir sem hafa gengið í Hogwartskóla síðan Salazar Slytherin var og hét. Við líkjumst meira að segja hvor öðrum í útliti ... en þegar allt kemur til alls var það ekki annað en hundaheppni sem bjargaði þér frá mér. Það var allt og sumt sem ég vildi vita.“

Harry beið þess kvíðinn að Trevor lyfti sprotanum. En skakkt bros Trevors breikkaði enn.

„Nú ætla ég að kenna þér örlitla lexíu. Við skulum efna til viðureignar á milli hins máttuga Voldemorts, arftaka Salazars Slytherin, og hins fræga Harrys Potter með þau bestu vopn sem Dumbledore gat látið honum í té …“

Hann leit glottandi á Fawkes og flokkunarhattinn og gekk fjær. Harry fann hvernig óttinn læsti sig um líkama hans og fylgdist með Trevor taka sér stöðu fyrir framan styttuna af Slytherin og líta upp á hálfmyrkvað andlit hans. Trevor opnaði munninn og hvæsti – en Harry skildi hvað hann sagði.

„Talaðu til mín, Slytherin, þú máttugasti af fjórmenningum Hogwartskóla.“

Harry snarsneri sér við og leit upp á styttuna. Fawkes riðaði á öxl hans.

Stórt steinandlit Slytherins hreyfðist. Harry horfði skelfingu lostinn á munninn opnast meira og meira þar til hann var orðinn að gríðarstórri, svartri holu.

Og það var hreyfing inni í munni styttunnar. Eitthvað hlykkjaðist upp úr djúpinu. Harry hörfaði undan þar til hann stóð með bakið upp við vegg. Þegar hann lokaði augunum fann hann að Fawkes breiddi úr vængjunum og hóf sig til flugs. Harry langaði að æpa: „Skildu mig ekki eftir!“ en hvaða möguleika átti fönix á móti konungi slangnanna?

Eitthvert ferlíki féll á steingólfið. Harry fann hvernig gólfið titraði – hann vissi hvað var að gerast, hann skynjaði það, hann sá greinilega fyrir sér hvernig risaslangan teygði hægt og rólega úr sér. Þá heyrði hann hvæsandi rödd Trevors:

„Dreptu hann.“

Basilíuslangan mjakaði sér í áttina að Harry; hann heyrði þungan líkamann renna sér yfir rykugt gólfið. Harry hljóp til hliðar með augun klemmd aftur og hendurnar útréttar fyrir framan sig til að þreifa sig áfram. – Trevor hló –

Harry hrasaði. Hann datt harkalega á steingólfið og fann blóðbragð – snákurinn var ekki nema nokkra metra frá honum, Harry heyrði hann nálgast …

Ærandi, spúandi hvæs hljómaði einhvers staðar fyrir ofan höfuð hans og skyndilega fékk Harry á sig svo þungt högg að hann kastaðist harkalega út í vegginn. Á meðan hann beið þess að finna höggtennurnar sökkva í líkama sinn heyrði hann að eitthvað slóst tryllingslega utan í súlurnar …

Hann gat ekki stillt sig – hann opnaði rifu á annað augað til að sjá hvað væri á seyði.

Risastór slangan, eiturgræn og digur eins og eikarbolur, hóf sig hátt til lofts og sveiflaði stórum, flötum hausnum slyttislega á milli steins úlnanna. Harry skalf og var viðbúinn því að loka augunum ef slangan sneri sér aftur að honum en nú sá hann hvað hafði truflað hana. Fönixinn flögraði í kringum haus slöngunnar og hún glefsaði hamslaus á eftir honum með höggtönnunum sem voru langar og mjóar eins og sverð …

Fawkes steypti sér niður og langur, gylltur goggurinn hvarf úr augsýn. Skyndilega sullaðist dökkt blóð yfir gólfið. Harry vék sér naumlega undan hala slöngunnar og áður en hann gæti lokað augunum sneri hún sér að honum. Harry leit beint framan í hana og sá að fönixinn hafði stungið úr henni gul,

útstæð augun; blóð lagaði úr sárinu og slangan spýtti og hvæsti af sársauka.

„Nei!“ heyrði hann Trevor öskra. „Láttu fuglinn eiga sig! Láttu fuglinn eiga sig! Strákurinn er fyrir aftan þig! Þú getur þefað hann uppi! Dreptu hann!“

Blinduð slangan sveiflaðist ringluð til og frá, enn banvæn. Fönixinn hringsólaði yfir hausnum á henni og söng óhugnanlega um leið og hann stakk hana aftur og aftur í alblóðugt snjáldrið.

„Hjálp, hjálp,“ muldraði Harry tryllingslega, „einhver – hver sem er …“

Halinn á slöngunni slóst aftur yfir gólfið. Harry beygði sig. Eitthvað mjúkt hentist framan í hann.

Basilíuslangan hafði sópað flokkunarhattinum í fangið á Harry. Hann greip hann. Hatturinn var eini möguleiki hans – hann keyrði hattinn niður yfir höfuðið og fleygði sér flötum á gólfið um leið og hali slöngunnar sveiflaðist yfir hann.

Hjálpaðu mér – hjálpaðu mér – hugsaði Harry með hattinn klemmdan yfir augun. Ó, hjálpaðu mér nú …

Enginn svaraði honum. Þess í stað dróst hatturinn saman eins og ósýnileg hönd hefði gripið fast um hann.

Eitthvað mjög hart og þungt hæfði Harry í höfuðið svo að minnstu munaði að hann missti meðvitund. Stjörnur dönsuðu fyrir augunum á honum þegar hann reif hattinn af sér. Ofan í honum var eitthvað langt og hart.

Hann stakk hendinni ofan í hattinn og dró upp skínandi silfursverð með handfangi sem var alsett glitrandi rúbínum á stærð við hænuegg.

„Dreptu strákinn! Láttu fuglinn eiga sig! Strákurinn er fyrir aftan þig! Þefaðu hann uppi!“

Harry stökk á fætur með sverðið á lofti. Hausinn á slöngunni seig niður og langur búkurinn hlykkjaðist og hringaðist um steinsúlurnar þegar hún sneri sér að honum. Hann sá stórar, tómar augntóftirnar, og hvernig munnurinn opnaðist upp á gátt, reiðubúinn að gleypa hann í heilu lagi. Hann kom auga á langar, eitraðar höggtennurnar …

Slangan kastaði sér áfram í blindni – Harry vék sér undan svo að hausinn á henni rakst utan í vegg. Hún gerði aðra atlögu og löng, klofin tungan straukst utan í Harry. Hann hóf sverðið á loft með báðum höndum …

Basilíuslangan miðaði enn einu sinni og í þetta sinn skeikaði henni ekki – Harry lét sverðið vaða af fullum þunga upp í góminn á slöngunni …

En um leið og heitt blóðið streymdi yfir hendur Harrys fann hann fyrir skerandi sársauka rétt fyrir ofan olnbogann. Löng, eitruð högg tönn stakkst dýpra og dýpra í handlegginn á honum og brotnaði þegar slangan steyptist í dauðakippunum niður á gólf.

Harry seig niður vegginn. Hann greip um höggtönnina, sem dreifði eitri um æðar hans, og kippti henni úr handleggnum. En hann vissi að það var um seinan. Nístandi sársauki breiddist út um líkamann. Þegar hann hafði kastað frá sér höggtönninni og horfði á blóðið gegnvæta skikkjuna varð sjónin óskýrari. Klefinn var að leysast upp í óljósa litamóðu.

Eitthvað blóðrautt sveif hjá og Harry heyrði skröltið í klóm við hlið sér.

„Fawkes,“ sagði Harry óskýrt. „Þú varst frábær, Fawkes …“ Hann fann að fuglinn lagði fagurt höfuðið ofan á sárið eftir höggtönnina.

Hann heyrði fótatak bergmála um klefann og sá svartan skugga gnæfa yfir sig.

„Þú ert dauður, Harry Potter,“ sagði rödd Trevors fyrir ofan hann.

„Dauður. Meira að segja fuglinn hans Dumbledores veit það. Sérðu hvað hann er að gera, Potter? Hann er að gráta.“

Harry deplaði augunum. Hann sá höfuð Fawkes mjög ógreinilega. Þung, perlulaga tár runnu niður gljáandi fjaðrirnar.

„Ég ætla að fá mér sæti hérna og fylgjast með þér deyja, Harry Potter. Vertu ekkert að flýta þér. Ég hef nægan tíma.“

Harry fann fyrir syfju. Allt virtist hringsnúast fyrir augum hans.

„Nú er komið að endalokum hins fræga Harrys Potter,“ heyrði hann fjarlæga rödd Trevors segja. „Deyjandi í leyniklefanum, yfirgefinn af vinum sínum, sigraður af hinum mikla Voldemort eftir að hann gerði þau mistök að rísa gegn honum. Fyrr en varir verður þú kominn aftur til blóðníðingsins hennar móður þinnar, Harry … Hún megnaði ekki að gefa þér meira en tólf ár … en hinn mikli Voldemort sigraði þig að lokum, eins og þú vissir að hann hlaut að gera …“

Ef þetta er dauðinn, hugsaði Harry, þá er hann ekki svo slæmur. Sársaukinn virtist meira að segja vera að hverfa …

En var þetta dauðinn? Í stað þess að leyniklefinn hyrfi sjónum hans varð hann sífellt greinilegri. Harry hristi höfuðið dálítið og þarna lá Fawkes og hvíldi höfuðið á handlegg Harrys. Rákir eftir tár hans skinu umhverfis sárið – en sárið var horfið …

„Færðu þig, fugl,“ sagði rödd Trevors allt í einu. „Farðu frá honum – ég sagði farðu …“

Harry leit upp. Trevor beindi sprota Harrys að fuglinum; það heyrðist líkt og byssuskot og Fawkes hóf sig til flugs með miklu, gylltu og dimmrauðu fjaðrafoki.

„Tár fönixins …“ sagði Trevor rólega og starði á handlegginn á Harry.

„Auðvitað … lækningamátturinn … ég var búinn að gleyma …“

Hann leit í augun á Harry. „En það skiptir engu. Raunar kýs ég þetta fremur. Bara þú og ég, Harry Potter … þú og ég …“

Hann hóf sprotann á loft …

Yfir höfðum þeirra heyrðist vængjaþytur þegar Fawkes kom flögrandi aftur og eitthvað féll ofan í kjöltu Harrys – dagbókin.

Eitt sekúndubrot störðu Harry og Trevor á hana; Trevor enn með sprotann á lofti. Harry þreif höggtönnina upp af gólfinu, umhugsunar laust og eins og hann hefði ætlað sér það frá upphafi, og stakk henni beint í miðja bókina.

Það heyrðist langt, hræðilegt, skerandi öskur. Út úr dagbókinni sprautaðist blek í stríðum straumum, flæddi yfir hendurnar á Harry og niður á gólf. Trevor vatt sér og engdist sundur og saman, öskrandi og æpandi og svo …

Hann var horfinn. Sprotinn hans Harrys datt á gólfið með skelli. Svo varð þögn, fyrir utan hljóðið sem barst þegar blekið hélt áfram að seytla úr dagbókinni. Höggtönn slöngunnar hafði brennt glóandi gat í gegnum hana.

Harry reis á fætur, skjálfandi á beinunum. Það hringsnerist allt í höfðinu á honum eins og hann væri nýkominn úr langri ferð með hjálp flugduftsins. Hann beygði sig seinlega eftir sprotanum sínum og flokkunarhattinum og dró glitrandi sverðið úr gini slöngunnar með erfiðismunum.

Lág stuna hljómaði úr enda herbergisins. Ginny bærði á sér. Þegar Harry kom á hlaupum til hennar settist hún upp. Hún leit ringluð af dauðri basilíuslöngunni á Harry í blóðstokkinni skikkjunni og niður á dagbókina sem hann hélt á í hendinni. Hún tók andköf og tárin byrjuðu að streyma niður andlitið á henni.

„Harry – ó, Harry – ég reyndi að segja ykkur þetta við m-morgun verðarborðið en ég gat ekki sagt þetta fyrir framan Percy – það var ég, Harry – en ég – ég sver að ég gerði þetta ekki viljandi – T-Trevor neyddi mig til þess, hann náði valdi á mér – og – hvernig tókst þér að drepa þetta skrímsli? Hv-hvar er Trevor? Það síðasta sem ég man er að hann kom út úr dagbókinni …“

„Þetta er allt í lagi,“ sagði Harry, lyfti dagbókinni og sýndi henni gatið eftir höggtönnina. „Trevor er búinn að vera. Sjáðu! Hann og basilíuslangan. Komdu, Ginny, drífum okkur héðan …“

„Ég verð rekin!“ grét Ginny um leið og Harry hjálpaði henni hálfklaufalega á fætur. „Ég hafði hlakkað svo lengi til að byrja í Hogwartskóla og n-nú verð ég að fara og – hvað ætli mamma og pabbi segi?“

Fawkes flögraði um þar sem hann beið eftir þeim við innganginn á leyniklefanum. Harry hvatti Ginny áfram; þau stigu yfir líflausa slönguna og gengu í gegnum drungalegan klefann og inn í göngin fyrir utan. Harry heyrði steindyrnar lokast að baki þeim með lágværu hvæsi.

Þau höfðu gengið nokkra stund eftir dimmum göngunum þegar fjarlægir skruðningar bárust þeim til eyrna.

„Ron!“ kallaði Harry og greikkaði sporið. „Það er allt í lagi með Ginny! Ég fann hana!“

Hann heyrði niðurbæld fagnaðaróp í Ron og þegar þau komu fyrir hornið sáu þau ákaft andlit hans í gegnum nokkuð stórt gat sem honum hafði tekist að grafa í gegnum grjóthrúguna.

„Ginny!“ Ron stakk hendinni í gegnum gatið og dró hana fyrst í gegn. „Þú ert lifandi! Ég trúi því ekki! Hvað gerðist? Hvernig – hvert – hvaðan kom þessi fugl?“

Fawkes hafði flögrað í gegnum gatið á eftir Ginny.

„Dumbledore á hann,“ sagði Harry og tróð sér í gegn.

„Og hvernig náðirðu í þetta sverð?“ sagði Ron og starði opinmynntur á glitrandi vopnið í hendi Harrys.

„Ég útskýri það þegar við erum komin héðan út,“ sagði Harry og gaut augunum á Ginny sem grét sárar en nokkru sinni fyrr.

„En …“

„Seinna,“ sagði Harry stuttur í spuna. Honum leist ekki vel á blikuna að segja Ron strax hver hefði opnað leyniklefann, ekki fyrir framan Ginny að minnsta kosti. „Hvar er Lockhart?“

„Þarna,“ sagði Ron, ennþá undrandi á svip, og hnykkti höfðinu í átt að rörinu. „Hann er í slæmu ástandi. Komdu og sjáðu.“

Þau gengu að rörinu með Fawkes fljúgandi í fararbroddi, gullið fjaðraskrautið varpaði frá sér mjúkri, gullinni birtu í myrkrinu. Þar sat Gilderoy Lockhart og raulaði fyrir munni sér í friði og spekt.

„Hann er búinn að missa minnið,“ sagði Ron. „Gleymskuálögin virkuðu öfugt með sprotanum mínum. Bölvunin hæfði hann í staðinn fyrir okkur. Hann hefur ekki hugmynd um hver hann er, hvar hann er eða hver við erum. Ég sagði honum að fara og bíða hér. Hann gæti farið sér að voða.“

Lockhart leit ljúfmannlega upp til þeirra.

„Halló,“ sagði hann. „Þetta er skrítinn staður. Búið þið hérna?“
„Nei,“ sagði Ron og leit með uppgjöf á Harry.

Harry beygði sig niður og leit upp eftir löngu og myrkvuðu rörinu.

„Hefurðu hugmynd um hvernig við eigum að komast aftur upp í gegnum þetta?“ sagði hann við Ron.

Ron hristi hausinn en nú flögraði fönixinn framhjá Harry og stillti sér upp við opið á rörinu. Hann veifaði löngu, gylltu fjaðrastélinu og svört augun leiftruðu í myrkrinu. Harry horfði óviss á hann.

„Hann virðist vera að biðja þig um að grípa um stélið …“ sagði Ron ráðþrota. „En þú ert alltof þungur til að hann geti borið þig alla leið upp …“

„Fawkes er enginn venjulegur fugl,“ sagði Harry. Hann sneri sér í flýti að hinum. „Við verðum að halda okkur hvert í annað. Ginny, taktu í höndina á Ron. Lockhart prófessor …“

„Hann á við þig,“ sagði Ron hvassri röddu við Lockhart.

„Þú tekur í höndina á Ginny …“

Harry stakk sverðinu og flokkunarhattinum undir beltið, Ron greip um skikkjuna hans og Harry teygði sig fram og tók utan um sérkennilega heitt fjaðrastélið á Fawkes.

Furðulegur léttleiki virtist breiðast út um líkama hans og á næsta andartaki varð mikill fjaðraþytur og þau þutu af stað upp í gegnum rörið. Harry heyrði Lockhart sveiflast fyrir neðan hann og hrópaði:

„Ótrúlegt! Ótrúlegt! Þetta er göldrum líkast!“ Svalur gustur lék um hár Harrys en áður en hann vissi af var þessi ánægjulega ferð á enda – og þau steyptust öll niður á blautt gólfið á klósetti Völu væluskjóðu. Lockhart lagfærði hattinn á höfði sér og um leið rann vaskurinn, sem huldi rörið, aftur á sinn stað.

Vala glápti á þau.

„Þú ert á lífi,“ sagði hún tómlega við Harry.

„Það er óþarfi að vera svona vonsvikin,“ sagði hann illilega og þerraði blóð og slím af gleraugunum sínum.

„O … ég var bara að hugsa … ef þú hefðir dáið, þá hefðum við getað deilt þessu klósetti," sagði Vala og silfurroði litaði kinnarnar.

„Oj!" sagði Ron þegar þau voru komin út af klósettinu og fram á dimman, mannlausan ganginn fyrir utan. „Harry! Ég held að Vala væluskjóða sé orðin skotin í þér! Þú hefur eignast keppinaut, Ginny!" En tárin streymdu ennþá hljóðlát niður kinnarnar á Ginny.

„Hvert förum við nú?" spurði Ron og leit kvíðinn á Ginny.
Harry benti.

Fawkes flaug sem gullinn logi á undan þeim út ganginn. Þau hröðuðu sér á eftir honum og stóðu stuttu síðar fyrir utan skrifstofu McGonagall prófessors.

Harry barði að dyrum og opnaði dyrnar upp á gátt.

# Átjándi kafli

# Umbun Dobbys

Eitt andartak var dauðaþögn þegar Harry, Ron, Ginny og Lockhart stóðu í dyragættinni, þakin slími og drullu og (hvað Harry snerti) blóði.

„Ginny!“

Þetta hrópaði frú Weasley sem hafði setið grátandi við arineldinn. Hún stökk á fætur með herra Weasley á hælunum og bæði fleygðu sér á dóttur sína.

En Harry leit framhjá þeim. Dumbledore prófessor stóð við arinhilluna, ljómandi af gleði, með McGonagall prófessor sér við hlið sem tók djúp andköf með hönd á hjartastað. Fawkes flögraði framhjá eyra Harrys og lenti á öxl Dumbledores. Í næstu andrá voru Harry og Ron í þéttu faðmlagi frú Weasley.

„Þið björguðuð henni! Þið björguðuð henni! Hvernig fóruð þið að því?“

„Ég held við höfum öll áhuga á að heyra það,“ sagði McGonagall prófessor veikum rómi.

Frú Weasley sleppti takinu á Harry, sem hikaði eitt andartak, en gekk svo að borðinu og lagði þar frá sér flokkunarhattinn, rúbínskreytta sverðið og leifarnar af dagbók Trevors.

Svo hóf hann að segja þeim allt. Hann talaði án afláts í tæpan stund arfjórðung: Hann sagði þeim frá dularfullu röddinni og því þegar Hermione komst að því að hann heyrði í basilíuslöngunni inni í pípulögnunum; frá því þegar þeir Ron fylgdu kóngulónum inn í forboðna skóginn og frá Aragog sem sagði þeim hvar síðasta fórnarlamb basilíuslöngunnar hefði dáið; hvernig hann hafði getið sér þess til að Vala væluskjóða væri það fórnarlamb og þess sömuleiðis að inngang inn að leyniklefanum væri ef til vill að finna inni á klósettinu hennar …

„Gott og vel,“ skaut McGonagall inn í þegar Harry þagnaði, „svo að þið komust að því hvar inngangurinn var – með því að

brjóta um það bil hundrað skólareglur – en hvernig í ósköpunum komust þið öll þaðan á lífi, Harry?“

Harry, sem var orðinn hás af öllu þessu tali, sagði þeim frá Fawkes sem hafði komið á síðustu stundu og sverðinu í flokkunarhattinum. En þá hikaði hann. Hann hafði fram að þessu komist hjá því að nefna dagbók Trevors – og Ginny. Hún stóð og hallaði höfðinu að öxl frú Weasley og grét hljóðlega. Hvað ef hún yrði nú rekin? Harry braut heilann ákaft. Dagbókin hans Trevors var ónýt … Hvernig gætu þau sannað að hann hefði fengið hana til að gera þetta allt?

Hann leit eins og af eðlishvöt á Dumbledore. Gleraugun hans endur köstuðu skini arineldsins og hann brosti dauflega.

„Það sem vekur mestan áhuga minn,“ sagði hann blíðlega, „er hvernig Voldemort tókst að beita Ginny töfrum, þegar heimildarmenn mínir segja mér að hann sé þessa stundina í felum í skógunum í Albaníu.“

Léttir – fullkominn, dásamlegur léttir – greip Harry.

„Hv-hvað áttu við?“ sagði herra Weasley furðu lostinn. „Þú-veist-hver? Beita Ginny töfrum? En Ginny er ekki … Ginny var ekki … er það nokkuð?“

„Það var dagbókin,“ sagði Harry óðamála, tók hana upp og sýndi Dumbledore. „Trevor skrifaði í hana þegar hann var sextán ára …“

Dumbledore tók hana og einblíndi niður með nefi sér á brunna og rennblauta dagbókina.

„Ótrúlega snjallt,“ sagði hann mjúklega. „En hann var nú líka gáfað asti nemandinn sem hefur nokkurn tíma gengið í Hogwartskóla.“ Hann sneri sér að Weasleyhjónunum sem voru afskaplega ringluð að sjá.

„Það eru ekki margir sem vita að Voldemort hét einu sinni Trevor Delgome. Ég kenndi honum sjálfur hérna í Hogwartskóla fyrir fimmt íu árum. Hann hvarf þegar hann hafði lokið námi … ferðaðist vítt og breitt … sökkti sér djúpt í myrku öflin og var í sambandi við þá verstu af okkar sauðahúsi. Hann gekkst undir svo margar hættulegar galdraumbreytingar að þegar hann skaut aftur upp kollinum sem hinn mikli Voldemort var hann næstum óþekkjanlegur.

Það tengdi hann næstum enginn við gáfaða, myndarlega drenginn sem hafði eitt sinn verið nemendafélagsformaður skólans.“ „En, hvernig tengist Ginny okkar – honum?“ sagði frú Weasley.

„Dag-dagbókin hans!“ stundi Ginny upp á milli ekkasoganna. „Ég hef verið að sk-skrifa í hana og hann hefur svarað mér í allan vetur …“

„Ginny!“ sagði herra Weasley furðu lostinn. „Hef ég ekki kennt þér neitt? Hvað hef ég alltaf sagt? Treystu aldrei neinu sem hefur eigin vilja ef þú getur ekki séð hvaða heili er á bak við það! Af hverju sýndirðu mér eða mömmu þinni ekki dagbókina? Svona grunsamlegur hlutur var greinilega gegnsýrður af myrku öflunum …“

„Ég vi-vissi það ekki,“ snökti Ginny. „Ég fann hana inni í einni af bókunum sem mamma keypti handa mér. Ég hélt að einhver hehefði skilið hana þar eftir og gleymt henni …“

„Ginny ætti að fara upp í sjúkraálmu á stundinni,“ greip Dumbledore ákveðinn fram í. „Hún hefur mátt þola hræðilega eldraun. Það verður ekki um neina refsingu að ræða. Voldemort hefur tekist að blekkja bæði eldri og vitrari

galdramenn en hana.“ Hann stikaði að dyrunum og opnaði þær. „Góð hvíld og kannski bolli af heitu súkkulaði. Það hefur alltaf hressandi áhrif á mig,“ bætti hann vingjarnlega við og drap tittlinga framan í Ginny. „Fröken Pomfrey er enn á fótum. Hún var að gefa Alrúnadrykkinn – nú gætu fórnarlömb basilíuslöngunnar vaknað á hverri stundu.“

„Er þá allt í lagi með Hermione?“ sagði Ron glaður í bragði.

„Það er enginn varanlegur skaði skeður,“ sagði Dumbledore.

Frú Weasley leiddi Ginny út og herra Weasley fylgdi á eftir. Þau voru enn skelfingu lostin.

„Veistu hvað, Minerva,“ sagði Dumbledore íhugull við McGonagall, „ég held bara að þetta sé tilefni til góðrar veislu. Mætti ég biðja þig um að fara niður í eldhús og láta vita?“

„Ágætt,“ sagði McGonagall prófessor fjörlega og gekk í áttina að dyrunum. „Þá legg ég það í þínar hendur að fást við Harry Potter og Ron Weasley!“

„Auðvitað,“ sagði Dumbledore.

Hún flýtti sér af stað og Harry og Ron störðu óöruggir á Dumbledore. Hvað átti McGonagall við með að fást við þá? Það gat þó ekki þýtt að það ætti að refsa þeim?

„Ég minnist þess að hafa sagt ykkur að þið yrðuð reknir ef þið brytuð fleiri skólareglur,“ sagði Dumbledore.

Ron gapti af skelfingu.

„Sem sýnir bara að það kemur jafnvel fyrir besta fólk að þurfa að éta ofan í sig það sem það hefur sagt,“ hélt Dumbledore brosandi áfram.

„Þið hljótið báðir viðurkenningu fyrir framúrskarandi störf í þágu skólans og – látum okkur sjá – já, Gryffindor hlýtur tvö hundruð stig í nafni hvors ykkar.“

Ron varð ljósbleikur í framan eins og valentínusarblómin hans Lockharts og lokaði munninum.

„En einn ykkar virðist afskaplega fáorður um hlutverk sitt í þessu hættulega ævintýri,“ bætti Dumbledore við. „Af hverju ertu svona hógvær, Gilderoy?“

Harry hrökk við. Hann hafði alveg gleymt Lockhart. Hann sneri sér við og sá að Lockhart stóð úti í horni skrifstofunnar með dauflegt bros á vör. Þegar Dumbledore ávarpaði hann leit hann um öxl til að gá að því við hvern hann væri að tala.

„Dumbledore prófessor,“ sagði Ron óðamála, „það varð óhapp niðri í leyniklefanum. Lockhart prófessor …“

„Er ég prófessor?“ sagði Lockhart undrandi. „Hamingjan sanna, ég hlýt að hafa verið vonlaus í því, var það ekki?“

„Hann reyndi að koma yfir okkur gleymskuálögum en sprotinn bilaði svo að álögin snerust gegn honum sjálfum,“ útskýrði Ron í lágum hljóðum.

„Ja, hérna,“ sagði Dumbledore og hristi höfuðið svo að sítt, silfrað skeggið bifaðist örlítið. „Þar snerust vopnin í höndunum á þér, Gilderoy!“

„Vopn?“ sagði Lockhart sljólega. „Ég á engin vopn. En þessi drengur þarna á sverð.“ Hann benti á Harry. „Hann getur lánað þér það.“

„Viltu ekki vera svo vænn að fara með Lockhart prófessor upp í sjúkraálmu,“ sagði Dumbledore við Ron. „Mig langar að eiga orð við Harry …“

Lockhart ráfaði út. Ron gaut augunum forvitnislega á Dumbledore og Harry áður en hann lokaði á eftir sér.

Dumbledore gekk yfir að einum stólnum við arineldinn.

„Fáðu þér sæti, Harry,“ sagði hann og Harry settist, einkennilega óstyrkur.

„Mig langar að byrja á að þakka þér, Harry,“ sagði Dumbledore með glampa í augum. „Þú hlýtur að hafa sýnt mér mikið trygglyndi niðri í leyniklefanum. Ekkert annað gæti hafa kallað Fawkes til þín.“

Hann strauk fuglinum sem hafði komið sér fyrir á hnjánum á honum. Harry brosti vandræðalega þegar Dumbledore leit aftur á hann.

„Þú hittir sem sagt Trevor Delgome,“ sagði Dumbledore hugsi. „Ég get ímyndað mér að hann hafi haft mikinn áhuga á þér …“

Skyndilega hrökk nokkuð út úr Harry sem hafði verið að angra hann.

„Dumbledore prófessor … Trevor sagði að það væri svo margt líkt með okkur. Sláandi svipur …“

„Sagði hann það, já?“ sagði Dumbledore og horfði íhugull á Harry undan þykkum, loðnum augabrúnunum. „Og hvað finnst þér, Harry?“

„Mér finnst ég alls ekki eins og hann!“ sagði Harry hærra en hann hafði ætlað sér. „Ég meina, ég – ég er í Gryffindor, ég …“ En hann þagnaði. Efinn nagaði hann.

„Prófessor,“ hóf hann aftur máls eftir stutta stund. „Flokkunarhatturinn sagði að ég – ég hefði getað staðið mig vel í Slytherin. Á tímabili héldu allir að ég væri arftaki Slytherins … af því að ég tala slöngutungu …“

„Þú getur talað slöngutungu, Harry,“ sagði Dumbledore rólega, „af því að Voldemort – sem er síðasti afkomandi Salazars Slytherins – getur talað slöngutungu. Ef mér skjátlast ekki, þá færði hann eitthvað af mætti sínum yfir í þig

nóttina sem þú fékkst örið á ennið. En ég er viss um að hann hefur ekki ætlað sér það …“

„Flutti Voldemort eitthvað af mætti sínum yfir í mig?“ sagði Harry sleginn.

„Það lítur út fyrir það.“

„Ég ætti þá að vera í Slytherin,“ sagði Harry og leit örvæntingarfullur framan í Dumbledore. „Flokkunarhatturinn sá í gegnum mig og hann …“

„Setti þig í Gryffindor,“ sagði Dumbledore rólega. „Hlustaðu nú á mig, Harry. Það vill svo til að þú býrð yfir hæfileikum sem Salazar Slytherin mat mikils í fari nemendanna sem hann valdi. Þú býrð yfir óvenjulegri náðargáfu hans sjálfs, slöngutungu – þú ert úrræðagóður – staðfastur – og sýnir reglum ákveðna lítilsvirðingu,“ bætti hann við og skeggið bifaðist aftur. „En samt setti flokkunarhatturinn þig í Gryffindor. Þú veist af hverju það er. Hugsaðu.“

„Hann setti mig bara í Gryffindor af því að ég bað hann um að setja mig ekki í Slytherin …“ sagði Harry niðurdreginn.

„Einmitt,“ sagði Dumbledore með geislandi brosi. „Sem gerir þig mjög frábrugðinn Trevor Delgome. Það er val okkar í lífinu sem gerir okkur að því sem við erum, miklu frekar en hæfni okkar.“ Harry sat hreyfingarlaus og agndofa í stólnum. „Ef þú vilt fá sönnun fyrir því að þú eigir heima í Gryffindor, þá skaltu líta nánar á þetta.“

Dumbledore teygði sig yfir á skrifborð McGonagall og tók blóðstokkið silfursverðið og rétti Harry. Harry sneri því við, daufur í bragði, rúbínarnir loguðu í skini eldsins. Þá sá hann nafnið sem var greypt í brandinn við hjalt sverðsins.

Godric Gryffindor.

„Það hefði enginn getað dregið þetta upp úr hattinum nema sannur Gryffindornemi,“ sagði Dumbledore blátt áfram.

Þeir sátu þögulir nokkra stund. Þá opnaði Dumbledore skúffu á skrifborði McGonagall og dró upp fjaðurstaf og blekbyttu.

„Það sem þú þarfnast núna er góð máltíð og svefn. Þú skalt fara og taka þátt í veisluhöldunum á meðan ég skrifa til Azkaban – við verðum að fá skógarvörðinn okkar aftur. Og ég verð líka að setja auglýsi ngu í Spámannstíðindi,“ bætti hann

íhugull við. „Við þurfum nýjan kennara í vörnum gegn myrku öflunum … ja, okkur virðist ætla að haldast illa á þeim, ekki satt?“

Harry stóð upp og gekk að dyrunum. Hann var að teygja sig í hurðarhúninn þegar hurðin opnaðist af svo miklu afli að hún skall í vegginn.

Í dyrunum stóð Lucius Malfoy heiftúðugur á svip. Í hnipri á bak við fótleggi hans stóð Dobby vafinn sárabindum frá hvirfli til ilja.

„Gott kvöld, Lucius,“ sagði Dumbledore vingjarnlega.

Herra Malfoy hrinti Harry næstum um koll þegar hann geystist inn í herbergið. Dobby skaust á eftir honum og hnipraði sig saman við skikkjufaldinn hans með skelfingu og eymdarlegur á svipinn.

Álfurinn hélt á blettóttri tusku og reyndi að fægja skó herra Malfoys. Hann hafði greinilega rokið út í flýti, því það var ekki nóg með að skórnir væru hálfburstaðir heldur var hárið, sem venjulega var svo vandlega greitt, allt úr skorðum. Hann

leiddi hjá sér álfinn sem þvældist fyrir fótunum á honum og hvessti kuldaleg augun á Dumbledore.

„Jæja!“ sagði hann. „Þú ert kominn aftur. Skólastjórnin vék þér úr embætti, en það hefur greinilega engin áhrif á þig.“

„Ja, sjáðu til, Lucius,“ sagði Dumbledore og brosti friðsamlega, „hinir ellefu í skólastjórninni höfðu samband við mig í dag. Það var eins og að lenda í hríð af uglum ef ég á að segja eins og er. Þeir höfðu frétt að dóttir Arthúrs Weasley hefði verið drepin og vildu fá mig samstundis til starfa aftur. Þegar allt kom til alls töldu þeir greinilega að ég væri besti maðurinn í starfið. Þeir sögðu mér líka ótrúlegar sögur … Nokkrir þeirra virtust halda að þú hefðir hótað að leggja bölvun á fjölskyldur þeirra ef þeir samþykktu ekki að víkja mér úr embætti.“

Herra Malfoy varð jafnvel fölari en venjulega en augun skutu enn gneistum af reiði.

„Og – hefur þér þá tekist að koma í veg fyrir þessar árásir?“ sagði hann hæðnislega. „Tókst þér að handsama sökudólginn?“ „Okkur tókst það,“ sagði Dumbledore brosandi.

„Jæja?“ sagði herra Malfoy hvasst. „Hver er það?“

„Sami maðurinn og síðast, Lucius,“ sagði Dumbledore. „En í þetta skipti starfaði Voldemort í gegnum aðra manneskju. Með því að nota dagbókina sína.“

Hann lyfti litlu, svörtu bókinni með gatinu í miðjunni og fylgdist náið með herra Malfoy. Harry horfði aftur á móti á Dobby.

Álfurinn hegðaði sér mjög einkennilega. Stór augu hans horfðu íbyggin á Harry; hann benti í sífellu á dagbókina, því næst á herra Malfoy og lamdi sig svo fast í hausinn með hnefanum.

„Ég skil …“ sagði herra Malfoy með hægð við Dumbledore.

„Sniðugt ráð,“ sagði Dumbledore án þess að hækka róminn og starði enn beint í augun á herra Malfoy. „Því ef hann Harry“ – herra Malfoy gaut augunum hvasst á Harry – „og vinur hans Ron hefðu ekki uppgötvað þessa bók hefði Ginny Weasley líklega þurft að taka á sig sökina. Enginn hefði nokkurn tíma getað sannað að hún hefði ekki gert þetta af fúsum og frjálsum vilja …“

Herra Malfoy sagði ekkert. Andlitið var eins og gríma.

„Og ímyndaðu þér hvaða afleiðingar það hefði getað haft," hélt Dumbledore áfram, „Weasleyfjölskyldan er ein af okkar þekktustu, hreinræktuðu galdrafjölskyldum. Hugsaðu þér hvaða áhrif það hefði haft á Arthúr Weasley og lög hans til verndar Muggunum ef upp hefði komist að dóttir hans stæði á bak við árásir á nemendur af Muggaættum … Það var mjög heppilegt að dagbókin fannst og minningar Trevors voru þurrkaðar úr henni. Hver veit hvar við stæðum nú …" Herra Malfoy neyddi sig til að taka til máls.

„Mjög heppilegt," sagði hann stirðlega.

Fyrir aftan hann hélt Dobby áfram að benda, fyrst á dagbókina, svo á herra Malfoy og sló sig svo í hausinn.

Skyndilega rann upp ljós fyrir Harry. Hann kinkaði kolli til Dobbys og Dobby hörfaði út í horn og sneri upp á eyrun á sér í refsingarskyni.

„Veistu hvernig Ginny komst yfir þessa dagbók, herra Malfoy?" sagði Harry.

Lucius Malfoy sneri sér að honum.

„Hvernig ætti ég svo sem að vita hvernig þessi heimska, litla stúlka náði í hana?“ sagði hann.

„Af því að þú gafst Ginny hana,“ sagði Harry. „Í verslun Flourish & Blotts. Þú tókst gömlu ummyndunarkennslubókina og laumaðir dagbókinni inn í hana, var það ekki?“

Hann sá að herra Malfoy kreppti hnefana svo að þeir hvítnuðu.

„Sannaðu það,“ hvæsti hann.

„Ó, nei, það er ekki hægt núna,“ sagði Dumbledore og brosti til Harrys. „Trevor er horfinn úr bókinni. En ég vil samt ráðleggja þér að hætta að dreifa gömlu skóladóti úr eigu Voldemorts, Lucius. Ef eitthvað fleira úr safni hans lendir í saklausum höndum er ég þess fullviss að Arthúr Weasley verður ekki lengi að rekja það til þín …“

Lucius Malfoy stóð kyrr eitt andartak og Harry var viss um að hann sá hægri hönd hans kippast til eins og hann langaði að

teygja sig í sprotann sinn. Þess í stað sneri hann sér að húsálfinum.

„Nú förum við, Dobby!“

Hann rykkti hurðinni upp og þegar álfurinn kom trítlandi til hans sparkaði hann í hann svo hann flaug út um dyrnar. Þeir heyrðu sársaukaveinin í Dobby niður eftir öllum ganginum. Harry stóð í sömu sporum um stund og braut heilann. Skyndilega fékk hann hugmynd …

„Dumbledore prófessor,“ sagði hann óðamála. „Má ég láta herra Malfoy fá dagbókina aftur?“

„Að sjálfsögðu, Harry,“ sagði Dumbledore rólega. „En flýttu þér. Veislan, manstu …“

Harry greip dagbókina og þaut út úr skrifstofunni. Hann heyrði að það dró úr sársaukaveinum Dobbys handan við hornið. Á meðan hann velti því fyrir sér hvort áætlunin hans gengi upp klæddi hann sig úr öðrum skónum, dró af sér ógeðslegan, slímugan sokkinn og tróð dagbókinni ofan í hann. Svo hljóp hann af stað eftir rökkvuðum ganginum.

Hann náði þeim á stigapallinum.

„Herra Malfoy," stundi hann móður þegar hann nam staðar fyrir framan þá, „ég er með dálítið handa þér …"

Svo stakk hann illa lyktandi sokknum í höndina á Luciusi Malfoy.

„Hvað í …"

Herra Malfoy reif sokkinn utan af dagbókinni, fleygði honum til hliðar og leit ævareiður af ónýtri bókinni á Harry.

„Einn góðan veðurdag munt þú mæta sömu hræðilegu örlögum og foreldrar þínir," sagði hann mjúklega. „Þau voru líka afskiptasamir bjánar."

Hann sneri sér við.

„Komdu, Dobby. Ég sagði komdu."

En Dobby hreyfði sig ekki. Hann hélt á viðbjóðslega sokknum hans Harrys eins og hann væri ómetanlegur fjársjóður.

„Húsbóndinn gaf sokk," sagði álfurinn með furðu í rómnum. „Húsbóndinn gaf Dobby hann."

„Hvað?" hreytti herra Malfoy út úr sér. „Hvað sagðirðu?"

„Fékk sokk," sagði Dobby vantrúaður. „Húsbóndinn kastaði honum og Dobby greip hann, og Dobby – Dobby er frjáls."

Lucius Malfoy stóð sem steini lostinn og starði á álfinn. Svo stökk hann á Harry.

„Þú kostaðir mig þjóninn minn, drengur!"

En Dobby æpti: „Þú skalt ekki gera Harry Potter mein!"

Hár hvellur bergmálaði um ganginn og herra Malfoy kastaðist aftur á bak. Hann hrapaði niður stigann, þrjár tröppur í einu, og lenti í hrúgu niðri á næsta stigapalli. Hann stóð á fætur, náfölur, og dró fram sprotann sinn en Dobby beindi löngum, ógnandi fingri að honum.

„Þú skalt fara núna," sagði hann öskureiður og benti niður á herra Malfoy. „Þú skalt ekki gera Harry Potter mein. Þú skalt fara núna."

Lucius Malfoy átti engra kosta völ. Hann horfði reiðilega á þá, sveipaði um sig skikkjunni og hraðaði sér úr augsýn.

„Harry Potter frelsaði Dobby!“ skrækti álfurinn og einblíndi upp til Harrys. Tunglskin úr nálægum glugga endurspeglaðist í kringlóttum augunum. „Harry Potter frelsaði Dobby!“

„Það var nú það minnsta sem ég gat gert, Dobby,“ sagði Harry bros andi. „Lofaðu mér bara að reyna aldrei aftur að bjarga lífi mínu.“

Munnurinn á ófrýnilegu, brúnu andliti álfsins opnaðist skyndilega í breiðu, vel tenntu brosi.

„Ég er bara með eina spurningu, Dobby,“ sagði Harry um leið og Dobby klæddi sig skjálfhentur í sokkinn hans. „Þú sagðir að þetta tengdist alls ekki Honum-sem-ekki-má-nefna, manstu? Ja …“

„Það var vísbending, herra minn,“ útskýrði Dobby, og glennti upp augun eins og það væri augljóst mál. „Var að gefa yður vísbendingu. Það gátu allir nafngreint myrkrahöfðingjann frjálslega áður en hann skipti um nafn, skilurðu?“

„Einmitt,“ sagði Harry óöruggur. „Jæja, ég verð að fara. Það er verið að halda veislu og vinkona mín hún Hermione ætti að vera vöknuð núna …“

Dobby slengdi handleggjunum utan um mittið á Harry og faðmaði hann.

„Harry Potter er miklu göfugri en Dobby grunaði!“ snökti hann.

„Vertu sæll, Harry Potter!“

Og með háum hvelli var Dobby horfinn.

Harry hafði verið í nokkrum Hogwartveislum en engri sem komst í líkingu við þessa. Allir voru á náttfötunum og hátíðahöldin stóðu alla nóttina. Harry gat ekki gert upp við sig hver var hápunktur veislunnar; hvort það var þegar Hermione kom hlaupandi á móti honum og æpti: „Þú leystir ráðgátuna! Þú leystir ráðgátuna!“ eða þegar Justin kom til þeirra frá Hufflepuffborðinu til að taka í höndina á honum og biðjast margfaldlega afsökunar á því að hafa grunað hann; eða þegar Hagrid birtist og klappaði Harry og Ron svo fast á bakið að

þeir hrundu með andlitin ofan í eftirréttinn; eða þegar tilkynnt var að stigin þeirra fjögur hundruð tryggðu Gryffindor heimavistarbikarinn; eða þegar McGonagall stóð á fætur til að segja þeim að búið væri að aflýsa prófunum og sú ákvörðun væri gjöf til allra nemendanna („Ó, nei!“ stundi Hermione); eða þegar Dumbledore lét þau vita að Lockhart prófessor gæti ekki snúið aftur til starfa á næsta ári þar sem hann þyrfti að komast í burt til að fá minnið aftur. Nokkrir kennaranna tóku þátt í fagnaðarlátunum sem fylgdu þessum síðustu fréttum.

„Það var leitt,“ sagði Ron um leið og hann teygði sig í kleinuhring. „Mér var farið að þykja vænt um hann.“

Það sem eftir var annarinnar leið hjá í glaðasólskini. Skólalífið í Hogwart var að komast í eðlilegt horf með örfáum undantekningum – kennslustundum í vörnum gegn myrku öflunum var aflýst („en við fengum hvort sem var ekki næga æfingu í þeim,“ sagði Ron við Hermione, sem var ekki ánægð) og Lucius Malfoy hafði verið rekinn úr skólastjórninni. Draco spígsporaði ekki lengur um skólann eins og hann ætti hann. Hann var þvert á móti fýldur og gramur. Ginny Weasley hafði aftur á móti tekið gleði sína á ný.

Sú stund þegar þau þurftu að fara aftur heim með Hogwarthraðlestinni rann alltof fljótt upp. Harry, Ron, Hermione, Fred, George og Ginny fengu lestarklefa út af fyrir sig. Þau nýttu til fulls þann tíma sem þau höfðu til að beita göldrum áður en þau kæmu heim í frí. Þau fóru í sprengieltingarleik, sprengdu síðustu Filibusterflugelda Freds og Georges og æfðu sig í að afvopna hvert annað með töfrum. Harry var orðinn nokkuð góður í því. Þau voru næstum komin að King's Cross-brautarstöðinni þegar Harry mundi skyndilega eftir dálitlu.

„Ginny – hvað var það sem þú sást Percy gera sem hann vildi ekki að þú segðir neinum?“

„Já, það,“ sagði Ginny og flissaði. „Percy á kærustu.“ Fred missti bókastafla ofan á höfuðið á George.

„Ha?“

„Það er umsjónarmaðurinn í Ravenclaw, Penelope Clearwater,“ sagði Ginny. „Það er hún sem hann var að skrifa bréf allt síðasta sumar. Þau áttu leynileg stefnumót úti um allan skóla í vetur. Ég kom að þeim að kyssast í mannlausri kennslustofu einn daginn. Hann varð svo miður sín þegar hún

varð – þið vitið – fyrir árás. Þið stríðið honum ekki, er það nokkuð?“ bætti hún kvíðin við.

„Mér dytti það ekki í hug,“ sagði Fred og það hlakkaði í honum.

„Að sjálfsögðu ekki,“ sagði George flissandi. Hogwarthraðlestin hægði á sér og nam að lokum staðar.

Harry dró fram fjaðurstafinn sinn og pergamentsnepil og sneri sér að Ron og Hermione.

„Þetta kallast símanúmer,“ sagði hann við Ron, skrifaði það tvisvar, reif blaðið í tvo hluta og rétti þeim. „Síðasta sumar sýndi ég pabba þínum hvernig á að nota síma – hann sýnir þér hvernig þú ferð að. Hringið nú í mig til Dursleyfjölskyldunnar. Ég get ekki hugsað mér að hafa engan nema Dudley að tala við næstu tvo mánuðina …“

„Verða frændi þinn og frænka samt ekki stolt?“ sagði Hermione um leið og þau stigu út úr lestinni og slógust í hópinn sem flykktist út í gegnum álagahliðið. „Þegar þau heyra hvað þú afrekaðir í vetur?“

„Stolt?“ sagði Harry. „Ertu brjáluð? Öll þessi skipti sem ég hefði getað dáið en gerði það ekki? Þau verða bálreið …“

Og svo gengu þau saman í gegnum hliðið inn í Muggaheiminn.